Hid

# Nýa Testamenti

## Drottins vors

## Jesú Krists,



ad nýu útlagt ad tilhlutun

ens

## íslendska Bibliu-Félags.

### Sídari Partur.

Videyar Klaustri 1827.

Prentad af Faktóri og Bókþryckjara Schagfjord,

á kostnad ens íslendska Bibliu-Félags.

# S. Páls Pistill
## til Rómverja.

**I. Kap.**

I.) Heilsar Postulinn þeim kristnu í Róma-borg, v. 1—7. II.) Vitnar um sína laungun ad koma til þeirra og ad boda þeim Evangelíum, 8—17. III.) Talar um heidíngjanna raungu Guds-dýrkun, íllt athæfi og verdskuldad dauda-straff, 18—32.

Páll, þjón Jesú Krists', kalladur til Post- 1.
ula, *fráskilinn til ad boda Guds Evangelíum,
— hverju hann hafdi ádur lofad * fyrir Spá- 2.
menn sína í heilögum Ritníngum — um sinn
Son, fæddann af *sædi Davíds eptir holdinu, 3.



V. 1. * Post. G.b. 9, 15. 13, 2. Gal. 1, 15.
V. 2. * 1 Mós.b. 3, 15. 22, 18. 49, 10. 5 Mós.b. 18, 15. 18. 2 Sam. 7, 12 f. Ps. 22, 23—28. 40, 7—10. 132, 11. Es. 4, 1. 7, 14. 9, 5. 6. 11, 1. &c. 40, 10. 11. 52, 13. 15. 53, 54, 60—65, Jer. 23, 5. 6. 31, 33. 34. 33, 15. 16. Ezech. 34, 23. Dan. 9, 24. Mich. 7, 20. Post. G.b. 26, 6.
V. 3. * 2 Sam. 7, 12. Matth. 1, 1. 2 Tim. 2, 8.

4. kreptuglega auglýstann * Guds Son eptir anda
heilagleikans, med upprisunni frá daudum —
5. Jesúm Krist vorn Drottinn, af hverjum vér
medtekid hefum * nád og * Postula-dæmi, til þess *
hlýdt yrdi trúnni medal allra heidíngja, vegna
6. hans nafns, í hverra tolu þér og svo erud af
7. Jesú Kristi kalladir; ollum, sem eru í Róm,
elskulegum Guds * kolludum heilogum, * nád og
fridur af Gudi vorum Fodur og Drottni Jesú
Kristi!
8. Fyrst * þacka eg Gudi mínum * fyrir Jesúm
Krist, allra ydar vegna, ad * ydar trú berst út
9. um allann heiminn; þvíad * minn vottur er
Gud, hverjum eg þjóna * med mínum anda, í
Evangelíó hans Sonar, hversu eg * án afláts
10. minnist ydar * jafnan í mínum bænum bidjandi,
ad eg einhverntíma fái gott færi, ad vilja Guds,
11. til ydar ad koma; þvíad * mig lángar til ad
sjá ydur, svo ad eg meddeili ydur nockra aud-
12. lega gjof, til þess, ad þér * styrkist; þad er: ad
hverr af oss hughreysti annann hjá ydur med *

---

V. 4 * Hebr. 1, 5. kap. 5, 8. Post. G. b. 13, 32. f. Jóh. 10, 30.
V. 5. * kap. 12, 3. 15, 15. 1 Cor. 15, 10. Eph. 3, 8. 1 Tim. 2, 7. Post. Gb. 9, 15. 22, 15. 21. 16, 26.
V. 7 * 1 Cor. 1, 2. 3. Eph. 1, 1. 1 Thess 4, 7. 2 Cor. 1, 2.
V. 8. * 1 Cor. 1, 4. Phil. 1, 3. Eph. 5, 20. 1 Pet. 2, 5. Hebr. 13, 15. 1 Thess. 1, 8.
V. 9. * Kap. 9, 1. Gal 1, 20. 2 Cor. 2, 1. Lúk. 1, 75. Phil. 3, 3. Eph. 1, 16. 2 Tim. 1, 3.
V. 10. * 1 Thess. 3, 10.
V. 11. * Kap. 15, 23. 29. Kap. 16, 27. Lúk. 22, 32. 1 Thess. 3, 2. 13. 2 Thess. 2, 17.
V. 12. * 2 Pet. 1, 1.

sameginlegri trú, bædi ydvarri og minni. En 13
eg vil ecki dylja fyrir ydur, Brædur! ad eg *
optsinnis ásetti mér ad koma til ydar (en eg hefi
hindradur verid allt til þessa) svo ad eg hefdi
gétad haft nockurn * ávöxt og svo medal ydar,
eins og medal annara heidíngja. Eg er í skuld 14.
vid bædi Gríska og ei Gríska, bædi vitra og
vankunnandi, svo líka — hvad mig snertir fús- 15.
lega — einninn vid ydur, sem erud í Róm,
ad * eg bodi Evangelíum, þared eg * skammast 16.
mín ecki fyrir Krists Evangelíum; því þad er *
kraptur Guds til sáluhjálpar sérhverjum trúud-
um, Gydíngi fyrst og Grískum einninn; þvíad 17.
* réttlæti Guds opinberast í því (Evangelíó) af
trú * til trúar, * svo sem skrifad er: en hinn rétt-
láti af trú, mun lifa, en reidi Guds er opinber- 18.
ud af himni yfir öllum ógudlegleika og órétt-
vísi manna, þeirra, sem sannleikanum med ó-
réttvísi niðurþryckja; þared þad, sem vitanlegt 19.
er um Gud, þad * er þeim augljóst, þvíad Gud
hefir þeim þad auglýst, med því, ad hans ó- 20.
sýnilegu eiginlegleikar, hans enn eilífi kraptur og
guddómur, frá veraldarinnar sköpun, skiljanlegir
af verkunum, eru bersýnilegir, svo ad menninir



V. 13. * 1 Thess. 2, 18. Phil. 3, 22.
V. 14. * 1 Cor. 9, 16. 2 Cor. 11, 28.
V. 15. * Post. G. b. 28, 31.
V. 16. * 2 Tim. 1, 8. Ps 40, 10. 119, 46. 1 Cor. 1, 18. 15, 2.
V. 17. * Kap. 3, 21. 22. Phil. 3, 9. * til trúadra Kap. 3, 22. Habak. 2, 4. Gal. 3, 11. Joh. 3, 36.
V. 19. * Post. G. b. 14, 15. 17, 24 f.

21. hafa enga afsökun; því þótt þeir vissu af Gudi,
þá vegsömudu þeir hann ecki, sem Gud, né vóru
þacklátir, heldur urdu hégómlegir í þeirra þaunk-
um, og * þeirra skilníngslausa hjarta formirk-
22. vadist; þá þeir * þóttust vitrir vera, eru þeir
23. heimskíngjar ordnir, og * snéru dýrd ens ó-
daudlega Guds í líknesski daudlegs manns, fugla
24. og ferfætlínga og skridqvikinda; þess vegna hefir
Gud yfirgéfid þá í þeirra * hjartans girndir til
saurlifnadar, ad þeir smánudu sina líkhami hverr
25. á ödrum, hverjir ed hafa umsnúid Guds sann-
leika í * lýgi, og gofgudu og dýrkudu sképnuna
framhjá Skaparanum, sem er * blessadur um
26. eilífdir, Amen! Par fyrir hefir Gud yfirgéfid
þá í svívyrdíngar lostasemi, þvíad bædi umskipti
þeirra * qvennfólk náttúrlegri hegdun í ónáttúru
27. og líka hættu karlmennirnir náttúrlegum samför-
um vid qvenufólkid, og brunnu af losta-girnd
hverr til annars, svo * karlmenn fromdu skomm
med karlmönnum, og tóku svo út á siálfum
sér endurgjald þad, sem maklegt var fyrir villu
28. þeirra, og svo sem þeir sinntu því ecki ad hafa
Gud þecktann, * svo hefir Gud yfirgéfid þá í frá-

V. 21. * 5 Mós. 28, 28. Eph. 4, 17. 18.
V. 22. * 1 Cor. 1, 20.
V. 23. * Spek. b. 14, 15. 11, 16. 5 Mós. b. 4, 15. f. 2 Kóng. b. 17, 16. 29. Psálm. 106, 20. Esa. 40, 18. Jer. 2, 8.
V. 24. * Psálm. 81, 13. 2 Thess. 2, 11. 12. Es. 6, 9. 10. Post. G b. 14, 16.
V. 25. * Es. 44, 20. Jer. 13, 25. Kap. 9, 5.
V. 26. * 3 Mós. b. 18, 23. Eph. 5, 11. 12.
V. 27. * 3 Mós. b. 18, 22. 20, 13. 1 Cor. 6, 9.
V. 28. * Psálm. 81, 13.

leitt sinni, ad gjora þad, sem er óhæfilegt, fulla 29.
allrar óréttvísi, saurlífis, hreckvísi, ágirndar,
vondsku, fulla ofundar, víghugar, þrætugirni,
svikfemi, tortrygni; qvis-sama, bakmáluga, 30.
Gudshatara, hádgjarna, drambsama, sjálfhælna,
íllt uppfinnandi, foreldrum óhlýduga, samvitsku- 31.
lausa, trygdrofa, ræktarlausa, ósáttgjarna, ó-
miskunsama; hverjir, þótt þeir þecki Guds 32.
réttindi, (ad þeir, sem þvílíkt gjora, séu dauda
verdir), samt gjora þeir þad ei ad eins, heldur
ur hafa og þóknun á þeim, sem þad gjora.

2. Kap.

I.) Gydíngar, sem dæma adra, munu ecki umflýa dóm Guds, hverr án manngreinar álits dæmir sérhvern eptir hans verkum, V. 1—16. II,) Þeir hrósa sér forgéfins af Mósis Logmáli og umskurninni, þegar þeir ecki færa þau sér réttilega í nyt, V. 17—29.

Þar fyrir ertu óafsakanlegur, ó madur! hverr 1.
helzt þú ert, * sem dæmir, þvíad med því þú
annann * dæmir, fordæmir þú sjálfann þig, þeg-
ar þú, sem dæmir, gjorir hid sama. Vér vit- 2.
um, ad Guds dómur er réttur yfir þeim, sem því-
líkt gjora. En þenkir þú þetta, ó madur! þú, 3.
sem dæmir þá, er þvílíkt gjora, og gjorir hid
sama, ad þú munir umflýa Guds dóm? Eda 4.

V. 1. * Þó þú værir Gydíngur. 2 Sam. 12, 5—7. Matth. 7, 2.

forsmáir þú ríkdóm hans gæðsku, * þolinmæði
og lánglundargeðs, og veitstu ecki, ad * góðgirni
5. Guðs leiðir þig til yfirbótar? En með harðúð
þinni og yðrunarlausu hjarta safnar þú þér sjálf=
um reiði á degi reiðinnar og opinberunar Guðs
6. réttdæmis, sá er sérhverjum mun * endurgjalda
7. eptir hans verkum; þeim sem með stöðugleika í
góðu verki leita vegsemdar og heiðurs og ódauð=
8. legleika, eilíft líf, en hinum, sem mótþróanlegir
eru, og eckı trúa sannleikanum, heldur hlýðnast
9. ránglætinu * bræði og reiði; þjáníng og þreyng=
íng (mun koma) yfir sérhvers manns sál, er íllt
fremur, fyrst * Gyðíngs, svo og hins Gríska.
10. En vegsemd og heiður og friður (mun hlotnast)
sérhverjum er gott yðkar, fyrst Gyðíngi svo og
11. Grískum; þvíað * ecki er manngreinar álit hjá
12. Guði; svo hverjir sem án * lögmáls syndguðu,
munu og án lögmáls fellast, og þeir, sem undir
lögmálinu syndguðu, munu eptir lögmálinu dæm=
13. ast; — (þvíað ecki eru heyrendur lögmálsins rétt=
látir fyrir Guði, heldur munu * gjörendur lög=
14. málsins réttlætast; því þegar heiðíngjarnir, sem

---

V. 4 * Kap 9, 22. f. 2 Pét. 3, 9. 15. Opinb. b. 2, 21. Spek. b. 12, 10.

V. 6. * Psálm. 62, 13. 1 Cor. 3, 8. Job. 34, 11. Jer. 17, 10. 32, 19. Matth 16, 27. 2 Cor. 5, 10.

V. 8. * Straff og hegning, 2 Thess. 1, 8.

V. 9. * Kap. 3, 9.

V. 11. * 1. Pét. 1, 17. Post. G. b. 10, 34. Gal. 2, 6. 5 Mós. b. 10, 17. 2 Chron. 19, 7. Job. 34, 19. Ephes. 6, 9.

V. 12. * Það er: Mósis Lögmáls.

V. 13 * Jak. 1, 22. Matth. 7, 21

lögmálid ecki hafa, gjøra af náttúrunni, * hvad
lögmálinu er samqvæmt, þá eru þeir, þótt ecki
hafi þeir lögmálid, sjálfum sér løg; þar med 15.
sýna þeir, ad innihald lögmálsins sé skrifad í
þeirra hjørtum, hvad og med þeim sannar þeirra
samvitska og hugrenníngar, er innbyrdis ímist
áklaga eda afsaka) — á þeim * degi, þegar Gud 16.
mun dæma þad hulda mannanna, eptir mínu Ev-
angelió, fyrir Jesúm Krist. Sjá! þú nefnir 17.
þig Gyding, og þykist gódur fyrir þig af lög-
málinu, og * hrósar þér af Gudi, og þú veitst 18.
viljann (Guds) og reynir hvad milli ber, upp-
fræddur af lögmálinu, þú treystir þér til ad vera 19.
* leidtogi blindra, ljós þeirra, sem eru í mirkri,
typtunar-madur fávísra, lærimeistari barna, sem 20.
hafir form þeckíngarinnar og sannleikans í lög-
málinu; þú þar fyrir, sem * kénnir ødrum, þú 21.
kénnir ecki sjálfum þér! þú, sem prédikar, ad ecki
skuli stela, þú stelur! þú, sem segir, ad ecki skuli 22.
hórdóm drygja, þú drýgir hór! þú, sem hefir
andstygd á skurdgodum, þú rænir helgidómum!
þú, sem * hrósar þér af lögmálinu, þú vanvyrd- 23.
ir Gud med yfirtrodslu lögmálsins! þvíad fyrir 24.
ydar skuld verdur nafnid Guds lastad medal

---

V. 14. * Matth. 7, 12.
V. 16. er med millisetníng adskilid frá 12ta versinn.
* Pred. b. 12, 14. 1 Cor. 4, 5. 2 Cor. 5, 10.
Matth. 25, 31. f. Post. G. b. 17, 31. Jóh. 5, 22. f.
V. 17. * Kap. 5, 11. 9, 4. V. 18. * Phil. 1, 10.
V. 19. * Matth. 15, 14.
V. 21. * Psálm. 50, 16. Matth. 23, 3. f.
V. 23. * Kap. 9, 4.
V. 24. * Es. 52. 5. 1 Tim. 6, 1. 2 Sam. 12, 14. Ezech. 36, 20—23.

25. heidíngjanna, svo sem skrifad er. Ad sonnu er
umskurn nytsamlig, ef þú breytir eptir lǫgmál-
inu, en ef þú ert lǫgmáls yfirtrodslu madur, þá
26. er umskurnin þín ordin ad yfirhúd; þar fyrir
ef * yfirhúdin gjætir réttinda lǫgmálsins, mun
ecki yfirhúdin hans reiknud verda fyrir umskurn?
27. Og sú náttúrlega yfirhúd, sem heldur lǫgmálid, mun
dæma þig, sem þrátt fyrir bókstaf og umskurn
28. ert lǫgmáls yfirtrodslu-madur; Þvíad ecki er
hann Gydíngur, * sem er þad opinberlega, ecki
heldur þad umskurn, sem er opinberleg á hold-
29. inu, heldur hann, sem * heimuglega er Gydíng-
ur og * umskurn hjartans í anda en ecki bók-
staf, hverrar losstýr ecki er af monnum, held-
ur * af Gudi.

## 3. Kap. I.) Gydínganna yfirburdir og þeirra syndir, v. 1—19. II.) Þess vegna réttlætist eng-inn af lǫgmálinu, heldur vegna trúarinn-ar á Jesúm Krist, v. 20—31.

1. Hverjir eru þá yfirburdir Gydíngsins? eda hver
2. nytsemi umskurnarinnar? miklir á allann hátt;
einkanlega ad sonnu þessvegna, ad þeim er trú-
3. ad til * ordanna Guds. Hvad þá, ef * nockrir
hafa verid vantrúadir? mundi * vantrúin þeirra

V. 26. * sá óumskorni.
V. 28. * Jóh. 8, 39. Róm. 9, 7. f.
V. 29. * Gal. 6, 15. 1 Pét. 3, 4. 5 Mós. b. 10, 16. 30, 6. Jer. 4, 4. Phil. 3, 2. 3. Cól. 2, 11. 1 Cor. 4, 5. 1 Thess. 2, 4.
V. 2. * Kap. 9, 4. 5 Mós. b. 4, 7. Psálm. 147, 19.
V. 3. * Kap. 9, 6. Hebr. 4, 2. 2 Tim. 2, 13.

trúfestina Guds ónýta? fjærri sé því! Gud * 4.
skal vera sannordur, þótt hverr einn madur væri
* lygari, svo sem * skrifad er: svo ad þú hafir
rétt í þínum ordum, og vinnir þegar þú dæm-
ist. En ef vort ránglæti prísar Guds réttlæti, 5.
hvad skulum vér þá segja? mun Gud vera *
ránglátur, ad hann lætur reidina yfirdynja? (* eg
gjøri manni upp ordin) þad sé * lángt frá! því- 6.
ad hvernin skal þá Gud * heiminn dæma? því 7.
ef sannleikinn Guds hefir fyrir mína lygd yfir-
gnæft honum til dýrdar, hvar fyrir dæmist eg
þá enn nú sem syndari? og egum vér ecki (eins 8.
og vér erum spottadir fyrir, og svo sem sumir
mæla, ad vér kénnum) * ad gjøra hid ílla, svo
gott af leidi? slíkra fyrirdæmíng er rétt. Hvad 9.
þá! erum * vér fremri? aldeilis ecki; því ad vér
høfum ádur med røkum sýnt, ad * bædi Gyd-
íngar og Grískir, eru allir undir synd, svo sem 10.
skrifad er: * Enginn er réttlátur og ecki einn,
ecki er einn skynugur, ecki er neinn sem ad Gudi 11.
leiti, allir hafa þeir frávikid, og eru til sam- 12.
ans ónýtir ordnir, ecki er neinn, sem gott gjøri,
ecki einn einasti. Opnud grøf er * barki þeirra, 13.
med túngum sínum svíkja þeir. Høggorma eit-
ur er undir vørum þeirra. Þeirra * munnur er 14.

V. 4. * Jób. 3, 33. Psálm. 62, 10. 116, 11. Ps. 51, 6.
V. 5. * Job. 8, 3. 34, 10. Róm. 9, 14. Gal. 3, 15.
V. 6. * 1 Mós. b. 18, 25. Post. Gb. 17, 31.
V. 8. * 1 Sam. 15, 21. f.
V. 9. * Gydíngar. Gal. 3, 22.
V. 10. * Psálm. 14, 2. 3. 53, 2—4.
V. 13. * Psálm. 5, 10. 140, 4.
V. 14, * Psálm. 10, 7.

15. fullur af bølvun og beiskleika. Fljótir eru * fæt-
16. ur þeirra til að úthella blóði. Sundurkramn-
17. íng og armæða er á vegum þeirra, og veg frið-
18. arins vita þeir ecki. Ecki er * ótti Guðs fyrir
19. augum þeirra. En vér vitum, að hvað helzt
lögmálið segir, það talar það til þeirra, sem und-
ir lögmálinu eru, svo að hverr einn munnur * til-
byrgist, og að allur heimurinn verði sakfallinn
við Guð.
20. Þessvegna mun * af lögmáls verkum alls
eckert hold * réttlætast fyrir honum; því að * af
21. lögmáli kémur þecking syndar. En nú er án lög-
máls réttlæti Guðs * opinberað, umvitnað * af
22. lögmálinu og Spámennunum já, réttlæti Guðs
fyrir trú á Jesúm Krist til allra og yfir alla,
sem trúa, því að hér er * enginn greinarmunur,
23. því að * allir hafa syndgað, og * hafa skort á Guðs
24. dýrð; þeir verða réttlættir * án verðskuldunar af
hans náð * fyrir endurlausnina í Kristó Jesú,
25. hvern Guð hefir framsett * forlíkunar fórn, fyrir
trúna á hans blóði, til auglýsíngar síns réttlæt-
is með fyrirgéfníngu * syndanna, er áður drýgð-

---

V. 15. * Orðsqv. b. 1, 16. Esa. 59 7.
V. 18. * 1 Mós. b. 20, 11. Psálm. 36, 2.
V. 19. * Ezech. 16, 63.
V. 20. * Gal. 2, 16. engin manneskja. Róm. 7, 7.
V. 21. * Kap. 1, 17. Philipp. 3, 9. Jóh. 5, 46. Post. G b. 26, 22.
V. 22. * Kap 10, 12. Gal. 3, 28. Cól. 3, 11.
V. 23. * v. 9. Kap. 11, 32. þá vantar það, sem þeim sé til hróss eða gyldis hjá Guði.
V. 24. * Eph. 2, 8. Tit. 3, 5. 7. Matth. 20, 28. Eph. 1, 7. 1 Tim. 2, 6.
V. 25 * 2 Cor. 5, 19. Col. 1, 20. 1 Jóh. 2, 2. 4, 10. Hebr. 2, [illegible] 16 Post. Gb. 13, [illegible] 17 30

ar vóru undir Guds þolinmædi, til auglýsíngar 26.
síns réttlætis á nærverandi tíma, til þess, ad
hann réttlátur sé, og réttlætandi þann, sem hefir
trúna Jesú. Hvar er þá * hrósunin? hún er 27.
útilokud; fyrir hvert lögmál? verkanna? nei,
heldur fyrir lögmál trúarinnar; þar fyrir álykt- 28.
um vér, ad * af trú réttlætist madur án lögmáls
verka. Eda er Gud einúngis Gud Gydínga? en 29.
ecki líka heidíngja? vissulega og svo heidíngja, af 30.
því, ad * einn er Gud, sem réttlæta mun * um-
skurn af trú, og * yfirhúd vegna trúarinnar.
Gjörum vér þá lögmálid ógyldt fyrir trúna? 31.
fjærri sé því! heldur stadfestum vér lögmálid.

Abrahams dæmi upplýsir réttlætíngu af trúnni. 4. Kap.

Hvad skulum vér þá segja, ad * vór fadir A- 1.
braham hafi fundid,* eptir holdinu? Því ad ef 2.
Abraham er réttlættur vegna verka, þá * hefir
hann lofstýr, en ecki hjá Gudi; því ad hvad seg-
ir * Ritníngin? En Abraham trúdi Gudi, og 3.
þad vard honum reiknad til réttlætis. En þeim 4.
sem verk vinnur, verda * launin ecki af nád til-
reiknud, heldur eptir skyldunni, en þeim er ecki 5.

---

V. 27. * Kap. 4, 2.
V. 28. * Kap. 4, 5. Gal. 2, 16. Eph. 2, 8.
V. 30. * Gal. 3, 20. umskorna, þ. e. Gydínga. óum-
skorna, þ. e. heidingja.
V. 1. * 1 Mós. b. 17, 5. Esa. 51, 2. umskurninni adrir
Mósis lögmáli.
V. 2. * Kap. 3, 27. Eph. 2, 9.
V. 3. * 1 Mós. b. 15, 16. Gal. 3, 6
V. 4. * Kap. 11, 6.

verk vinnur, en * trúir á þann, sem réttlætir ó-
gudrækinn * verdur trú sín reiknud til réttlætis;
6. svo sem og Davíd prísar sælu þess manns, hver-
7. jum Gud tilreiknar réttlætid án verka. Sælir
eru þeir, hverra afbrot eru fyrirgéfin, og hverra
8. syndir eru huldar. Sæll er sá madur, hverjum
9. Drottinn tilreiknar ecki synd! Er nú sæla þessi
yfir umskurnina edur og yfir yfirhúdina komin?
Þvíad vér segjum, ad Abraham hafi trúin til
10. réttlætis reiknud verid, hvernin er hún þá honum
tilreiknud? Þegar hann var * í umskurn eda
med yfirhúd? ecki í umskurn, heldur med yfirhúd;
11. og hann medtók teikn umskurnar, sem * innsigli
réttlætisins af trú þeirri, er hann hafdi, í yfir-
húdinni, svo ad hann væri fadir þeirra sem trúa,
og eru med yfirhúdinni, ad einninn þessum yrdi
12. réttlætid tilreiknad, og undir eins fadir * um-
skurnar þeim, sem ecki alleina eru med umskurn,
heldur og þeim, sem gánga í fótsporin trúar
þeirrar, er fadir vor Abraham hafdi * med yfir-
13. húdinni; þvíad ecki fyrir lögmálid var Abra-
ham og hans sædi * géfid þad fyrirheit, ad hann
skyldi veraldarinnar erfíngi verda, heldur fyrir
14. réttlæti trúarinnar; þvíad ef lögmálsmenn eru *
erfíngjar, þá er trúin kraptlaus og fyrirheitid ó-

V. 5. * Kap. 3, 28, 2 Cor. 5, 19. 21. Phil. 3, 3.
V. 7. * Psálm. 32, 1. 2.
V. 10. * 1 Mós. b. 15, 6. 17, 9. 10.
V. 11. * 1 Mós. b. 17, 11. Gal. 3, 6. 7.
V. 12. * umskorinna. óumskorinn.
V. 13. * 1 Mós. b. 15, 6. f. 17, 2. 8.
V. 14. * Gal. 3, 18.

nýtt; því að * lögmálið verkar * reiði, og þar 15.
sem ecki er lögmál, þar er ecki heldur yfirtroðsla.
Þar fyrir * vegna trúarinnar, svo það sé af náð, 16.
til að láta stadfast vera fyrirheitið handa öllu sæð-
inu, ecki einasta því, sem hefir lögmálið, heldur
og svo því, er hefir trú Abrahams, hverr eð er 17.
fadir vor allra (svo sem skrifað er: * Þig hefi eg
settann födur margra þjóða) fyrir það hann trúði
Gudi, hverr eð lifandi gjörir hina dauðu og * kall-
ar það, sem ecki er, að það skuli vera. Hann 18.
trúði framar von með von, að hann mundi verða
fadir margra þjóða eptir * því sem sagt var: svo
skal þitt sæði verda! og án þess að veiklast í 19.
trúnni * vyrdti hann ecki fyrir sér sinn eginn lík-
hama, þá þegar úrdáinn, er hann var hardtnær
hundrað ára gamall, eda að Sara var úr barn-
eign, hann efaðist ecki með vantrú um fyrirheitið 20.
Guðs, heldur styrktist hann í trúnni, * gésandi
Gudi dýrdina, fulltrúa um * að hvað hann hafði 21.
lofað, það er hann máttugur að gjöra; þarfyrir 22.
var honum það og * til réttlætis reiknað. En 23.
það er ecki skrifað * hans vegna alleina, að það
var honum tilreiknað, heldur og vor vegna, hver- 24.

V. 15. * Kap. 5, 13. straff. Kap. 3, 20. 7, 8, 10. 1 Cor. 15, 56. Gal. 3, 19.
V. 16. * undirskilst: fékk Abraham loforðið um arfleifð-ina. Gal. 3, 18.
V. 17. * 1 Mós. 17, 4. 5. Hebr. 11, 3.
V. 18. * 1 Mós b. 15, 5. 6.
V. 19. * 1 Mós. b. 18, 11.
V. 20. * Hebr. 11, 8. f.
V. 21. * Psálm. 115, 3. Lúk. 1, 37.
V. 22. * 1 Mós. b. 15, 6.
V. 23. * Kap. 15, 4. 1 Cor. 10, 6. 11.

jum það mun tilreiknast, þegar vér trúum á þann,
sem * uppvakti Jesúm Drottinn vorn frá dauðum,
25. hverr eð framseldur er fyrir vorar misgjörðir, og
uppvakinn til vorrar réttlætingar.

5. Kap. I.) Um ávexti réttlætisins, v. 1—11. II.) Adam og Jesús, dauðinn og lífið, lögmálið og Evangelíum, sett hvað á móti öðru, v. 12—21.

1. Þar fyrir hefum vér, réttlættir vegna trúarinnar, * frið við Guð fyrir Drottinn vorn Jesúm
2. Krist, fyrir hvern vér einninn hefum * aðgáng
með trúnni til þeirrar náðar, í hverri vér * stöndum, og vér hrósum oss af von dýrðar hjá Guði;
3. en ecki einasta það, heldur * hrósum vér oss einnig af hörmúngunum, vitandi, að hörmúngin verkar
4. þolinmæði, en þolinmæðin reynslu, en reynslan
5. von, en * vonin bregðst ecki; því að * elska Guðs
er úthellt í hjörtu vor fyrir heilagann Anda, sem
6. oss er géfinn; því * þegar vér enn þá vórum
breiskligir, hefir * Kristur á tilteknum tíma dáið
7. fyrir rángláta; því að fyrir réttlátann * mun varla
nockurr deya, en fyrir góðann vogaði kannské ein-

V. 24. * Post. G. b. 2, 24.
V. 25. * Kap. 8, 32. 1 Jóh. 2, 2.
V. 1. * Post. G. b. 10, 36. Eph. 2, 14.
V. 2. * Jóh. 10, 9. 14, 6. Eph. 2, 18. 3, 12. Hebr. 10, 19 * 1 Cor. 15, 1. Hebr. 3, 6.
V. 3. * 2 Cor. 11, 23—32. Phil. 1, 29, Jak. 1, 2.
V. 5. * Hebr. 6, 18, 19. * 1 Jóh. 4, 16.
V. 6. * Eph. 2, 1. Col. 2, 13. Hebr. 9, 15. * 1 Pét. 3, 18.
V 7. * saklausann, * velgjöraraann.

hverr að deya. En Guð * prísar sína elsku til 8.
vor í því, að þegar vér enn þá vórum syndarar,
er Kristur fyrir oss dáinn, svo miklu heldur mun- 9.
um vér þar fyrir nú réttlættir í hans blóði, frels-
ast fyrir hann frá reiðinni; því að ef vér, þá vér 10.
vórum óvinir * urðum forlíktir við Guð fyrir
dauða hans Sonar, miklu meir munum vér, þá
vér erum í sátt teknir, fyrir líf hans frelsaðir
verða; og ekki það einasta, heldur og einnig * 11.
hrósum vér oss af Guði fyrir Drottinn vorn Je-
súm Krist, fyrir hvern vér höfum forlíkunina
fengið. Þessvegna, að líka svo sem syndin er 12.
fyrir * einn mann í heiminn innkominn, og fyrir
syndina dauðinn, * svo hefir og dauðinn gengið
yfir til allra manna, af því að allir hafa syndg-
að; því að á undan lögmáli var synd í heimi, en 13.
synd tilreiknast ekki * meðan ei er lögmál. Samt 14.
ríkti dauðinn frá Adam til Mósis, einnig yfir
þeim, er ekki syndgðu með líkri yfirtroðslu og
Adam, hverr eð er fyrirmynd þess eptirkomanda.
En ekki er eins og * fallinu náðargjöfinni hátt- 15.
að; því að ef þeir mörgu dóu við þess eina fall,
þá * hefir miklu meir náðin Guðs og gáfan * af
náðinni þess eina manns Jesú Krists verið yfir-
gnæfanleg handa þeim mörgu; og ekki er gjöfin 16.
svo sem (það er kom) vegna þess eina, er syndg-

---

V. 8. * Jóh. 15, 13. f. 1 Jóh. 3, 16.
V. 10. * 2 Cor. 5, 18. Col. 1, 20, 21.
V. 11. * Jer. 9, 24. 1 Cor. 1, 31.
V. 12. * 1 Mós. b. 3, 6. 1 Cor. 15, 21. * 1 Mós. b. 2, 17. Róm. 6, 23.
V. 13. * Kap. 4, 15. V. 14. * 1 Cor. 15, 21. 22.
V. 15. * synd, syndafall. * 1 Cor. 15, 22. Jóh. 1, 16. 17.

adi; þvíad dómurinn vard eptir eitt (fall) til fordæmíngar, en nádargjøfin eptir mørg føll, til
17. réttlætíngar; þvíad ef daudinn ríkti yfir ens eina falli, vegna þess eina, miklu meir munu þeir, er medtekid hafa gnægdina nádarinnar og gjøfina réttlætisins, ríkja í lífi fyrir þann eina Jesúm
18. Krist. Sannarlega þar fyrir, svo sem vegna eins falls, (dómur er fallinn) á alla menn til fordæmíngar, svo er og vegna eins réttlætíngar nádargjøfin veitt * øllum mønnum til lífs réttlætis;
19. þvíad eins og af óhlýdninni þess eina manns eru þeir morgu syndugir ordnir, eins munu líka þeir morgu, af hlýdni þess eina, * réttlættir verda.
20. En * løgmálid innkom þar ad auki, svo fallid yfirgnæfdi, en * hvar syndin yfirgnæfdi, yfirgnæfdi
21. nádin miklu framar, til þess, ad eins og syndin ríkti til daudans, svo skyldi og nádin ríkja fyrir réttlæti * til eilífs lífs, vegna Jesú Krists vors Drottins.

## 6. Kap. I.) Krists nád leyfir oss ecki ad syndga, v. 1—14. II.) Þvíad þótt vér séum ecki undir løgmálinu, megum vér samt ecki géfa oss í syndarinnar þjónustu, hverrar verdlaun eru daudi og fyrirdæming, v. 15—23.

1. Hvad skulum vér þá segja? * egum vér ad liggja í syndinni, svo ad nádin yfirgnæfi? Þad sé
2.

V. 18. * 2 Cor. 5, 15. 1 Jóh. 2, 2.
V. 19. * Esa. 53, 11.
V. 20. * Kap. 4, 15. 7, 8. Gal. 3, 19. Lúk. 7, 47.
V. 21. * Kap. 6, 23. V. 1. * Gal. 2, 17.

lángt frá! vér sem erum* daudir syndinni, hvern-
inn skyldum vér enn þá lifa í henni? Eda vitid 3.
þér ecki, ad vér,* svo margir sem skírdir erum
til Jesú Kríists, vér erum skírdir til hans dauda;
þvíad vér erum med honum greptradir í skírn- 4.
inni til daudans, svo ad líka sem* Kristur er upp-
vakinn frá daudum fyrir dýrdina Fodursins, svo
egum vér einninn ad gánga* í lífs endurnýúngu;
því ef vér hefum verid sameinadir líkíngu hans 5.
dauda, munum vér einnig* upprisunnar; því 6.
ad vér vitum þettá, ad vor gamli madur er med
honum* krossfestur, svo ad máttlaus verdi lík-
hami syndarinnar, ad ecki þjónum vér framar
syndinni; þvíad hverr einn* daudur er fríadur 7.
frá syndinni, en ef vér erum* daudir med Kristó, 8.
þá trúum vér, ad vér munum einnig med honum
lifa, vitandi þad, ad Kristur, sem er uppvakinn 9.
frá daudum,* deyr ecki framar; daudi drottnar
ecki framar yfir honum; þvíad þad hann dó, 10.
þad dó hann syndinni* einusinni, en þad hann
lifir, lifir hann Gudi. Svoleidis álítid einnig, 11.
ad þér sjálfir séud daudir syndinni, en* lifid
Gudi í Kristó Jesú vorum Drottni; þarfyrir 12.

B

V. 2. * v. 11. Gal. 6, 14. 1 Pét 2, 24.
V. 3. * Gal. 3, 27.
V. 4. * Kap. 8, 11. Phil. 3, 10. 11. Cól. 2, 12. Eph. 4, 23. Cól 3, 8. f. 1 Pét. 2, 1. 4, 1. 2.
V. 5. * Phil. 3, 10. 11. V. 6. * Gal. 2, 20, 5, 24.
V. 7. * 1 Pét. 4, 1. V. 8 * 2 Tim. 2, 11.
V. 9. * Opinb. b. 1, 18. V 10. * Hebr. 7, 27. 9, 28.
V. 11 * V. 2 1 Pét. 2, 24. Gal. 2, 19.

ríki ecki syndin í * dauðlegum líkhama ydar, til
13. ad hlýða henni í hans girndum! framleggið
ecki ydar limi ránglætis verkfæri syndinni, heldur
framberid Gudi sjálfa ydur, svo sem lifandi
úr daudum og * limi ydar réttlætis verkfæri
14. Gudi; þvíad syndin skal ecki * drottna yfir ydur,
þared þér erud ecki undir lögmáli, heldur undir
15. náð. Hvad þá? * skulum vér syndga, fyrst *
vér erum ecki undir lögmáli, heldur undir náð?
fjærri sé því!
16. Vitid þér ecki, ad hverjum þér * framleggið
ydur sjálfa þjóna til hlýðni, hans þjónar erud
þér, hverjum þér hlýðid, hvert heldur syndar
17. til dauda, eda * hlýðni til réttlætis. En þöck
sé Gudi, ad þér, sem vórud syndarinnar þjónar,
erud * af hjarta hlýðnir ordnir því lærdóms formi,
18. sem ydur hefir verid kénnt, og * fríir frá synd-
19. inni, ordnir þjónar réttlætisins. Eg tala * ad
manna vísu, sakir veikleika ydar * holds; þvíad
svo sem þér * hafid framlagt limi ydar þjóna
óhreinleikanum og ránglætinu til ránglætis, svo
framleggid nú limi ydar réttlætinu þjóna til
20. helgunar; því þegar þér vórud * syndarinnar

V. 12. * 1 Mós. b. 4, 7.
V. 13. * Kap. 12, 1. Lúk. 1, 74. Gal. 2, 20. 1 Pét. 4, 2. Hebr. 9, 14.
V. 14. * 1 Mós. b. 4, 7.
V. 15. * V. 1. Gal. 2, 17. V. 19. 1 Cor. 9, 21.
V. 16. * Jóh. 8, 34. 2 Pét. 2, 19. * P. e. vid Gud.
V. 17. * 2 Cor. 2, 9. Phil. 2, 12.
V. 18. * Jóh. 8, 32. Gal. 5, 1.
V. 19. * Kap. 3, 5. * veika skilnings. * V. 13.
V. 20. * Jóh. 8, 34.

þjónar, þá vórud þér fríir frá réttlætinu; hvern 21.
ávöxt hefdud þér þá? það, sem þér nú skammist
ydar fyrir; þvíad endalyktin þess er daudi. En 22.
nú, þared þér erud * fríir frá syndinni og þjónustu=
bundnir Gudi, svo hafid þér ydar ávöxt til helg=
unar, en * endalyktina eilíft líf; þvíad * laun 23.
syndarinnar er daudi, en * nádargáfa Guds er
eilíft líf í Jesú Kristo vorum Drottni.

I.) Um dauda trúadra frá lögmálinu vegna Kristis dauda, v. 1—6. II.) Verkun og gagn lögmálsins v. 7—12. III.) Stríd holdsins og andans hjá þeim réttlættu, v. 13—25.

## 7. Kap.

Vitid þér ecki, brædur! — þvíad vid þá, sem 1.
lögmálid þeckja, tala eg — ad lögmálid * drottn=
ar yfir manninum, svo lengi hann lifir? þvíad 2.
* gipt kona er ad lögum bundin vid manninn,
medan hann lifir, en þá madurinn deyr, er hún *
laus vid mannsins lögmál. Þessvegna mun hún 3.
hórkona kallast, ef hún verdur * annars manns
(kona) ad manninum lifanda, en þá madurinn
deyr, er hún frí vid lögmálid, svo ad hún et ei hór=



V. 21. * Kap 8, 6.
V. 22. * V. 18. * 1 Pét. 1, 9.
V. 23. * Kap 5, 12. Jak 1, 15. * Kap. 11, 6. 5, 21. 1 Pét. 1, 3.
V. 1. * Þ. e. hjúnabands lögin gylda, medan makinn lifir.
V. 2 * 1 Cor 7, 10. 39. * Gal. 5, 4.
V. 3. * Matth. 5, 32.

4. kona, þótt hún verdi annars manns. Svo erud
og þér, brædur mínir! * daudir legmálinu fyrir *
líkhamann Krists, ad þér yrdud annars hans,
sem frá daudum er upprisinn, til þess vér skyld-
5. um Gudi ávext færa; því þá vér vórum í hold-
inu * verkudu syndsamlegar tilhneigíngar þær, sem
* (þecktust) af legmálinu í vorum limum, til ad *
6. færa ávext daudanum. En nú erum vér, * sem
daudir, lausir frá legmálinu, vid hvert vér vór-
um bundnir, svoad vér þjónum í nýúngu andans,
7. en ecki í * fyrnsku bókstafsins. Hvad viljum vér
þá segja? er legmálid synd? fjærri sé því! held-
ur þeckta eg ecki syndina, nema af legmálinu; því-
ad * um girndina hefdi eg ecki vitad, nema leg-
8. málid hefdi sagt: * þú skalt ecki girnast! En *
syndin tók sér tilefni af bodordinu og ól upp í mér
9. alla girnd; þvíad án legmáls er synd daud. Eg
lifdi um nockurn tíma án legmáls, en þegar bod-
10. ordid kom endurlifnadi syndin; en eg dó og
komst eg ad raun um ad bodordid * til lífs vard
11. til dauda; þvíad syndin, sem tók tilefni af bod-
ordinu, dró mig á tálar og deyddi med því
12. sama (bodordi); svo er * legmálid heilagt og
bodordid heilagt og réttvíst og gott.

---

V. 4. * Kap. 8, 2. Gal. 2, 19. * í hverjum hann er dáinn og þér med honum. Samanb. Kap. 6, 4. 5. 8. 10.
V. 5. * ónmvcudtir. * V. 7. * Kap. 6, 21.
V. 6. * Kap. 6, 2. * Kap. 2, 29.
V. 7. * Kap. 3, 20. 4, 15. * Mós. b. 20, 17.
V. 8. * V. 5, Kap. 5, 20. Gal. 3, 19.
V. 10. * 3 Mós. b. 18, 5. V. 12. * 1 Tím. 1, 8.

Er þá hid góda (bodord) ordid mér daudi? 13.
fjærri sé því! heldur syndin, svo ad opinber yrdi
synd fyrir hid góda, ollandi mér dauda, svo ad
syndin yrdi yfirmáta * syndug fyrir bodordid;
því vér vitum ad lögmálid er andlegt, en eg er 14.
* holdlegur, seldur undir syndina; þvíad þad, 15.
sem eg adhefst, * veit eg ecki, þvíad þad, sem eg
vil, * gjöri eg ecki, en þad, sem eg hata, gjöri
eg; en ef eg gjöri þad, sem eg ecki vil, þá sam- 16.
sinni eg lögmálinu, ad þad sé * gott; svo ad- 17.
hefst eg þad ecki framar, heldur sú synd, sem *
býr í mér; því eg veit, ad ecki býr gott í mér, 18.
þad er í mínu holdi; því * ad vilja er til reidu
hjá mér, en ad framqvæma þad góda * finn eg
ecki, því þad góda, sem eg vil, gjöri eg ecki, en 19.
þad vonda, sem eg vil ecki, þad gjöri eg. En ef 20.
eg gjöri þad eg vil ecki, þá er eg ecki framar sá,
* sem adhefst þad, heldur syndin, sem í mér býr.
Svo finn eg þá lögmálid, nær eg vil gjöra hid 21.
góda, af því * þad vonda er til reidu hjá mér, því- 22.
ad mig lystir til Guds lögmáls eptir enum innra
manni, en eg sje annad lögmál í mínum limum, 23.
sem strídir í móti lögmáli míns hugskots, og her-
tekur mig undir * lögmál syndarinnar, hvert ed er

---

V. 13. * saknæm. V. 14. * Kap. 8, 3.
V. 15. * likar mér ecki. * V. 23. Gal. 5, 17.
V. 16. * V. 12.
V. 17. * V. 20. 1 Mós. 6, 5. 8, 21.
V. 18. * Gal 5, 17. * megna eg ecki. V. 20. * V. 17.
V. 21. * Job. 14, 4. tvennt mótsett vísar á og upplýsir hvert annad.
V. 23. * Kap. 8, 2.

24. í mínum limum. Eg vesæl manneskja! hverr
25. mun frelsa mig frá líkhama þessa dauða? Eg
þacka Gudi fyrir Jesúm Krist vorn Drottinn.
Svo þjóna eg þá að sennu sami (madurinn) með
hugskotinu lögmáli Guðs, en með holdinu lög-
máli syndarinnar.

8. Kap. I.) Fordæmíngin nær ecki til kristinna, ef ant-
inn Krists og ecki holdið stjórnar þeim,
v. 1—13. II.) Sá sami andi gjörir þá
vissa um barna-réttinn, veitir þeim gledi
í mótgángi, hughreystir þá með Guðs
elsku, frá hverri enginn hlutur fær þá
skilið, v. 14—39.

1. Svo er nú * engin fyrirdæming yfir þeim, sem *
eru í Kristó Jesú, hverjir * ei gánga eptir hold-
2. inu, heldur eptir andanum; því að lögmálið lífg-
unar andans í Kristó hefir * frelsað mig frá lög-
3. máli * syndarinnar og dauðans; því hvað * lög-
málinu var ómögulegt, af því það varð * van-
máttugt vegna holdsins, það gjörði Gud, þegar
hann með að senda sinn Son * í líkíngu syndugs
holds og til synda fórnar fordæmdi (straffaði) synd-
4. ina á holdinu, svo að réttlæting lögmálsins upp-
fylltist á oss, sem ecki gaungum eptir holdinu,
5. heldur eptir andanum; því að þeir, sem eru *

V. 25. * 1 Cor. 1, 4.
V. 1. * Kap. 10, 4. * 2 Cor. 5, 17. * Gal. 5, 16.
V. 2. * Jóh. 8, 36. Gal. 5, 1. * Kap. 7, 23.
V. 3. * Post. G.b. 15, 10. Róm. 7, 14. * Hebr 7, 18.
* 2 Cor. 5, 21. Gal. 3, 13.
V. 5. * V. 8. 1 Cor. 2, 14.

eptir holdinu, skynja hvad holdsins er, en hinir
sem eru eptir andanum, þad sem andlegt er; því 6.
holdsins sinna er * daudi, en andans sinna er líf og
fridur, vegna þess ad sinna holdsins er * fjandskap= 7.
ur í gegn Gudi, þvíad hverki skipast hún undir
Guds legmál, né getur þad. En þeir ed * í hold= 8.
inu eru, * géta ecki Gudi þóknast. En þér erud 9.
ecki í holdinu heldur í andanum, svo feamt andi
Guds * býr í ydur; en ef nockurr * eckt hefir anda
Krists, sá er ecki hans. En ef Kristur er í ydur, 10.
þá er ad sonnu líkhaminn daudur vegna syndarinn=
ar, en andinn er líf fyrir réttlætis sakir; en ef 11.
andi hans, sem * uppvakti Jesúm frá daudum *
býr í ydur, þá mun hann, sem uppvakti Krist frá
daudum, * lifandi gjora einninn ydar daudlegu lík=
hami fyrir þann hans anda, sem býr í ydur.
Þar fyrir, brædur! erum vér ecki * skuldunaut= 12.
ar vid holdid, til ad lifa eptir holdinu; þvíad 13.
ef þér lifid eptir holdinu, munud þér deya, en
ef þér * deydid fyrir andann líkhamans gjerdir,
munud þér lifa.

Því, svo margir, sem leidast af Guds anda, 14.
þeir eru Guds born; þvíad þér hafid ecki med= 15.
tekid * þrældóms anda aptur * til hrædslu, held=

---

B. 6. * Kap 6, 21. Gal. 6, 8.
B. 7. * Cól. 1, 21. B. 8. * B. 5. * Hebr. 11, 6.
B. 9. * 1 Cor 2, 12. 3, 16. * 2 Cor. 13, 5. * Gal. 4, 6.
Phil. 1, 11. 1 Jóh. 3, 24.
B. 11. * Kap. 6, 4. Post. G. b. 2, 24. * B. 9. * Kap. 6,
5. 1 Cor. 6, 14. 2 Cor. 4, 14. Eph. 2, 5.
B. 12. * Kap 6, 7. 18.
B. 13. * Ezech. 18, 21. Eph. 4, 22. Col. 3, 5. 6.
B. 14. * 1 Jóh. 3, 24. Gal. 5, 18.
B. 15. * 1 Cor. 2, 12. 2 Tim. 1, 7. * Mark. 4, 40. 41

ur hafid þér medtekid sona útvalníngar anda, *
16. í hverjum vér køllum * Abba! Fadir! sá * sami
andi ber vitnisburd vorum anda, ad vér erum Guds
17. børn, en ef * børn, þá og svo erfíngjar, já, erf-
íngjar Guds en samarfar Krists, ef vér lídum
med honum, ad vér verdum einninn med honum
18. vegsamlegir gjørdir. Hvíad eg reikna, ad *
mótlætíngar núveranda tíma séu ecki verdar
þeirrar dýrdar, sem vid oss mun opinber verda;
19. Hvíad eptirlaungun sképnunnar bídur eptir opin-
20. berun Guds barna — hvíad sképnan er undir-
orpin hégómanum, ecki viljug, heldur fyrir hans
21. sakir, sem hana hefir undirlagt — í von um, ad
og svo * sképnan sjálf muni fríud verda frá ve-
sælum þrældómi til dýrdarlegs frelsis Guds
22. barna. Hví vér vitum ad øll sképnan tilsam-
ans stynur og ber fædíngar harmqvæli allt til
23. þessa; og ecki einúngis hún, heldur og þeir,
sem hafa andans frumvøxt og svo vér sjálfir
stynjum med oss, bídandi eptir * sona útvaln-
24. íngunni, * endurlausn vors líkhama. Hvíad í
voninni erum vér frelsadir, en * von, sem sjest,
er ecki von, þvíad hvad einn sjer, hverninn skyldi
25. hann undir eins vænta þess? en ef vér væntum

V. 15. * Gal. 3, 26. 4, 6. * Mark. 14, 36.
V. 16. * V 26. 27. 2 Cor. 1, 22. 5, 5. Eph. 1, 13. 4, 30.
V. 17. * Spek. b. 5, 5. Gal. 4, 7. * Post. G. b. 14, 22.
2 Tim 2, 11. 12. 1 Pét. 5, 9. 4, 13.
V. 18. * Matth. 5, 12. 2 Cor. 4, 17. Philipp. 3, 10. 21.
1 Pét. 1, 6. 1 Jóh. 3, 12.
V. 21. * Opinb. b. 21, 5.
V. 23. * Gal. 4, 5. Eph. 1, 5. * Lúk. 21, 28. 2 Cor. 2,
4. 5. 1 Jóh. 3, 2.
V. 24. * 2 Cor. 5, 7.

þess, sem vér * ecki sjáum, þá bídum vér þess
med þolinmædi. En sømuleidis * hjálpar og 26.
andinn í vorum hørmúngum, því * hvad vér
skulum umbidja, svo sem ber, vitum vér ecki, þá
gengur sami andi í milli fyrir oss med ordlaus-
um andvørpunum; en hann, sem * ransakar 27.
hjørtun, veit hver er andans sinna, því hann
gengur í milli eptir Guds vilja fyrir heilaga.

En vér vitum ad þeim, sem * Gud elska, 28.
þénar allt til góds, þeim, sem * eptir fyrirætlun
kalladir eru; þvíad hverja hann fyrífram þeckti, 29.
hefir hann og * fyrífram tilætlad samlíka mind
síns Sonar, svo ad hann sé * frumburdur milli
margra brædra. En hverja hann fyrífram til- 30.
ætladi, þá hefir hann og kallad, en hverja hann
kalladi, þá hefir hann og réttlætt, en hverja
hann réttlætti, þá hefir hann einninn vegsamlega
gjørt. Hvad skulum vér til þessa segja? * ef 31.
Gud er med oss, hverr megnar þá móti oss? hann, 32.
sem ecki þyrmdi * sínum eginn Syni, heldur gaf
hann út fyrir oss alla, hví skyldi hann ecki og svo
gefa oss allt med honum? Hverr vill * ásaka 33.

---

V. 25. * 2 Cor. 4, 18. Hebr. 11, 1.
V. 26. * léttir undir. * Matth. 20, 22. Jak. 4, 3.
* Zach. 12, 10.
V. 27. * 1 Kron. 28, 9. Psálm. 7, 10. Jer. 11, 20. 17,
10. Post. G. b. 1, 24.
V. 28. * Jak. 1, 12. 2, 5. * Kap. 9, 11. Eph. 1, 11. 3,
11. 2 Tim. 1, 9.
V. 29. * Eph. 1, 5. 11. Phil. 3, 10. 21. 1 Jóh. 3, 2.
* Cól. 1, 15. 18.
V. 31. * 4 Mós. b. 14, 9. Psálm. 56, 12. 118, 6.
V. 32. * 1 Mós. b. 22, 16. Es. 53, 5. Jóh. 3, 16. Róm.
4, 25. 5, 6. 9. V. 33. * Esa. 50, 8.

34. Guds útvalda? Gud er sá, sem réttlætir; hverr
er, * sem fordæmir? Kristur er sá, sem dáinn er,
já, miklu meira, sem líka er uppeisinn, hverr og
er á * hægri hend Gudi, hverr ed einninn er *
35. medalgángari fyrir oss. Hverr mun * skilja oss
vid kjærleikann Krists? Pjáníng eda þreyngíng?
eda offókn? eda húngur? eda nekt? eda háski?
36. eda sverd? svo sem * skrifad er: þín vegna verd-
um vér deyddir allann daginn, vér erum reiknad-
37. ir, sem slátrunar-fé. En í ellu þessu meir enn *
sigrum vér fyrir adstod hans, sem elskadi oss.
38. Því eg er þess * fullviss, ad hverki daudi né líf,
hverki Englar né * hefdíngjadæmi né vold, hverki
39. hid nærveranda né eptirkomanda, hverki hæd né
dýpt eda nockur eunur sképna mun géta skilid oss vid
Guds kjærleika, sem er í Kristó Jesú vorum Drottni.

## 9. Kap. Guds kallan af náð, upplýst med dæmum, v. 1—33.

1. Eg * segi sannleika í Kristó og lýg ecki — nín
samvitska * vitnar med mér í heilegum Anda —
2. ad * mér er ángur mikid og óaflátanleg qvol í

---

V. 34. * Job. 34, 29. Esa. 50, 9. * Ps. 110, 1. 1 Pét. 3, 22. Hebr. 1, 3. 8, 1. 12, 2 * 1 Jóh. 2, 1. Hebr. 7, 25. 9, 24.
V. 35. * Sal. Lofqv. 8, 6. 7.
V. 36. * Psálm. 44, 23. 1 Cor. 4, 9. 2 Cor. 4, 11.
V. 37. * 1 Cor. 15, 27. 2 Cor. 2, 14. 1 Jóh. 4, 4. 5, 4. 5. Opinb. b. 12, 11.
V. 38. * Phil. 1, 5. 2 Tím. 1, 12. * Eph. 1, 21. 6, 12. Cól. 2, 15. 1 Pét. 3, 22.
V. 1. * 1 Tím. 2, 7. * Kap. 1, 9.
V. 2. * Kap. 10, 1.

hjarta mínu; því að eg * æskti sjálfur að vera út- 3.
rekinn frá Kristó fyrir bræður mína, ættmenn
mína eptir holdinu, hverjer eð eru Ísraels-menn, 4.
hverjum tilheyrir * sona-útvalníngin, * dýrðin og
* sáttmálarnir og lögmáls-gjöfin og * helgihaldið
og fyriheitin, hverra * feðurnir eru, og þeir, af 5.
hverjum Kristur er kominn, að því leiti, sem það
er eptir holdinu, hverr eð er yfir öllum, * Guð
* blessaður um aldir, Amen!

Ecki þvílíkt að * Guðs orð hafi brugðist, 6.
því að ecki eru allir * af Ísrael komnir Ísraels-
menn, og ecki af því þeir eru sæði Abrahams, 7.
allir hans börn, heldur (segir Ritníngin): * í
Ísaak skal þér sæði kallast, það er: ecki þau 8.
holdsins börn eru Guðs börn, heldur reiknast *
fyriheitisins börn fyrir sæði; því að orð fyriheiti- 9.
sins er þetta: * um þenna tíma mun eg aptur
koma, og þá skal Sara son eiga og ecki alleinasta 10.
(við hana) heldur og — þegar * Rebecka var
þúnguð af þeim eina Ísaak föður vorum, því að 11.
enn * nú vóru ecki (tvíburarnir) fæddir, né
hefðu gjört neitt gott eður íllt, (svoað fyrirætlan
Guðs eptir útvalníngu, stadfest væri, ecki vegna 12.

V. 3. * 2 Mós. b. 32, 32.
V. 4. * 2 Mós. b. 4, 22. 5 Mós. b. 7, 6. Psálm. 147, 19. Jer. 31, 9. * 2 Mós. b. 40, 34. 3 Mós. b. 9, 6. Ezech. 10, 4. * Kap. 2, 17. Eph. 2, 12. 5 Mós. b. 29, 1. * 2 Mós. b. 19, 25. 26. 13, 5.
V. 5. * Matth. 1, 1. f. * Jóh. 1, 1. f. * Kap. 1, 25.
V. 6. * 4 Mós. b. 23, 19. * Kap. 2, 28. Jóh. 8, 39. Opinb. b. 2, 9.
V. 7. * 1 Mós. b. 21, 12. Gal. 4, 23.
V. 8. * Gal. 4, 28. Kap. 3, 29.
V. 9. * 1 Mós. b. 18, 10. V. 10. * 1 Mós. b. 25, 21.

12. verkanna, heldur hans, sem kalladi) — þá var
sagt vid hana: * sá eldri skal þjóna þeim ýngra!
13. svo sem * skrifad er: Jacob * elskadi eg, en Esau
14. hatadi eg. Hvad skulum vér þá segja? er * ó-
15. réttvísi hjá Gudi? þad sé fjærri! þvíad hann
* segir vid Mósen: eg mun miskuna þeim eg
miskuna, eg mun aumkast yfir þann, er eg aumk-
16. ast; þarfyrir er þad hverki komid undir kjorum
þess, sem vill, né hins sem hleypur, heldur
17. Guds, sem miskunar; því Ritníngin * segir til
Pharaó's: til þess sama uppreisti eg þig, ad eg
sýndi mína makt á þér og svo ad mitt nafn
18. kunngjort yrdi um alla jordina. Svo * misk-
unar hann þá þeim hann vill, en forherdir þann,
19. hann vill. Þú munt þá vilja segja: hvad gétur
hann þá géfid til saka? þvíad hverr fær hans
20. vilia í móti stadid? En, ó madur! hverr ertú,
ad vilja hafa svør vid Gud? * skyldi leirsmídid
segja vid þann, sem bjó þad til: því gjordir þú
21. mig svo? eda hefir ecki * leirsmidurinn leirsins *
vald, ad gjora af sama smídis-efni eitt kér * til
22. heidurs en annad til vanheidurs? en ef Gud —
þegar hann vildi audsýna reidina og kunngjøra
sína makt — umbar med * miklu lánglundargédi
23. kér reidinnar, * búinn til fordjørfunar og svo til

V. 12. * 1 Mós. b. 25, 23.
V. 13. * Malach. 1, 2. 3. * Psálm. 47, 5.
V. 14. * Kap. 3, 5. 5 Mós. b. 32, 4. 2 Kron. 19, 7.
V. 15. * 2 Mós. b. 33, 19. Róm. 11; 32.
V. 17. * 2 Mós. b. 9, 16. V. 18. * V. 15.
V. 20. * Spek. b. 12, 12. * Esa. 45, 9.
V. 21. * Spek. b. 15, 1. Esa. 64, 7. Jer. 18, 6.
* Matth. 20, 15. * 2 Tim. 2, 20.
V. 22. * Kap. 2, 4. * Þær straffsverdu manneskjur.

* ad kunngjøra ríkdóm dýrdar sinnar á kérum
miskunarinnar, * hvered hann hefir ádur búid til
dýrdar, hverja hann hefir og kallad, þad er oss, 24.
ecki einasta af Gydíngum, heldur og af heidíng-
um, svo sem hann og segir hjá * Hósea: Eg 25.
mun kalla þad, sem ecki var mitt fólk, mitt fólk,
og þá, sem ecki var unnusta, mína unnustu og 26.
þad * mun ské í þeim stad, hvar til þeirra var
sagt: þér erud ecki mitt fólk, þar skulu þeir kall-
adir verda synir Guds lifanda. En * Esajas 27.
hrópar yfir Israel: þótt talan Israels sona væri
sem sjáfar sandur, þá skulu * leifar einar (fáein-
ar) frelsadir verda; þvíad sá er, * sem fullkomn- 28.
ar ord (hlutinn) og fljótt ské úr med réttvísi þad
ord (þann hlut), er fljótt tekur af, mun Drottinn
gjøra á jørdunni; og svo sem * Esajas sagdi fyrr- 29.
um: nema Drottinn Zebaoth hefdi eptirlátid
oss sædi, værum vér ordnir eins og * Sódóma
og Gomorra værum vér líkir ordnir. Hvad skul- 30.
um vér þá segja? ad heidíngjarnir, sem ecki sóktu
eptir réttlætinu, hafa nád réttlætinu, en réttlæt-
inu, sem er af trúnni. En * Israel, sem sókti 31.
eptir logmáli réttlætis, komst ecki ad logmáli réttlæti-
sins. Hvar fyrir? þvíad (hann sókti eptir því) 32.
ecki af trúnni, heldur svo sem af verkum logmáls-

---

V. 23, * Kól. 1, 27. * á þeim, yfir hverja Gud hefir miskunad sig.
V. 25. * Hós. 2, 25. 1 Pét. 2, 10.
V. 26. * Hós. 1, 10.
V. 27. * Es. 10, 22. 23. * Kap. 11, 5.
V. 28. * Es. 28, 22.
V. 29. * Es. 1, 9. * 1 Mós. 19, 24. 25. Es. 13, 19. Jer. 49, 18. 50, 40. V. 31. * Kap. 10, 3. 11, 17.

ins, þvíad þeir hafa * rekid sig á þann ásteit-
33. íngar-steininn, svo sem * skrifad er: sjá! eg set
í Zíon ásteitíngar-stein og hrøsunar-hellu og sér-
hverr, sem * á hann trúir mun ecki til
skammar verda.

10\. Kap. I.) Gydíngar leita forgéfins eptir réttlæti af lögmálinu, því þad veitist í Jesú fyrir trúna, v. 1—13. II.) Þessi nád er Gydíngum forgéfins frambodin, v. 14—21.

1\. Brædur! ósk míns hjarta og bæn til Guds er
2\. fyrir Israel um frelsi; því eg ber þeim vitni, ad
þeir hafa * vandlætíng Guds vegna, en ecki med
3\. skynsemd; þvíad, þared þeir þeckja ecki Guds rétt-
læti, en leitast vid ad stadfesta sitt egid réttlæti,
þá hafa þeir ecki undirkastad sig * Guds réttlæti.
4\. Þvíad * endir lögmálsins er Kristur, til réttlæt-
5\. is sérhverjum, * sem trúir. Þvíad Móses * skrif-
ar um þad réttlæti, sem er af lögmálinu: ad sá
madur, sem gjørir þessa hluti, muni lifa þar af.
6\. En þad réttlæti, sem er af trúnni * segir svo: þú
skalt ecki segja í hjarta þínu: hverr mun uppstíga
7\. í himininn, þad er: til ad sækja Krist? eda hverr

V. 32. * 1 Cor. 1, 23.
V. 33. * Psálm. 18, 22. Esa. 8, 14. 28, 16. Matth. 21, 42. * Kap. 10, 11. Psálm. 2, 12.
V. 2. * Post. G. b. 21, 20. 22, 3. Gal. 1, 14, 4, 17.
V. 3. * Kap. 9, 30. * Guds rádstøfun til manneskjanna réttlætíngar.
V. 4. * Matth. 5, 17. Gal. 3, 22. 24. * Jóh. 3, 18. Post. G. b. 13, 39.
V. 5. * 3 Mós. b. 18, 5. Ezech. 20, 11. Lúk. 10, 28.
V. 6. * 3 Mós. b. 30, 12. f.

mun nidurstíga í undirdjúpid, þad er: til ad sæk-
ja Krist frá þeim daudu? En hvad segir þad?
nálægt er þér ordid * í munni þínum og í hjarta 8.
þínu. Þetta er * trúarinnar ord, hvert vér pré-
dikum; þvíad ef þú * vidurkénnir med munni 9.
þínum Drottinn Jesúm og trúir í hjarta þínu,
ad Gud hafi uppvakid hann frá daudum, muntu
hólpinn verda, þvíad med hjartanu verdur trúad, 10.
til réttlætis, en med * munninum vidurkénnt til
hjálpræđis; þvíad Ritníngin * segir: hverr, sem 11.
trúir á hann, mun ecki til skammar verda. Því- 12.
ad * enginn greinarmunur er Gydíngs edur hins
Grísku; þvíad sá sami er * allra Drottinn * rík-
ur (nádar) vid alla þá, sem hann ákalla; þvíad 13.
* hverr, sem ákallar nafnid Drottins, mun hólp-
inn verda. Hverninn skulu þeir þá ákalla þann, 14.
á hvern þeir ecki trúdu? en hverninn skulu þeir
trúa á þann af hverjum þeir ecki hafa heyrt?
en hverninn skulu þeir heyra án Prédikara? en * 15.
hverninn skulu þeir prédika, nema þeir séu sendir?
svo sem * skrifad er: hversu fallegir eru fætur
þeirra, sem fridinn boda, þeirra, sem boda hid
góda. En þeir * hlýddu ecki allir Gudspjallinu, 16.
þvíad Esajas * segir: hverr trúdi því hann heyrdi

V. 8. * Sir, 51, 35. * 1 Tim. 4, 6.
V. 9. * Matth. 10, 32. 2 Tim. 2, 12.
V. 10. * Ps. 116, 10. 2 Cor. 4, 13. 1 Pét. 3, 15.
V. 11. * Esa. 28, 16, Psálm. 25, 3.
V. 12. * Kap. 3, 22. 29. Post. G b. 10, 34. * 1 Tim. 2, 5. * Eph. 1, 7. 2, 7.
V. 13 * Joel, 3, 5.
V. 15. * Jer. 23, 21. 28, 15. * Es. 52, 7. Nah. 2, 1.
V. 16. * 2 Thess. 1, 8. * Es. 53, 1. Jóh. 12, 38.

17. hjá oss? Svo kémur þá * trúin af heyrninni, en
18. heyrnin fyrir Guds ord. En eg spyr: hafa þeir
ecki heyrt? jú vissulega er um alla jord útgeng-
inn * hljómur þeirra og til endimarka heims bygd-
19. arinnar þeirra ord. En eg spyr: hefir Israel
ecki af vitad? fyrst segir * Móses: eg mun láta
ydur metast vid óþjód, og erta ydur til reidi vid
20. skynlausa þjód. En Esajas þorir líka ad * seg-
ja: eg er fundinn af þeim, sem ecki leitudu mín,
og augljós ordinn þeim, sem ecki spurdu ad mér,
21. en til Israels * segir hann: allann daginn út-
breidi eg hendur mínar til óhlýdins og moglun-
arsams fólks.

## 11. Kap.

I.) Gydíngarnir eru ecki útskúfadir; þeir, sem nádina þyggja, eru útvaldir, hinir forherdtir v. 1—10. II.) Þeirra forherdíng gaf tilefni til heidíngjanna umvendunar, vid hverja Gydíngar mættu orsast til ad fylgja þeirra dæmi v. 11—32. III.) Postulinn dáist ad Guds visdómi v. 33—36.

1. Eg spyr þá: hefir Gud * útskúfad sjálfs síns
fólki? fjærri sé því! þvíad einnig * eg er Isra-
els madur, af sædi * Abrahams, ættqvísl Ben-
2. jamíns. Ecki hefir Gud útskúfad fólki sínu,

V. 17. * Jóh. 17, 20.
V. 18. * Psálm. 19 5. * Esa 49, 6. 2. Cor. 2, 14. Cól. 1, 6. 23. V. 19. * 5 Mós. b. 32, 21.
V. 20, * Esa. 65, 1. V. 21. * Esa. 65, 2.
V. 1. * Jer. 31, 37. * 2 Cor. 11, 22. Phil. 3, 5. * Kap. 9, 7.

hvert hann fyrifram þeckti; eda vitid þér ecki hvad 3.
Ritníngin segir um Elías, hverninn hann géck
í milli vid Gud á móti Israel * segjandi: Drott-
inn! Spámenn þína hafa þeir í hel slegid og olt-
urum þínum umvelt og eg er einsamall eptir-
látinn og sitja þeir um líf mitt; en hvad segir 4.
honum gudlegt andsvar? eg hefi eptirskilid mér
sjálfum sjø þúsundir manna, hverjir ecki hafa
beygt sín kné fyrir Baal. Svoleidis eru þá 5.
einninn á nærverandi tíma nockrar * leifar ordn-
ar eptir útvalníngu nádarinnar. En ef þad er 6.
* af nád, þá er þad ecki framar af verkum, ann-
ars verdur nádin þá ecki framar nád, en ef þad
er af verkunum, þá er þad ecki framar nád, ell-
egar verkid verdur þá ecki verk framar. Hvad 7.
þá? þad, sem Israel * leitar eptir, hlotnadist
honum ecki, en * útvalníngunni hlotnadist þad,
hinir adrir urdu forherdtir. Svo sem * skrifad 8.
er: Gud gaf þeim þvermódsku anda, augu til
ecki ad sjá og eyru til ecki ad heyra allt til þessa
dags í dag er; og Davíd * segir: verdi bord 9.
þeirra ad snoru og ad gildru og ad falli og þeim
ad endurgjaldi! formirkvist augu þeirra og ecki 10.
sjái þeir og beyg ætíd þeirra hrygg!

Eg spyr þess vegna: ráku þeir sig á til 11.
þess, ad þeir skyldu falla? fjærri sé því! held-

C

V. 3. * 1. Kóng. b. 19, 10.
V. 4. * 1 Kóng. b. 19, 18. V. 5. * Kap. 9, 27.
V. 6. * Kap. 3, 28. 4, 5. Eph. 2, 8. 5 Mós. 9, 4. 5.
V. 7. * Kap. 9, 31. * þeim utvøldu leifum.
V. 8. * Esá. 6, 9. 10. Luk. 8, 10.
V. 9. * Psálm. 69, 23 24.

ill af þeckíngu sinni, þá þeckir hann eckert eins
3. og þeckja ber *; en sá, sem elskar Gud, hann er
af honum uppfræddur.
4. Hvad áhrærir nautn þess, sem skurdgod-
um hefir verid offrad, þá vitum vér ad skurd-
god er eckert og enginn Gud til utan sá eini.
5. Því jafnvel þó Gudir séu kalladir, hvert sem er
á himni edur jördu (eins og sagt er: margir eru
6. Gudir og margir Herrar), þá höfum vér ecki
nema einn Gud Fodurinn, frá hverjum
allt er og vér líka * og einn Herra Jesúm Krist,
7. fyrir hvern allt er, vér einnig *. En allir hafa
ecki þessa þeckíngu, heldur eta sumir þad enn nú
af skurdgoda trú, sem skurdgoda offur og saurgast
8. svo þeirra samvitska *, sem veik er. Fædan
mælir ecki fram med oss hjá Gudi, því vér erum
hverki betri þótt vér etum, né verri þótt vér
9. ecki etum. En gætid þess, ad ydar frjálsrædi
í þessu verdi ecki hinum sáfródari ásteitíngar
10. efni; því sæi einhverr breiskur þig, sem upplýst-
ur ert, sitja til bords í skurdgoda hofi, mundi
samvitska hans ecki stælast svo, ad hann æti
11. skurdgoda offur? þannig spillir þú med þinni
upplýsíngu velferd þíns breiska bródurs, fyrir
12. hvern Kristur er dáinn. Þegar þér þannig
syndgid móti ydar brædrum og meidid þeirra
reikandi samvitsku, þá syndgid þér á móti Kristi.

V. 2. * Gal. 6, 3. 1 Tim. 6, 4.
V. 6. * Post. G b. 17, 28. Eph 4, 5. * Cól. 1, 15—18.
Eph. 2, 10. samanb. Jóh. 1, 3.
V. 7. * Róm. 14, 14. samanb. vid v. 23. 1 Cor. 10, 28.
V. 9. * Róm. 14, 13. 20. Gal. 5, 13.
V. 11. * Róm. 14, 15.

Þess vegna, ef eg med nautninni hneixla minn 13.
bródur, skal eg aldrei kjöt eta, svo eg ecki
hneixli hann *.

9. Kap.

I.) Páll sýnir, ad hann, sem Postuli, hafi rétt
til ad lifa uppá Safnadanna kostnad, jafn-
vel med konu, en eins í þessu, sem fleiru,
takmarki frelsi sitt, til þess ad géta áunn-
id sem flesta v. 1—23. II.) Hvetur til
ad menn, ad hans dæmi, skuli med stridi
og bindindi gjöra sig verduga þeirra
launa, er sannkristnum þar fyrir eru heit-
in v. 24—27.

Er eg ecki frjáls madur? er eg ecki Postuli? 1.
hefi eg ecki séd Jesúm Krist Drottinn vorn?*
erud þér ecki ávoxtur míns erfidis í Drottins
þjónustu*? þó eg sé ecki annara, þá er eg samt 2.
vissulega ydar Postuli; því ad þér erud innsigli
míns Postula-embættis* í Drottins þjónustu;
þetta er mitt forsvar móti þeim, sem hnidra 3.
mér. Höfum vér ecki rétt til ad eta og drecka? 4.
er oss ecki leyfilegt ad hafa med oss kristna konu, 5.
eins og hinum Postulunum, brædrum Drottins*
og Kefasi*? Skyldum vid Barnabas einir ecki 6.

V. 13. * Róm. 14, 21.
V. 1. * Post. G. b. 9, 3—5. 17. 22, 6. eptirfylg. v. 26, 14—18. * 1 Cor. 4, 15.
V. 2. * 2 Cor. 3, 2. 3.
V. 4. * lifa í alls nægtum v. 6 og 7 samanb. vid Matth 11, 19. 24, 38. 39. Lúk. 5, 33. 1 Cor. 15, 32
V. 5. * Matth. 12, 46. 13, 55. * Jóh. 1, 43. Matth. 8, 14
V. 6. * Post. G. b. 18, 3. 20, 34. 1 Thess. 2, 9. 2 Thess 3, 8.

7. hafa leyfi til ad vera fríir frá vinnu? Hverr
ser í stríd uppá eginn kostnad? hverr plantar
víngard og neytir ecki af hans áverti? edur hverr
fódrar hjørd og neytir ecki af mjólk hennar?
8. Tala eg þetta eptir manna háttum? segir ecki
9. løgmálid hid sama? því í Mósis løgmáli stend=
ur skrifad: mýldu ecki nautid, sem þreskir. Mun
10. Gud hera umbyggju fyrir nautunum? ad vísu
segir hann þad vor vegna; því vor vegna er þad
ritad, ad sá sem plægir, á ad plægja í voninni
11. og sá, sem þreskir, á ad þreskja í voninni. Ef
vér høfum sád nidur hjá ydur því andlega, er
þad þá ofmikid þó vér uppskérum hjá ydur þad
12. líkhamlega? Ef adrir hafa vald yfir ydur, hversu
framar þá ecki vér? en vér høfum ecki brúkad
þetta vald, svo ad vér gérdum Krists lærdómi
13. enga hindrun, Vitid þér ecki ad þeir, sem ad
fórnfæríngunum þjóna, eta af fórninni og þeir,
14. sem altarinu þjóna, taka hlut med því? Eins
hefir og Drottinn tilskipad, ad þeir sem trúna
15. bода, skuli lifa af því. En eg hefi ecki nýtt mér
neitt af þessu. Eg skrifa þetta ecki heldur til
þess, ad svo skuli vera gjørt vid mig; því mér
er betra ad deya enn ad nockur ónýti þetta hrós.
16. Þó ad eg bodi trúna, er þad eckert hrós fyrir
mig, því eg á ad gjøra þad. Vei mér! ef eg

---

V 7. * Kap. 3, 6. 8.
V 9. * 5 Mós. b 25, 4. V. 10. * 2 Tím. 2, 6.
V. 11. * Róm. 15, 27. Gal. 6, 6.
V. 12. * Post G.b. 20, 33. 2 Cor. 11, 7. eptirf. v. 12, 13.
V 13. * 4 Mós. b. 18, 8. 5 Mós. b. 18, 1—4. 8.
V. 14. * Lúk. 10, 10. Matth. 10, 10.
V. 15. * Post. G. b. 18, 3. 1 Thess. 2, 9. 2 Thess. 3, 8.

ecki gjøri* þad. Ef eg gjøri þad fúslega, fæ 17.
eg laun; en gjöri eg þad med naudúng er mér
þó þetta embætti á hendur falid. Hver eru þá 18.
mín laun? ad eg hlýt nádar bodskap Krists kostnad-
arlaust, svo ad eg ecki misbrúki þad vald, sem nád-
ar bodskapsins prédikan géfur mér. Því þó ad 19.
eg sé engum manni undirgéfinn, hefi eg samt
giørt mig sjálfann ad hvers manns þjóni svo eg
áinni þess fleiri. A medal Gydinga hefi eg ver- 20.
id Gydíngur, * svo eg áinni Gydínga, hjá þeim,
sem undir løgmálinu eru, hefi eg verid eins og
undir løgmálinu, til þess eg áinni þá, sem und-
ir løgmálinu eru*. Hjá þeim løgmálslausu, sem 21.
løgmálslaus, (ecki samt løgmálslaus fyrir Gudi,
heldur løgbundinn Kristi *) svo eg áinni þá løg-
málslausu. Medal hinna óstyrku hegdadi eg 22.
mér sem óstyrkur, svo eg áinni þá. Eg hefi ver-
id øllum allt*, ad eg med øllu móti gjæti frelsad
nockra. Þetta gjøri eg vegna nádar-bodskapsins, 23.
svo hluttakandi verdi í hans gædum.

Þér vitid ad þeir, sem á skeidvellinum hlaupa, 24.
hlaupa ad sönnu allir, en ecki fær samt nema
einn hnossid. Hlaupid þannig ad þér ødlist þad.
En hverr, sem fer í kappleik, leggur hardt á sig; 25.
þeir til ad vinna forgengilega kórónu, en vér ó-

V. 16. * Post. G. b. 9, 5. 6. 15. 16.
V. 17. * 1 Thessal. 2, 4.
V. 20. * Post. G. b. 16, 3. * Post. G. b. 21, 23—26.
V. 21. * Kap. 7, 22.
V. 22. * Kap. 8, 7. 10. 11. Róm. 14, 2. Post. G. b. 20, 34. 35. * 1 Cor. 10, 33.
V. 23. * Róm. 1, 13. 1 Cor. 9, 25.
V. 24. * Phil. 3, 14. Hebr. 12, 1.

26. forgengilega*. Þess vegna hleyp eg eki svo sem
uppá óvissu, berst eki sem sá, er í vindinn slær*;
27. heldur tem eg minn líkhama og þjái hann*, svo
að eg, sem kénni ødrum, eki verdi sjálfur rækur.

10. Kap. I.) Streffunar-dómar Guds yfir Gydingum
ega ad þéna ødrum til advørunar v. 1—13. II) Kristnum sæmir eki ad sitja ad
blót-veitslum v. 14—22. III.) Ega
jafnvel ad halda sér frá leyfilegum hlut-
um (á medal hvers nefnist ad eta kjøt,
sem leifar eru skurdgoda fórna), til eki
ad hneixla adra v. 23—Kap. 11, 1.

1. Eg vil eki dylja fyrir ydur, brædur! ad fedur
vorir vóru allir undir skýinu*, og ad þeir allir
2. fóru yfirum hafid*, vóru til fylgdar vid Móses,
3. allir skírdir í skýinu og hafinu, neyttu allir þeirr-
ar somu andlegu fædu og drucku allir sama
4. andlega dryck*, því þeir drucku af þeirri andlegu
hellu, sem þeim fylgdi; en þessi hella var Kristur.
5. Samt vóru flestir af þeim Gudi þóknanlegir,
6. þessvegna féllu þeir í eydimørkinni*. Þetta er

V. 25. * 1 Pét. 5, 4. Jak. 1, 12. samanb. vid 1 Tím. 6, 12. 2 Tím. 4, 7. 8.
V. 26. * 2 Tím. 2, 5.
V. 27. * Róm. 8, 13. Cól. 3, 5. sb. vid Matth. 5, 29. 30.
V. 1. * 2 Mós. b. 13, 21. 5 Mós. 1, 33. Psálm. 78, 14. * 2 Mós b. 14, 22.
V. 3. * 2 Mós. b. 16, 15. Psálm. 78, 23—25.
V. 4. * 2 Mós. b. 17, 6. 4 Mós. b. 20, 8. 10. 11. andlegt kallast það opt í Nýa Testamentinu, sem Gud lætur ské á dásamlegan hátt, samanb. Gal. 4, 29.
V. 5. * Hebr. 3, 17—19. 4 Mós. b. 14, 22—30.

skéd oss til advörunar*, svo ad vér girnumst
ecki hid vonda eins og þeir girntust. Verid ecki 7.
skurdgoda dýrkarar eins og nockrir af þeim vóru,
því skrifad er: þeir settust nidur ad eta og drecka
og stódu upp til leika. Hórist ecki eins og nockr- 8.
ir þeirra; þarfyrir dóu 23 þúsundir á einum
degi. Freistid ecki heldur Krísts*, eins og sum- 9.
ir af þeim gjørdu og fyrirfórust af høggorma-
biti*. Møglid ecki* eins og nockrir þeirra møgl- 10.
udu, hverjum og fordjarfarinn fyrirfór*. Allt 11.
þetta kom yfir þá þeim til bendíngar og er upp-
teiknad oss til vidvörunar*, yfir hverja endir ald-
anna er kominn Sá, sem þykist standa, gæti ad 12.
sér ad hann ecki falli. Þér hafid ecki reynt 13.
nema mannlega freistni; en Gud er trúr, er ecki
mun láta ydur rata í freistni framyfir megn, held-
ur gjøra þann endir þar á, ad þér getid stad-
ist hana.

Fordist þarfyrir skurdgoda dýrkun, mínir 14.
elskanlegir! Eg tala til ydar svo sem hygginna 15.
manna, ransakid þér ord mín*, sá blessunar ka- 16.
leikur, hvern vér blessum*, er hann ecki hluttekn-

---

V. 6. * 2 Tím. 3, 16.
V. 7. * 2 Mós. b. 32, 6. samanber 23, 13.
V. 8. * 5 Mós. b. 25, 1—9. Esa. 1, 21. Ezech. 23, 7. 30. 1 Cor. 10, 14.
V. 9. * Post. G. b. 5, 9. * 2 Mós. b. 17, 2—7. 4 Mós. b. 21, 5 eptirf.
V. 10. * Phil. 2, 14. 1 Pét. 4, 9. * 4 Mós. b. 14, 2—37.
V. 11. * Róm. 4, 23. 24. V. 12. * Róm. 11, 20.
V. 13. * Psálm. 68, 20.
V. 14. * Post G. b. 15, 20. 2 Cor. 6, 16. samanb. vid 2 Mós. b. 20, 3. 4.
V. 16. * Matth. 26, 26. 27.

íng Krists blóds*? og braudid, sem vér brjót-
17. um, er þad ecki hlutteckníng Krists líkama? Fyrst
þad er eitt braud, svo erum vér allir einn lík-
ami, því vér erum allir hlutakandi í þessu eina
18. braudi. Lítid til þeirra, sem Gydíngar eru
eptir holdinu*; taka þeir, sem fórnirnar eta, ecki
19. hlutdeild í altarinu? Hvad segi eg? ad skurd-
god sé nockud? edur þad, sem því er offrad,
20. nockud? en því, sem heidíngjarnir fórnfæra, því
fórnfæra þeir samt djöflum*, en ecki Gudi; en eg
vil ecki ad þér takid hlutdeild med djöflunum.
21. Ecki getid þér undireins druckid kaleik Herrans
og djöflanna kaleik, edur undireins verid hans
22. bordgéstir og þeirra*. Edur skulum vér reita
Drottinn til reidi? munum vér vera máttugri
enn hann?
23. Allt er leyfilegt; en allt er samt ecki þén-
anlegt. Allt er leyfilegt; en allt er samt ecki
24. til uppbyggíngar. Engin leiti síns gagns, heldur
25. annara. *Etid allt þad, sem á torginu selst og
spyrjid eckert um þad * fyrir samvitskunnar sakir,
26. því Drottni tilheyrir jördin og allt, sem á henni

V. 16. * V. 18. 20. Matth. 27, 25. samanborid vid 2.Sam. 3, 28.
V. 17. * Kap. 12, 13. 27.
V. 18. * sem Gydíngar eru ad uppruna og fastheldnir vid Gydínga trú og sidu.
V. 19. * Kap. 8, 4.
V. 20. * 3 Mós. b. 17, 7. Psálm. 106, 37.
V. 21. * 2 Cor. 6, 15. V. 22. * 5 Mós. b. 32, 21.
V. 23. * Kap. 6, 12.
V. 24. * V. 33. Phil. 2, 4. Róm. 15, 2.
V. 25. * hvert þad séu leifar skurdgoda-fórna, samb. v. 28.
V. 26. * Psálm. 24, 1. 50, 12. samanb. vid 1 Tim. 4, 4.

er. *Ef einhverr, sem ecki er kristinn býdur ydur og þér viljid fara, þá etid allt, sem fyrir ydur verdur sett * og ransakid þad ecki fyrir samvitskunnar sakir. En ef einhverr segir til ydar: þetta eru skurdgoda fórnir, * þá etid ecki fyrir þess manns sakir, sem advaradi ydur * og samvitskunnar vegna. Eg segi samvitskunnar vegna, ecki ydar egin heldur hins; því hvarfyrir skal mitt frelsi dæmast eptir annars manns samvitsku? Ef eg neyti fædunnar med þacklæti,* því er mér hallmælt fyrir þad, er eg gjöri Gudi þackir fyrir? Hvert heldur þér etid, edur dreckid, edur hvad helzt þér gjörid, gjörid þad allt Gudi til dýrdar. Géfid engum hverki Gydíngi né Griekja, né Guds söfnudi, nockra orsök til ásteitíngar, líka sem eg leitast vid ad þócknast öllum í öllu og leita ecki míns hagnadar, heldur margra, svo ad þeir hólpnir verdi *.

27. 28. 29. 30. 31. 32. 33.

## 11. Kap.

Breytid eptir mér, eins og eg breyti eptir Kristi *. 1.

I.) Lastar, ad menn víki frá vidtekinni venju vid útvortis Guds dýrkun v. 2—16. II.) Áminnir ad sýna bródurlegann kærleika vid qvöldmáltídina og fordast manngreinar

V. 27. * Kap. 8, 7. samanb. vid Matth. 15, 11. 17—20.
V. 28. * sjá skíríngar gr. í 25. v. * Kap. 8, 10. 11.
V. 30. * Róm. 14, 6. V. 31. 5 Mós. b. 8, 10. Cól. 3, 17.
V. 32. * Róm. 14. 13.
V. 33. Kap. 9, 19—22. Phil. 2, 4.
V. 1. * Kap. 4, 16.

ar álit og alla ósæmilega hegdun, svo meñ gjøri sig ecki straffs seka v. 17—34.

2. Þad er hrósverdt, brædur! ad þér minnist mín
í øllu og haldid þær reglugjørdir, sem eg hefi
3. tilsett. En vitid þad, ad Kristur er hvers karl-
manns høfud, en karlmadurinn konunnar høfud,*
4. en Gud Krists høfud*. Hverr sá karlmadur,
sem bidur edur spáir med høfudfati á høfdi, ó-
5. vyrdir sitt høfud. En hver kona þar á mót, sem
bidur edur spáir * med beru høfdi, óvyrdir høfud
sitt, því þad er eins og høfud-hár hennar væri
6. burtrakad. Ef konan vill ecki hylja sig, þá láti
hún og afraka sitt høfud-hár; en ef þad er konu
vansi ad klippast edur rakast, * þá hylji hún høf-
7. ud sitt. Karlmadurinn á ecki ad hylja høfudid,
því hann er ímind og geisli Guds*, en konan
8. er þar á mót geisli mannsins. Madurinn er ecki
9. af konunni, heldur konan af manninum; ecki er
heldur madurinn skapadur vegna konunnar, held-
10. ur konan vegna mannsins. Þessvegna ber kon-
unni ad bera lotníngar-merki á høfdi sér fyrir
11. Englanna sakir*. Samt er hverki madurinn án
12. konunnar né konan án mannsins í Drottni. Því

V. 3. * 1 Mós. b. 3, 16. Eph. 5, 23. 1 Tím. 2, 12. * Kap. 3, 23. 15, 27. 28.
V. 5. * Lúk. 1, 67. 2 Mós. b. 15, 20. samanb. vid 1 Cor. 14, 34. 35. V. 6. * 4 Mós. b. 5, 18.
V. 7. * 1 Mós. b. 1, 27. V. 8. * 1 Mós. b. 2, 21—23.
V. 9. * 1 Mós. b. 2, 18.
V. 10. * Hebr. 1, 14. Matth. 18, 10. Post. G. b. 10, 3. 7. 12, 7. samb. Jós. b. 6, 17. 21. Jak. 2, 25.
V. 11. * Gal. 3, 28.

eins og konan er af manninum, * svo er og mad-
urinn fyrir konuna; en allt er af Gudi.* Hugs- 13.
id eptir med sjálfum ydur, hvert þad sómir konu
ad bidja til Guds berhøfdadri? edur segir ecki 14.
ydar egin náttúra ydur, ad karlmanni er þad til
vanvyrdu ad láta hár sitt vaxa? en aptur á mót 15.
konu sæmd ad láta hár sitt vaxa, því henni er
hárid gefid í skýlu stad. En vilji nockurr þrátta 16.
hér um, þá viti hann, ad vér høfum ecki slíka
venju og ecki heldur Guds søfnudir.

Undireins og eg gét þessa, vil eg ecki hrósa 17.
því, ad þér komid saman, ecki til ens betra,
heldur til ens verra. Fyrst heyri eg, ad þegar 18.
þér komid saman í søfnudinum, sé sundurlyndi
ydar á milli og ad nockru leiti trúi eg því.
Flockadrættir verda ad vera ydar á milli, svo ad 19.
þeir þeckist úr, sem gódir eru. Þegar þér kom- 20.
id til samans, er þad ecki til þess ad halda Herr-
ans qvøldmáltíd, * því hverr tekur sína sælu 21.
fyrirfram fyrir sig, þegar til bordhaldsins kémur,
svo einn er svángur, en annar ofmettur. Haf- 22.
id þér ecki heimili hvar þér gétid etid og druck-
id? edur fyrirlítid þér Guds søfnud og forsmáid
þá, sem fátækir eru? Hvad á eg ad segja yd-
ur? á eg ad hrósa ydur? fyrir þetta hrósa eg
ydur ecki. Eg hefi medtekid af Herranum þad, 23.
sem eg hefi kénnt ydur, ad Drottinn Jesús, á
þeirri nótt, sem hann var forrádinn, tók braud-
id, gjordi þackir, braut þad og sagdi: þetta er 24.

---

V. 12. *v. 8. * Róm. 11, 36.
V. 17. * v. 22. V. 20. * Matth. 26, 26—28.
Mark. 14, 22—24. Lúk. 22, 19. 20. samanb.
vid 2 Mós. b. 12 og 24 Kapp.

minn líkhami, sem fyrir ydur verdur brotinn;
25. gjørid þad í mína minníngu. Somuleidis og
svo kaleikinn eptir qvøldmáltídina segjandi:
þessi kaleikur er nýr sáttmáli í mínu blódi*,
gjørid þetta, svo opt, sem þér dreckid, í mína
26. minníngu. Svo opt, sem þér etid þetta braud
og dreckid af þessum kaleik, minnist á Herrans
27. dauda, þángad til hann kémur. Hverr þarfyr-
ir, sem etur Herrans braud og dreckur af hans
kaleik óverduglega, sá verdur sekur vid Herrans
28. líkhama og blód. Sérhverr prófi sig þarfyrir
sjálfann * og eti sídan af braudinu og drecki af
29. kaleiknum; því sá, sem óverduglega etur og dreck-
ur, hann etur og dreckur sér til dóms áfellis,
þared hann ecki gjørir greinar-mun á Herrans
30. líkhama. Þarfyrir eru svo margir á medal yd-
31. ar veikir, vanmáttugir og margir dánir. En ef
vér hefdum prófad oss sjálfa, þá værum vér ecki
32. dæmdir*. En þegar Drottinn straffar, þá er
þad til betrunar*, svo vér ecki skulum fordæmast
33. med heiminum*. Þarfyrir, brædur mínir! þeg-
ar þér komid saman til máltídar, þá meddeilid
34. hverr ødrum. Ef nockurn húngrar, eti hann
heima, svo ad þér ecki komid saman ydur til for-
dæmíngar. Hitt annad mun eg tilsetja þegar
eg kém.

V. 25. * þ. e. þessi kaleikur er sú nýa tru (Gal. 4, 24.), sem stadfestist med minu blódi. samanb. 2 Mós. b. 24, 8.
V. 26. * Jóh. 14, 3. Post. Gb. 1, 11. 1 Cor. 4, 5.
V. 28. * 2 Cor. 13, 5. Gal. 6, 4. V. 31. * þ. e. straffadir.
V. 32. * Spek. b. 16, 11. samanber Ordsqv. b. 23, 13. * Hebr. 12, 5. og eptirf. v.

12. Kap.

I.) Heilagur Andi útbýtir sínum gáfum, hverjum eptir sinni vild v. 1—11. II.) En hverjum og einum ber ad brúka sínar gáfur til sameiginlegs gagns v. 12—30.

Um andans gafur vil eg ecki ad ydur sé ókunn- 1.
ugt, brædur mínir! þér vitid, ad þá þér vórud 2.
heidingjar, gengud þér til málláusra skurdgoda
eptir því, sem þér leiddir vórud. Þarfyrir skul- 3.
ud þér þad vita, ad engi sá, sem talar fyrir
Guds anda, *formælir Jesú,* og ad engi gétur
kallad Jesúm Herra, nema fyrir heilagann
Anda*. Mismunur er á nádargáfum*, en sami 4.
er andinn; mismunur er á embættum, en sami 5.
er Herrann; mismunur er á framqvæmdum, en 6.
Gud er þó hinn sami, er verkar allt í öllum*.
En sérhverjum er géfid ad sýna andans gjöf ödr- 7.
um til gagns; þvíad þessum er fyrir andann géf- 8.
id ad mæla af vísdómi; en ödrum djúpsær þeck-
íng fyrir þann sama anda; en ödrum trú* fyrir 9.
þann sama anda; ödrum læknis gáfa fyrir þann
sama anda; ödrum framqvæmdir kraptaverka*; 10.
ödrum spádóms gáfa; ödrum greind á ad dæma
um andans gáfur; ödrum margháttadar *túng-

V. 2. * Eph. 2, 11. 12. Psálm. 115, 5.
V. 3. * 2 Pét. 1. 21. samanb. Gal. 5, 22. Ephes. 3, 16. * Mark. 9, 39. * 2 Cor. 3, 5.
V. 4. * Róm. 12, 6. 1 Pét. 4, 10. 1 Cor. 7, 7.
V. 5. * Ephes 4, 11.
V. 6. * þ. e. Gudi einum hafa allir þessar ýmislegu gáfur ad þacka, samanber v. 4.
V. 7. * v. 12. 13. V 8. * samanb. Kap 8, 7.
V. 9. * Matth. 17, 20. 21, 21.
V. 10. * Matth. 11, 20. 21. 23. * Post. G. b. 2, 4.

11. ur; ödrum útleggíng túngnanna. En allt þetta
verkar einn og hinn sami andi, sem géfur hverj-
12. júm einum eptir sínni vild; því eins og líkam-
inn er ekki nema einn, þó hann hafi marga limu;
en allir limir þess eina líkhama, sem erú marg-
13. ir, eru einn líkami; eins er Kristur*, þvíad vér
erum allir fyrir einn anda skírdir til ad vera
einn líkami, hvert, sem vér erum Gydíngar, ed-
ur Grickir, þrælar edur frjálsir menn og allir er-
14. um vér dryckjadir svo vér séum einn andi, þvíad
15. líkaminn er ecki einn limur, heldur margir. Þó
fóturinn segdi: fyrst eg er ecki hönd, er eg ecki
partur líkhamans; mundi hann ecki vera þad
16. eins fyrir þad? og þó eyrad segdi: fyrst eg er
ecki auga, er eg ecki partur líkhamans; mundi
17. þad ecki þarfyrir vera líkhamans limur? Ef all-
ur líkhaminn væri auga, hvar væri þá heyrnin?
Ef hann allur væri eyra, hvar væri þá ylmanin?
18. En nú hefir Gud sett limina á líkhamanum
19. hvern einn þar, sem honum leitst. Ef allir lim-
irnir væru einn limur, hvar væri þá líkaminn?
20. En nú eru limirnir margir, en líkaminn einn.
21. Augad má því ecki segja til handarinnar: eg þarf
þín ecki vid; edur höfudid vid fæturnar: eg þarf
22. yckar ecki vid; heldur eru miklu fremur þeir
limir naudsynlegastir, sem audvyrdilegastir sýn-
23. ast; og þeim limum líkhamans sýnum vér mest-
ann sóma, sem vér höldum óálitlegasta og þeim

V. 11. * Róm. 12, 3. 6. 1 Cor. 3, 5. 7, 7.
V. 12. * Róm. 12, 4. 5.
V. 13. * 1 Cor. 10, 15—17. Eph. 4, 4. (máské Matth. 3, 11. Post. G. b. 1, 5. samanb. vid Jóel 2, 28.)
V. 18. * Cól. 2, 19. V. 20. * v. 14.

sem ljótastir eru, prýdast mest, en þeir, sem falleg- 24.
ir eru, hafa þess eckl þerf; heldur hefir Gud
þannig hagad líkhamans samtengíngu, ad sá, sem
midur er, sé mest verdur, svo ecki yrdi ágreinz- 25.
íngur milli líkhamans lima, heldur ad hverr
limurinn beri umhyggju fyrir ödrum. Þar af 26.
er þad, ad hvert sem einn limurinn lídur, lída
allir limirnir med hönum, edur einum vel vegn-
ar, þá samgeldjast allir hinir limirnir. En þér 27.
erud Krists líkami og limir hverr fyrir sig*.
Og suma setti Gud í søfnudinum fyrst Postula, 28.
þarnæst Spámenn, svo kénnara*, þarnæst þá,
sem kraptaverk gjora, svo þá, sem hafa gáfu til
ad lækna, adstoda*, stjórna* og ad tala marg-
háttudum túngum. Eru allir Postular? allir 29.
Spámenn? allir lærifedur? Er øllum gésid ad
gjora kraptaverk? Hafa allir læknisgáfu? Tala 30.
allir túngum* edur géta allir útlagt þær?
Sækist eptir þeim bestu gáfum* og enn 31.
fremur vil eg vísa ydur þann besta veg.

## 13. Kap.

I.) Ef kjærleikann vantar gagna ecki hinar gáfurnar Kap. 12, 31 — Kap. 13, 3. II.) Elskunnar eginnlegleikar v. 4—7. III.) Allar adrar heilags Anda gáfur þverra lokfins, elskan ein er varanleg v. 8—13.

Þó ad eg talad gæti bædi Engla og manna 1.
túngum, en hefdi ecki kjærleikann*, þá væri eg



V. 27. * Róm. 12, 5. V. 28. * Eph 4, 11. 12 2, 20. sb. vid Hebr. 13, 17. * P.G.b. 6, 2. 3. * 1 Tim. 3, 2-5.
V. 30. * Mark. 16, 17. 18. V. 31. * Kap. 14, 1.
V. 1. * Matth. 22, 25—40.

eins og hljómandi málmur og hvellandi bjalla;
2. og þó eg hefdi spádóms gáfu*, vissi alla leyndardóma og hefdi allshattar kunnáttu, hefdi trú
svo mikla, ad eg gæti fjöll flutt*, en hefdi ecki
3. kjærleikann, þá væri eg einskis verdur. Og þó
eg bitadi nidur allar eigur mínar og léti jafnvel brenna mig, en hefdi ecki kjærleikann, væri
þad mér til einskis gagns.
4. Kjærleikurinn er umburdarlyndur, góðviljadur, ecki ofundsjúkur, ecki raupsamur, ecki
5. hrokafullur, gjörir eckert ósæmilegt, er ecki sérplæginn, ecki fljótur til reidi, tilreiknar ecki íllt,
6. gledur sig ecki af óréttvísi en elskar rádvendni*,
7. er þagmælskur, trúir öllu, vonar allt, umber allt.
8. Kjærleikurinn fellur aldrei úr gyldi*, en
hvert heldur þad eru spádóms gáfur, þá munu
þær þverra, edur túngur, þá mun þeim linna,
9. edur kunnátta, þá mun hún þrjóta. Því þeckíng vor er ófullkomin og spádóms gáfa eins;
10. en þegar þad fullkomna kémur þá þverrar þad
11. ófullkomna. Þegar eg var barn, taladi eg sem
barn, var lyndur eins og barn og hugsadi sem
barn; en þegar eg vard fullordinn aflagdi eg
12. barnskúna. Nú sjáum vér gégnum gler í þoku*,
en á sídan berlega; nú þeckjum vér ad nockru
leiti, en þá mun eg sjálfur þeckja eins og eg er
13. sjálfur þecktur. Þetta þrennt: trúin, vonin og

---

V. 2. * Matth. 7, 22. * Matth. 17, 20. 21, 21. samanb. vid Jak. 1, 6.
V. 6. * Psálm. 15, 4. 3 Jóh. v. 4.
V. 8. * samanb. vid Eph. 4, 13.
V. 12. * 2 Cor. 3, 18. samanb. vid 5, 7.

kjærleikurinn er varanlegt, en af þessu er kjærleikurinn mestur.

## 14. Kap.

I.) Ad tala túngum, þegar enginn útleggur, gagnar eckert; en ad tala af spámannlegri andagift er uppbyggilegra v. 1—33. II.) Konur mega ecki tala opinberlega í Sofnudinum og allt á þar ad framfara sómasamlega og med reglu v. 34—40.

1. Stundid eptir kjærleikanum; sækist eptir enum
andlegu gáfunum*, en allrahelzt eptir spámann-
2. legri andagift. Sá, sem talar túngum, talar
ecki vid menn heldur vid Gud; því enginn skil-
ur hann, hann talar í anda hulda lærdóma.
3. En sá, sem talar af spámannlegri andagift, tal-
ar mönnum til uppbyggíngar, áminníngar og
4. huggunar. Sá, sem talar túngu, uppbyggir sjálf-
ann sig; en sá, sem talar af spámannlegri anda-
5. gift, uppbyggir sofnudinn. Eg vildi ad þér all-
ir gjætud túngum talad, en þó heldur ad þér
tøludud af spámannlegri andgift*, því þad er
meira verdt enn ad tala túngum, nema hann
undireins útleggi, svo ad sofnudurinn hafi þar af
6. uppbyggíngu. Hvad mundi eg gagna ydur,
brædur! þó eg kjæmi til ydar og taladi túngum,
nema eg undireins taladi til ydar fyrir opinber-



---

V. 1. * Kap. 12, 4.
V. 5. * v. 24—26. 29—32. samanb. vid Esra 5, 1. og 6, 14. 4 Mós. b. 11, 25—29.

un eda þeckíngu * edur spámannlega andagift,
7. edur lærdóm * ? Því er eins varid og daudum
hlutum, er hljód hafa, hvert heldur þad er hljód-
pípa, edur harpa, ef hún gefur ecki adgreining
hljódunum, hverninn getur madur þá vitad hvad
þad er, sem leikid er á pípuna edur hörpuna?
8. Somuleidis, ef lúdurinn gjærfi óskilmerkilegt hljód,
9. hverr mundi þá búa sig til bardaga? Þannig
og þér, nema ydar mál sé skiljanlegt, hverr veit
10. þá hvad þér talid? þér talid úti vedrid. Til
dæmis: eru svo og svo margar túngur til í heim-
11. inum, en engin, sem er meiníngarlaus. Ef eg
skil ecki meiníngu málsins, er eg fyrir þeim, er
talar, sem útlendíngur og hann eins fyrir mér.
12. Somuleidis og þér, þared þér sækist eptir and-
ans gáfum, þá kappkostid ad vera sem fullkomn-
13. astir sofnudinum til uppbyggíngar. Sá, sem
þarfyrir túngu talar, bidji ad hann géti þad
14. útlagt. Ef eg bid á framandi túngu, bidur ad
sonnu minn andi, en meiníng mín verdur ávaxt-
15. arlaus. Hvernig á þad þá ad vera? Eg vil
bidja í anda, * en bidja undireins svo skiljist; eg
vil sýngja í anda, en sýngja svo þad skiljist;
16. því þó þú lofir Gud í anda, hvernig á hinn
ólærdi ad segja Amen til þinnar lofgjordar, þar
17. ed hann veit ecki hvad þú segir? látum svo vera,
ad lofgjord þín sé falleg, en annar hefir ecki
18. uppbyggíngu þaraf. Gudi mínum sé lof! ad eg
19. tala betur túngum enn þér allir; en heldur vil
eg í sofnudinum tala fimm ord svo skiljanleg ad

V. 6. * Kap. 12, 8. * Post. G. b. 22, 3. samb. vid 5, 34.
V. 15. * Ephes. 5, 19.

eg géti ødrum kénnt, heldur enn tíu þúsund á
framandi túngu. Brædur! verid ecki børn í 20.
skilníngi, heldur eins og børn í hreckvísi*, en
í skilníngi fullordnir.* Í løgmálinu stendur 21.
skrifad: í framandi túngum og med útlendum
vørum vil eg tala til þessa fólks, en samt mun
þad ecki hlýda mér, segir Drottinn. Framandi 22.
túngur eru því teikn, ecki þeim trúudu, heldur
vantrúudu; en hin spámannlega andagift ecki
þeim vantrúudu heldur þeim trúudu. Ef ad 23.
allur søfnudurinn væri saman kominn og all-
ir tøludu túngum og einhverr vantrúadur, edur
sá, sem ecki skildi túngurnar, kjæmi þar inn,
mundi hann ecki segja: ad þér værud galdir?
En ef allir tala med spámannlegri andagift og 24.
einhverr vantrúadur edur vankunnandi kémur
inn, finnur hann leidréttíngar og straffanir í øllu,
sem þér segid og þad í hans hjarta er hulid,* 25.
verdur opinbert, svo ad hann fellur fram á sína
ásjónu og tilbidur Gud* og medkénnir ad Gud
sé sannarlega med ydur*. Hvad flýtur hér af? 26.
Brædur! ad þegar þér í søfnudinum samankom-
id* og sérhverr ydar hefir sálm fram ad færa,
edur einhvern lærdóm, edur eitthvad í framandi
túngu edur upplýsíngu edur útleggíngu,* þá
veri þad allt til uppbyggíngar. Ef nockurr tal- 27
ar túngu, þá séu þad tveir, mest þrír og þad
til skiptis, en einn leggi út. En ef engi er, sem 28
gétur útlagt, þá þegi sá í søfnudinum, (sem á

V. 20. * Matth. 18, 3. 19, 14 * Eph. 4, 14. 15. 2 Pét 2, 2. V. 21. * Esa. 28, 11. eptirf.
V. 25. * Kap. 4, 5. * 1 Sam. 19, 20—24. * Zach. 8, 23
V. 26. * Kap. 11, 18. 20. * Kap. 12, 8. 10.

framandi túngu talar), en tali vid sjálfann sig
29. og Gud. En tveir edur þrír spámenn mega
30. tala, en adrir dæmi um. En ef nockurr, sem
31. situr, fær opinberun, þá þegi sá fyrri. Allir get-
id þér, hverr eptir annann talad spámannlegri
32. andagift, svo ad allir læri og allir huggist, því
spámanna andar eru spámennum undirgéfnir,
33. med því Gud er ecki óeirdar * heldur fridarins
Gud*. Eins og vidgengst í ellum sefnudum
34. kristinna manna, ber ydrum konum ad þegja í
sefnudunum. Því þeim er ecki leyft ad tala, heldur
35. ad hlýda, * eins og líka legmálid býdur. * En
ef þær vilja frædast í einhverju, spyrji þær menn
sína heima, * því þad er ljótt fyrir konurnar ad
36. tala í sefnudinum. Edur hefir Guds lærdómur
frá ydur útgengid? eda erud þér þeir einustu, er
37. hann er kominn til? Ef nockurr þykist spámad-
ur vera, edur gæddur andans gáfu, þá viti hann,
ad þad, sem eg hér skrifa ydur, er Herrans bod.
38. Ef nockurr vill ecki vid þetta kannast rádi hann
39. því. Kappkostid því, Brædur! ad edlast spá-
mannlega andagift; ecki skulud þér heldur banna
40. ad tala túngum; en allt framfari med sidsemi
og reglu.

15. Kap.

---

V. 29. * Kap. 12, 10. 1 Jóh. 4, 1.
V. 33. * Jak. 3, 16. * Róm. 15, 33.
V. 34. * 1 Tim. 2, 12. samanb. vid Eph. 5, 22. Tit. 2, 3. 1 Cor. 11, 3. * 1 Mós. b. 3, 16.
V. 35. * 1 Tim. 2, 11. V. 40. * Cól. 2, 5.

I.) Páll vitnar um Krists upprisu v. 1—11. **15. Kap.**
II.) Rekur þá, sem neita upprisunni v. 12—34. III.) Kénnir, hverninn þeir daudu muni upprísa v. 35—53. IV.) Huggar hér med þá trúudu v. 54—58.

Eg vil aptur minna ydur, brædur! á nádar 1.
bodskap þann, er eg ádur hefi bodad ydur og þér
veittud medtøku *, vid hvern þér hafid og svo 2.
haldid støduglega og sem mun ydur einninn hólpna
gjøra, ef þér gætid hans eins og eg kénndi yd-
ur hann*, nema svo sé, ad þér hafid ófyrirsyn-
ju trúna tekid. Eg kénndi ydur fyrst og fremst 3.
þann lærdóm*, sem eg hefi medtekid: ad Kristur
væri dáinn vegna vorra synda * eptir Ritníng-
unum, * og grafinn og upprisinn á þridja degi 4.
eptir Ritníngunum og sé sjedur af Kefasi * og 5.
þar eptir af þeim tólf *. Þar eptir var hann 6.
sjedur í einu af meir en fimm hundrud brædrum,
er flestir lifa allt til þessa dags, en sumir eru
dánir. Þar eptir birtist hann Jakobi, sídan øll- 7.
um Postulunum.* Sídast allra opinberadist 8.
hann og svo mér*, svo sem ótímabærum burdi;
því eg er sídstur Postulanna, og ecki verdur ad 9.

V. 1. * Gal. 1, 11. 12.
V. 2. * Róm. 1, 16. 1 Cor. 1, 21.
V. 3. * Matth. 22, 38. * 2 Cor. 5, 15. * Psálm. 22, Esa. 53, 6. eptirf. v. Zach. 13, 7. samanb. vid Post. G. b. 2, 30—34. 1 Pét. 1, 10—12.
V. 4. * Psálm. 16, 10.
V. 5. * Lúk. 24, 34. * Lúk. 24, 36. Mark. 16, 14. Jóh 20, 24. V. 7. * Lúk. 24, 50.
V. 8. * Kap. 9, 1. Post. G. b. 9, 5. 17.
V. 9. * Post. G. b. 9, 1. Gal. 1, 13.

kallast Postuli, þvíad eg hefi ofsókt Guds söfnud;
10. en af nád Guds er eg þad eg er, og nád hans
vid mig hefir ecki verid til forgéfins*, heldur
hefi eg unnid meira enn allir hinir; þó ecki eg,
11. heldur Guds nád, sem med mér er*. Þad sé
nú eg, edur þeir, þá kénnum vér þannig og þann-
ig hafid þér trúad.
12. En ef þad er kénnt, ad Kristur sé upprisinn,
hverninn géta þá nockrir af ydur sagt, ad daud-
13. ra upprisa sé ecki til? en ef daudra upprisa er ecki
14. moguleg, þá er Kristur heldur ecki upprisinn; en
ef Kristur er ecki upprisinn, þá er vor kénning ó-
15. nýt og trú ydar líka ónýt. Vér finnumst þá
og ljúgvottar Guds, þar ed vér hofum vitnad
um Gud, ad hann hafi uppvakid Krist frá
dauda,* er hann hefir ecki uppvakid, ef daudir
16. ecki upprísa; því ef daudir ecki upprísa*, þá er
17. Kristur ecki heldur upprisinn; en ef Kristur er
18. ecki upprisinn, þá er ydar trú ónýt,* þér erud
þá enn nú í ydar syndum * og þeir kristnu, sem
19. dánir eru, fortapadir. Ef vér einúngis í þessu
lífi settum vora von til Krists, þá værum vér
20. hinir vesælustu allra manna. En nú er Kristur
upprisinn frá daudum, frumgródi allra þeirra,
21. sem dánir eru; því þared daudinn kom fyrir
einn mann*, kom og upprisa daudra fyrir einn

---

V. 10. * Kap. 10, 3. 2 Cor. 12, 9.
V. 12. * Matth. 22, 23. Post. G. b. 23, 8. samanb. vid Ephes, 2, 8.
V. 15. * Post. G. b. 2, 24. 32. V. 16. * Róm. 8, 11.
V. 17. * V. 11. Róm. 8, 2. 3.
V. 20. * Post. G. b. 26, 23. Cól. 1, 18. Opinb. b. 1, 5.
V. 21. * 1 Mós. b. 3, 3. 6. Róm. 5, 12. 18.

mann*. Hvíad líka sem allir deya í Adam, 22.
svo munu og allir lífgast í Kristi*, sérhverr 23.
í sinni röd; Kristur er frumgródinn, þar næst
munu þeir, sem Kristi tilheyra upprísa* í hans
tilkomu*. Þar eptir kémur endirinn*, þá hann 24.
mun selja Gudi og Födur ríkid í hendur, þá
hann búinn er ad afmá allt veldi, herradæmi og
makt*; þvíad honum ber ad ríkja, þar til hann 25.
hefir lagt alla óvini undir sínar fætur*. Sá 26.
sídasti óvinur, sem afmáist, er daudinn; því 27.
allt hefir hann undir hans fætur lagt*. En
þegar hann segir, ad allt sé honum undirgéfid,
þá er þad audsætt, ad sá er þar frá undanskil-
inn, er allt lagdi í hans vald. En þegar hann 28.
er búinn ad leggja allt undir hans veldi, þá legg-
ur sjálfur Sonurinn sig undir þess veldi, er ád-
ur hafdi lagt allt undir hans vald, svo ad Gud
sé allt í öllu. En hvad gjöra þeir, er láta 29.
skírast fyrir hina daudu, ef daudir öldúngis ecki
upprísa? og því láta þeir skíra sig fyrir þá? Því 30.
erum vér og í sífeldum háska? Eg er daglega 31.

---

V. 21 * Róm. 5, 21. 1 Cor. 15, 26. 55. 57. 2 Tím. 1, 10. Post. G. b. 17, 31. Phil. 3, 20. 1 Thess. 4, 13. 5, 3. 2 Thessal. 2, 1—3.

V. 22. * 1 Thess. 1, 7. 10. 4, 14. Post. G. b. 26, 23.

V. 23. * 1 Thess. 4, 16. * Matth. 24, 42. 26, 64.

V. 24. * Matth. 24, 6. * Matth. 2, 6. samanb. vid Post. G. b. 26, 18.

V. 25. * Ps. 110, 6. 2, 7—10. s. b. vid Jóh. 18, 36. 37.

V. 27. * Phil. 2, 9—11. samanb. vid Psálm. 8, 7.

V. 28. * Kap. 3, 23. 11, 3. Jóh. 14, 28. samanb. vid Matth. 28, 18. Hebr. 2, 8.

V. 29. * Matth. 25, 16. eptirf. v.

V. 30. * Kap. 4, 9. Róm. 8, 36.

í daudans hættu*; þad sver eg vid lofstýr þann,
sem eg af ydur hefi í þjónustu vors Herra Je-
32. sú Krists. Hvert gagn hefdi eg af því, ad eg
hefi vid óarga dýr (ad eg qvedi svo ad ordi)
barist í Ephesus, * ef ad daudir ecki upprísa?
33. Látum oss eta og drecka, því á morgun deyum
34. vér*. Látid ecki villa ydur; vondt samfélag
spillir gódum sidum*. Vaknid fyrir alvøru og
syndgid ecki*; sumir þeckja ecki Gud*. Eg segi
þetta ydur til blygdunar.
35. En máské einhverr segi: hvernig géta daud-
ir upprísid?* med hvílikum líkama munu þeir
36. framkoma? Þú heimskíngi! þad, sem þú sáir
37. lifnar ecki aptur, nema þad deyi; og þad, sem
þú sáir, er ecki sá líkami, er þad sídar verdur,
heldur einbert frækorn, til dæmis: hveitis, edur
38. einhvers annars; en Gud géfur því líkama ept-
ir sem hann vill og sérhverju frækorni sinn eginleg-
39. ann líkama. Ecki er allt hold sama hold; held-
ur er annad mannanna, annad hold dýranna,
40. annad fiskanna, annad fuglanna. Til eru bædi
himneskir líkhamir, og jardneskir líkhamir, en
ønnur er fegurd þeirra himnesku, ønnur þeirra
41. jardnesku. Ødruvísi er birta sólarinnar, ødru-
vísi túnglsins og enn ødruvísi stjarnanna (því
42. stjarna er stjørnu bjartari). Þannig er og var-
id upprisu hinna daudu. Hér er nidursád for-

---

V. 31. *2 Cor. 4, 10.
V. 32. *2 Cor. 1, 8. *Esa. 22, 13. Spek. b. 2, 6.
V. 33. *Kap. 5, 6. 7. Eph. 5, 6.
V. 34. *Róm. 13, 1 Cor. 16, 13. Eph. 5, 14. *1 Thess. 4, 5. V. 35. *Ezech. 37, 3.
V. 36. *Joh. 12, 24. V. 38. *1 Mós. b. 1, 11.

gengilegum líkhama, en upprís óforgengilegur;
hér er nidursád óásjálegum líkhama, en upprís 43.
vegsamlegur*; þad er nidursád veikum, en upp- 44.
rís máttugur; náttúrlegum líkama verdur nid-
ursád, en upprís andlegur líkami. Til er nátt-
úrlegur líkami, til er líka andlegur líkami. Svo 45.
stendur og skrifad: hinn fyrsti madur Adam vard
ad lifandi sálu, hinn sídari Adam ad lífgandi
anda. Ecki kom hinn andlegi fyrst, heldur hinn 46.
náttúrlegi, þar eptir hinn andlegi. Hinn fyrri 47.
madur var mold af jordu, hinn sídari madur er
Herrann af himni*. Eins og sá jardneski var, 48.
þannig eru þeir jardnesku* og eins og sá himn-
eski var, þannig og þeir himnesku; og eins og 49.
vér hofum borid líkíng þess jardneska, eins mun-
um vér og bera líkíng þess himneska*. Hér med 50.
vil eg sagt hafa, brædur! ad hold og blód gét-
ur ecki odlast Guds ríki*, né hid forgengilega ó-
forgengilegleikann. Sjá! eg segi ydur leyndar- 51.
dóm: vér munum ecki allir sofna, en allir um-
breitast í vetfángi, í einu augnabliki, vid hinn 52.
sídasta lúdurs þyt*; (því lúdurinn mun gélla og
hinir daudu uppvísa óforgengilegir, en vér um-
breytast), því þad forgengilega verdur ad íklædast 53.
óforgengilegleikanum og hid daudlega ódaudleg-
leikanum.

---

V. 43. * Phil. 3, 21. V. 45. * 1 Mós. b. 2, 7.
V. 47. * Jóh. 3, 31, V. 48. * 1 Mós. b. 5, 3.
V. 49. * 2 Cor. 4, 11. Róm. 8, 29.
V. 50. * Jóh. 3, 5. 6.
V. 52. * Matth. 24, 3. 1 Thess. 4, 16. samanb. vid 4 Mós. b. 10, 7. V. 53. * 2 Cor. 5, 4.

54. En þegar hid forgengilega verdur óforgengi-
legt og hid daudlega ódaudlegt, þá rætist þad,
55. sem skrifad er: daudinn er uppsvelgdur í sigur;
daudi! hvar er þinn broddur*? gref! hvar er
56. þinn sigur? en broddur daudans er syndin, en
57. afl syndarinnar er lögmálid. Gudi sé þackir,
sem ofs hefir sigurinn géfid fyrir vorn Drottinn
58. Jesúm Krist! Brædur mínir elskanlegir! verid
þess vegna stödugir, óbifanlegir, ætíd ávaxtar-
samir í Herrans verki, med því þér vitid ad
ydar erfidi í Herrans þjónustu ecki muni verda
forgéfins.

## 16. Kap. Nidurlag Bréfsins v. 1—24.

1. Hvad vidvíkur ydar ölmusu safni handa enum
kristnu*, þá hegdid ydur þar í eins og eg hefi
2. bodid söfnudinum í Galatíu. Hverr ydar
leggi afsídis heima hjá sér á fyrsta degi vikunn-
ar* og geymi í einum sjód, eptir sem útvegur
hans hefir heppnast, svo ad safnid þá ecki þurfi
3. fyrst ad ské, þegar eg kém. En þegar eg kém,
mun eg senda þá, sem þér álítid hæfa, med gáfu
4. ydar til Jerúsalem og skrifa med þeim; og ef
eg finn þad ómaksverdt ad eg sjálfur fari, þá
5. læt eg þá fara med mér. Eg mun koma til yd-
ar þegar eg fer um Makedonía (því um hana

V. 55. * Es. 25, 8. Hós. 13, 14. * sb. Ps. 18, 5. 6. 91, 3.
V. 56. Róm. 3, 20. 4, 15. 7, 8. 13.
V. 57. 2 Cor. 2, 14. samanb. vid 1 Jóh. 5, 5.
V. 58. Tob. 4, 22. Matth 16, 27. 2 Cor. 5, 10.
V. 1. * 2 Cor. 8, 4. sb. vid Post. G. b. 11, 29. Róm. 12, 13.
V. 2. * Post. G. b. 20, 7. V. 4. * 2 Cor. 8, 19.

fer eg *) og dvel kannské hjá ydur, jafnvel verd　6.
fyrr vetrar-lángt; þér gétid þá leidbeint mér
hvert sem eg fer. Nú vil eg ecki koma vid hjá　7.
ydur, en eg vona, ef Gud lofar, ad dvelja nock-
ra stund hjá ydur. Allt til Hvításunnu verd eg　8.
fyrr í Ephesus, því mér hefir þar mikid og gott　9.
tækifæri géfist *; þó mótstödu-mennirnir séu
margir *.
Ef Tímótheus skyldi koma til ydar, þá sjá-　10.
id svo til, ad hann géti óttalaus hjá ydur verid,
þvíad hann vinnur ad Drottins verki eins og eg.
Enginn forsmái hann *, greidid heldur ferd hans　11.
med fridi, svo ad hann komist til mín, því eg
vænti hans med Brædrunum *. Bródur Apol-　12.
ló * hefir eg mikillega bedid ad hann fylgdist med
brædrunum til ydar, en hann vill ómögulega
fara nú strax, en mun koma þegar hann fær
hentugleika þar til. Vakid *, haldid fast vid　13.
trúna, sýnid ydur karlmannlega og kröptuga *,
audsýnid kjærleika í öllu.　14.
Enn þá verd eg ad bidja ydur eins, Bræd-　15.
ur! þér vitid ad Stephans * heimilis-fólk var
frumgródi Achaju * og hefir helgad sig
þjónustu kristinna *; sýnid þvílíkum undirgéfni　16.

V. 5. * Post. G. b. 19, 21. 2 Cor. 1, 16.
V. 6. * Róm. 15, 24.
V. 9. * Post. G. b. 19, 5—8. 10. 20. * Post. G. b. 19, 8. 23—28. 34.
V. 10. * Kap. 4, 7. sjá og Phil. 2, 19. 20.
V. 11. * 1 Tím. 4, 12. * Post. G. b. 19, 22.
V. 12. * Kap 3, 4—6. * Post. G. b. 18, 24. 19, 1.
V. 13. * Kap. 15, 34. * Eph. 6, 10. eptirf. v. Cól. 1, 11. * 1 Tim 1, 5.
V. 15. * 1 Cor. 1, 16. * sb. Róm. 16, 5. * Róm. 16, 1.

og øllum þeim, sem eru tilhjálpandi og vinna
17. þar að. Eg gleðst við Stephans, Fortúnatí
og Achaici nærveru; þeir hafa bætt mér yðar
18. søknuð*; þeir hafa bæði gladt mig og yður.
Hafið mætur á slíkum mønnum.

19. Yður hellsa Søfnuðirnir í Asíu. Aqvílas
og Priskilla* biðja mikillega að heilsa yður í
Drottni, ásamt søfnuði þeim, sem samankém-
20. ur í þeirra húsi. Allir bræðurnir heilsa yður.
Verið þessa qveðju hverr til annars með heilog-
um kossi.

21. Qveðjan er skrifuð með minni egin hendi.
22. Ef nockurr er sá, sem ecki elskar Drottinn Jesúm
23. Krist, sá sé bølvaður! Drottinn kémur. Náð-
24. in Drottins vors Jesú Krists sé með yður! minn
kjærleiki sé með yður øllum í Jesú Kristi,
Amen!

S. Páls

---

V. 16. * Phil. 2, 29. 1 Thess. 5, 12. 1 Tim. 5, 17.
V. 17. * Phil. 2, 30. Philem. v. 13.
V. 19. * Post. G. b. 18, 2. 3.
V. 21. * 2 Thess. 3, 17. Cól. 4, 18.

# S. Páls sídari Pistill
## til Corinthu-manna.

1.) Huggun og þolinmædi Páls í allskonar mótgángi v. 1—14. II.) Hann tilgreinir hvers vegna hann hafi ecki komid til Corinthu v. 15—24. **I. Kap.**

Páll, ad Guds vilja Postuli Jesú Krists og 1.
bródir Tímótheus, Sefnudi Guds í Corinhtu-
borg og ellum kristnum í Achaju; nád sé med 2.
ydur og fridur af Gudi vorum Fødur og Drottni
Jesú Kristi.
Lofadur veri Gud og Fadir Drottins vors 3.
Jesú Krists, miskunsemdanna Fadir og Gud all-
rar huggunar*, sem huggar oss í ellum vorum 4.
þjáníngum, svo ad vér getum aptur huggad adra
í allslags þjáníngu med sømu huggun, er Gud
huggadi oss med; því eins og vér høfum fyrir 5.
mergum þjáníngum ordid vegna Krists*, svo
høfir hann og fyrir Krist yfirgnæfanlega veitt
oss hugganir, því hvert heldur vér lídum þján- 6.
íngar, þá er þad ydur til huggunar og heilla,

V. 3. * Kap. 7, 6.
V. 5. * 2 Cor. 4, 10. samanb. vid Ps. 34, 20. 94, 19.

edur vér ødiustum huggun, er þad ydur til þeirr-
ar huggunar, sem mun sýna sig kreptuga til þol-
inmœdi í sømu þjáníngum, sem vér og lídum.
7. Og þessi vór von um ydur er stadføst, þarer vér
vitum, ad eins og þér erud hluttakandi ordnir
í þjáníngunum, eins munud þér verda þadí hugg-
8. uninni. Því vér viljum ecki dylja fyrir ydur,
Brædur! ad þjáníngar þær, sem vér urdum fyr-
ir í Asíu, vóru yfirmáta þúngar og þýngri enn
vér gætum þær borid, svo vér ørvæntum jafn-
9. vel um líf vort. Já, oss sýndist med sjálfum
oss ad vér þegar hefdum fengid vorn dauda-dóm,
svo vér eckert traust settum til sjálfra vor, held-
10. ur til Guds*, sem uppvekur dauda*. Hann
frelsadi oss frá þessari miklu daudans hættu og
frelsar og honum treystum vér til þess, ad hann
11. eins hér eptir muni frelsa oss, ef þér og svo styrk-
id þar til med ydar bænum fyrir oss,* svo ad
sú nád, sem oss er veitt fyrir margra bænir, veg-
samist vor vegna af mørgum med þackargjørd.
12. Sá vitnisburdur vorrar samvitsku, er vér hrós-
um,* ad vér hefum hegdad oss falslaust í heim-
inum og med Gudi velþóknanlegum grandvar-
legleika*, ecki fyrir holdlega speki*, heldur Guds

---

V. 7. * 2 Thess. 2, 16. 17.
V. 8. * Post. G. b. 19, 23. samanb. vid 20, 3. 1 Cor. 15, 32. 16, 9.
V. 9. * Jer. 17, 7. * Róm. 4, 17.
V. 10. * 2 Tim. 4, 18.
V. 11. * Róm. 15, 30. Phil. 1, 19. Philem. v. 22.
V. 12. * Hebr. 13, 18. * Matth. 10, 16. * 1 Cor. 2, 4—13.

nád, allra helzt hjá ydur; því ecki skrifa eg yd- 13.
ur annad enn þad, sem þér lesid edur og getid
skilid og eg vona þér reynid oss svo til endaloka,
eins og þér búnir erud ad þeckja oss ad nockru 14.
leiti, ad vér munum verda ydur til sóma, eins
og þér oss, á degi Drottins Jesú.

J þessu trausti ásetta eg mér fyrri* ad 15.
koma til ydar, svo ad þér í annad sinn hefdud
fegnud* og ad fara um hjá ydur til Makedoníu 16.
og koma aptur þadan til ydar og fá ydar fylgd
til Gydíngalands. Sýnda eg nockurt laüslyndi 17.
í því ad eg ásetti mér þetta? edur sýndi þessi
ásetníngur minn holdlegt ráddag, svo mitt já,
væri tómt já og nei tómt nei?* Sá sannordi 18.
Gud sé mitt vitni, ad lærdómur vor hjá ydur
var ecki já og nei!* Guds Sonur Jesús Krist- 19.
ur, sem vér kénndum ydur, nefnilega: eg, Syl-
vanus og Timótheus*, var ecki já og nei, held-
ur var allt í honum já; því svo morg, sem Guds 20.
fyrirheit eru, þá eru þau í honum af oss sonn-
ud ad vera já og amen, Gudi til dýrdar. En 21.
sá, sem heldur oss ásamt ydur fast vid Krist og
hefir smurt oss, er Gud, já ed og hefir sett 22.
S

V. 14. * Kap. 5, 12. samanb. vid Phil. 2, 16. 1 Thessal. 2, 19: 20.
V. 15. * 1 Cor. 16, 5. * samanb. vid Róm. 1, 11.
V. 16. * 1 Cor. 16, 6.
V. 17. * Matth. 5, 37. V. 18. * nefnil. hvikull.
V. 19. * Post. G. b. 18, 5.
V. 21. * 1 Jóh 2, 20. samanb. vid v. 24. 27. Jóh. 17, 18. 1 Pét. 5, 10.

sitt merki á oss *, géfid pant andans í vor
23. hjertu *. En eg kalla Gud mér til vitnis um
þad *, ad eg af hlífd vid ydur ecki hefi komid til
24. Corinthu-borgar. Ecki þess vegna ad vér viljum
drottna yfir ydar trú, heldur hjálpa til
ydar gledi; því þér standid stødugir í trúnni.

2. Kap. I.) Sama efni v. 1—4. II.) Bidur ad inntaka
þann aptur í Søfnudinn, sem hafdi vidréttst v. 5—11. III.) Þackar Gudi,
sem blessar hans embætti v. 12—17.

1. Med sjálfum mér hefi eg ásett ecki ad koma
2. aptur med sorg til ydar; því ef eg hryggi ydur,
hverr gledur mig þá nema sá, er eg ádur hafdi
3. hryggt? Þetta skrifa eg ydur til þess, ad þegar
eg kém, hafi eg ecki hrygd af þeim, er eiga
ad gledja mig. Eg hefi þad traust til ydar
allra, ad ydur øllum sé til gledi þad, sem mér
4. er til gledi. Med mikilli sorg og hjartans
ángri og mørgum tárum skrifadi eg ydur, ecki
til þess ad hryggja ydur, heldur til þess þér þar
af sæud þá miklu elsku, er eg hefi til ydar.
5. Ef nockurr er sá, sem hefir hrigdar ollad,
þá hefir hann ecki hryggt mig, heldur ad nockru
leiti ydur alla, eg vil ecki segja annad þýngra.
6. Látid honum duga þá stroffun, sem á hann er

V. 22. * Jóh. 6, 27. samanb. vid 8, 18. Post. G. b. 10,
38. Opinb. b. 7, 2. 3. * Eph. 1, 13. 14. 4, 30.
Róm. 8, 14 — 17. 2 Cor. 5, 5. 1 Jóh. 3, 24.
4, 13. V. 23. * 2 Cor. 11, 31.
V. 1. * 2 Cor. 12, 21.
V. 6. * 1 Cor. 5, 5. samanb. vid Lúk. 17, 3.

legd af morgum, svo þér ætíð nú því heldur ad 7
fyrirgéfa honum og hugga hann, svo ad ómikil
sorg ecki gjeri útaf vid hann. Eg bid ydur þar 8.
fyrir ad sýna honum elsku; því til þess skrif- 9.
adi eg ydur, ad eg fengi ad vita hverninn þér
kéhnt ust, hvert þér erud hlýdnir í ollu. En ef 10.
þér fyrirgéfid þessum, þá eg í sama máta; því
ad og svo eg, ef eg hefi fyrirgéfid nockud, þá
hefi eg fyrirgéfid þad ydar vegna fyrir Krists
áugliti, svo vér ecki verdum sigradir af Satan; 11.
því oss eru ecki ókunn hans vélabregd.
Þegar vér komum til Tróas* til ad kénna 12.
nádar lærdóm Krists, þá, þótt gott tækifæri gæf-
ist oss þar til, hafdi eg ecki ró í mér til þess,
af því eg hitti ecki bródur minn Títum; qvaddi 13.
þá því og fór til Makedóníu. Þacklir séu Gudi, 14.
sem ávalt géfur oss sigur í Kristi og lætur hans
þeckíngar ylm* allstadar af oss útbreidast. Vér 15.
erum fyrir Gudi Krists ylmur*, bædi fyrir enu
hólpnu og fortopudu; þessum banvænn ylmur 16.
til dauda, hinum lífgandi ylmur til lífs*; en
hverr er þar til hæfur*? Ecki meingum vér 17.
Guds lærdóm, sem margir gjora, heldur kénn-
um vér fyrir augsýn Guds Krists trú ómeing-
áda, svo sem hún er frá Gudi komin.



V. 12. * Post. G. b. 16, 8. eptirf. v.
V. 14. * Þeckínguna á hans lærdómi.
V. 15. * Þad medal, fyrir hvert kristileg þecking útbreid-
ist. Páll likir sér og hinum Postulunum vid
reykélsis offur, of því helgad hofdu allt sitt lif
og krapta kristnibodinu.
V 16. * 1 Cor. 1, 18. * af eginn kroptum, 2 Cor. 3, 5. 6.

3. Kap. Páll talar um vegsemd þess evangeliska embættis og þess djörfúng v. 1—18.

1. Munum vér aptur vera farnir að hæla oss
sjálfum? eður munum vér þess viðþurfa eins og
sumir, að fá hólsbréf til yðar eður frá yður til
2. annara? Þér eruð vort bréf * skrifað í vor
3. hjörtu, lesið og alkunnugt öllum mönnum; því
alkunnugt er, að þér eruð Krists bréf af oss
ritað, ecki með bleki, heldur lifanda Guðs anda,
ecki á steinspjöld*, heldur hjartans holdspjöld*.
4. Þetta traust höfum vér til Guðs vegna Krists.
5. Ecki svo, að vér af sjálfum oss hæfir séum að
hugleiða nockuð svo sem af sjálfum oss, heldur er
6. vor hæfilegleiki frá Guði; hann hefir gjört oss
hæfa til að vera þjóna þess nýa sáttmála, ecki
bókstafsins, heldur andans; því bókstafurinn deyð-
7. ir, en andinn lífgar. En ef þjónusta, sem á
steina var kloppuð var svo dýrðleg, að Israels
synir ecki þoldu að horfa á Mósis andlit fyrir
8. bjartleiks sakir*, er þó átti að þverra; hversu
miklu dýrðlegri mun þá verða þjónusta andans?
9. Ef þjónusta þess, sem fordæmir, var svona
dýrðleg, þá mun þjónusta þess, sem réttlætíng-
10. una boðar, miklu dýrðlegri vera, svo að hið
dýrðlega * er að þessu leiti ecki dýrðlegt í sam-
11. anburði við hins* yfirgnæfandi dýrð. Ef það,

V. 2. * 1 Cor. 9, 2.
V. 3. * 2 Mós. b. 24, 12. * Ezech. 11, 19.
V. 6 * samanb. Róm. 4, 15. 3, 20. 21. 7, 7—11.
V. 7. * 2 Mós. b. 34, 29—35.
V. 10. * Mósis trú. * ennar kristilegu trúar.
V. 11. * Hebr. 12, 25—28.

sem afmáð átti var dýrðlegt, hversu miklu fram-
ar þá það, sem varanlegt er. Með því vér 12.
höfum þessa von, svo tölum vér alldjarflega, og 13.
ekki eins og Móses, er hengdi skýlu fyrir andlit
sitt*, svo að Ísraels synir skyldu ekki sjá enda-
lok ens forgengilega. Enda hefir skilníngur þeirra 14.
skjóskygn verið, því allt til þessa dags viðvarir
hin sama skýla óburttekin undir gamla sáttmál-
ans lestri, því fyrir Krist verður hún burttekin.
En allt til þessa dags hvílir skýla yfir skilníngi 15.
þeirra, þegar Mósis Lögmál er lesið; en ef að þeir 16.
snéru sér til Drottins mundi skýlan burttakast.
Drottinn er andi*, en hvar hans andi er þar 17.
er frelsi. En vér allir er skoðum, svo sem í spegli 18.
með beru andliti Drottins dýrð, umminduðum,
svo sem af Drottins anda, eptir þessari sömu
mind til meiri og meiri dýrðar.

I.) Páll forsvarar sinn kénnslu-máta v. 1—6. 4. Kap.
II) Talar um sínar þrautir og huggun
v. 7—18.

Með því vér höfum þvílíka þjónustu á hendi, 1.
eptir þeirri náð, sem oss er veitt, þá letjumst
vér ekki, heldur afsegjum alla leynilega svívyrð- 2.
íngu, brúkum hverki vélar né fölsum Guðs orð,
heldur, líka sem fyrir Guðs augliti, mælum fram
með oss fyrir hvers manns samvitsku, með sann-
leikans auglýsíngu. Ef nockrum er vor kénníng 3.
hulin, þá er það fortöpuðum, hverra skilníng 4

V. 13. * 2Mós. b. 34, 33. 35.
V. 16. * 1 Cor. 2, 14—16. V. 17. * Jóh. 4, 24.

þessarar aldar höfdíngi hefir svo blindad,* ad
þeir ecki sjá birtu þess dýrdlega nádarlærdóms
5. Krists, sem er Guds mind. Ecki prédikum vér
oss sjálfsa, heldur Drottinn Jesúm Krist,* en oss
6. ydar þjóna Krists vegna; því Gud, sem baud ad
ljós skyldi skína úr mirkri,* hefir látid ljós
skína í vor hjörtu, svo þecking Guds dýrdar í
Kristi Jesú skyldi augljós verda.
7. En þenna fjársjód berum vér i leirkérum,
svo ad kraptarins stærd sé Guds, en ecki af oss.
8. Í öllu þjökumst vér, en látum þó ecki hugfall-
ast; erum vonlitlir, en örvýlnumst þó ecki; of-
9. sóktir, en þó ecki hjálparlausir; felldir til jardar,
10. en tortýnumst þó ecki. Jafnan berum vér deyd-
íngu Jesú á líkamanum, svo ad Jesú líf aug-
11. lýsist á vorum líkama; því þótt vér lifum, er-
um vér jafnan til dauda seldir vegna Jesú, svo
ad hans líf einnig augljóst verdi í vorum daud-
12. lega líkama. Daudinn sýnir því sinn krapt í
13. oss, en lífid í ydur. En med því vér hefum
hinn sama anda trúarinnar, eins og skrifad er*:
eg trúdi, þarfyrir taladi eg, vér trúum og þar
14. fyrir tölum vér og þared vér vitum, ad sá,
sem uppvakti Drottinn Jesúm, muni fyrir
Jesúm uppvekja oss og framleida ásamt
15. ydur. Allt þetta er ydar vegna, svo
ad hin mikla nád, vegna margra þackargjördar

V. 4. * samanb. Post. G. b. 5, 3. Eph. 2, 2. Jóh. 12, 31. 14, 30.
V. 5. * Post. G. b. 2, 36. 10, 36.
V. 6. * 1 Mós. b 1, 3. 16. V. 7. * 1 Cor. 3, 5. 12, 9.
V. 13. * Psálm. 116, 10.
V. 14. * Róm. 8, 11. 1 Cor. 5, 1. 10.

yfirgnæfi Gudi til dýrdar. Þar fyrir let- 16.
jumst vér ecki, því jafnvel þó vor ytri madur
hrørni, endurnýast samt vor innri madur dag
eptir dag; því vor þreyngíng, sem skammvinn 17.
er og léttbær, ablar oss yfirgnæfanlegrar eilífrar
dýrdar; oss, sem ecki lítum til þess sýnilega, 18.
heldur ósýnilega; því hid sýnilega er tímanlegt,
en hid ósýnilega eilíft.

I.) Sama efni v. 1—11. II.) Talar um sinn **5. Kap.**
verdugleika, sem Evangelii Kénnara v.
12—21.

Því vér vitum ad jafnvel þó þessi vor jardneska 1.
tjaldbúd verdi nidurbrotin, høfum vér samt hús
af Gudi, ecki med høndum gjørt, eilíft á himni.
Samt andvørpum vér þess vegna, ad oss láng- 2.
ar til ad fá yfir oss hid himneska húsid (því klædd- 3.
ir, en ecki naktir, munum vér þá fundnir verda).
En á medan vér erum í þessari tjaldbúd, styn- 4.
jum vér undir byrdi vorri, þared vér viljum ecki
afklædast, heldur yfirklædast, svo hid daudlega
uppsvelgist af því ódaudlega. En sá Gud, sem 5.
þetta hefir oss fyrirbúid, hefir og géfid oss sinn
anda til pants hér uppá. Vér erum því jafn- 6.
an øruggir og vitum ad á medan vér búum í
líkhamanum erum vér fjærlægir Drottni. Vér 7

V. 17. * Matth. 5, 12. Róm. 8, 18.
V. 1. * 1 Cor. 4, 7. 2 Pét. 1, 13. 14. samanb. vid 1 Cor. 15, 42. og eptirf.
V. 4. * 1 Thess. 4, 15—17. 1 Cor. 15, 51—54.
V. 5. * 1 Cor. 1, 22. Róm. 8, 14—17.
V. 7. * Róm. 8, 24. 1 Cor. 13, 12. Hebr. 11, 1.

8. lifum í von en ecki skodun, en erum samt or-
uggir, jafnvel þó vér heldur viljum fríast vid lík-
9 amann og vera hjá Drottni; þess vegna kapp-
kostum vér líka ad þócknast Drottni, hvert held-
ur vér erum íklæddir líkhamanum, edur utan
10. hans; því allir hljótum vér ad birtast fyrir
Kristis Dómstóli, svo hverr einn fái laun eptir
sinni breytni í líkhamanum, hvert sem hún hefir
11. verid góð edur vond. Med því vér nú þeckjum
ótta Drottins, teljum vér mönnum trú, Gudi
erum vér augljósir*.
12. En eg vona og ad eg sé þecktur af ydur,
því ecki erum vér aptur farnir ad mæla fram med
oss vid ydur, heldur géfum vér ydur tilefni til
ad stæra ydur af oss, svo ad þér hafid þad þér
getid svarad þeim, sem stæra sig af því útvort-
13 is, en ecki hjartalaginu. Því hvert sem vér
stærum oss, gjörum vér þad Guds vegna, edur
14. vér erum hóglátir, er þad ydar vegna. Kjær-
leiki Kristis þvíngar oss, med því vér ályktum
svo, ad fyrst hann einn er dáinn fyrir alla, svo
15. séu þeir allir dánir; og hann dó fyrir alla til
þess, ad þeir, á medan þeir lifa, ecki framar lifi
sér, heldur þeim, sem fyrir þá er dáinn og upp-
16. risinn. Þar fyrir metum vér nú engann hér ept-
ir eptir holdinu*, því þótt vér jafnvel mettum
Krist eptir holdinu ádur, þá gjörum vér þad
17. ecki framar*. Því hverr, sem er í Kristó, hann
er ordin ný sképna, þad gamla er afmád, sjá!

V. 11. *samanb. Gal. 1, 10. 2 Cor. 4, 2.
V 14. *Róm. 6, 11.
V. 16. *Matth. 12, 47—50. Gal. 6, 15. *Phil. 3, 4—9.

allt er ordid nýtt og þad er allt af Gudi, er 18.
forlíkadi ofs fyrir Jesúm Krist vid sjálfann sig*
og géfid hefir ofs þad embætti, ad kunngjøra
þessa forlíkun; nefnilega þad: ad Gud hafi for- 19.
líkad heiminn vid sjálfann sig* og tilreikni ecki
mønnum þeirra afbrot og hafi sett ofs til ad kunn-
gjøra þessa forlíkun. Vér erum því Krists er- 20.
inds-rekar; Gud líka, sem áminnir fyrir vorn
munn. Vér bidjum því vegna Krists; látid yd-
ur forlíka vid Gud; því hann, sem aldrei þeckti 21.
synd, gjørdi Gud ad synda-fórn vor vegna*, svo
ad vér fyrir hann réttlættir yrdum.

## 6. Kap.

I.) Sama efni v. 1—13 II.) Varar Corinthu-menn vid ad hafa møk vid vantrúada v. 14—Kap. 7, 1.

En svo sem medverkandi áminnum vér um þad, 1.
ad þér medtakid ecki Guds nád til einkis (Ritn- 2.
íngin segir: á hagqvæmri tíd bænheyrda eg þig
og á hjálprædisins degi hjálpadi eg þér. Sjá!
nú er sú æskilega tíd, sjá! nú er dagur hjálp-
rædisins). Vér géfum engum ásteitíngar-efni, 3.
svo embættid verdi ecki fyrir lasti, heldur tjáum 4.
ofs í øllu, sem Guds þjónustu-menn, med mik-
illi þolinmædi í þreyngíngum, neyd, ángist, und-
ir høggum, í fángelsi, á vorum hrakníngi, í erf- 5.
idi, vøkum og skorti; í rádvendni, þeckíngu, um- 6.

V. 18. * Róm. 1, 18. og eptirf. Róm. 5, 10. Cól. 1, 20.
1 Jóh. 4, 10.
V. 19 * Róm 3, 24. 25. Psálm. 32, 1.
V. 21. * Esa. 53, 6—12. Róm. 8, 3.
V. 2. * Esa. 49, 8.

byrdarlyndi, blídlyndi, heilegu hugarfari, fals-
7. lausum kjærleika, í sannleikans kénningu og Guds
krapti; sem útbúna med vopnum réttlætisins til
sóknar og varnar; í heidri og vanheidri, hvert
8. vel er talad um oss edur ílla. Vér nefnustum
9. svikarar, en finnumst þó sannordir; erum lítils-
virdtir, en þó nafnkunnugir; erum nærri dauda,
en sjá! vér lifum samt; oss er refsad, en vér
10. erum þó ecki deyddir; erum syrgjandi, en þó
jafnan gladir; fátækir, en audgum þó marga;
egum eckert, en hofum þó allt.
11. Corinthu-menn! eg hefi opnad minn munn
til ydar, eg hefi útbreidt fyrir ydur mitt hjarta,
12. þad er ecki þraungt um ydur í því, en lítid
13. rúm ætlid þér mér í ydrum hjortum. Til um-
bunar (eg tala til ydar, sem barna minna),
rýmkid einnig ydar hjortu.
14. Dragid ecki ok med vantrúudum. Hvert
samfélag hefir dygdin vid ódygdina, ljósid vid
15. mirkrid, Kristur vid Belíal? hverja hlutdeild
16. hefir sá trúadi med þeim vantrúada? Hvad á
Guds musteri skyldt vid musteri skurdgodanna?
Þér erud ens lifanda Guds musteri, eins og
Gud hefir sagt *: eg vil búa á medal þeirra
og dvelja hjá þeim og eg vil vera þeirra Gud og
17. þeir skulu vera mitt fólk. Farid því burtu frá
þeim og skiljid ydur vid þá — segir Drottinn —
18. og snertid ecki þad, sem vanheilagt er, þá skal
eg taka ydur ad mér og eg mun verda ydar Fad-

V. 16. * 2 Mós. b. 29, 45. 3 Mós. b. 26, 11. 12.
V. 17. * Esa. 48, 20. 22, 11. Opinb b. 18, 4.
V. 18. * Jer. 31, 9. samanb. vid 1 Cor. 10, 22.

ir og þér skulud vera mínir synir og dætur,
segir Drottinn almáttugur. — Elskaulegir! 1.
þared vér hofum þvílik fyrirheiti, þá hreinsum
oss frá allri saurgun holdsins og andans og full-
komuum helgun vora med Guds ótta.

1) Páll leggur nidur fyrir Corinthu-monnum 7. Kap.
tilgáng sins fyrra bréfs v. 2—12. II.)
Talar um Titus v. 13—16.

Gefid mér rúm hjá ydur, engum hefi eg órétt 2.
gjort, engum spillt, engann ásælst. Eg segi 3.
ecki þetta ydur til áfellis, því eg hefi ádur sagt,
ad eg elskadi ydur svo, ad eg vildi lifa og deya
med ydur. Eg er því djarfmæltur vid ydur; 4.
mikinn sóma hefi eg af ydur; eg hefi nóga hugg-
un og yfirgnæfanlega gledi í ollum mínum
þreyngíngum. Þess vegna þá vér komum til 5.
Makedoníu, hafdi hold vort enga ró, en vórum
allsstadar adþreyngdir; útvortis var barátta, inn-
vortis ótti; en Gud, sem huggar hina aumu*, 6.
hann gaf oss huggun med Títusar tilkomu.
Vér glöddumst ecki einúngis af komu hans, 7.
heldur og af þeirri huggun, sem þér hugguđud
hann med. Hann kunngjordi oss ydar söknud,
sorg og vandlætíngu vor vegna, svo eg vard þar
af enn þá gladari. Því þó eg hafi hryggt ydur 8.
med bréfinu*, ydrast eg þess ecki, þó eg ádur

V. 1. * 1 Jóh. 3, 3.
V. 2. * samanb. Post. G. b. 20, 33. 2 Cor. 11, 7—12.
12, 16. 17. 1 Thess. 2, 9. 2 Thess. 3, 8.
V. 6. * Kap. 3, 3. 4.
V. 8. * 1 Cor. 5,

ydradist þess, því eg sje ad þetta bréf hrigdi
9. ydur einúngis um stundarsakir*. Nú gleðst eg,
ecki af því ad þér hrigdust, heldur af því þér
hrigdust til betrunar*; ydar hrigd var eptir
Guds vilja, svo ad þér hafid engann skada af
10. oss haft. Sú hrigd, sem er eptir Guds vil-
ja, ablar sáluhjálplegrar betrunar, hverrar eng-
11. inn ydrast, en veraldleg hrigd ollir dauda. Því
sjáid þad, ad þér hrigdust eptir Guds vilja,
hvílíkt kapp verkadi þad hjá ydur! já, enn fram-
ar: afsakanir, þycku, ótta, eptirlángan, vand-
lætíngu, hegníngu*; í ollu sønnudud þér, ad
12. þér hreinir værud í þessu efni. Þar fyrir, þó
ad eg skrifadi ydur, þá var þad hverki hans vegna,
sem óréttinn gjerdi, né hins, sem óréttinn leid*,
heldur svo ydur þar af augljós yrdi umhyggja
mín fyrir ydur í Guds augliti.
13. Þess vegna huggast eg af ydar huggun,
en allra mest gladdi mig hvad Títus var ánægd-
ur, því hugur hans hefir endurnærst af ydur
14. ollum. Eg þurfti ecki ad lída kinnroda fyrir
þad, þó eg hefdi stært mig nockud af ydur fyrir
honum, heldur eins og allt þad var sannleiki,
sem eg kennda ydur, eins reyndist mín hrósan
15. vid Títus senn; og honum er líka hjartanlega
vel til ydar, því honum er minnisføst allra ydar
hlýdni, med hverju miklum ótta og lotníngu þér

---

V. 8. *2 Cor. 2, 3. 4.
V. 9. *samanb. 2 Sam. b. 12, 13. Matth. 26, 75. vid 27, 3. 5.
V. 11. samanb. 2 Cor. 2, 6. vid 1 Cor. 5, 5.
V 12. *2 Cor. 2, 5.

tókud á móti honum. Eg er þess vegna glad- 16.
ur, ad eg gét í øllu haft traust til ydar.

I.) Páll hrósar ørlæti enna kristnu í Makedo- 8. Kap.
níu og upphvetur Corinthu-menn ad feta
í þeirra fótspor v. 1—15. II.) Hrósat
Títus og bidur Corinthu-menn taka vel
á móti honum og brædrum þeim, sem med
honum sendast v. 16—24.

Enn framar læt eg ydur vita, Brædur! þá nád 1.
Guds, sem sýnt hefir sig í søfnudunum í Ma-
kedoníu, ad þeir, þrátt fyrir þær miklu þreyng- 2.
ingar, sem þeir hafa verid reyndir med*, hafa
mikla gódvild sýnt og í sinni miklu fátækt tekid
ødrum fram í gnægu ørlæti*. Eg géf þeim þann 3.
vitnisburd, ad þeir gjørt hafa þad af sjálfs dád-
um, eptir efnum, já framyfir efni sín. Þeir bádu 4.
oss innilega fyrir gáfu þeirra og samlags gjøf
handa kristnum og þeir gjørdu betur enn vér
hefdum vænt, þeir gáfu sjálfa sig, fyrst Drottni 5.
og þar næst oss eptir Guds vilja. Þar fyrir bad 6.
eg Títus um, ad hann, eins og hann hafdi byr-
jad, fullkomnadi einnig hjá ydur þessa gjøf; svo 7.
ad eins og þér í øllu erud afbrigdi, í trú, lær-
dómi og þekkingu, allsslags ástundun og elsku
til vor, séud þér líka ødrum fremri í þessari
gjafmildi; þettad megid þér ecki taka fyrir skip- 8.
un, heldur segi eg þad vegna þess, ad adrir eru
svo kappsamir og til þess eg reyni hvert elska

V. 2. * 1 Thess. 2, 14. 2 Thess. 1, 4. 5. * Phil 4, 15. og f.
V. 4. samanb. Post. G. b. 11, 28. 29.

9. ydar er einlæg. Þér þeckid gjædsku Drottins vors Jesú Krists, ad hann gjørdist fátækur ydar vegna, þó hann ríkur væri*, svo ad þér af
10. hans fátækt audgúdust*. Eg segi mína meiníngu hér um: gott er þad fyrir ydur, sem þegar í fyrra byrjudud, ecki einúngis ad vilja, heldur og
11. ad gjøra. En fullkomnid nú og verkid sjálft, svo ad eins og viljinn er fús, eins sé og framqvæmd-
12. in eptir efnuhum; því ef viljinn er gódur, þá er hverr þacknæmur eptir því, sem efni hans leyfa, en
13. ecki framyfir þad. Ecki er þad meiníng mín, ad
14. adrir skuli hafa hægd, en þér þraung, heldur ad jøfnudur á verdi og gnægd ydar á nærverandi tíma, bæti úr hinna skorti, svo hinna gnægd aptur bæti
15. úr ydar skorti og þannig verdi jøfnudur, eins og skrifad er: sá, sem meira safnadi, hafdi ecki afgángs og sá, sem minna safnadi hafdi ecki skort.
16. En þackir séu Gudi, er gefid hefir Títi
17. hjarta þvílíka umhyggju fyrir ydur, ad hann ecki einúngis lét eptir vorum tilmælum, heldur er sjálfur mjøg ákafur og fer sjálfviljuglega til ydar.
18. Med honum sendum vér þann Bródur, er víd-frægur er í øllum søfnudum fyrir nádar bodskap-
19. inn; en ecki einúngis þad, heldur er hann og út-valinn af søfnudunum, til ad fara med oss med þessa gáfu, er vér høfum samandregid, Drottni

---

V. 9. *Lúk. 9, 58. Phil. 2, 7. Hebr. 12, 2. * 2 Cor. 6, 10. þ. e. audgúdust í þeckíngu, dygd og farsæld.
V. 10. Kap. 9, 2.
V. 11. Jak. 2, 15. 16. Ordsq. b. 3, 28.
V. 12. 1 Jóh. 3, 17. samanb. Mark. 12, 43. Lúk. 3, 11. 5 Mós. b. 15, 7.
V. 15. 2 Mós. b. 16, 18.

til býrdar og til merkis uppá ydar gódvilja. Vér 20.
fordustum ad nockurr géti fundid ad medferd
vorri á þessari ríkuglegu gáfu, er vér høfum
komid til leidar. Vér stundum þad, sem gott er, 21.
ecki einúngis fyrir Drottni, heldur og fyrir mønn-
um. Med þessum sendum vér annann Bródur 22.
vorn, er vér í mørgu og optsinnis høfum reynt
kostgjæfinn og nú enn framar kostgjæfinn, vegna
þess mikla traustz, er hann hefir til ydar. Hvad 23.
Títus áhrærir, er hann vor medbródir og med-
hjálpari hjá ydur og hvad hina brædur vora snert-
ir, þá eru þeir safnadanna Postular og kristninn-
ar sómi. Audsýnid þessum fyrir safnadanna aug- 24.
sýn merki uppá elsku ydar og þann lofstýr, er
vér høfum géfid ydur.

Páll hrósar Corinthu-mønnum og upphvetur 9. Kap.
til ad géfa ríkuglega v. 1—15.

Hvad hjálpina* til hinna heilogu áhrærir, er 1.
engin þørf á ad eg skrifi ydur; því eg þecki yd- 2.
ar góda vilja og hefi hrósad ydur fyrir hann hjá
þeim í Makedoníu, nefnilega, ad Achaja hafi ver-
id reidubúin fyrir ári sídan og ad ydar alúd hafi
upphvatt marga. En eg sendi þessa brædur, 3.
svo ad sá lofstýr, sem vér høfum géfid ydur í
þessu tilliti, verdi ecki ad engu og ad þér séud und-
irbúnir eins og eg hefi sagt, svo ad eg þurfi ecki 4.
ad lída kinnroda (eg vil ecki segja sjálfir þér) fyrir
þetta traust mitt, ef nockrir frá Makedoníu koma

V. 21 Philipp. 4, 8. 1 Pét. 2, 12.
V. 1. * Post. G. b. 11, 29.

5. med mér og finna ydur óvidbúna. Vér héldum
þess vegna naudsynlegt ad bidja brædurnar ad
fara á undan til ydar og undirbúa ydar ádur lof-
ada velgjørníng, sem liggur reidubúinn, svo sem
örlátleg gáfa, en ecki sem dregin undan neglum
6. ydar. Því þad segi eg, ad sá, sem sparlega sá-
ir*, muni og sparlega uppskéra og sá, sem örlát-
7. lega sáir, muni og örlátlega uppskéra. Hverr
géfi eptir sinni hugarlund, ecki med hriggu gédi
edur naudúng, því Gud elskar gladann gjafara;
8. en mégnugur er Gud ad láta ydur hafa gnægd
af øllu gódu, svo ad þér ætíd hafid af øllu nóg
9. til ríkuglegra velgjørda; því skrifad er: hann
útbýtti, gaf þeim þurftugu, hans gædska varir
10. ad eilífu. En sá, sem sádmanninum géfur sædi
og braud til fædslu, hann mun og géfa ydur sád
og margfalda þad og auka ávøxt ydar gædsku,
11. svo ad þér auðugir verdid til allsslags örlætis,
sem kémur því til leidar, ad Gudi gjørast þack-
12. ir fyrir oss; því þessi styrkur bætir ecki einúng-
is úr þørfum heilagra, heldur verdur og orsøk
13. til, ad margir innilega þacka Gudi og vegna
þessa votts ydar gódsemdar, lofa þeir Gud fyr-
ir ydar hlýdni vid nádar-lærdóm Krists, sem
þér medkénnid og fyrir ydar einlæga örlæti vid
14. þá og alla og bidja fyrir ydur og elska ydur hjart-
anlega fyrir Guds ydur yfirgnæfanlega veittu
15. nád. Lofadur sé Gud fyrir sína óumrædilegu
nádargjøf!

---

V. 6. * Ordsqv. b. 11, 24. 25. 22, 8. 9. Gal. 6, 7. 8.
V. 7. * 2 Mós. b. 25, 2. 5 Mós. b. 15, 10. Róm. 12, 8.
V. 9. Psálm. 112, 9.

Páll hrindir brixlum mótstödu-mannanna, er sögdu ad hann væri í nærveru lítillátur, en í fjærveru stolltur og myndugur v. 1—18. 10. Kap.

Eg hinn sami Páll, sem sagdur er lítillátur í 1.
nálægd, en myndugur í fjærlægd, áminni ydur
med blídlyndi og högværd Krists. Eg bid ydur 2.
ad láta mig ecki nálægann þurfa ad beita þeim
myndugleika, sem eg hefi ásett mér ad beita
vid nockra, sem halda ad vér gaungum eptir
holdinu*. Vér gaungum ad sönnu í holdinu*, 3.
en vér strídum þó ecki eptir holdinu; því vopn 4.
vorrar herfarar eru ecki holdleg, heldur fyrir
Guds hjálp kroptug til ad nidurbrjóta hervirkin;
vér ónýtum vélabrögd og hverja hæd, sem hefur 5.
sig upp á móti Guds þeckíngu og hertekum hverja
hugsun gégn Krists hlýdni og erum reidu- 6.
búnir ad refsa allskonar óhlýdni, þegar ydar
hlýdni er ordin fullkomin. Lítid þér á hid ytra? 7.
ef nockurr er um þad med sjálfum sér viss, ad
hann er Krists*, hann rádi aptur þar af, ad eins
og hann er Krists, svo erum vér og einnig. Já, 8.
þó eg vildi enn fremur stæra mig af makt þeirri,
er Drottinn hefir oss géfid* ydur til uppbyggíngar,
en ecki til tjóns*, þá mundi eg ecki þar fyrir
verda til skammar. En svo ad ecki skuli 9.



V. 2. * þ. e. hegdum oss eins og órádvandir menn.
V. 3. * þ. e. erum breiskleika undirorpnir eins og adrir menn.
V. 7. 1 Cor. 14, 37. þ. e. Krists sérlegur sendibodi.
V. 8. * Kap. 13, 10. samb. Matth. 16, 19. * 2 Cor. 13, 10.

þad sýnast, sem eg vilji hræda ydur med bréf-
10. unum; (því bréfin, segja menn, eru þúng og
kroptug, en nærvera líkhamans veik og rædan
11. fyrilitleg), þá hugleidi þvílíkir, ad eins og vér
erum fjærverandi í bréfunum í ordi, eins mun-
12. um vér verda nærverandi í verki. Ecki gét eg
fengid þad af mér ad telja mig med þeim edur
samjafna mér vid þá, sem gorta af sjálfum sér;
en þessa, sem mæla sig sjálfa vid sjálfa sig og
bera sig saman vid sjálfa sig, skortir skiln-
13. íng. En vér stærum oss ecki af því, sem
oss ecki er útmælt, heldur af því ad vér,
samqvæmt þeim takmorkum, sem oss eru af
Gudi útmæld, erum komnir allt til ydar.
14. Ecki svo sem þeir, er ecki hafa til ydar komid,
teygjum vér oss út fyrir vor takmork, þvíad
vér høfum sannarlega til ydar komid med Krists
15. nádar bodskap. Ecki stærum vér oss af því,
sem oss er ecki útmælt af annara erfidi; en
høfum þá von, ad þegar trú ydar vex, munum
vér enn vídfrægari verda fyrir ydar hjálp innan
16. oss fyrisettra takmarka og géta bodad nádar
lærdóminn fyrir þeim, sem búa hinumeginn vid
ydur; en ecki ætlum vér ad hrósa oss í annara
17. umdæmi af því, sem ádur er fullkomnad. Sá,
18. sem hrósar sér, hann hrósi sér í Drottni*; því
ecki er sá, sem lofar sjálfann sig réttskickadur,
heldur sá, sem lofstýr fær af Drottni*.

---

V. 17. * þ. e. hrósi nád og adstod þeirri, sem Gud hefir
veitt honum, samanb. Jer. 9, 24.
V. 18. * Ordsqv. b. 24, 12.

I.) Páll forsvarar álit sitt og varar Corinthu- **11. Kap.**
mönnum vid fölsurum v. 1—6. II.) Kénndi
lærdóminn ókeypis, til ad gjöra kinnroda
Falk-postulunum v. 7—15. III.) Sýn-
ir ad hann hafi meira unnid og þolad
fyrir lærdómsins sakir enn þeir v. 16—
33.

Ydur ber dálítid ad umbera fáfengilegleika 1.
minn; sannlega munud þér og gjera þad. Því 2.
med gudlegri vandlætíngu vanda eg um vid ýd-
ur, því eg hefi fastnad ydur einum manni, svo
sem óflekkada mey, er leidast á til Krists. En 3.
eg óttast, ad eins og Höggormurinn tældi Evu*
med sínu flárædi, eins muni ydar hugskot dragast
frá einlægni vid Krist. Því þá einhverr kémur, 4.
er prédikar annann Jesúm enn vér höfum pré-
dikad, edur þér medtakid annann anda enn þér
hafid medtekid, edur annann nádar lærdóm enn
ydur hefir kénndur verid*, umberid þér þad vel.
Eg held mig vera engu minni enn þá helztu 5.
Postula; þó mig bresti mælsku, brestur mig samt 6.
ecki þeckíngu, en ávalt og í öllu tilliti er eg yd-
ur augljós.

Edur hefi eg kannské syndgad í því, ad eg 7.
lítillækkadi mig, svo ad þér upphefdust? ad eg
ókeypis kénndi ydur Guds nádar lærdóm? *
Adra söfnudi rupladi eg og tók af þeim kaup 8.
til ad þéna ydur og þó ad mig bristi á medan



V. 3. * 1 Mós. b. 3, 14. Jóh. 8, 44.
V. 4. * Gal. 1, 8. 9. V. 5. Gal. 2, 2—14.
V. 7. * 1 Cor. 4, 12. 9, 4. 6. 11. 15.

eg var hjá ydur, þá var eg samt engum til
9. byrdi. Brædur þeir, sem komu frá Makedo-
níu bættu úr mínum skorti*. Í ǫllu varadist
eg ad vera ydur til þýngsla og mun varast.
10. Svó sannarlega, sem Krists sannsǫgli* er í mér,
skal þessi mín hrósan ecki nidurþeggud verda í
11. Achaju hérudum. Hvers vegna? mun þess
vegna ad eg ecki elska ydur? Gud veit þad.
12. En eg gjǫri þad og mun gjǫra, til ad svipta þá
tækifæri, er tækifæris leita ad verda oss líkir í
13. því, sem þeir stæra sig af. Þessir Fals-postul-
ar eru svikfamlegir verka-menn og taka á sig
14. mind Krists Postula og þad eru ecki undur, því
15. Satan sjálfur snýr sér í ljóss engil; þad er því
ecki kyn, þótt þjónar hans taki á sig mind rétt-
lætisins þjóna. Endalok þeirra verda líka sam-
bodin verkunum.

16. Enn aptur bid eg, ad enginn álíti mig fyr-
ir dára; en ef þér gétid ecki annad, þá medtak-
id mig sem dára, svó eg géti líka dálítid hrósad
17. mér. Þad, sem eg nú tala, tala eg ecki eptir
Drottins anda, heldur er þad talad í heimsku,
18. í trausti sjálfs-hrósins; med því margir stæra sig
af því, sem holdlegt er, hlýt eg og ad stæra mig
19. af því. Þér umberid gjarnan þá hina fávísu,
20. því þér erud sjálfir hygguir; því þér umberid

---

V. 9. *Phil. 4, 15. 16. V. 10. *Matth. 5, 37.
V. 12. Páll vildi eckert þyggja af Corinthu-mǫnnum, til þess ad sýna, ad hann ecki prédikadi kristni sér til uppheldis og ad fals-kénnendurnir væru honum strax þar í andsjáanlega ólíkir. Sjá V. 22. og 23.
V. 13. Matth. 7, 15. 16. Phil. 3, 2.

þad, þó einhverr hneppi ydur í þrældóm, þó ein-
hverr uppeti ydur, hafi af ydur, hefji sig upp yf-
ir ydur, slái í ydar ásjónu. Eg segi þetta med 21.
blygdun, því í þessu höfum vér sýnt oss veika,
en af því, sem adrir géta hrósad sér, (fávíslega
er talad) af því gét eg hrósad mér líka. Séu 22.
þeir hebreskir, þá er eg þad og; séu þeir Is-
raelítar, þá er eg þad og; séu þeir Abrahams 23.
nidjar, sjá! er eg þad og; séu þeir þjónar Krists,
(heimskulega tala eg) þá er eg þad enn fram-
ar. Meira hefi eg unnid, fleiri högg þolad, opt-
ar verid í fángelsi og opt í daudans hættu. Af 24.
Júdum hefi eg fimmsinnum verid sleginn 40 högg-
um, einu fátt í. Þrísvarsinnum hefi eg húd- 25.
strýktur verid,* einusinni verid grýttur,* þrísvar-
sinnum lidid skipbrot,* heilt dægur hefi eg hrak-
ist um kríng í regin hafi. Opt hefi eg á ferd- 26.
um verid, opt komist í hættu í ám, opt í háska
af ræníngjum, í háska af lendum mínum, í
háska af heidnum mönnum; verid í háska í borg-
um og í eydimerkum, í háska á sjó, í háska af
flárádum brædrum*. Opt haft erfidi og sorg, 27.
vökur, sult, þorsta og föstur, kulda og klædleysi.
Auk annars: daglegt ónædi af yfirhlaupi manna 28.
og áhyggju fyrir öllum söfnudum. Hverr er svo 29.
veikur*, ad eg taki ecki þátt þar í? hverr hras-
ar, svo eg ecki stikni?* Ef eg mætti hrósa mér, 30.

---

V. 25. * Post. G. b. 16, 22. * Post. G. b. 14, 19. * Post. G. b. 27, 41.
V. 26. * Gal 2, 4. samanb. vid Post. G. b. 15, 24.
V. 29. * ucfuil: i þeckingu og hlýdni vid Krists lærdóm, samanb. 1 Cor. 8, 13. 9, 22. * þ. e. mér svídi þad ecki sárt. V. 30. Kap. 12, 5. 9.

31. vilda eg hrósa mér af bágindum mínum. Guð
og Faðir Drottins vors Jesú Krists, sem að
32. eilífu sé vegsamaður, veit að eg lýg ecki. Í
Damaskus ætlaði Landshöfðíngi Aretas Kon-
úngs að grípa mig og hafði sett verð um borg-
33. ina, en eg var látinn niðurfíga í korfu í gégn-
um vindauga á borgarveggnum og komst þannig
úr þeirra höndum.

12. Kap. Páll hrósar sér I.) af sínum opinberunum v.
1—10. II.) af sínum kraptaverkum og
að hann hafi ecki verið sofnuðinum til
þýngsla v. 11—18. III.) Segir þetta
þeim til uppbyggíngar og svo ecki þurfi
brúka hörku, þá kémur v. 19—21.

1. Það gagnar að vísu ecki að eg hrósi mér; þó
vil eg minnast á sjónir og opinberanir Drottins.
2. Eg þecki mann í Kristó, er fyrir 14 árum var
uppnuminn allt uppí þriðja himin*; (hvert hann
var í líkamanum, eður utan líkama, það veit eg
3. ecki, Guð veit það). Eg veit að þessum manni
var upprykt í Paradís, (hvert í líkama, eður
4. utan líkama, það veit eg ecki, Guð veit það) og
að hann heyrði þar ómærðanleg orð, sem eng-
5. um manni er unnt að tala. Af þessu vil eg
hrósa mér, en af sjálfum mér vil eg ecki hrósa
6. mér, nema það væri af bágindum mínum. En
þó að eg vildi hrósa mér, mundi eg ecki dár-
legur finnast, því eg segði sannleika, en eg skirr-

V. 33 Post. G. b. 9, 24. og eptirf.
V. 2. * Post. G. b. 22, 17.

ist vid þad, svo ad engin skuli þenkja hærra um
mig, enn hann sier, edur heyrir af mér. En 7.
til þess ad eg ecki skuli upphrokast af mikilleik
opinberananna, er mér fleinn géfinn í holdid,
Satans engill, ad hann slái mig, svo ad eg skuli
ecki stærilátur verda. Þrisvar hefi eg bedid 8.
Drottinn um, ad hann færi frá mér; en hann 9.
hefir svarad mér: lát þér nægja mína nád, því
minn kraptur sýnir sig fullkominn í veikleikan-
um; þar fyrir vil eg helst hrósa mér af mínum
þjáníngum, svo ad kraptur Krists sé yfir mér.
Þar fyrir er eg med glødu gédi í veikleika, fyr- 10.
irlitníngu, neyd, ofsóknum og þreyngíngum vegna
Krists, því, midt í veikleikanum er eg máttugur.
Dárlega hefi eg nú talad, en þér hafid 11.
neydt mig til þess, því eg átti ad lofast af ydur;
því í engu er eg minni enn þeir helztu Postul-
ar, þó eg sé eckért. Postula teikn* eru gjerd 12.
medal ydar í allri þolinmædi med táknum og
stórmerkjum og kraptaverkum. Hvar í erud þér 13.
þá minni enn adrir sofnudir, nema í því, ad eg
hefi ecki verid ydur til byrdi*; fyrirgéfid mér
þenna órétt! Sjá, nú í þridja sinni er eg ferd- 14.
búinn ad koma til ydar, en ecki mun eg verda yd-
ur til byrdi, því ecki sækist eg eptir eigum ydar,
heldur ydur sjálfum, því ecki ega børnin ad draga
saman fyrir foreldrana, heldur foreldrarnir fyrir
børnin. Fús er eg til ad verja mínu, já, útgéfa 15
sjálfann mig fyrir ydar sálir, því eg elska ydur

V. 11. 1 Cor. 3, 7. 15, 9. Eph. 3, 8.
V. 12. * 1 Cor. 9, 1. 2
V. 13. * Kap. 11, 8. 9. 1 Thess. 2, 9.

16. innilega, þó þér elskid mig lítid. En látum svo
vera ad eg hafi ecki sjálfur verid ydur til byrdi,
en máské verid slægur og veitt ydur med bregd-
17. um? Máské eg hafi látid einhvern, sem eg sendi
18. til ydar, hafa af ydur? Eg bad Títum ad fara
og sendi annann bródur med honum; mun Títus
hafa féflett ydur*? Leiddi ecki sami andi oss
báda og fetudum vér ecki í somu fótspor?
19. Þér þenkid máské á ný, ad eg sé ad for-
svara mig fyrir ydur? Fyrir augliti Guds í
Kristó,* tala eg allt þetta, elskanlegir! ydur til
20. uppbyggíngar, því hræddur er eg um, ad þegar
eg kém, muni eg ecki finna ydur þvílíka, sem eg
vil og ad ydur muni finnast eg sé ecki eins og þér
viljid; ad medal ydar séu deilur, metníngur, of-
stopi, þráttanir, baktal, qvis, drambsemi, óréi;
21. eg er hræddur um ad Gud muni audmýkja mig
hjá ydur, þá eg kém aptur og ad eg hriggi marga,*
sem ádur syndgudu og ecki hafa snúid huga sín-
um frá saurlífi, frillulífi og ótérlegum lifnadi,
sem þeir ádur drýgdu.

13. Kap. I.) Páll gjörir rád fyrir ad koma enn á ný til Corinthu. Áminnir til betrunar, svo ecki þurfi ad sýna herku, þá kémur v. 1—10. II) Gódar óskir v. 11—13.

1. Þegar eg í þridja sinni kém til ydar, skal allt
stadfestast med tveggja, edur þriggja manna

V. 18. * Kap. 8, 6. 22.
V. 19. * svo sem Kristś Postuli.
V. 21. * Kap. 13, 10.
V. 1. 5 Mós. b. 19, 15.

vitnisburdi. Eg hefi sagt þad ádur og segi þad 2.
nú í annad sinn sem nærverandi, þó nú fjærverandi
þeim, sem ádur hafa syndgad og øllum ødrum, ad
eg muni ecki hlífa þeim. þegar eg kém aptur. Med 3.
því þér krefjid reksemd fyrir því, ad Kristur tali
í mér, — hann hefir þó ecki sýnt sig ómáttugann
medal ydar, heldur máttugann; því jafnvel þó 4.
hann væri krossfestur í veikleika,* lifir hann nú
fyrir Guds krapt,* semuleidis og, þó ad vér veik-
ir séum hans vegna, munum vér fyrir Guds
krapt ásamt honum lifa hjá ydur. — Reynid 5.
ydur sjálfa hvert þér erud í trúnni, prófid yd-
ur sjálfa; edur þeckid þér ydur ecki sjálfa, ad Je-
sús Kristur er í ydur,* nema þér séud óduglegir.
En eg vona, ad þér munid komast ad raun um, 6.
ad vér erum ecki óduglegir. Þess bid eg Gud, ad 7.
eg þurfi eckert íllt ad gjøra ydur; ecki þessvegna,
ad þad skuli sjást ad vér erum duglegir, heldur
til þess, ad þér gjørid þad, sem gott er, þó vér
þar fyrir álítustum óduglegir. Því eckert megn- 8.
um vér gégn sannleikanum, heldur einúngis med
honum. Vér gledjumst þó ad vér séum veikir, 9.
ef þér erud sterkir; ydar fullkomnan er þad, sem
vér óskum. Þessvegna skrifa eg þetta fráver- 10.
andi, ad eg nærverandi ecki þurfi ad brúka hørku,
eptir þeim myndugleika, sem Drottinn hefir géfid
mér ydur til uppbyggíngar, en ecki til skada.

Ad endíngu, brædur! verid gladir, fullkomn- 11.
ir, upphvetjid hverr annann, verid samhuga og
fridsamir og kjærleikans og fridarins Gud mun

V. 4. * Phil. 2, 7. 8. * Opinb. b. 1, 18.
V. 5. * samanb. Róm. 8, 7—9.

12. vera med ydur. Heilsid hverr ödrum med hei-
13. legum kossi; ydur heilsa allir heilagir. Náð
Drottins Jesú Krists, kjærleiki Guds og hlut-
tekníng heilags Anda, sé med ydur öllum!

# S. Páls Pistill
## til Galatíu-manna.

**I. Kap.** I.) Páll furdar sig á ad Galatíu-menn hafi látid sig leida frá þeim sanna Krists lær-dómi v. 1—14. II.) Segist af Gudi kalladur til Postula embættisins v. 15—24.

1. Páll Postuli (hverki * af mönnum né af nock-
urs manns tilhlutun, heldur * fyrir Jesúm Krist
og Gud Fødur *, sem uppvakti hann frá daud-
2. um) og allir brædurnir, sem hjá mér eru, ósk-
3. um söfnudunum í Galatíu * nádar og fridar af
4. Gudi Fødur og Drottni vorum Jesú Kristi, sem
* útgaf sig sjálfann, ad vilja Guds og vors Fød-
urs, vegna vorra synda, svo ad hann * frelsadi

V. 1. * Tít. 1, 3. * Kap. 1, 12. * Post. G. b. 2, 24. 32. Eph. 1, 20. V. 3. * Róm. 1, 7. f.
V. 4. * Matth. 20, 28. Gal. 2, 20. Eph. 5, 2. 25. Tít. 2, 14. * Lúk. 1, 44.

ofs frá * yfirstandandi aldar ólucku. * Gudi sé 5.
dýrd frá eilífd til eilífdar, Amen!
Mig furdar, ad þér svo fljótt skyldud láta 6.
snúa ydur frá þeim, sem * kalladi ydur med lær-
dómi Krists, til annars nádar lærdóms, sem þó 7.
er ecki annar til; en meiníngin er: ad nockrir
eru, * sem trubla ydur og vilja rángfæra Krists
nádar lærdóm; en þó ad vér, edur Engill frá 8.
himni bodadi ydur nádar lærdóminn odruvísi,
enn eg hefi kénnt ydur, hann sé * bölvadur. Já! 9.
eins og eg hefi ádur sagt, svo segi eg nú aptur:
ef nockurr kénnir ydur annann nádar lærdóm,
enn þann, sem þér hafid numid, sá sé bölvadur.
Tala eg nú * mennum í vil edur Gudi? edur 10.
leitast eg vid ad * þócknast mennum? ef eg enn þá
væri ad leitast vid ad þócknast mennum, þá væri
eg ecki Krists þjón. En þad læt eg ydur vita, 11.
brædur! ad sá * lærdómur, sem eg kénndi, er ecki
af mennum; hverki * hefi eg medtekid né lært 12.
hann af mennum, heldur fyrir * opinberun Jesú
Krists; því þér hafid haft fregn af hegdun minni 13.
fordum, á medan eg héldt vid Gydínga trúna,
ad eg * ákaflega ofsókti og eydilagdi Guds söfnud
og yfirgéck flesta landa mína mér samtída, í 14.
ad halda uppi Gydínga trúnni og var * odrum

---

V. 4. * 1 Jóh. 5, 19.
V. 5. * 2 Tím. 4, 18. V. 6. * Kap. 5, 8.
V. 7. * Post. G. b. 15, 1. V. 8. * 2 Cor. 16, 22.
V. 10. * 2 Thess. 2, 4. * Jak. 4, 4.
V. 11. * 1 Cor. 15, 1. 3.
V. 12. * 1 Cor. 11, 23. * Ephes. 3, 3.
V. 13. * Post. G. b. 9, 1. 22, 4. V. 14. * Phil. 3, 6.

fremri í ad vandlæta um Forfedranna setn-
ínga.
15. En þá Gudi, (sem * útvaldi mig frá mód-
urlífi og nádarsamlega kalladi) þóknadist * ad
16. opinbera mér sinn Son, svo ad eg prédikadi hann
* heidnum þjódum, þá strax rádgadist eg ecki vid
17. hold og blód; ecki heldur fór eg upp til Jerúsalem,
til þeirra, sem á undan mér voru ordnir Post-
ular, heldur fór eg til Arabíu og þadan aptur
18. til Damaskus. Sídar ad þrem árum lidnum,
fór eg upp til Jerúsalem, til ad kynnast vid Pétur og
19. dvaldi hjá honum í 15 daga, en engann sann
eg annann af Postulunum, nema Jacob, * bród-
20. ur Drottins. Gud veit * ad eg lýg þad ecki,
21. sem eg nú skrifa. Eptir þetta * kom eg í lands-
22. álfur Sýrlands og Ciliciu. Eg var þá enn ad
ásýndum ókunnugur þeim kristnu sofnudum í
23. Gydíngalandi; en þeir høfdu einúngis frétt, ad
sá, sem * ádur hafdi ofsókt þá, kénndi nú þá trú,
sem hann ádur nidurbraut og vegsømudu Gud
fyrir mig.

2. Kap.

---

V. 15. * Jer. 1, 5. Post. G. b. 9, 15. 13, 2.
V. 16. * Matth. 16, 17. * Eph. 3, 8. * Post. G. b. 26, 19.
V. 18. * Post. G. b. 9, 26.
V. 19. * Mark. 6, 3.
V. 20. * Róm. 9, 1. 2 Cor. 1, 23. 11, 31.
V. 21. * Post. G. b. 9, 30.
V. 23. * Post. G. b. 9, 21.

I.) Páll segir frá vidkynningu sinni vid Postulana og einkum vid Pétur v. 1—14. 2. Kap.
II) Kénnir, ad réttlætingin kömi af trúnni v. 15—21.

Fjórtán árum sídar * fór eg aptur upp til Je- 1.
rúsalem, ásamt med Barnabas og tók þá Títum
med mér. Þá ferd stofnadi eg eptir opinberun 2.
og skírdi þeim þar frá, en sérílagi þeim helztu,
hvílíkur sá lærdómur væri, sem eg kénndi heidn-
um þjódum, ad eg enganveginn hlypi * forgéf-
ins, edur hefdi hlaupid; en ecki var Títusi, grísk- 3.
um manni, sem var med mér, þreyngt til ad láta
umskéra sig. En ferdina fór eg vegna þeirra 4.
fals-kristnu, er smeygt høfdu sér inn, til ad njósna
hvada frelsi vér brúkudum í Jesú Krists trú, svo
ad þeir gjætu hnept oss í þrældóm. Undan 5.
þessum vildu eg ecki láta, ecki einusinni um stund-
ar sakir, svo ad sannleiki lærdómsins vidhéldist
hjá ydur. Mig skiptir engu í hversu miklu á- 6.
liti þeir eru, sem helztir eru haldnir, (* Gud
ser ecki ad mannvyrdíngum) því mig hafa þeir
í engu frædt; heldur þvert á mót, þegar þeir 7.
sáu ad * mér var trúad fyrir ad kénna enum
óumskornu, eins og Pétri enum umskornu, (því 8.
sá, sem hafdi * styrkt Pétur í hans Postula em-
bætti medal enna umskornu, hafdi eins * styrkt mig

V. 1. * Post. G. b. 15, 2. V. 2. * Phil. 2, 16.
V. 4. * Post. G. b. 15, 24. * undir Mósis laga ok.
V. 6. * 5 Mós b. 10, 17. 2 Cron. 19, 7. Job. 34, 19.
Róm. 2, 11. f.
V. 7. * Post. G. b. 13, 46. 22, 21. Róm. 11, 13.
V. 8. * Post. G. b. 2, 38. 41. * Post. G. b. 9, 15.

9. medal heidíngjanna) og lærdu ad þeckja hvílík
nád mér var veitt; þá réttu þeir Jakob, Kefas * og
Jóhannes, sem eru haldnir máttarstólpar, * mér
og Barnabási hönd sína bródurlega uppá þad,
ad vér skyldum vera Postular heidinna þjóda,
10. en þeir hinna umskornu. Einúngis beiddu þeir
oss, * ad muna til fátækra og þad hefi eg líka
11. kappkostad ad gjøra. En þegar Pétur kom til
Antiochiu, fann eg ad vid hann uppí opin aug-
12. un, því hans breytni var adfinníngar verd. Því
ádur enn nockrir komu frá Jakob, hafdi hann
samneyti vid heidna menn *, en eptir þad ad þeir
vóru komnir, dró hann sig í hlé og skildi sig
13. frá, því hann óttadist þá umskornu *, adrir Gyd-
íngar fóru þá og ad hræsna med honum, svo ad
14. jafnvel Barnabas flæktist med í sømu hræsni. En
þegar eg sá, ad þeir gengu ecki beint eptir sann-
leika lærdómsins, sagdi eg vid Pétur * í allra
áheyrn: úr því þú, sem ert * Gydíngur, lifir
ecki á Gydínga, heldur heidíngja vísu, því
neydir þú þá heidíngja * ad lifa eptir Gydínga
sidum?
15. Vér erum ad ætterni * Gydíngar, en ecki
16. bersyndugir heidíngjar. En med því vér vitum,
ad madurinn * réttlætist ecki af verkum løgmáls-

V. 9. * Pétur. * Post. G. b. 13, 2.
V. 10. * Post. G. b. 11, 30. Róm. 15, 25. 1 Cor. 16, 1.
V. 12. * þ. e. hér. * þ. e. kristna, sem ádur høfdu verid Gydingar.
V. 14. * 1 Tim. 5, 20. * Post. G. b. 10, 28. * þá kristnu af heidingjum.
V. 15. * Post. G. b. 15, 10.
V. 16. * Ps. 143, 2. Post. G. b. 13, 38. Róm. 3, 20. 28. f.

ins, heldur fyrir trúna á Jesúm Krist, þá hef-
um vér tekid trú Jesú Krists, svo vér réttlætt-
umst af trú Krists, en ecki verkum lögmálsins;
því engin madur réttlætist af verkum lögmálsins.
En ef vér, sem fyrir Krist * viljum réttlætast, 17.
finnumst sjálfir * syndarar, er þá Kristur þén-
ari syndarinnar? fjærri fer því. Því færi eg 18.
aptur ad uppbyggja þad, sem eg ádur nidur-
braut, þá sannadi eg þar med, ad eg hefdi ád-
ur ránglega breytt. Eg er vegna * lögmáls lög- 19.
málinu daudur, svo eg * Gudi lifi. Eg er* 20.
Kristi krossfestur. Eg lifi nú ecki framar, held-
ur * lifir Kristur í mér og þad eg nú lifi í hold-
inu, þad lifi eg í trú Guds Sonar, sem * elsk-
adi mig og * gaf sig sjálfann út fyrir mig.
Ecki vil eg gjöra ad engu velgjörníng Guds; 21.
því ef réttlætíngin fengist * fyrir lögmálid, þá
væri Kristur til einkis dáinn.

## 3. Kap.

I.) Páll lastar Galatíu-menn, ad þeir aptur hafi snúid til hlýdni vid lögmálid og sann-ar af Abrahams dæmi, ad Guds nád ödlist fyrir trú v. 1—18. II.) En hverki óhlýtt-

---

V. 17. * Róm. 5, 1. * Róm. 6, 1. Tít. 3, 8. 14.
V. 19 * Róm. 7, 4. 11. * Róm. 14, 7. 2 Cor. 5, 15 1 Theſſ. 5, 10.
V. 20. * Róm. 6, 6. Gal. 5, 24. * 2 Cor. 13, 4. * Jóh. 15, 13. Opinb. b. 1, 5. * 1 Tím. 2, 6.
V. 21. * Hebr. 7, 11.

ónýttist fyrirheitið né lög-gjöfin fyrir það v. 19—29.

1. O þér * fávísu Galatar! hverr hefir villt sjón-
ir fyrir ydur, fyrir hverra augum Jesús Kristur
er svo skírlega afmáladur, eins og væri hann
2. medal ydar krossfestur. Um það vil eg einúng-
is stædast af ydur, hvert þér hafid andann * ødl-
ast fyrir verk løgmálsins ellegar fyrir bodskap trú-
3. arinnar? En hvad þér erud heimskir! Þér,
sem birjudud í andanum, ætlid þér nú ad enda
4. í holdinu? á þvílíkt ad hafa komid fram vid
5. ydur * máské verr enn til einkis? Sá, sem yd-
ur veitir andann og gjørir kraptaverk á ydur, er
þad løgmáls verkunum ad þacka, edur * bodun
6. trúarinnar? Eins og * Abraham treysti Gudi
7. og þad var honum til réttlætis reiknad, eins
megid þér vita, ad þeir eru réttir Abrahams
8. synir, * sem trúadir eru. Ritníngin, sem fyrir
sá, ad Gud mundi * réttlæta þjódirnar fyrir
trúna, * gaf fordum Abraham þad fyrirheiti:
9. allar þjódir skulu * af þér blessun hljóta. Allir
trúadir menn munu því blessun ødlast med þeim
10. trúada Abraham. En þeir, sem * bundnir eru
vid løgmáls verkin, þeir eru undir bølvun, því
skrifad er: * bølvadur sé hverr sá, sem ecki held-

V. 1. * Lúk. 24, 25.
V. 2. * heilags Anda gjafir. Post. G. b. 2, 38. 8, 15. 15, 8. Ephes. 1, 13.
V. 4. * 2 Jóh. v. 8. V. 5. * Róm. 10, 8. 17.
V. 6. * 1 Mós. b. 15, 6. Jak. 2, 23.
V. 7. * Róm. 4, 11. 12.
V. 8. * Post. G. b. 15, 9. 1 Mós. 12, 3. Post G. b. 3, 25.
V. 10. * Róm. 4, 15. * 5 Mós. b. 27, 26.

ur allt þad, sem í lögmáls bókinni skrifad er.
En ad * enginn geti hjá Gudi réttlátur ordid af 11.
lögmálinu, þad er augljóst, því sá réttláti af
trúnni mun lifa. En lögmálid á ecki skyldt vid 12.
trúna, heldur (qvedur svo ad ordi) * sá, sem gjör-
ir þetta, mun af því lifa. Kristur hefir keypt 13.
oss undan bölvun lögmálsins, med því hann
vard * bölvan fyrir oss, því skrifad er: * böl-
vadur sé sá, sem á tré hángir. Þannig hefir 14.
heidnum þjódum hlotnast fyrir Jesúm Krist
blessan * Abrahams, svo ad vér fáum þá * fyr-
irheit andans fyrir trúna. Brædur mínir! eg 15.
tek dæmi af daglegu lífi: enginn ónýtir edur bæt-
ir vid þá * rádstöfun manns, sem stadfest er;
en * Abraham vóru fyrirheitin géfin og hans af- 16.
qvæmi; ecki * stendur þar afqvæmum, eins og
þar med væru margir meintir, heldur eins og
einn, og þínu afqvæmi, sem er Kristur. Med 17.
þessu vil eg sagt hafa, ad lögmálid, sem út var
géfid * fjögur hundrud og þrjátíu árum sídar, ecki
hafi gétad gjört ógylda og afmád þá af Gudi
ádur stadfestu rádstöfun um Krist; því ef * arf- 18.
leifdinn fæst med lögmálinu, þá fæst hún ecki

I

V. 11. * Kap. 2, 16.
V. 12. * 3 Mós. b. 18, 5. Ezech. 20, 11. Róm. 10, 5.
V. 13. * 2 Cor. 5, 21. þ. e. leid hid þýngsta straff, sem lögmálid tiltekur. * 5 Mós. b. 21, 23
V. 14. * 1 Mós. b. 12, 3. 22, 18. Es. 32, 15. 44, 3.
V. 15 * Hebr. 9, 17.
V. 16. * 1 Mós. b. 12, 3. * 1 Mós. b. 22, 18.
V. 17. * 2 Mós. b. 12, 40. Post. G. b. 7, 6.
V. 18. * Róm. 4, 13. 14.

vegna fyrirheitisins; en nú var Gud Abraham
nádugur vegna fyrirheitisins.
19. Til hvers var þá lögmálid? Því var vid-
bætt * vegna afbrotanna, þángad til afqvæmid
kjæmi, uppá hvert fyrirheitin hljódudu og þjón-
údu * Englar ad því fyrir hend * medalgaungu-
20. mannsins. En fleiri enn * eitt lögmál hefir med-
algángara, en * Gud er einn og hinn sami.
21. Skyldi þá * lögmálid vera gégn Guds fyrir-
heitum? fjærri sé því! Því ef þvílíkt lögmál
hefdi gésid verid, sem * farsæld gat veitt, þá er
þad víst, ad réttlætíngin hefdi fengist af lögmál-
22. inu. En * Ritníngin sýnir ad allir eru sekir,
svo ad fyrirheitid veitist þeim trúudu fyrir Krists
23. trú. En ádur enn trúin kom, stódum vér undir
gætslu lögmálsins og vórum vid þad bundnir,
þángad til sá trúar lærdómur, sem var í vænd-
24. um, opinberadist. Þannig var lögmálid vor
* typtunar-meistari þángad til Kristur kom, svo ad
25. vér af trúnni réttlættumst. En nú, þá þessi
trúar lærdómur er kominn, stendum vér ecki
26. lengur undir typtunar-meistaranum, þvíad * þér
erud allir órdnir Guds börn fyrir trúna á Je-

---

V. 19. * Róm. 4, 15. 5, 26. * Post. G. b. 7, 53. Hebr. 2, 2. * Joh. 1, 17.
V. 20. * Ecki einungis Mósis lög, heldur og Krists lögmál. 2 Mós. b. 19, 3. 8. 24, 3. 8. * 5 Mós. b. 4, 39. 1 Cor. 8, 4. 1 Tim. 2, 5.
V. 21. * V. 17. 18. * Róm. 8, 2. 4.
V. 22. * Róm. 3, 9. 11, 32.
V. 24. * Matth. 5, 17. Post. G. b. 13, 39. Róm. 10, 4.
V. 26. * Esa. 55, 5. Joh. 1, 12.

súm Krist; því svo margir af ydur, sem * erud 27.
skírdir til ad trúa á Krist, þér * hafid íklædst
Kristi. Hjá honum gyldir hid sama * Gýdíng- 28.
ur og Gricki, þræll og hinn frjálsi, karl og kona;
því þér erud allir * eitt í Jesú Kristi. En ef 29.
þér erud Krists, þá erud þér og * Abrahams
nidjar og erfíngjar eptir * fyrirheitinu.

## 4. Kap.

I.). Þeir kristnu eru ecki þrælar undir lögmál-
inu, heidur börn v. 1—7, II.) Postul-
inn rædur því frá ad hverfa aptur til
lögmálsins v. 8—20. III.) Eptirlíkíng
dregin af Agar og Sara v. 21—31.

Hér med vil eg sagt hafa ad þad sé enginn 1.
munur á þrælnum og erfíngjanum, á medan
erfínginn er * barn, þó hann egi allar eigurn-
ar, því hann er undir tilsjónar og rádsmennum, 2.
þar til sá af fødurnum tiltekni tími er kominn.
Þannig vórum vér medan vér vórum børn, * þræl- 3.
bundnir undir * heimsins stafrof; en þá * sá til- 4.
setti tími var kominn, sendi Gud sinn Son fædd-
ann af qvinnu, lögmálinu undirgéfinn, svo ad 5.



V. 27. * Róm. 6, 3. * Róm. 13, 14
V. 28. * Róm. 10, 12. 3, 22. 29. 2, 11. Post. G. b. 10, 34. Cól. 3, 11. * Jóh. 17, 21. Eph. 2, 14. 15.
V. 29. * Róm. 9, 7. * 1 Mós. b. 21, 12.
V. 1. * Hebr. 12, 9. 10.
V. 3. * Cól. 2, 20. * Ceremoniu lögmálid. Post. G b. 15, 10.
V. 4. * 1 Mós. b. 49, 10. Dan. 9, 24. Mark. 1, 15. Ephes. 1, 10.

hann * keypti þá fría, sem undir løgmálinu
6. stódu og vér fengjum * fulltída barna-rétt. En
med því þér erud ordnir fulltída synir, þá hefir
Gud sendt síns Sonar anda í ydar hjørtu, sem
7. hrópar: * Fadir! elskulegi Fadir! þú ert þess
vegna ecki framar þræll, heldur fulltída sonur;
en ef þú ert sonur, þá ertu líka * erfíngi Guds
vegna Krists.
8. Fordum ad sønnu, á medan þér þecktud
ecki Gud, * dýrkudud þér þá, sem í raun og
9. veru ecki eru Gudir; en nú, eptir þad þér þeck-
id Gud, já, erud af * Gudi þecktir, hvernig gét-
id þér aptur snúid til þess * kraptlitla og fátæk-
lega barna stafrofs, undir hvert þér á ný viljid
10. þrælka? Þér * haldid uppá sérlega daga, mán-
11. udi, vissa tíma og ár. Eg er hræddur um ad
12. eg hafi unnid hjá ydur * til forgéfins. Verid
eins og eg*, því eg var eins og þér erud; um
þetta bid eg ydur, brædur! med engu hafid þér
13. móðgad mig. Þér munid, ad eg var * sjúkur á
líkamanum, þá eg í fyrra sinn bodadi ydur nád-

---

V. 5. * Kap. 3, 3. * v. 26. Róm. 8, 14. 15.
V. 6. * Mark. 14, 36. Jóh. 8, 15.
V. 7. * Róm. 8, 17.
V. 8. * 1 Cor. 8, 4. 12, 2.
V. 9. * 1 Cor. 8, 3. 13, 12. * Hebr. 8, 7. 7, 18. Gal. 4, 3. Cól. 2, 8. 20.
V. 10. * Róm. 14, 5. Cól. 2, 16.
V. 11. * 2 Jóh. v. 8.
V. 12. * 1 Cor. 11, 1. Eg matti, ádur enn eg vard kristinn, eins og þér gjørid, ofmjog Gydinga Ceremoniu løgmál, nú gjøri eg þad ecki framar; líkist mér i því.
V. 13. * 1 Cor. 2, 3.

ar lærdóminn, samt forsmáðuð þér mig ecki í 14.
mínum bágindum, né burtsnerudud mér þar fyr-
ir, heldur medtókud mig eins og * engil Guds,
edur Jesúm Krist sjálfann. Hversu sælir þókt- 15.
ust þér þá! Eg gét borid ydur þad, ad hefdud
þér gétad, þá hefdud þér rysid augun úr hefdum
ydar og géfid mér. Er eg þá ordinn óvinur 16.
ydar vegna þess * eg segi ydur einlæglega sann-
leikann? hinir * vilja koma sér inn hjá ydur, en 17.
ecki af gódu, heldur vilja útiloka ydur, svo ad
þér gángid eptir þeim. Ad vísu er þad loflegt, 18.
ad képpast ætíd eptir ad verda ecki ødrum minni
í því, sem gott er, og ecki einúngis medan eg
er hjá ydur. Børn mín! sem eg á ný med 19.
harmqvælum geng med, þar til Kristur * er
mindadur í ydur; eg vildi eg væri nú hjá yd- 20.
ur, svo eg gæti breytt ræddinni vid ydur, því
eg er í vandrædum med ydur.

Segid mér, þér, sem viljid vera * undir 21.
løgmálinu, skiljid þér løgmálid? þar stendur * 22.
skrifad, ad Abraham hafi átt tvo syni, annann
vid ambáttinni, en hinn vid þeirri frjálsu. Sá, 23.
sem hann átti vid ambáttinni, var * á holdleg-
ann hátt gétinn, en hinn * eptir fyrirheiti. Þetta 24.
hefir meira ad þýda. Þessar tvær eru þeir tveir

---

V. 14. * Malach. 2, 7. Matth. 10, 40.
V. 16. * Amos. 5, 10. V. 17. * Falskénnendurnir.
V. 19. * 1 Cor. 4, 15. Philem. v. 10. * Róm. 8, 29. þar til þér erud ordnir fullkomnir í kristilegri þeckingu.
V. 21. * Kap. 3, 10. 25.
V. 22. * 1 Mós. b. 16, 15. 21, 2.
V. 23. * Jóh. 8, 16. * Róm. 9, 7. 8.

* sáttmálar, annar, sem kom frá Sínaí fjalli,
25. gétur børn til þrældóms; þessi er Hagar, því
Sínaí fjall í Arabíu kallast Hagar og samsvar-
ar þeirri núverandi Jerúsalem, því hún er á-
26. samt sínum * børnum í ánauð. En sú * himn-
eska Jerúsalem er frjáls og hún er vor módir,
27. því * stendur skrifad: vertu glød óbirja, sem eck-
ert barn hefir átt, hrópa og kalla hátt þú, sem
hefir jódsjúk ordid, því børn þeirrar ynfirgéfnu
28. eru fleiri, enn hinnar, sem manninn hefir. Vér,
brædur mínir! erum * fyrirheitisins børn, eins
29. og Isaak. En eins og fordum * sá, sem á hold-
legann hátt var gétinn, ofsókti þann, sem á and-
legann hátt var gétinn, eins gengur það til enn.
30. En hvad segir * Ritníngin? rek burt ambáttina
og son hennar; því ecki skal ambáttar sonurinn
31. taka arf med syni þeirrar * frjálsu. Vér erum
því, brædur! ecki nidjar ambáttarinnar heldur
* hinnar frjálsu.

5. Kap. I.) Páll kénnir: ad þeir, sem vilji halda lög-
málinu, falli úr rødinni v. 1—12. II.)
Varar

V. 24. * Hebr. 8, 9. 10.
V. 25. * Gydingum, sem vóru ánaudugir undir Mósis
laga oki.
V. 26. * Krists ríki, í hverju menn eru fríir frá hlýdni
vid Mósis Ceremoníu løgmál. Esa. 2, 2. Hebr.
12, 22. Opinb. b. 3, 12.
V. 27. * Es. 54, 1. V. 28. * v. 23. Róm. 9, 8.
V. 29. * 1 Mós. b. 21, 9.
V. 30. * 1 Mós b. 21, 10. 12. Jóh. 8, 3.
V. 31. * Róm. 6, 18.

Varar þó vid misbrúkun hins kristilega frelsis v. 13—26.

Haldid stöduglega vid * þad frelsi, sem Kristur 1.
hefir ydur afrekad og látid ecki aptur leggja á
ydur * ánaudar okid. Vitid, eg Páll, segi ydur 2.
þad, ad ef þér látid ydur * umskéra, * þá gagn-
ar Kristur ydur ecki. Enn á ný vitna eg þad 3.
fyrir hverjum þeim, sem lætur sig umskéra, ad
hann skuldbindur sig til ad halda * allt logmál-
id. Hverjir helzt af ydur, sem ætlid ad * rétt- 4.
lætast fyrir logmálid, þér erud ordnir vidskila
vid Krist, erud fallnir úr nádinni; vér þar á 5.
mót væntum, vegna vors andlega hugarfars, ad
odlast fyrir trúna þá eptirvæntu réttlætingu, því 6.
* hjá Kristi gyldir hverki umskurn né yfirhúd,
heldur * trú, sem sýnir sinn krapt í elskunni.
Þér héldud vel áfram, en hverr hefir hindrad 7.
ydur, svo ad þér trúid ecki sannleikanum? slík 8.
trúgirni er ecki frá þeim, sem ydur hefir kallad. Lít- 9.
id * súr-deig sýrir allt deigid. Eg * treysti 10.
ydur med Drottins hjálp til þess, ad þér séud
ecki odruvísi þenkjandi, en sá, sem * trublar
ydur, mun fá sitt straff, hverr helzt sem hann er.
Ef eg enn, Brædur mínir! væri ad halda fram 11.
umskurninni, því er eg þá enn ofsóktur? þá væri

---

V. 1. * Jóh. 8, 32. Post. G. b. 15, 10. 1 Pét. 2, 16 * Esaj. 9, 4.
V. 2. * eptir ad þér hafid tekid kristni. Post. G. b. 15, 1.
V. 3. * Mósis logmáli. V. 4. * Kap. 2, 21.
V. 6. * 1 Cor. 7, 19. 2 Cor. 5, 26. Gal. 6, 15. * Jóh. 15, 14. V. 9. * 1 Cor. 5, 6.
V. 10. * 2 Cor. 2, 3. * Kap. 1, 7.
V. 11. * 1 Cor. 1, 23.

12. krossins * hneixli burttekid, þad væri betur ad
þeir væru burtreknir, sem gjora ydur óróa.
13. Þér erud ad vísu, brædur! kalladir til frels-
is, en á því rídur ad frelsid ecki * misbrúkist til
eptirlátsemi vid holdid, heldur ad hverr ydar þéni
14. ødrum med * kjærleika; því * allt løgmálid inni-
felst í þessu eina bodordi: elska skaltu náúngann,
15. sem sjálfann þig. En ef þér * tennlist innbyrd-
is og ásælist hverr annann, sjáid þá fyrir ad þér
16. tortýnid ecki hverr ødrum. En eg áminni yd-
ur, ad þér látid ydur * af andanum leida, en
17. fremjid ecki þad, sem holdid girnist; því * hold-
id girnist gégn andanum og andinn gégn hold-
inu, þau eru hvert gégn ødru, þar af kémur
þad, ad þér gjorid ecki þad, sem þér viljid.
18. Ef þér * leidist af andanum, þá erud þér ecki
19. undir løgmálinu. Allir vita hvílík eru * holds-
ins verk, ad þad eru skjækju lifnadur, saurlífi,
20. lauslæti, skurdgoda dýrkan, kukl, hatur, deilur,
képpni, stórlyndi, þráttanir, tvídrægni, flocka-
21. dráttur, øfund, mord, * ofdryckja, óhófs veitslur
og annad þessu líkt, um hvad allt eg segi ydur
enn þá hid sama, sem eg hefi ádur sagt, ad þeir,
22. sem slíkt gjora, * ødlist ecki Guds ríki. En *
ávøxtur andans er kjærleiki, gladværd, fridsemi,

---

V. 13. * 1 Cor. 8, 9. 1 Pét. 2, 16. * Kap. 6, 2.
V. 14. * Krists løgmál. Matth. 22, 39. 3 Mós. b. 19, 18.
V. 15. * 2 Cor. 12, 20. V. 16. * Róm. 6, 12. 8, 1. 5.
V. 17. * Róm. 7, 15. 23. V. 18. * Róm. 8, 2. 14.
V. 19. * 1 Cor. 3, 3. 6, 9. Eph. 5, 3 5.
V. 21. * Luk. 21, 34. Róm. 13, 13. * 1 Cor. 6, 10. Eph 5, 5. Cól. 3, 6.
V. 22. * Ephes. 5, 9. Cól. 3, 12.

lánglundar-géd, ljúflyndi, góðvilji, hreinskilni,
hógværd, bindindi, gégn * þessu er ecki lögmál- 23.
id. Þeir, sem Krists eru, þeir hafa krossfest 24.
hold sitt med þess girndum og tilhnegíngum.
Ef vér * lifum í andanum, þá framgaungum í 25.
andanum. Sækjumst ecki eptir * hégómlegri 26.
vegsemd, áreitandi hverr annann og öfundandi
hverr annann.

I.) Páll áminnir til ýmislegra dygda v. 1—10. 6. Kap.
II.) Varar vid fals-kénendum v. 11—18.

Gódir Brædur! verdi nockurr * fundinn ad ein- 1.
hverri synd, þá leidréttid þér, sem * andlegir
erud, hann med hógværd; en sérhverr gæti ad
sjálfum sér, ad hann * leidist ecki til syndar.
Hverr * beri annars byrdi og svo hafid þér * 2.
uppfyllt Krists lögmál *. Þykist nockurr mikill, 3.
en er þad þó ecki, hann dregur sjálfann sig á
tálar. En sérhverr * rannsaki sín verk og hrósi 4.
sér þá * einúngis med sjálfum sér, en ecki fyr-
ir ödrum; því hverr einn mun hafa sína * byrdi 5.
ad bera. Sá, sem * uppfrædist, veiti þeim alls- 6.

V. 23. * 1 Tímóth. 1, 9.
V. 24. * Róm. 6, 6, 11. Gal. 2, 20. Kap. 6, 14.
V. 25. * Róm. 8, 5. V. 26. * Phil. 2, 3.
V. 1. * Matth. 18, 15. Róm. 14, 1. 15, 1. * 1 Cor. 2, 1.
* 1 Cor. 10, 12.
V. 2. * 1 Thess. 5, 14. * Jóh. 15, 12. 1 Jóh. 4, 21.
V. 3. * Jak. 1, 26.
V. 4. * 2 Cor. 13, 5. * ef hann finnur þau hrósverd.
V. 5. * Ps. 62, 13. Jer. 17, 10. 32, 19. Matth. 2, 16. 27.
V. 6. * Róm. 15, 27. 1 Cor. 9, 11.

7. konar gædi, er hann uppfrædir. * Villist ecki,
Gud lætur ecki ad sér hæda; því þad, sem hverr
8. einn * sáir, þad mun hann uppskéra. Sá, sem
* sáir í holdinu, mun þar af gletun * uppskéra;
en sá, sem í andanum nidursáir, mun af andan-
9. um uppskéra eilíft líf. Látum oss * ecki þreyt-
ast * ad gjora gott, því á sínum tíma munum
10. vér uppskéra, ef vér ecki letjumst. Þess vegna,
á medan tími er til, þá * gjørum øllum gott,
en þó þeim helzt, sem eru * sømu trúar, sem vér.
11. Sjáid hvad lángt bréf eg hefi skrifad ydur,
12. med minni egin hendi. Þeir, sem eru ad neyda
ydur ad umskérast, eru þeir, sem sækjast eptir
yfirburdum á holdinu, einúngis til þess þeir
13. komist hjá ofsóknum vegna * krossins Krists; því
ecki vardveita sjálfir þeir, sem umskornir eru,
løgmálid, heldur vilja þeir ad þér umskérist,
14. svo þeir géti stært sig af ydar * holdi. En lángt
sé frá mér ad * hrósa mér af ødru, enn krossi
Herrans vors Jesú Krists, vegna hvers heimur-
15. inn er mér krossfestur og eg heiminum. * Í Je-
sú Kristi gyldir hverki umskurn né yfirhúd, held-
16. ur ad madur sé * ný sképna. Yfir svo mørg-
um, sem þessari * reglu fylgja, hvíli * fridur og
17. miskun og yfir Israeli Guds! Enginn olli mér

V. 7. * 1 Cor. 6, 19. * Lúk. 16, 25. Róm. 2, 6.
V. 8. * Ordsq. b. 22, 8. 2 Thess. 1, 9. * Ps. 126, 5.
V. 9. * 1 Cor. 13, 8. Sír. 51, 39. * 2 Thess. 3, 13.
V. 10. * Eph 4, 10. 1 Tim. 5, 8.
V. 12. * Philipp. 3, 18. V. 13. * ydar umskurn.
V. 14. * Jerem. 9, 24. 1 Cor. 1, 31.
V. 15. * Kap. 3, 6. * betradur. 2 Cor. 5, 17.
V. 16. * Philipp. 3, 16. * Psálm. 125, 5.

mædu héðan af, því eg ber * merki Jesú Krists á
mínum líkama. * Náðin Drottins Jesú Krists 18.
sé með yðar anda, Bræður! Amen!

# S. Páls Pistill
## til Ephesus-manna.

I.) Páll þakkar Gudi fyrir þá velgjørnínga, I. Kap.
sem mønnum séu veittir fyrir Krist v. 1
—14. II.) Biður að Gud vilji enn
betur upplýsa þá um mikilleik þessara
velgjørnínga v. 15—23.

Páll, að Guds vild Postuli Jesú Krists, 1.
óskar * náðar og friðar af Gudi vorum Føður
og Drottni Jesú Kristi, øllum * heiløgum, sem 2.
eru í Ephesus og trúa á Jesúm Krist. * Lof- 3.
aður sé Gud og Faðir vors Drottins Jesú Krists,
er oss hefir fyrir Krist blessað með allskonar
andlegri og himneskri blessun, eins og hann hef- 4.

V. 17. * 2 Cor. 4, 10. Kap. 11, 23—25.
V. 18. * Philipp. 4, 23.
V. 1. * Róm. 1, 7. V. 2. * 2 Pét. 1, 2.
V. 3. * 2 Cor. 1, 3. 1 Pét. 1, 3.

ir * útvalid oss í honum * ádur enn veroldin
var grundvollud, ad vér skyldum vera * heilagir
5. og flecklausir fyrir hans augliti og af elsku * fyr-
irhugadi oss eptir velþócknun síns vilja barna-
6. rétt hjá sér fyrir Jesúm Krist, til lofs sinnt
dýrdlegu nád, er hann veitti oss fyrir sinn *
7. elskulega, fyrir hvern, þad er fyrir hans blód,
vér hefum * lausnina odlast; fyrirgéfníngu synd-
8. anna * af ríkdómi Guds gjæsku, hverja hann
hefir ríkuglega látid oss í tje, med því ad veita
9. oss * vísdóm og skilníng, í því hann opinber-
adi oss * leyndar-rád síns velþócknanlega vilja,
10. er hann hafdi ádur ályktad med sjálfum sér, nefni-
lega; þá sína rádstofun, ad hann á * sínum tíma
vildi koma * ollu undir eitt hofud Krists, bædi
11. því, sem er á himni og á jerdu, undir þann,
í hverjum einnig vér, sem ádur væntum hans, *
hofum hlutteknígu odlast; vér, sem eptir fyrir-
hugun Guds, er framqvæmir allt eptir rádi síns
12. vilja, * ádur áqvardadir vórum, til þess ad vér,
sem fyrifram vonudum uppá Krist, séum hans
13. dýrd til lofs. J hverjum og þér, sem heyrt hafid
sannleiksins lærdóm, nádar lærdóm ydar sáluhjálp-

---

V. 4. * Jóh. 15, 16. Róm. 8, 29. 30. 2 Thess. 2, 13. 1 Pét. 1, 1. * Jóh. 17, 24. * Lúk. 1, 75. Eph. 2, 10.
V. 5. * Róm. 8, 15, 29. Gal. 4, 5.
V. 6. * Matth. 3, 17. 17, 5.
V. 7. * Post. G. b. 20, 28. Cól. 1, 14. 1 Pét. 1, 18. 19. * Ephes. 2, 7. 3, 8. 16.
V. 8. * Cól. 1, 9. V. 9. * Róm. 16, 25. Cól. 1, 26.
V. 10. * 1 Mós. 49, 10. Dan. 9, 24. Gal. 4, 4. * Cól. 1, 20.
V. 11. * Cól. 1, 12. 1 Cor. 15, 24. 28. Phil. 2, 9—11. Hebr. 1, 1. 6. Róm. 8, 29. 30.

ar, í hverjum og þér, sem trúið, eruð * innsiglaðir
með þeim fyrirheitna heilaga Anda, sem et * pant- 14.
ur vorrar arfleifðar, þángað til * lausnin kém-
ur fyrir þá, sem hans eru, til lofs hans dýrðar.
Þess vegna, frá því eg frétti um * trú yð- 15.
ar á Drottinn Jesúm og elsku yðar til allra
heilagra, hefi eg ecki aflátið að * þacka Guði 16.
fyrir yður og minnast yðar í mínum bænum, að 17.
Guð Drottins vors Jesú Krists, dýrðarinnar
Faðir, vildi géfa yður vísdóms og opinberunar
anda í sinni þeckíngu og upplýsa * augu yðar hug- 18.
skots, svo þér þeckt gétið hvílík að sé von yðar
köllunar og hvað yfrið dýrðleg sú arfleifð sé,
sem hann hefir þeim heilögu fyrirhugað og þeckt 19.
þann * yfirgnæfanlega mikilleika hans máttar,
sem hann hefir sýnt á oss, sem trúum fyrir
krapt þess hins sama almættis, sem hann sýndi 20.
á Kristi, þá hann * uppvakti hann frá dauð-
um og * setti til hægri handar sjálfum sér á himn-
um * yfir allann höfðíngjadóm og yfirráð, makt 21.
og herraveldi og allt það, sem nafn hefir, ecki
einúngis á þessari öld, heldur og þeirri tilkom-
andi. * Allt hefir hann lagt honum undir fæt- 22.
ur og sett hann * til höfðíngja yfir öllu í hans

---

V. 13. * Kap. 4, 30.
V. 14. * 1 Cor. 1, 22. * 1 Mós. b. 19, 5. 5 Mós. 7, 6.
Róm. 8, 23. Tít. 2, 14. 1 Pét. 2, 9.
V. 15. * Cól. 1, 4. 1 Thess. 1, 3. 2 Thess. 1, 3.
V. 16. * Róm. 1, 8. Phil. 1, 3. 4.
V. 18. * 2 Cor. 4, 4.
V. 19. * 1 Cor. 2, 5. Ephes. 3, 7.
V. 20. * Post. G. b. 2, 24. * Ps. 110, 1. 1 Cor. 15, 25.
V. 21. * Phil. 2, 9. Cól. 2, 10.
V. 22. * Psálm. 8, 7. 8. Matth. 28, 18. * Cól. 1, 18.

23: sofnudi, sem er hans * líkami, hvern sá uppfyllir, sem uppfyllir * allt í öllu.

## 2. Kap.

I.) Heidíngjar og Gydíngar eru lífgadir og frelsadir í Kristi v. 1—10. II.) Heidíngjar eru fyrir Krists blód ordnir medborgarar hinna heilögu v. 11—22.

1. Og svo hefir hann lífgad ydur, sem * daudir
2. vórud í yfirtrodslum og syndum; er þér * lánd í fordum ad heimsins sid og ad * vild þess hofdíngja, sem í loptinu drottnar; þess anda; sem nú sýnir sig verkandi í * vantrúarinnar sonum;
3. * á medal þessára vórum vér og allir fordum; á medan vér fylgdum vorum holdlegu girndum og hlýddum holdsins og tilhnegínganna vilja og vórum þess vegna af náttúrunni * börn reidinnar
4. ar eins og hinir. En Gud, sem * ríkur er af miskun, kalladi oss, vegna sinnar * miklu elsku, med hverri hann elskadi oss, * til lífsins ásamt
5. med Kristi, þá vér * daudir vórum í misgjerdum vorum — * af nád erud þér hólpnir ordn-
6. ir — og hefir uppvakid oss og sett oss á himni
7. í Jesú Kristi, svo ad á eptirkomandi öldum skyldi sá * mikli mikilleiki hans nádar lýsa sér á

---

V. 23. * Róm. 12, 15. 1 Cor. 12, 12. 27. Ephes. 4, 16. * Cól. 3, 11.
V. 1. * Cól. 2, 13.
V. 2. * 1 Cor. 6, 11. Tít. 3, 3. * Jóh. 12, 31. * Eph. 5, 6.
V. 3. * Cól 3, 7. * Jóh. 3, 6.
V. 4. * Róm. 10, 12. * Kap. 5, 8.
V. 5. * Róm. 6, 4. fl. 8, 11. * Cól. 2, 12. 13. * Tít. 3, 5.
V. 7. * Kap. 1, 7. 3, 8.

velgjerníngi þeim, er hann veitti oss med Jesú
Kristi; því af * náð erud þér hólpnir ordnir 8.
* fyrir trúna, og það er * ecki ydur að þacka,
heldur er það Guðs gjøf; * ecki af verkunum, 9.
svo að enginn hefir orsök að * stæra sig. Vér 10.
erum * hans verk * skapaðir í Jesú Kristi til *
góðra verka, sem Guð hefir fyrifram tilætlað
að vér stunda skyldum.

Munið því til þess, að þér vórud * forð- 11.
um holdlega sinnaðir heiðíngjar, kallaðir óum-
skornir af þeim, sem kalla sig umskorna af
þeirri umskurn, sem á holdinu er með høndum
gjørð; að þér þá vórud án Krists * útilokaðir 12.
frá rétti Gyðínganna og frá því að hafa hlut í
* fyrirheitisins sáttmálum, vonarlausir og án
Guðs í heiminum. En nú erud þér * í Kristi 13.
hluttakandi og þér, sem áður vórud * fjærlægir,
erud nú nálægir ordnir vegna Krists blóðs; því 14.
hann er * vor friður, sem hefir gjört * eitt úr
báðum og niðurbrotið skilrúms-vegginn, fjand-
skapinn og í sínu holdi afmáð * boðorðanna lög- 15.
mál, ásamt með þess setníngum, svo að hann

---

V. 8. * Róm. 3, 24. * v. 28. Gal. 2, 10. * Matth. 16, 17. Róm. 6, 23.

V. 9. * Róm. 3, 20. 27. 4, 2. fl. * 1 Cor. 1, 29.

V. 10. * Psálm. 100, 3. * 2 Cor 5, 17. * Tit. 2, 14. Ephes. 5, 2.

V. 11. * 1 Cor. 12, 2. Eph. 5, 8. Cól 1, 21.

V. 12. * Róm. 9, 4. * 1 Mós. 15, 17. 2 Mós. 19, 6.

V. 13. * Róm. 8, 1. * fjærlægir, það er: þeir, sem ecki máttu koma til Jerusalems musteris né taka þátt í opinberri Guðs dýrkun.

V. 14. * Es. 9, 6. Mich. 5, 4. Jóh. 16, 33. Cól. 1, 20. * Jóh. 10, 16. Gal. 3, 28.

skapadi af tveimur einn * nýann mann í sjálfum
16. sér, semdi frid og * sætti hverjatveggja vid Gud
í einum líkama fyrir krossinn og * deyddi fjand=
17. skapinn þar med og * bodadi ydur frid, sem vór=
18. ud fjær og nær, svo ad * fyrir hann hofum vér
adgáng hverjirtveggja til Fodursins í einum anda.
19. Þér erud þess vegna ecki framar géstir og fram=
andi, heldur * medborgarar enna heilogu og
20. * heimamenn Guds, bygdir yfir þann * grund=
voll, sem Postularnir og Spámennirnir hafa
21. lagt, hvers * hornsteinn Jesús Kristur er, á hver=
jum sú * samtengda bygging vex til heilags *
22. musteris í Drottni; á hverjum þér erud einnig
* bygdir til bústadar Guds í andanum.

## 3. Kap.

I.) Páll segir: ad hann sé settur Postuli til ad kunngiora heidnum þjódum Krists lærdóm v. 1 — 13. II.) Bidur, ad þeir megi styrkjast í þeirra sambandi vid Krist v. 14—21.

1. Þessa vegna er eg, Páll, * bandíngi Jesú
2. Krists * fyrir ydur heidíngjana; þér munud
hvert sem er heyrt hafa Guds * nádar rádstofun,

---

V. 15. * Cól. 2, 14. * 2 Cor. 5, 17.
V. 16. * Cól. 1, 20. * Róm. 8, 3.
V. 17. * Esa. 57, 19.
V. 18. * Jóh. 10, 4. 14, 6. Róm. 5, 2. Hebr. 10, 19.
V. 19. * Phil. 3, 20. Hebr. 12, 22. 23. * Gal. 6, 10.
V. 20. * Matth. 16, 18. 1 Cor. 3, 9. 10. * Ps. 118, 22.
V. 21. * Eph. 4, 16. * 1 Cor. 3, 16.
V. 22. * 1 Pét. 2, 5.
V 1. * Kap. 4, 1. Post. G. b. 21, 33. fl. 1 Eph. 3, 13. Cól. 1, 24. V. 2. * Post. G. b 9, 15. 1 Cor. 4, 1.

sem mér er géfin ydur til handa, ad mér var 3.
fyrir * opinberun kunngjørdur leyndardómurinn,
hvers eg ádur * stuttlega hefi gétid, uppá þad, 4.
ad þá þér þad lesid, gétid þeckt skilníng minn
á Krists * leyndardómi, er á hinum øldunum var 5.
mannanna sonum ecki * kunngjørdur, eins og
hann nú er fyrir andann opinberadur hans * hei-
legu Postulum og Spámønnum, nefnilega: ad 6.
heidíngjarnir séu * samarfar, heyri til sama lík-
ama og séu hluttakandi í fyrirheiti hans um
Kristum fyrir nádar lærdóminn, hvers * þjón 7.
eg er ordinn fyrir Guds nád mér ófyrirskuldad
veitta; fyrir hans almættis krapt; mér, hinum 8.
* lítilmótlegasta allra heilagra, er veitt sú nád,
ad kunngjøra á medal * heidinna þjóda þann
* óransakanléga vísdóm Krists og upplýsa alla 9.
um þad, hvernig þessum leyndardómi er háttad,
sem * var kunnugur einum Gudi, er * skapadi
allt, svo ad * kunnug verdi nú fyrir søfnudinn 10.
sú margbreytta speki Guds, høfdíngjum og herra-
dómum á himnum, eptir eilífri fyrirhugun, sem 11.
hann fullkomnadi fyrir Jesúm Krist vorn Drott-

K

V. 3. * Post. G. b. 22, 17. Róm. 16, 25. Gal. 1, 11, 12. * Ephes. 1, 9.
V. 4. * Cól. 4, 3.
V. 5. * Cól. 1, 26. * Post. G. b. 10, 28. Opinb. b. 10, 7.
V. 6. * Gal. 3, 28. 29. Eph. 2, 15. 16.
V. 7. * Róm. 1, 5.
V. 8. * 1 Cor. 15, 9. * Post. G. b. 9, 15. Gal. 1, 16. 2, 8. * Róm. 11, 33.
V. 9. * Cól. 1, 26. 1 Pét. 1, 20. * Cól. 1, 16.
V. 10. * 1 Pét. 1, 12.

12. inn; fyrir hvern vér hösum * djörfúng og * ad=
13. gáng med trausti fyrir trúna á hann. Þar fyr=
ir bid eg, ad þér látid ecki * hugfallast af þeim
þreyngíngum, er eg * líd fyrir ydar skuld; því
þad er ydar heidur.
14. Eg beygi þess vegna kné fyrir Födur Drott=
15. ins vors Jesú Krists, af hverjum allt faderni
16. nefnist * á himni og jördu, ad hann af sinnar
gædsku * rítdómi vilji veita ydur ad * styrkjast
svo kröptuglega í þeim * innra manni fyrir hans
17. anda, ad Kristur géti í ydar hjörtum * búid fyr=
ir trúna og ad þér séud rótfestir og grundvall=
18. adir í kjærleikanum og ásamt öllum heilögum
gétid * skilid, hvílík ad sé breidd, lengd, dýpt
19. og hæd elsku Krists og þeckt hversu hún yfir=
gengur allann skilníng, svo þér fullkomnist í allri
20. fullkomnun Guds. En þeim, sem * öllu framar
megnar ad gjöra framyfir þad, sem vér bidjum
edur skyljum, eptir þeim krapti, sem í oss verk=
21. ar, honum sé * dýrd í söfnudinum fyrir Jesúm
Krist ætíd um aldir alda, Amen!

V. 12. * Hebr. 4, 16. 10, 19. * Jóh. 10, 9. Róm. 5, 2.
V. 13. * Phil. 1, 14. * Cól. 1, 24.
V. 15. * Kap. 1, 10.
V. 16. * Kap. 1, 18. * 1 Pét. 5, 10. * Cor. 4, 16.
V. 17. * Jóh. 14, 23.
V. 18. * Cól. 1, 26. gétid skilid mikilleik, krapt og edli Krists elsku.
V. 20. * Róm. 16, 25. Eph. 1, 19.
V. 21. * Róm. 16, 27.

I.) Postulinn áminnir ad kristnir breyti samqvæmt þeirra kollun v. 1—16. II.) og þar fyrir fordist þá lesti, sem þeir í heidni drýgdu v. 17—32. 4. Kap

Eg, sem er * bandíngi vegna Drottins, áminni 1.
ydur þar fyrir, ad þér hegdid ydur samqvæmt
þeirri kollun, sem þér erud kalladir, séud * litil- 2.
látir, hógværir, þolugir, * umlídid hverr annann
í kjærleika og kappkostid ad vardveita * eníngu 3.
andans med bandi fridarins. Þér erud * einn 4.
líkhami og einn andi eins og þér erud einnig
kalladir einni von ydar kollunar. * Einn er 5.
Drottinn, ein trú, ein skírn, * einn Gud og 6.
Fadir allra, sem er yfir ollum, * hjá ollum og í oss
ollum; en sérhverjum af oss er * nádargjef veitt, 7.
eptir því, sem Kristur hefir hverjum af nád sinni
úthlutad. Þar fyrir segir * Ritningin: uppfarinn 8.
í hædina hefir hann þá * herteknu burtleidt og géf-
id monnum gjafir. En þetta: hann er * uppfar- 9.
inn, hvad er þad annad, enn ad hann hafi stíg-
id nidur til * jardarinnar? En sá, sem nidur- 10.

K 2

V. 1. * Post. G. b. 21, 13. 33. Eph. 3, 1.
V. 2. * Cól. 3, 12. * 1 Thess. 5, 14.
V. 3. * Cól. 3, 14.
V. 4. * Róm 12, 5. 1 Cor. 12, 27.
V. 5. * 1 Cor. 8, 4. 6 12, 5.
V. 6. * Mal. 2, 10. * Róm. 11, 36.
V. 7. * Róm. 12, 3.
V. 8. * Psálm 68, 19. (2 Sam. b. 5, 7. 9 6, 12. 19.) * Cól. 2, 15.
V. 9. * Jóh. 8, 13. 6, 62. * 1 Pét. 3, 19.

steig er hinn sami, sem * uppstieg yfir alla himna,
11. ad hann uppfyllti allt. Þessi hinn sami hefir
gjört suma ad * Postulum, suma ad * Spámönn-
um, suma ad * Gudspjallamönnum, suma ad
12. hirdurum og * lærifedrum, alltsaman * heilögum
til fullkomnunar, þjónustunni til framqvæmdar
13. og * Krists líkhama til uppbyggíngar, þar til vér
allir erum komnir til einíngar í trúnni og þeck-
íngar á Guds Syni, hefum nád * fullordins
14. aldri og fullkomnum þroska Krists safnada; svo
ad vér séum ecki framar * börn, er * hrekjumst og
feykjumst af hverjum lærdóms vindblæ, fyrir
brögdum manna, slægd þeirra og kjænskufullu
15. vélum, heldur heldum fast vid sannleikann í
kjærleika, * tökum framförum í öllu svo sem lim-
16. ir Krists, sem er * höfudid, af hverjum * allur
líkhaminn, sem er samtengdur og samsettur med
allskonar hjálpar-taugum, vex, eptir þeim krapti,
sem hverjum lim er veittur til uppbyggíngar *
í kjærleikanum.
17. Þess vegna skipa eg og áminni í Drottni,
ad þér ecki framar breytid sem hinar þjódirnar,
18. er fylgja * hégómlegleika þeirra hugskots, eru blind-

V. 10. * Post. G. b. 2, 33.
V. 11. * 1 Cor. 12, 28. * Post G. b. 11, 24. * 21, 8. * Róm. 12, 7. líklega forstödu-menn og stödugir kénnarar í einstökum söfnudi Tít. 1.
V. 12. * Róm. 12, 5. * 1 Cor. 12, 27. Cól. 1, 24.
V. 13. * Kap. 3, 18. 19.
V. 14. * Esa. 28, 9. 1 Cor. 14, 20. * Matth. 11, 7. Hebr. 13, 9.
V. 15. * 2 Pét. 3, 18. * Cól. 1, 18. fl.
V. 16. * 1 Cor. 12, 12. 27. * 1 Cor. 16, 14.
V. 17. * 1 Pét. 4, 3.

odar á * skilníngínum og vegna þeirra * vanþeck-
íngar og hjartans hardúdar eru fráhverfar því
líferni, sem Gudi líkar, blygdunarlaust hafa seckt 19.
sér nidur í * saurlifnad og drýgja allskonar ó-
térleika fyrir ábáta sakir. Ecki er ydur þannig 20.
Kristur kénndur, ef þér annars hafid hans lær- 21.
dóm numid og erud í honum uppfæddir, eins
og hann í sannleika er frá Jesú kominn. * Af- 22.
leggid því — segi eg — hinn gamla manninn,
sem lagadur er eptir þeirri * fyrri hegdun og spillt-
ur af vélandi girnd, en * endurnýist í anda ydar 23.
hugskots og * íklædist þeim nýa manni, sem * skap- 24.
adur er eptir Guds vilja til * réttlætis og heilag-
leika sannleikans. Afleggid því * lygar og tal- 25.
id sannleika hverr vid sinn náúnga, því vér er-
um hverr annars * limur, * reidist, en syndgid þó 26.
ecki; sólin gángi ecki undir yfir ydar reidi; * géf- 27.
id ecki djoflinum rúm. Þjófurinn steli ecki fram- 28.
ar, heldur * vinni og gjori eitthvad nytsamt
med höndunum, svo hann hafi þad, sem hann
géti meddeilt þeim þurfandi. Eckert * ósæmilegt 29.
ord útfari af ydar munni, heldur þad, sem gott
er til þarflegrar * uppbyggíngar og kémur sér vel

---

V. 18. * Eph. 2, 12. * 1 Thess. 4, 5.
V. 19. * Róm. 1, 27.
V. 22. * Cól. 3, 8. 1 Pét. 2, 1. * Tít. 3, 3. 1 Pét. 4, 23.
V. 23. * Róm. 12, 2. Cól 3, 10.
V. 24. * Róm. 6, 4. 2 Cor. 5, 17. * 1 Mós. b. 5, 1. * Lúk. 1, 75.
V. 25. Cól. 3, 9. Zach. 8, 16. * Róm. 12, 5.
V. 26. * Psálm. 4, 5. Jak. 1, 19.
V. 27. * 1 Pét. 5, 9.
V. 28. * Post. G. b. 20, 24. 1 Thess. 4, 11.
V. 29. * Kap. 5, 4. 6. Matth. 12, 36. * Cól. 3, 16.

30. ad heyra. Hriggid ecki Guds heilaga Anda,
med hverjum þér * innsigladir erud, til þess ydar
31. lausnar-tími kémur. Allur * biturleiki, stór-
lyndi, reidi, hávadi og íllmæli séu fjarlæg ydur,
32. svo vel sem øll vondska; en verid hverr vid ann-
ann * blídir, medaumkunarsamir, * fúsir ad fyr-
irgéfa hverr ødrum, eins og Gud hefir fyrir-
géfid ydur vegna Krists.

5. Kap. I.) Páll býdur: ad taka Gud og Krist til ept-
irdæmis í elskunni v. 1—2. II.) Ad af-
leggja heidinglega lesti v. 3—21. III.)
Hjón gæti þeirra skyldu v. 22—33.

1. 2. *Líkist þá Gudi, sem elskuleg børn og * sýnid
elsku í ydar hegdun, eins og Kristur elskadi oss,
þá hann * gaf sig sjálfann Gudi til * velþóknan-
legs offurs og fórnfæringar.
3. Eptir því, sem heilegum hæfir, á hverki *
frillulífi, nockurskonar óhreinleiki, edur ágirnd,
4. svo mikid sem nefnast á medal ydar, né blygd-
unarleysi, né * fíblslegt hjal, edur gárúnga hátt-
ur, því þvílíkt er ósæmilegt, heldur miklu fram-
5. ar * þackargjørd; því þad vitid þér, ad enginn *
frillulífis madur, edur óhreinn, edur * ágjarn,

---

V. 30. * 2 Cor. 1, 22. Eph. 1, 14. Lúk. 21, 28.
V. 31. * Cól. 3, 8. 9.
V. 32. *Phil. 2, 1. 1 Pét. 3, 8. *Matth. 6, 14. Cól. 3, 13.
V. 1. * Matth. 5, 45. 48 1 Pét. 1, 15. 16.
V. 2. * Jóh. 13, 34. 15, 12. * Gal. 2, 20. fl. * Tit. 2,
14. * Hebr. 8, 3. 9, 14.
V. 3. * Gal 5, 19. 1 Cor. 6, 15.
V. 4. * Kap. 4, 29. * 1 Thess. 5, 18.
V. 5. * 1 Cor. 6, 10. Gal. 5, 21. * Cól. 3, 5.

sem er skurdgodadýrkari, hefir arftekn í ríki
Krísts og Guds. Enginn * leidi ydur afvega 6.
med hégómlegum ordum, því fyrir * þetta kém-
ur reidi Guds yfir syni vantrúarinnar. Takid 7.
því ecki hlutdeild med þeim. Adur vórud þér 8.
* mirkur, nú erud þér * ljós í Drottni; gángid
því sem ljósins born, því * ávoxtur ljóssins er 9.
gódvilji, réttlæti og hreinskilni. * Hugsid eptir 10.
því, hvad Drottni er þócknanlegt, en * takid ecki 11.
þátt í * mirkursins vondu verkum, heldur miklu
framar * straffid þau; því þad þeir drýgja í 12.
leyndum, er skømm um ad tala, en allt þad, 13.
straffad * af ljósinu, verdur augljóst; því sérhvad
þad, sem auglýsir, er ljós. Þar fyrir * stend- 14.
ur skrifad: * vakna þú, sem sefur og * rís upp
frá daudum, þá mun Kristur * lýsa þér. * Gæt- 15.
id þar fyrir varúdar í ydar hegdun, ad þér
breytid ecki sem * fávísir, heldur sem vísir, * not- 16.
id tækifærid, því nú er * hætuleg tíd. Verid 17.
því ecki * fávísir, heldur skynjid hverr ad er
Drottins vilji. Og dreckid ydur ecki druckna af 18.

---

V. 6. * Jer. 29, 8. Matth. 24, 4. * Matth. 12, 37.
V. 8. * 1 Thess. 5, 4. 5. * Luk. 16, 8. Jóh. 12, 36. Phil. 2, 15.
V. 9. * Gal. 5, 22. V. 10. * Róm. 12, 2.
V. 11. * Róm. 6, 22. 1 Cor. 5, 8. 11. 10, 20. 2 Cor. 6, 14. 2 Thess. 3, 14. * Róm. 13, 12. * Matth. 18, 17.
V. 13. * Jóh. 3, 20. 21.
V. 14. * Esa. 60, 1. * Esa. 26, 19. 1 Cor. 15, 34. 16, 13. * Róm. 6, 4 5. Col. 3, 1. * Esa 9, 2.
V. 15. * Ordsqv. b. 14, 8. Matth. 10, 16. * Róm. 16, 19.
V. 16. * Col. 4, 5. * Eph. 6, 13.
V. 17. * Róm. 12, 2.

víni, því þar af flýtur óheill, heldur fyllist *
19. andagipt og sýngid hverr fyrir ødrum * sálma,
lofqvædi og andlega saungva; sýngid og spilid í
20. ydrum hjertum Drottni lof. * Packid jafnan
Gudi og Fedur fyrir alla hluti í nafni Drott-
21. ins vors Jesú Krists og verid * hverr ødrum
undirgéfnir í ótta Drottins.
22. * Konurnar séu sínum mønnum undirgéfn-
23. ar eins og Drottni; því madurinn er hefud
konunnar, eins og * Kristur er hofud safnadar-
24. ins; hann er og * frelsari síns líkhama. En
eins og søfnudurinn er undirgéfinn Kristi, þann-
25. ig séu og * konurnar sínum mønnum í ollu. Pér
* menn! elskid ydar egin konur, eins og Kristur
* elskadi søfnudinn og * gaf sig sjálfann út fyr-
26. ir hann, svo ad hann * helgadi hann og * hreins-
27. adi hann * í vatns lauginni, med ordinu; uppá
þad hann útvegadi sjálfum sér * dýrdlegann søfn-
ud, á hverjum enginn blettur eda hrucka væri,
edur nockud þvílíkt, heldur væri * heilagur og
28. lýtalaus. Pannig ega mennirnir ad elska sín-
ar egin konur sem sína egin líkhami. Sá, sem
elskar sína eginkonu, * elskar sjálfann sig.

V. 18. *Ordsqv. b. 20, 1. 23, 29. Gal. 5, 21. * Post. G. b. 2, 4. V. 19. * Cól. 3, 16.
V. 20. * v. 4. 1 Thess. 5, 18.
V. 21. * 1 Pét. 5, 5.
V. 22. * 1 Mós. b. 3, 16. 1 Cor. 11, 3. 14, 34.
V. 23. * Kap. 1, 21. 23. 4, 12. 15. * Post. G. b. 5, 31. 1 Jóh. 4, 14. V. 24. * Cól. 3, 18.
V. 25. * Cól. 3, 19. 1 Pét 3, 7. * 5, 2. * Gal. 1, 4.
V. 26. * Jóh. 17, 7. * 1 Jóh. 1, 7 * Tit. 3, 5.
V. 27. * Psálm. 45, 19. * Kap. 1, 4. Cól. 1, 22.
V. 28. * 3 Mós. b. 19, 18.

Enginn hefir nockru sinni sinn eginn líkama hat- 29.
ad, heldur alid enn fyrir honum og hjúkrad,
eins og * Kristur gjörir sofnudinum; því * vér 30.
erum limir hans líkama, af hans holdi og af
hans beinum. Þess vegna skal madurinn * yfir- 31.
gefa Fødur sinn og módur og tengjast svo vid
konu sína, ad þau tvø verdi eitt hold. Þetta 32.
er mikill leyndardómur, nefnilega: eg meina hér
med til Krists og safnadarins. Allir þér hverr 33.
um sig skulud * elska eins ydar egin konur
og ydur sjálfa, en konan * beri lotníngu fyrir
manni sínum.

## 6. Kap.

I.) Barna og foreldra skyldur, þjóna og drottna v. 1—9. II.) Upphvatníng ad hertögjast, svo stadist géti kristinndóms og kristilegs lifernis fjandmenn; ad bidja fyrir samkristnum og Páli sjálfum v. 10—20. III.) Páll sendir Tychíkus til ad láta Ephesus-menn vita hvernig honum lídur v. 21—22. IV.) Óskar þeim Guds nádar v. 23—24.

Þér børn! * verid foreldrum ydrum hlýdin, Drott- 1.
ins vegna; þvíad þad er rétt, * heidra fødur 2.
þinn og módur, þad er hid fyrsta bodord med

V. 29. * Kap. 4, 16.
V. 30. * 1 Cor. 6, 15. 12, 27.
V. 31. * 1 Mós. b. 2, 24. Matth. 19, 5.
V. 33. * v. 28. * 1 Mós. b. 3, 16.
V. 1. * Cól. 3, 20.
V. 2. * 2 Mós. b. 20, 12. Matth. 15, 4.

3. fyrirheiti, (svo) ad þér vegni vel og * þú verdir
4. lánglífur í landinu. En þér, fedur! * reitid ecki
börn ydar til reidi, heldur uppalid þau med *
5. aga og umvondun eptir Drottins bodum. Þér,
* þjónar! verid undirgéfnir ydar jardnesku drottn=
um med lotníngu og * hrædslu af einlægu gédi,
6. svo sem Kristi; ecki med augna þjónustu, svo
sem þeir, er monnum vilja þóknast, heldur svo
7. sem þjónar Krists, er gjora Guds vilja af hjarta,
þjóna med gódu gédi, * eins og þeir gjori þad
8. fyrir Drottinn, en ecki menn og * vita, ad hvad
hverr einn gjorir gott, þad mun verda honum
endurgoldid af Drottni, hvert heldur hann er
9. þræll edur frjáls. En þér, * drottnar! breytid
eins vid þá; látid af hótunum, svo sem þeir, er
vita, ad þér egid og svo ydar * Drottinn á himni
og ad hann gjorir sér * engann manna=mun.
10. En framar, brædur mínir! *styrkist í Drottni
11. og krapti hans máttar. Iklædist Guds al=
vepni, svo þér stadist gétid djofulsins * véla=
12. brogd; því vér egum ecki í strídi vid hold og
blód, heldur vid hofdíngja og maktar=vold; vid
* heims drottna þessa mirkurs, vid vondskunnar
13. anda í loptinu. * Takid því Guds alvepni; svo

---

V. 3. * Ordsqv. b. 3, 2.
V. 4. * Cól. 3, 21. Ordsqv. b. 19, 18. * 5 Mós. b. 6, 7. 20. Psálm. 78, 4.
V. 5. * Cól. 3, 22. 1 Pét. 2, 18. * Phil. 2, 12.
V. 7. * Cól. 3, 23. V. 8. * Róm. 2, 6. 1 Cor. 3, 8.
V. 9. * Cól. 4, 1. * 2 Makkab. b. 18, 3. 4. * 5 Mós. b. 10, 17. Job. 34, 19. 1 Pét. 1, 7.
V. 10. * 1 Cor. 16, 13. 2 Tím. 2, 1.
V. 11. * Róm. 13, 12. 2 Cor. 6, 7. * 10, 4. 5. 1 Pét. 5, 8.
V. 12. * Cól. 1, 13. V. 13. * 2 Cor. 6, 7. 10, 4.

þér getid veitt mótstødu, á enum vonda degi og
gétid, ad ellu yfirunnu, stadist. Standid reidu- 14.
búnir og * hafid ydar lendar umgirdtar med sann-
leika. Verid íklæddir * réttlætisins brinju og út- 15.
búid ydar fætur med * Evangelió fridarins, sem
ætíd sé ydur vid hend. En umfram allt, grípid 16.
* skjeld trúarinnar, med hverjum þér megna
munud ad útslecka ell þess vonda eldlegu skeyti
og takid hjálm hjálpræðisins og * sverd andans, 17.
sem er Guds ord. * Bidjid á sérhverri tíd í 18.
anda med allskonar bænum og beidni og * verid
árvakrir og sífeldlega stedugir í fyrirbeidslu fyr-
ir ellum heilegum og svo * fyrir mér, ad þá 19.
eg opna minn munn, skorti mig ecki ord til þess
ad kunngjera * djarflega nádar lærdómsins leynd-
ardóm, hvers * sendibodi eg er í fjetrum og ad 20.
eg megi kénna lærdóminn med djerfúng, eins
og vera ber.

En uppá þad, ad þér einnig fáid ad vita 21.
hvernig mér lídur og hvad eg gjeri, þá mun *
Tychikus, minn elskulegur bródir og trúr þjón
Drottins, kunngjera ydur allt þar um. Eg 22.
sendi hann þess vegna til ydar, ad þér fáid ad
vita hvernig mér lídur og til þess hann huggi
ydar hjertu.

V. 14. * 2 Cor. 6, 7. * 1 Thess. 5, 8. Esa. 59, 17.
V. 15. * Kap. 2, 14. V. 16. * 1 Pét. 5, 9.
V. 17. * Hebr. 4, 12. Opinb. b. 1, 16.
V. 18. * Lúk. 18, 1. Cól. 4, 2. * Matth. 24, 42. 25, 13.
V. 19. * Róm. 15, 30. Cól. 4, 3. 2 Thess. 3, 1. * Post.
G. b. 4, 29.
V. 20. * 2 Cor. 5, 20. Post. G. b. 28, 20.
V. 21. * Post. G. b. 20, 4. Cól. 4, 7.

23. Fridur veri med brædrunum og * elska, á-
samt trú af Gudi Fodur og Drottni Jesú
24. Kristi. * Nád sé med ollum þeim, sem * einlæg-
lega elska Drottinn vorn Jesúm Krist, Amen.

# S. Páls Pistill
## til Philippí-borgar-manna.

I. Kap. I.) Páll óskar Philippískum góds v. 1—2.
II.) Þackar Gudi fyrir þá og bidur fyrir þeim v. 3—11. III.) Lætur þá vita, ad fjotur hans þéni til eblíngar kristinni og segist vilja lifa og lída, ef þad þénad géti þeim til framfara v. 12—26. IV.) Aminnir þá til stodugl yndis vid kristilega trú v. 27—30.

1. Páll og Tímótheus, þjónar Jesú Krists, óska
ollum Jesú Krists * heilogu í Philippí-borg,
2. forstjórum og tilsjónarmennum, * nádar og frid-
ar frá Gudi vorum Fodur og Herranum Je-
sú Kristi.

V. 23. * Gal. 5, 6.
V. 24. * 2 Cor. 13, 13. * 1 Cor. 16, 22.
V. 1. * 1 Cor. 1, 2. V. 2. * Róm. 1, 7.

Í hvert skipti, sem eg * hugsa til ydar 3.
og svo opt, sem eg bid fyrir ydur øllum, þacka 4.
eg Gudi med gledi í bænum mínum, fyrir fast- 5.
heldni ydar vid nádar bodskapinn, frá því fyrsta
allt til þessa tíma; þared eg treysti því, ad sér- 6.
hverr á medal ydar, sem * hefir byrjad á * góda
verkinu, muni * halda áfram þar med allt þar
til Kristur kémur, Og þad er líka vidurqvæmi- 7.
legt fyrir mig, ad hafa þvílíka þánka um ydur
alla, sem ásamt mér erud ordnir hluttakandi í
nádinni, þared eg hefi ydur sífeldt í huganum;
hvert eg er í * fángélsi, ellegar eg er ad for-
svara nádar lærdóminn og stadfesta hann.
* Gud veit þad ad eg elska ydur alla med vid- 8.
qvæmri ást, líkri Jesú Krists. Þess vegna bid 9.
eg (Gud) ad * elska ydar eblist æ meir og meir,
ásamt þeckíngu ag gódum skilníngi, svo ad þér 10.
skilid gétid hvad rétt er og séud * rádvandir og
ámælislausir allt til Krists adkomu dags, og sé- 11.
ud ríkir * af ávøxtum * kristilegrar dygdar, * Gudi
til lofs og dýrdar.

* Vitid, brædur! ad þad, sem fram vid 12.
mig hefir komid, hefir mikid eblt framgáng nád-
ar lærdómsins, þvíad þad er kunnugt ordid gjør- 13.

V. 3. * 1 Thess. 1, 2. * Róm. 1, 8. Ephes. 1, 15. 16
2 Thess. 1, 3.
V. 6. * Hebr. 12, 2. * 1 Thess 1, 3. * Hebr. 13, 21. 1
Pét. 5, 10. Phil. 2, 13. 1 Thess. 5, 23.
V. 7. * Eph. 3, 1. Cól. 4, 3. 2 Tim. 1, 8.
V. 8. * Róm 1. 9. 2 Cor. 1, 23. Gal. 1, 20. 1 Thess. 2, 5
V. 9. * 2 Cor. 8, 7. V. 10. * 1 Cor. 1, 8.
V. 11. * Eph. 5, 9. Cól. 1, 10. * Jóh. 15, 4. 5. * 15, 8.
V. 12. * Cól. 4, 7.

vallri Keisarans hird og øllum ødrum útífrá,
14. ad eg er fjøtradur vegna Krists. Margir bræd-
ur hafa og fengid dug * af fjøtrum mínum og
enn meiri djerfúng, til ad kénna lærdóminn ó-
15. skélfdir. Sumir gjøra þad ad sønnu af met-
íngi, øfund og þrætugirni, en aptur adrir boda
16. Krist af velvilja til mín. Þeir, hverja kjærleiki
dregur til þess, gjøra þad vegna þess þeir vita,
ad eg ér nádar lærdóminum * til forsvars,
17. en hinir, sem gjøra þad af þrætugirni, boda ecki
Krist af hreinu gédi, heldur meina, ad þeir þar
med bæti nýrri þreyngíngu ofaná fjøtur mín.
18. En hvad um þad? (Kristur) Krists lærdómur
bodast samt, med hverjum helst hætti, sem þad
skér, hvert þad skér af yfirdrepskap, edur med
hreinskilni og af því gledst eg og mun framvegis
19. gledjast, því eg * er viss um, ad þetta muni verda
mér til heilla, sakir ydar bæna og med til-
20. styrk Jésú Krists anda. Því þad er mín fast-
næm laungun og von, ad eg í engu verdi til
skammar, heldur ad Kristur, fyrir mína djarflegu
kénníngu nú, eins og ávalt, vegsamist af * mín-
um líkhama, hvert heldur þad verdur med mínu
21. lífi, edur dauda. Ad * eg lifi, er vegna Krists,
22. en ad deya, er ávinníngur fyrir mig. En ef líf
líkhamans er ábati fyrir verk mitt, þá veit eg
23. ecki hvert eg á heldur ad kjósa. Eg er í vand-

V. 14. * Eph. 3, 13. 1 Thess. 3, 3.
V. 17. * v. 7. V. 19. * 2 Cor. 1, 11.
V. 20. * 1 Cor. 6, 20. þeim þjáníngum eg líd á líkamanum.
V. 21. * Jóh. 14, 6. Post. G. b. 3, 15. 1 Cor. 15, 22.
Gal. 2, 20.

rædum. — Mig lángar til ad * losast hédan og
vera med Kristi, því lángt inndælla væri þad;
en þad er naudsynlegt fyrir ydur, ad eg dvelji 24.
í líkhamanum og þad * vona eg fyrir víst, ad eg 25.
muni lifa og lifa ásamt ydur ollum, ydur til
framfara í trúnni og í gledi af henni; svo ad 26.
ydar * gladværd af Jesú Kristi vaxi fyrir mína
skuld, þá eg kém aptur til ydar.

Einúngis ad þér vildud * hegda ydur verd- 27.
uglega, Krists nádar lærdómi samqvæmt; svo ad
hvert heldur eg kém og finn ydur, ellegar verd
fjarlægur, megi fá þá fregn um ydur, ad þér
standid stødugir og med einum anda og einum
huga * berjist fyrir trú nádar lærdómsins og lát- 28.
id ydur í engu fæla af mótstødu-monnunum,
hvad þeim er gløtunar fyrirbodi en ydur * heilla
merki og þad hvert um sig frá Gudi. Því ydur 29.
er sú nád veitt, fyrir Krists sakir, ecki einúng-
is ad trúa á hann, heldur og * lída íllt hans
vegna, ydur, sem egid í somu * baráttu, sem eg, 30.
til hvetrar þér ádur vórud vitni og nú fáid
fregn um.

2. Kap.

I.) Postulinn áminnir til bródurlegs kjærleika
og lítillætis, ad dæmi Jesú, sem þar fyr-
ir var upphafinn, skuli þeir og gjøra sig

---

V. 23 * 2 Cor. 5, 8. V. 25. * v. 6. Kap. 2, 24.
V. 26. * 2 Cor. 1, 14. 5, 12.
V. 27. * Eph. 4, 1. Col. 1, 10. 1 Thess. 2, 12. 4, 1.
* Róm 15, 30.
V. 28. * Kap. 3, 14. * 2 Thess. 1, 5. 2 Tim. 2, 11.
V. 29. * Post. G. b. 5, 41. Róm. 5, 3.
V. 30. * Post. G. b. 16, 22. fl. Col. 2, 1.

hŷrdar verduga 1—16. II) Er reidnbúinn ad deya fyrir Krists lærdóm. Segist senda Timótheus en sídar Epaphróditus. Gjorir sér jafnvel von um sjálfúr ad géta komid til þeirra v. 17—30.

1. Þar fyrir, ef nockud gyldir hjá ydur upphvatníng í nafni Krists, kjærleiksfull advaran, hlutteknýng í semu andans gjef og vidqvæmt
2. hjarta-þel, þá gjorid mína gledi fullkomna med því, ad þér séud allir med einum huga, hafid * innbyrdis kjærleika, séud samlyndir og á eitt
3. sáttir. Gjorid eckert af þrætugirni, edur fyrir hégóma dýrd, heldur ad sérhverr, * med lítil-
4. læti, álíti annann sér ædri; og * sérhverr líti ecki einúngis til síns gagns heldur og ann-
5. ara. Látid sama lunderni vera í ydur, * sem
6. var í Jesú Kristi; hverr þó hann væri * Guds eptirmind, mikladist ecki af því, ad hann var
7. Gudi líkur, heldur mínkadi sjálfann sig, gjordist þjón, vard * mennum líkur og ad útvortis
8. hætti, sem madur. Hann * lítillækkadi sig sjálfann og var hlýdinn allt fram í daudann, já,
9. fram í daudann á krossinum. Þar fyrir hefir

---

V. 2. * Róm. 12, 6. 15, 5. 1 Cor. * 10. 1 Pét. 3, 8.
V. 3. * Gal. 5, 26. * Róm. 12, 10. 1 Pét. 5, 5.
V. 4. * 1 Cor. 10, 24. 33. * 3, 5.
V. 5. * Matth. 11, 29. Jóh. 13, 15. 1 Cor. 2, 16. 1 Pét. 2, 2. 1 Jóh. 2, 6.
V. 6. * Cóloss. 2, 9.
V. 7. * Psálm. 22, 7. Es. 42, 1. 49, 3. Matth. 20, 28. * Hebr. 4, 15.
V. 8. * Hebr. 12, 2.

og Gud * hátt upphafid hann og géfid honum
* tign, (nafn) sem er allri tign ædri, svo ad 10.
öll kné * skulu sig beygja fyrir Jesú tign, bædi
þeirra, sem eru á himni og á jördu, og undir
jördunni og sérhverr túnga vidurkénni, ad Je- 11.
sús Kristur er * Drottinn Gudi Födur til dýrd-
ar. Þess vegna, mínir elskanlegir! eblid ydar 12.
sáluhjálp med * áhyggju og andvara. Þér hafid
ætíd verid mér hlýdugir; gégnid mér ecki einúng-
is nálægum, heldur enn fremur nú í minni fjær-
vern. Þá mun Gud eptir gjædsku sinni * fram- 13.
qvæma hjá ydur * viljann og framqvæmdina; gjör- 14.
id allt án * megls og * þráttunar, svo ad þér 15.
séud ólastanlegir og * prettalausir, flecklaus Guds
börn * midt á medal aldarinnar rángsnúnu og
gjörspilltu manna. * Skínid á medal þessara
eins og himin-ljós í veröldinni og * haldid fast 16.
vid lífsins lærdóm mér * til sóma á degi Krists,
ad eg hafi ecki * forgéfins hlaupid edur fyrir
gýg unnid.
En þó mitt * blód úthellt verdi yfir fórn 17.
og þjónustu mína ad trú ydvarri, þá * gledst



---

V. 9. * Post. G. b. 2, 23. 36. Hebr. 2, 3. * Kap. 1, 4.
V. 10. * Róm. 14, 11. Opinb. b. 5, 8.
V. 11. * Post. G. b. 2, 36. Róm. 14, 9. 1 Cor. 8, 6.
V. 12. * Eph. 6, 5. 1 Pét. 1, 17.
V. 13. * 2 Cor. 3, 5. Hebr. 13, 21. * 2 Cor. 8, 10.
V. 14. * Jóh 6, 4. Róm. 12, 17. 1 Pét. 4, 9. * 1 Tím. 2, 8.
V. 15. * Kap. 1, 10. * 1 Cor. 5, 10. * Eph. 5, 8.
V. 16. * 2 Tím. 1, 13. Tit. 1, 9. Hebr. 4, 14. * 1 Thess. 2, 19. * 1 Cor. 9, 24.
V. 17. * 2 Tím. 4, 6. * 2 Cor. 7, 4.

18. eg þar af og samgledst ydur øllum. En gledjist
þér líka af því sama og * samgledjist med mér.
19. Eg hefi þá von til Drottins Jesú, ad eg bráð-
um muni géta sendt * Tímótheum til ydar, svo
mér verdi hug-hægra, þá eg * fæ ad frétta af yd-
20. ur. Engann hefi eg * mér eins samlyndann,
21. edur, sem einlæglegar sé annt um ydur. * Flest-
ir leita eginn hagnadar, en ecki þess, sem Jesú
22. Krists er. Þér þeckid Tímótheusar reyndu
dygd, ad hann hefir, eins og sonur med fødur
23. sínum, þjónad ad kristni-bodinu med mér. Hann
hygg eg ad senda strax, sem eg er búinn ad full-
24. sjá hvad um mig verdur; en eg hefi þá von til
Drottins, ad eg brádum fái komist sjálfur.
25. Samt held eg naudsynlegt ad senda til ydar
bródur vorn * Epaphróditus, minn samlags þjón
og strídsfélaga í kristni-bodinu, en ydar útsend-
ara og erindsreka í því, ad bæta úr naudþurft
26. minni. Hann * saknadi ydar allra svo mjøg,
ad hann vard ecki mennum sinnandi, því barst
27. ydur sú frétt, ad hann hefdi verid sjúkur; hann
vard og veikur og nærri adkominn dauda, en
Gud miskunadi honum; en ecki einúngis honum,
heldur líka mér, svo ad sorg bættist ecki ofaná
28. sorg mína. Þessa vegna hrada eg því heldur
ad senda hann, svo ad þér því heidur vid sjón
hans, gledjist aptur og eg verdi minna sorgbit-

---

V. 18. * Kap. 3, 1. 4, 4.
V. 19. * Post. G. b. 16, 1. * Phil. 1, 27.
V. 20. * 1 Cor. 16, 10.
V. 21. * 1 Cor. 10, 24. 13, 5.
V. 25. * Kap. 4, 18. V. 26. * Kap. 1, 8.

inn. * Takid því med øllum fagnadi á móti 29.
honum Drottins vegna og * hafid þvílíka menn
í heidri; þvíad í Krists erindi var hann ad- 30.
kominn dauda, þared hann fór óvarlega med líf
sitt, svo hann * uppbætti þad, sem brast á ydar
umønnun fyrir mér.

3. Kap.

Páll tekur vara fyrir fals-kénnendum, er hafa ofmiklar mætur á því útvortis. Segist einúngis hrósa sér af Jesú Kristi og kappkosta ad verda eilífrar sælu verdugur og bidur Philippíborgar-menn ad breyta eptir sér þar í, en lastar þá holdlega sinnudu v. 1—4 Kap. v. 1.

Framar, brædur mínir! * gledjist í Drottni. 1.
Mér skal ecki þykja mikid fyrir því, ad skrifa
sama og sama, en ydur er þad gagnlegt. Var- 2.
id ydur á hundunum, varid ydur á þeim * vondu
verkamønnum, varid ydur á afskurninni; því vér 3.
erum * þeir réttilega umskornu, vér, sem, dýrk-
um Gud * andlega og hrósum oss af Jesú Kristi,
en høfum ecki traust á því * holdlega; jafnvel 4.
þó eg og svo í tilliti til þess holdlega * hafi



V. 29. * Róm. 16, 2. * 1 Cor. 9, 14. 16, 16. Gal. 6, 6. 1 Thess. 5, 12.
V. 30. * 1 Cor. 16, 17.
V. 1. * Kap. 2, 18. Jak. 1, 2. 1 Pét. 4, 13.
V. 2. * 2 Cor. 11, 13 blygdunarlausum kénnurum.
V. 3. * Róm. 2, 29. Cól. 2, 11. * Jóh. 4, 24. * þ. e. umskurninni, sem skédi á holdinu og ødrum útvortis ysirburdum, sjá v. 5. 1 Cor. 1, 31.
V. 4. * Post. G. b. 23, 6. 2 Cor. 11, 18. fl.

þad, hverju eg géti treyst; því ef ødrum þykir,
ad hann géti því-holdlega treyst, þá gét eg þad
5. miklu fremur; eg er umskorinn * á áttunda degi,
er af kyni Jsraels og Benjamíns ættqvísl, * he-
breskur í bádar ættir og ad sidavendni Pharísei.
6. Af vandlæti fyrir minna fedra trú * offókti eg
sefnudinn og í rádvendni eptir lagmálinu var eg
7. óstraffanlegur. En þad, sem ádur var mér *
8. ávinníngur, met eg nú tjón sakir Krists; já, eg
álít allt fyrir tjón hjá * því ágjæti, ad fá þeck-
íngu á Jesú Kristi, mínum Drottni, fyrir hvers
sakir eg hefi svipt mig ellu ødru og met þad ecki
9. meir enn sorp, svo eg ávinni Krist og sé í sam-
einíngu vid hann og * leiti ecki réttlætíngar af
hlýdninni vid løgmálid, heldur þeirrar, sem *
10. Gud veitir fyrir trúna á Jesúm Krist; ad eg
ødlist þeckíngu á honum og * á krapti hans upp-
risu og hluttekníngu í hans píslum og verdi lík-
11. ur honum í daudanum, ad mér því vissar *
12. audnist upprisa frá daudum; ecki svo sem eg *
þegar hafi nád hnossinu, edur sé búinn ad enda
skeidid; eg keppist eptir ad høndla þad, þar
13. Kristur * hefir høndlad mig. Brædur! ecki á-
lít eg mig enn hnossinu hafa nád, þad eitt segi
eg: * eg gleymi því, sem bak vid mig er, en seil-

V 5. * 1 Mós. b. 17, 12. * 2 Cor. 11, 22. Post. Gb. 23, 6.
V. 6. * Post. G. b. 8, 3. Gal. 1, 13. fl.
V. 7. * Matth. 13, 34. V. 8. * Jóh. 17, 3.
V. 9. * Róm. 3, 21. 22. * Kap. 1, 17. 10, 3.
V. 10. * Róm. 6, 1. fl. 8, 17. 1 Pét. 4, 13.
V. 11. * Lúk. 14, 14.
V. 12. * 1 Tím. 6, 2. * Jóh. 6, 44. 12, 35.

ist eptir því, sem fyrir framan er og * skunda til 14.
takmarksins, til þess himneska hnoss í ins, sem Gud
frambýdur mér fyrir Jesúm Krist. Þannig 15.
skulum vér þeinkja, * sem fullkomnir erum. En
ef þér erud í einhverju ödruvísi, þá mun Gud
* upplýsa ydur þarum; einúngis ad vér högum 16.
oss samqvæmt þeirri * upplýsíngu, sem vér höf-
um fengid. Brædur! * breytid eptir mér og lít- 17.
id til þeirra, sem * breyta eins og vér, sem er-
um ydar fyrirmind; því * margir breyta sem * 18.
óvinir Kristí kross, um hverja eg hefi * optlega
talad til ydar og enn þá tala grátandi, hverra 19.
endalok er * tortýning, hverjir ed hafa * magann
fyrir sinn Gud og * þykir sómi ad skömmunum og
* hugsa einúngis um þad, sem jardneskt er. En 20.
vort * födurland er á himni, * hvadan vér vænt-
um Lausnarans Jesú Krists, hverr med sama 21.
krapti, hvar med hann megnar ad * leggja allt

---

V. 14. * Lúk. 9, 62. * 1 Cor. 9, 24. 1 Tím. 6, 12. Hebr. 12, 14. 2 Tím. 4, 7. * 1 Pét. 5, 10. Hebr. 3, 1. þ. e. eg gleymi þeim gædum, sem eg sleppti þá eg gjördist kristinn, sjá v. 4. 5. en keppist eptir ad ödlast þau gædi, sem Krists trú frambýdur, nefnilega eilífa sælu.

V. 15. * 1 Cor. 2, 6. 14, 20. Cól. 2, 10. * 1 Cor. 14, 30.

V. 16. * Gal. 6, 16.

V. 17. * 1 Cor. 4, 16. 11, 1. * 2 Thess. 3, 9. 1 Pét. 3, 3.

V. 18. * Matth. 7, 13. Róm. 16, 17. * Gal. 6, 12. * 5, 21.

V. 19. * Kap. 1, 28. * Róm. 16, 18. * Hés. 4, 7. 2 Cor. 11, 12. * Róm. 8, 5. 6. Cól. 3, 2.

V. 20. * Eph. 2, 6. Cól. 3, 6. Hebr. 13, 14. * 1 Thess. 1, 10. 4, 16.

V. 21. * 1 Cor. 15, 22.

undir sig, mun * umminda líkama vorrar lægíngar, ad hann * líkur verdi hans dýrdar líkama.

## 4. Kap.

I.) Postulinn hvetur til samlyndis v. 1–3. II.) Gudrækilegrar gledi og ástundunar í øllu, sem gott er v. 4—9. III.) Hrósar Philippí-borgar-manna ørlæti vid sig v. 10—20. IV.) Ber qvedjur v. 21—23.

1. Þar fyrir, mínir dýrmætu og ástfólgnu brædur!
Þér mín gledi og heidurs kóróna! haldid fast vid
2. Drottinn, þér elskuverdustu! Evódiu og Syn-
tyche áminni eg, ad þær * séu samlyndar, sem
3. kristnum ber; einnig bid eg þig, minn trúlyndi
medbródir! ad þú takir þar ad þér, því þær
* stríddu med mér, þá eg bodadi nádar lærdóm-
inn, ásamt med Clemensi og ødrum mínum lids-
mønnum, hverra nefn standa * í lífsins bók.
4. * Gledjid ydur ávallt í Drottni og enn apt-
5. ur segi eg, gledjid ydur! Blýdlyndi ydar verdi
6. øllum kunnugt; Drottinn er nálægur. Verid
því ecki * hugsjúkir, heldur látid í øllum hlutum
ydar óskir koma fyrir Gud, í * bænum og fyr-
7. irbeidni ásamt med þackargjørd. Þá mun hans
* fridur, sem yfirgengur allann skilníng, halda
ydar hjørtum stoduglega vid Jesúm Krist.

---

V. 21. * 1 Cor. 15, 22. 15, 43. 44. * 1 Jóh. 3, 2. Matth. 17, 2. V. 2. * Kap. 2, 2. 3, 16. 1 Pét. 3, 8.
V. 3. * Kap. 1, 27 * Psálm. 69, 29. Dan. 12, 1. Luk. 10, 20. Opinb. b. 3, 5. 13, 8. 20, 12.
V. 4. * Psálm. 32, 11. 2 Cor. 13, 11. 1 Thess. 5, 16.
V. 6. * Matth. 6, 25. 31. 1 Pét. 5, 7. * 1 Tim. 2, 1.
V. 7. * Róm. 5, 1.

Yfir höfud, kjærir brædur! hvad, sem satt er 8.
og * sómasamlegt, hvad réttvíst er, hvad skír-
líft er, hvad elskuverdt er edur gott afspurnar,
sé þar mannkostur edur fremd nockur, gefid
gaum ad því. Breytid eptir því, sem þér haf- 9.
id lært og medtekid og heyrt af mér og þér
hafid * sjed mig gjöra; þá mun * fridarins Gud
vera med ydur.

Nærsta mjög gladdist eg í Drottni, ad yd- 10.
ar hagur hefir svo batnad, ad þér gátud þenkt
til mín; ad sönnu var ydur alltaf vel til mín,
en ydur vantadi tækifæri. Ecki segi eg þetta 11.
vegna minnar þarfar, því eg hefi lært ad *
láta mér nægja þad, sem fyrir hendi er. Eg 12.
þecki volædi og eg þecki velmegun allskonar; í
einu og sérhverju er eg reyndur ordinn, ad vera
mettur og ad vera * svángur, ad hafa nægtir og
líða skort. * Allt megna eg fyrir þess hjálp, 13.
sem gjörir mig styrkvann. Engu ad sídur gjörd- 14.
ud þér vel í því ad * taka þátt í minni þreyng-
íngu. Þér vitid og, Philippí-Borgar-menn! 15.
ad í upphafi kristni-bodsins, þegar eg fór frá
Makedoníu, ad enginn söfnudur meddeildi mér
neitt til inntekta og útgifta minna, nema þér
einir. Því þá eg var í Thessaloníku, sendud þér 16.
mér einusinni, já, tvisvar, til naudþurfta minna.
Ecki ad mér væri svo * umhugad um gjöfina, 17.
sem um ábata þann, er af henni flýtur * í

---

V. 8. * Róm. 12, 17. 13, 13.
V. 9. * Kap. 3, 17. * Róm. 13, 33. 2 Thess. 3, 16.
V. 11. * 1 Tim. 6, 8. V. 12. * 1 Cor. 4, 11.
V. 13. * Mark. 9, 23. V. 14. * Kap. 1, 7.
V. 17. * Róm. 15, 28. * 2 Cor. 9, 6. 12.

18. ydar sjód. Eg hefi medtekid allt og hefi yfir
fljótanlega nóg sídan eg medtók þad þér sendud
med * Epaphródítusi, þad * ylmanda reykélsi,
19. þad Gudi kjæra og velþócknanlega * offur. En
minn * Gud mun uppfylla allar ydar þarfir af
20. sinni dýrdlegu nægt vegna Jesú Krists. * Gudi
og Fødur vorum sé vegsemd ad eilífu, Amen.
21. Heilsid sérhverjum heilogum í Jesú Kristi.
Ydur * heilsa brædurnir, sem med mér eru.
22. Ydur heilsa allir heilagir, en sérdeilis Kejsar-
23. ans venslamenn. Nádin * Drottins vors Je-
sú Krists sé med ydur ollum, Amen.

# S. Páls Pistill
## til Cólossu-borgar manna.

I. Kap. I.) Gódar óskir v. 1—2. II.) Páll þackar Gudi fyrir kristini-toku þeirra og kristilega framfør, sem hann óskar ad vaxi v. 3—14. III.) Talar um Krists persónu og forlíkunar embætti v. 15—20. IV.) Ad

V. 18. * Kap. 2, 25. * Eph 5, 2 * Róm. 12, 1. 1 Pét. 2, 5. V. 19. * 2 Cor. 9, 8.
V. 20. * 1 Pét. 4, 11. V. 22. * 2 Cor. 13, 12.
V. 23. * 1 Cor. 16, 23.

heidíngjarnir séu einnig hluttakandi þarí
og ad hann siälfur sé verkfæri Guds þar
til v. 21 — 29.

Páll, ad Guds vilja, Postuli Jesú Krists og 1.
bródir Tímótheus, ósKa ydur heilegu brædrum 2.
í Cólossu-borg og trúudu í Kristi nádar og
fridar af Gudi vorum Fodur.

Þackir gjorum vér Gudi Fodur Drottins 3.
vors Jesú Krists og bidjum ávalt fyrir ydur,
frá því vér heyrdum um trú ydar á Jesú 4.
Kristi og elsku til allra heilagra*, vegna þeirr- 5.
ar vonar, sem ydur er geymd á himni og þér
hafid ádur heyrt um, í þeim fagnadarsæla sann-
leikans lærdómi, sem til ydar er kominn eins og 6.
um allann heim, hvar hann ber ávoxt og út-
breidist meir og meir, eins og hjá ydur frá
þeim degi þér heyrdud og fengud þeckíngu á nád
Guds ydur veittri med sannleikans lærdómi,
eins og Epaphras, vor elskulegur samþjón, hefir 7.
ydur hann kennt, hverr ad er trúr Krists þén- 8.
ari hjá ydur, hverr og hefir sagt oss frá ydar
kristilegum kjærleika. Þess vegna hofum vér 9.
einnig, frá þeim degi vér heyrdum frá ydur,
ecki aflátid ad bidja fyrir ydur og óska, ad þér
fylltust þeckingar á Guds vilja, med allsslags
speki og andlegum* skilníngi, svo ad þér breytid 10.
Drottni verduglega honum til þócknunar á all-
ann hátt; séud ávaxtarsamir í allskonar gódum 11.
verkum, varid í þeckíngu á Gudi; eblist af hans

V. 4. * sannkristinna.
V. 9. * skilníngi á Krists andlega lærdómi.

dýrdar mætti, í algjerdum dugnadi, til allsháttar þolgjædis og stedugglyndis med gladværd.
12. Þackid Fedurnum, sem gjordi ydur hæfa til ad fá hlutdeild í arfleifd þeirra, sem af ljósinu*
13. helgadir eru, med því hann þreif oss frá mirkursins valdi og flutti oss inní ríki síns elskulega
14. Sonar, af hverjum vér hefum lausnina, fyrirgéfníngu syndanna.
15. Hverr ad er ímind ósýnilegs Guds*, frum-
16. géthíngur allrar skepnu; þvíad fyrir hann er allt skapad, sem er á himni og á jerdu, hid sýnilega og hid ósýnilega, hásæti, herravelti, hefdíngjadómar og yfirráð; alltsaman er þad fyrir
17. hann og handa honum skapad. Sá hinn sami er og fyrri enn allt og allt vidhelzt fyrir hann;
18. hann er einnig hefud á safnadarins líkama, hann er upphafid, frumburdur enna daudu, svo ad
19. hann hafi yfirburdi í ellu;* því þad þóknadist
20. Gudi, ad øll fyllíng* skyldi búa í honum og ad koma ellu í sátt vid sig fyrir hann, bædi því, sem er á jørdu og á himni, þá hann lét hann semja frid med sínu blódi á krossinum.
21. Einnig ydur, sem fordum vórud annarlegir * og óvinir ad þenkíngar-hætti, er sýndi sig í
22. vondum * verkum, hefir nú Jesús sátta gjert,

V. 12. * Krists lærdóms ljósi. Post. G. b. 26, 18.
V. 15. * Jóh. 14, 9. Phil. 2, 6. Hebr. 1, 3.
V. 16. * Jóh. 1, 3. Hebr. 1, 2. Eph. 1, 20. 21.
V. 18. * 1 Cor. 12, 27. * edur yfir alla.
V. 19. * annadhvert, allsslags fullkomlegleika. samanb. 2. Kap. v. 9. edur allsslags nádar-gædi Jóh. 1, 16.
V. 21. * Eph. 2, 12. * Róm. 8, 7. 8. Cólossu-borgarmenn hefdu, ádur enn kristnir urdu, verid

fyrir deydíngu síns holdlega líkama, svo ad hann
gjæti látid ydur koma fram fyrir Gud, hei-
laga, lýtalausa og óadfinnanlega, ef ad þér standid 23.
grundvalladir og stødugir í trúnni og ecki látid
ydur bifa frá von þess nádar lærdóms, hvern
þér hafid numid og kénndur er sérhverri sképnu
undir himninum, hvers þjón eg, Páll, og svo
er ordinn.

Nú gled eg mig í mínum þjáníngum yd- 24.
ar vegna og uppfylli á mínu holdi þad, sem
vantadi á Krists þjáníngar, fyrir hans líkama,
sem er søfnudurinn, hvers þjón eg er ordinn, 25.
eptir þeirri rádsmennsku, sem Gud hefir mér á
hendur falid hjá ydur, ad útbreida Guds ord;
þann leyndardóm, sem hulinn var øldum og 26.
kynqvíslum en nú er opinberadur hans heilög-
um. Þeim vildi Gud opinbera þad, hvílík 27.
gædska gnægd þessi leyndardómur er fyrir þjód-
irnar, heidnar þjódir, nefnilega: Kristur fyrir
ydur, þessi dýrdar von. Þenna lærdóm kunn- 28.
gjørum vér, áminnum sérhvern mann og frædum
sérhvern mann í allri speki, svo ad vér gétum
framleidt hvern mann, sem fullgjørvann; til þess 29.
vinn eg og strídi, kroptuglega styrktur af mætti
þess, sem í mér verkar.

---

heidnir, vóru því framandi, þad er: þecktu ecki
Gud og þess vegna tilbádu hann ecki og von-
udu ecki á hann, samanb. Eph. 1, 13. og lifdu
í heidínglegum løstum, Róm. 1, 23—32. vóru
því óvinir, þad er; gjørdu þad, sem Gudi var
á móti og gátu því ecki góds af honum vænt.

V. 26. Eph 1, 9. 3, 5—9.

V. 27. 2 Cor. 13, 3. V. 28. samanb. v. 22.

2. Kap. I,) Páll er áhyggjufullur, ad Cólossu-borgar-menn leidast kunni afvega af villumönn-um, bidur því ad þeir haldi fast vid þá sönnu Krists trú v. 1—9. II.) Sannar hann, ad Jesús hafi gefid þeim betri sálu-hjálpar medol, enn útvortis helgi-sidir Gydínga og heidíngja gátu veitt v. 10—23.

1. Ecki vil eg dylja fyrir ydur, hvílíka * baráttu eg hefi haft ydar vegna og þeirra, sem búa í Laódíkeu og svo margra, sem ecki hafa persónu-
2. lega séd *mig, ad hjertu þeirra styrkjast skyldu og í elsku sameinast, svo ad þeir nád géti þess
3. fullkomna skilníngs gjörvalla ríkdómi, til þecking-ar á Guds leyndardómi, í hverjum fólgnir eru allir fjársjódir spekinnar og þeckíngarinnar.
4. Þetta segi eg, svo enginn fleki ydur med tœlandi
5. mælsku. Þó ad eg, ad líkhamanum til, sé fjær-lægur, þá er samt hugurinn hjá ydur og gledur sig, þá hann sjer ydar reglusemi og fastheldni
6. vid trúna á Krist. Breytid þar fyrir sam-qvæmt Jesú Krists vors Drottins lærdómi, eins
7. og þér hafid hann numid. Sýnid ydur rót-festa og uppbygda yfir Krist * og stoduga í trúnni eins og hún hefir ydur verid kénnd og látid ydur-
8. framfara í henni med þackargjörd. Sjáid vid því, ad nockurr (blindi) hertaki ydur med heims-speki og hégómlegri villu, eptir manna setníng-

V. 1. *áhyggju. *Páll hafdi ecki sjálfur komid til Cé-lossu-borgar.
V. 7. Eph. 2, 20—22.

um * og veraldarinnar barna stafrofi *, fiærstædu
Krists kénníngu; því í honum býr Guddóms- 9.
ins fylling líkhamlega.
Ydar fyllri mentun hafid þér og honum ad 10.
þacka, hverr ad er hefud alls hefdíngjadóms og
* yfirráda; af honum erud þér og umskornir, 11.
med þeirri umskurn, sem ecki er med hendum
giørd, heldur innifalin í afleggíngu holdlegrar
vanartar, þad er ad segja: med Krists umskurn,
vid þad, ad þér erud med honum greftradir í 12.
skírninni, í hverri þér erud og ásamt honum frá
dauda upprisnir, fyrir trúna á mátt Guds, er
uppvakti Jesúm frá daudum. Og svo ydur, 13.
sem * daudir vórud í yfirtrodslunni og yfirhúd
ydar * vanartar, lífgadi Gud eins og hann med
því, ad hann fyrirgaf oss øll vor afbrot, af- 14.
mádi þad * skuldabréf, sem oss var á móti, er
innifalid var í laga bodum og burttók þad, þá
hann negldi þad á * krossinn. Hann afklæddi 15.
þá voldugu og mektugu þeirra hertýgjum, lét
opinberlega siá þeirra * lægíngu og lét Krist
hrósa sigri yfir þeim. Látid þess vegna engann 16.

---

V. 8. Matth. 15, 5. 6. 9. * sú ófullkomnari þecking øll, er menn høfdu ádur enn kristni kom um þad, hvernig Gud réttilega dýrkadist. Gal. 4, 3. 9.
V. 10. * Eph. 1, 20. 21.
V. 11. 5 Mós. b. 10, 16. Eph. 2, 11.
V. 12. Róm. 6, 4.
V. 13. * ófarsælir bædi hér og sidar. * af heidinglegri sidá spillíngú og trúar-villu
V. 14. * Gal. 3, 4. * lét Mósis Ceremoníu laga gyldi deya med Jesú á krossinum, þad er: afmáist med hans dauda.
V. 15. Jóh. 12, 31. 1 Cor. 15, 25. 55. Hebr. 2, 14.

fordæma ydur fyrir mat edur dryck edur nockud
þad, sem snertir hátídir, túnglkomur edur Sab-
17. bats-hald, hvad allt er ecki nema skuggi þess,
sem eptirkomandi var, en Kristur er líkhaminn
18. sjálfur. * Látid engann taka hnossid frá ydur,
er þykist af sinni audmýkt og Engla dýrkun,
lætur drjúgt yfir því, sem hann aldrei hefir sjed
og hégómlega stærir sig af sínum holdlega hug-
19. arburdi, en heldur sér ecki til * hofudsins, af
hverju allur líkhaminn, innbyrdis styrktur og
samtengdur med lidum og böndum, tekur gud-
20. legann þroska. Ef þér erud * dánir med Kristi
frá heimsins barna stafrosi, því bindid þér yd-
ur þá eins og þeir, * er enn lifa í heiminum
21. vid þvílíka setnínga: * Þú skalt ecki snerta,
22. smacka, hræra vid? allt þetta verdur til fordjerf-
23. unar, ef þad er brúkad * eptir manna bodord-
um og lærdómum, sem hafa ad sönnu vitsku
skin, en eru innifalin í sjálf-smídadri dýrkun,
audmýkt og hlífdarleysi vid líkhamann, hverr ecki
er * vidurqvæmilega metinn honum til mettunar.

3. Kap.

---

V. 16. Róm. 14, 2. 3. 5.
V. 18. * Jer. 24, 8. Mark. 13, 5. Eph. 5, 6. 2 Thess. 2, 3.
V. 19 * Krists. Eph. 4, 15. 16.
V. 20. * Róm. 6, 3. 5. 7, 4. Gal. 2, 19. 4, 3. 9. * vær-
ud enn ecki upplýstir af Kristi.
V. 21. * 1 Tim. 4, 1. 4.
V. 22. * villu-kénnaranna ord, sem Postulinn svarar uppá
v. 23. Tit. 1, 14.
V. 23. * 1 Tim. 5, 23.

I.) Sannir kristnir eiga að meta meira hið himneska enn það jarðneska, afleggja hið forna háttalag, en fylgja nýu; einkum stunda bróðurlega elsku og hafa í öllu Krists vilja og boð fyrir augnamið v. 1—17. II.) Hjóna, barna, foreldra, þjóna og húsbænda skylda v. 18—Kap. 4, 1. 3. Kap.

Fyrst þér eruð ásamt með Kristi * uppriśnir, 1.
þá keppist eptir því, sem þar efra er, hvar
Kristur * situr til hægri handar Guði. * Hafið 2.
hugann á því himneska, en ecki á því jarðneska.
Þér eruð þó dánir, en * líf yðvart er falið með 3.
Kristi hjá Guði. En þegar * Kristur, vort líf, 4.
opinberast, þá munuð þér og ásamt honum * í
dýrð opinberast. Deyðið því yðar * jarðnesku 5.
limu, * frillulífi, saurlifnað, losta, vonda til-teyg-
íngu og * ágirnd, hvað ecki er betra enn skurð-
goða dýrkan. * Fyrir hvílíkt kémur straff Guðs 6.
yfir þá vantrúuðu, í hverra tölu * þér fordum 7.
vóruð, meðan þér lifðuð þessum löstum. En 8.
* afleggið nú allt þetta: reiði, stórlyndi, vondsku,
íllt umtal, klám framkomi ecki af yðrum munni.

V. 1. * Róm 6, 5. Eph. 2, 5. * 1, 20.
V. 2. * Matth. 6, 33. 1 Pét. 2, 24.
V. 3. * 2 Cor. 5, 7. Gal. 2, 20.
V. 4. * Phil. 1, 21. 3, 21. * 1 Cor. 15, 43.
V. 5. * girndir. Matth. 18, 8. Róm. 6, 13. * Eph. 5, 3. 1 Thess. 4, 5. * Eph. 5, 5
V. 6. * 1 Cor. 6, 10. Gal. 5, 19. Eph. 5, 6.
V. 7. * Róm 6, 19. 20 7, 5. 1 Cor. 6, 11. Tít. 3, 3.
V. 8. * 2 Cor. 7, 1. Eph. 4, 22. 1 Pét 2, 1. Jak. 1, 21.

9. * Ljúgid ecki hverr uppá annann, þar * þér haf-
id afklædst hinum gamla manni og hans hátta-
10. lagi, en íklædist * nýum, sem endurnýadur er til
þeckíngar, samqvæmt þess mynd, sem hann hefir
11. skapad. Hér er enginn * mismunur Gricksa og
Gydíngs, * umskorins og óumskorins, * sákunn-
andi, Schyta, þræls edur frjáls, Kristur * gyld-
12. ir allt hjá øllum. Iklædist þar fyrir, eins og
Guds * útvaldir heilagir og elskanlegir, hjart-
gróinni medaumkun, * gódvild, lítillæti, blíd-
13. lyndi, lánglundar-gédi, * umberid hverr annann
og * fyrirgéfid hverr ødrum, ef einhverr ydar
hefir kjærumál ødrum á móti; eins og Kristur
hefir fyrirgéfid ydur, svo skulud þér og einninn
14. gjera. En umfram allt * íklædist elskunni, því
15. hún er * algjerlegleikans band; þá mun Krists
* fridur ríkja í yðrum hjørtum. Þar til erud
þér einnig kalladir til ad vera einn líkami og
16. verid fyrir þad * þacklátir. O! ad Krists lær-
dómur mætti ríkuglega búa hjá ydur, svo ad
þér med allri speki kénnid hverr ødrum og á-
minnid hverr annann med * sálmum, saungum

V. 9. * Zach. 8, 16. * aflagt hinn fyrri þenkingar- og lifernis-hátt, er þér høfdud ádur en kristni tókud. Eph. 2, 11.

V. 10. * Eph. 4, 23. 24.

V. 11. * í kristinndóminum. Róm. 10, 12. Gal. 3, 28. * Kap. 5, 6. * 1 Cor. 14, 11. * Eph. 1, 10.

V. 12. * 1 Thess. 1, 4. 1 Pét. 2, 9. * Gal. 5, 22. Matth. 11, 29.

V. 13. * Eph. 4, 2. * v. 32. Matth. 6, 14.

V. 14. * Joh. 13, 34. 15, 12. * Eph. 4, 3. Cól. 2, 2.

V. 15. * Phil. 4, 7. * Kap. 2, 7.

V. 16. * 1 Cor. 14, 26. Eph. 5, 19.

og andlegum lofqvædum, sætlega sýngjandi
Drottni lof í ydrum hjörtum. * Hvad helzt 17.
þér adhafist í ordi edur verki, þad gjörid í nafni
Drottins Jesú, * þackandi Gudi og Fødur fyr-
ir hann.

Þér * konur! verid ydar bændum undir- 18.
gefnar eins og þeim hæfir, sem Drottins eru.
Þér * menn! elskid ydar eginkonur og verid ecki 19.
beiskfiundadir vid þær. Þér * børn! verid hlýd- 20.
ug foreldrunum í øllu, því þad er Drottni
* þócknanlegt. Þér * fedur! uppertid ecki ydar 21.
børn, svo ad þau verdi ecki huglaus. Þér * 22.
þrælar! verid hlýdugir í øllu ydar jardnesku
drottnum, ecki med augna þjónustu, svo sem
þeir, er vilja mønnum þócknast, heldur med
hjartans einlægni; svo sem þeir, er Drottinn
óttast og gjörid allt hvad helzt, sem þér vinn- 23.
id, med einlægu gédi, eins og þad sé * fyrir
Drottinn en ecki menn, vel vitandi ad þér mun- 24.
ud taka sælu í arf til endurgjalds, því þér þjón-
id Drottni Kristi. En sá svikuli mun * bera úr 25.
býtum svika laun, því hér gyldir eckert * mann-
greinar álit.

M

V. 17. * af vyrdingu fyrir Jesú. 1 Cor. 10, 31. * Eph. 5, 20. 1 Thess. 5, 18.
V. 18. * 1 Mós. b. 3, 16. 1 Cor. 14, 34. Eph. 5, 22.
V. 19. * Eph. 5, 25.
V. 20. * Eph. 6, 1. * Sír. 1, 13—15.
V. 21. * Eph. 6, 4.
V. 22. * Eph. 6, 5. 1 Tim. 6, 1. Tít. 3, 9.
V. 23. * Eph. 6, 7.
V. 25. * 2 Cor. 5, 10. * Post. G. b. 10, 34. Róm. 2, 11.

4. Kap. I.) Páll býdur stödugljndi í bæn og ad bidja fyrir sér; forsjálni í rædu og umgengni v. 2—6. II.) Tychikus og Onesimus eiga ad segja þeim hvernig Páli lídi v. 7—9. III.) Heilsanir v. 10—15. Brefid á ad lesast af þeim í Laódíkeu. Archippus áminnist. Gódar óskir v. 16—18.

1. Þér * Húsherrar! veitid * þrælunum þad, sem rétt er og sanngjarnlegt og munid til þess, ad
2. þér egid og Herra á himni. Verid * stödugir í bæninni og kostgjæfnir med þackargjörd.
3. * Bidjid undireins fyrir oss, ad Gud * greidi veg vorri kénníngu, svo vér kénnt gétum Krists * hulda lærdóm, fyrir hvers sakir eg em nú
4. bundinn og gétum * kunngjört hann og talad eins
5. og ber. Umgángist * víslega þá, sem fyrir utan söfnudinn eru og * gésid nákvæmlega gætur
6. ad tídarinnar ásigkomulagi. Ydar * ræda sé blídleg og * salti krydduð, svo ad þér vitid tilhlýdilega ad svara sérhverjum.

---

V. 1. * Eph. 6, 9. * Job. 31, 13. Jer. 34, 14. Philem. v. 16.
V. 2. * Lúk. 18, 1. Róm. 12, 12.
V. 3. * Eph 6, 19. 1 Thess. 5, 25. 2 Thess. 3, 1. Hebr. 13, 18. * 1 Cor. 2, 12. * 1 Cor. 4, 1.
V. 4. * Tit. 1, 5.
V. 5. * svo ad þér gétid umflúid hættu ad leidast afvega (sjá Eph. 6, 16) og undir eins gésid þeim, sem ecki eru kristnir, góda þánka um kristna tru. Eph. 5, 15. 1 Thess. 4, 12. * Eph. 4, 16.
V. 6. * Eph. 4, 29. Cól. 3, 16. * Mark. 9, 50.

Vor elskulegur bródir Tychíkus, sem er 7.
trúr þénari Krists og minn samþjón, mun láta
ydur * vita allt üm mig. Eg sendi hann til 8.
ydar einmidt til þess, ad eg fái frétt af ydur
oz til þess hann huggi ydar hjortu og ásamt med 9.
honum * Onesímus, trúann og elskulegann bród-
ur, landa ydar; þeir segja ydur allar frétt-
ir hédan.

Ydur heilsar * Arístarchus, minn sambánd- 10.
íngi og * Markús frændi Barnabasar, um hvern
þér hafid bodord fengid. Ef hann kémur til
ydar, þá veitid honum góda móttoku. Somu- 11.
leidis heilsar ydur Jesús, ad vidurnefni hinn
Réttvísi (Justus). Þessir eru * umskornir og
þeir einustu, sem hafa verid minir medhjálparar
í Guds ríkis útbreidslu og mér til mikillrar
huggunar. Enn framar heilsar ydur * Epa- 12.
hras, Krists þjón og landi ydar. Hann * strid-
ir sífeldlega fyrir ydur med bænum, ad þér
megid stödugir standa, algjördir og fullkomnir
í ellu því, sem Guds vilji er. Því þann * 13.
vitnisburd gef eg honum, ad honum sé mjög
annt um ydur og þá, sem búa í Laódíkeu og
Híerópólis. * Læknirinn Lúkas vor elskanlegur 14.
heilsar ydur og Demas.



V. 7. * Eph. 6, 21. fl. V. 9. * Philem. v. 10.
V. 10. * Philem. v. 24. Post. G. b. 19, 29. 15, 37. 39.
2 Tim. 4, 11.
V. 11. * Post. G. b. 11. 2.
V. 12. * Kap. 1, 7. * Róm. 15, 30.
V. 13. * Róm. 10, 2.
V. 14. * Læknari sami, sem Gudspjallamadurinn Lúkas.
2 Tim. 4, 10 11. Philem. v. 24.

15. Heilsid þér brædrunum í Laódíkeu, Nym-
phast og * sefnudinum, sem kémur saman í húsi
16. hans. Þegar þér búnir erud ad lesa bréf mitt
til ydar, þá látid þad líka lesast í sefnudinum í
Laódíkeu og lesid þér og bréfid frá Laódíkea.
17. Segid * Archippus: gjættú þjónustu Drottins,
sem þú hefir tekid vid, ad þú gjerir henni
fullnustu.
18. * Qvedjan er skrifud med minni, Páls,
egin hendi. * Minnist fjotta minna! * Nád
sé med ydur, Amen.

# S. Páls fyrri Pistill
## til Thessaloniku manna.

1. Kap. I.) Gódar óskir v. 1—2. II.) Páll þackar Gudi og hrósar þeirra fúsleika ad taka kristni, þeirra bródur-kjærleika og þolinmædi v. 3—10.

1. Páll, * Silvanus og Tímótheus, óska ydur,
sefnudi Guds Fedurs og Drottins Jesú Krists

V. 15. * Róm. 16, 5. V. 17. * Philem. v. 2.
V. 18. * 1 Cor. 16, 21. * Hebr. 13, 3. * 1 Tím. 6, 21.
V. 1. * 2 Thess. 1, 1. * Róm. 1, 7. fl.

í Thessaloníku, * nádar og fridar af Gudi vor- 2.
um Fødur og Drottni Jesú Kristi. * Avalt 3.
þockum vér Gudi fyrir ydur alla, þá vér minn-
umst ydar í vorum bænum og erum sífeldlega
minnugir ydar atorkusemu trúar og * óþreytan-
legu elsku og * stødugu vonar á Drottni vorum
Jesú Kristi fyrir augliti Guds og Fødur vors.
Vér vítum, elskulegu brædur! ad ydar * útváln- 4.
íng er af Gudi; því nádar lærdómsins bodan 5.
hjá ydur var ecki innifalin í ordunum tómum,
heldur fylgdi henni * kraptur, heilagur Andi og
* mikil sannfæríng, þér vitid einninn hvílíka
vér sýndum oss * ydur til handa hjá ydur og 6.
þér erud vorir * eptirfylgjarar ordnir og Drott-
ins og medtókud lærdóminn undir miklum
þreyngíngum * med heilags Anda gledi, svo ad 7.
þér erud ordnir munstur fyrir alla trúada * í
Makedoníu og Achaju; þvíad frá ydur hefir 8.
ord Drottins hljómad, ecki einúngis í Make-
doníu og Achaju, heldur er og trú ydar á Gudi
kunnug ordin * allstadar, svo vér ecki þurfum
um þad ad tala; því menn þadan segja oss frá 9.
hversu gódann * inngáng vér hofum hjá ydur

V. 2. * Róm. 1, 8. 9. 2 Thess. 1, 3. fl.
V. 3. * Hebr. 6, 10. * Cól. 1, 27.
V. 4. * 2 Thess. 2, 13.
V. 5. * 1 Cor. 2, 5. 4, 20. 1 Thess. 2, 13. * Eph. 1, 9. samanb. Post. G. b. 17, 4. * ydur til fullkomnunar.
V. 6. * 1 Cor. 4, 16. 11, 1. Phil. 3, 17. * Post. G. b. 5, 41. Hebr. 10, 34.
V. 7. * Kap. 4, 10.
V. 8. * hvar Postulinn hafdi komid.
V. 9. * Kap. 2, 1.

fengid og hvernig þér * snérud ydur til Guds
frá skurdgodunum til ad * þjóna lifanda og
10. sønnum Gudi og ad * vænta hans Sonar Jesú
frá himni, hvern hann * uppvakti af dauda, er
frelsa mun oss frá * yfirvofanda straffi.

2. **Kap.** I.) Páll talar um, hvernig hann hafi hegdad sér hjá þeim v. 1—12. II.) Þakkar Gudi fyrir ad þeir svo fúslega tóku hans kénningu og talar um ofsóknir, er þeir lida mega v. 13—17. III.) Talar um laungun sína ad finna þá v. 18—20.

1. Sjálfir vitid þér þad, brædur! ad vor * koma
2. til ydar var ecki ávaxtarlaus; heldur ad vér,
þótt vér í Philippí, eins og ydur er kunnugt, * lid-
um íllt og værum smánadir, samt * djarflega
og í trausti til Guds vors bodudum vér hjá
ydur nádar lærdóm Guds vors med mikilli * bar-
3. áttu. Hverki leiddi villa edur * óhrein sérplægni
4. edur vélar oss til ad kénna; heldur, eins og
Gud hefir fundid oss þess verduga, ad * trúa
oss fyrir nádar lærdóminum, þannig hefum vér
kénnt hann; ecki, sem þeir, * er mennum vilja

V. 9. * K. 2, 1. Post. G. b. 26, 18. 1 Cor. 12, 2. * Hebr. 9, 14.
V. 10. * Post. G. b. 1, 11. Phil. 3, 20. Opinb. b. 1, 7. * Post. G. b 2, 24. * Matth. 3, 7. Róm. 2, 5.
V. 1. * Kap. 1, 5. 9.
V. 2. * Post. G. b. 16, 19—24. * 2 Cor. 12, 10. * Phil. 1, 30. Post G. b. 17, 1. 9.
V. 3. * 2 Cor. 7, 2.
V 4. * Gal. 7, 2. 1 Tim. 1, 11. * 1 Samúel. 16, 7. 1 Kóng. b. 8, 39. Psálm. 7, 10. Post. G. b. 1, 24. Róm. 8, 27.

þócknast, heldur Gudi, sem ransakar vor hjortu.
Ecki erum vér heldur fundnir í smjadri, hvad 5.
ydur er kunnugt, né hefum * leidst af ágirnd, *
Gud er vitni, né leitad * lofstýrs af mennum, 6.
hverki af ydur né odrum. Vér gátum verid 7.
ydur til * þýngsla sem Postular Krists, * en vér
sýndum oss vægdarsama vid ydur. Eins og 8.
fóstra hjúkrar bornum sínum, þannig brennum
vér af elsku til ydar og erum fúsir til, ecki ein=
úngis ad meddeila ydur nádar lærdóm Guds,
heldur og til ad * gefa ydur vort egid líf, því
Þér erud ordnir oss ástfólgnir. Þér munid, 9.
brædur! til * erfidis vers og mædu ad vér, til
þess vér værum engum ydar til þýngsla, unn=
um nótt og dag, ámilli þess vér vórum * ad boda
ydur nádar bodskap Guds. Þér erud vitni til 10.
þess og Gud, hversu heilaglega, réttvíslega og
* óstraffanlega vér hegdudum oss hjá ydur, þér
trúudu! Ydur er og kunnugt hversu eg hefi á= 11.
minnt, upphvatt og sárbænt * sérhvern ydar, eins
og fadir born sín, ad þér * breytid verdug= 12.
lega Gudi, er * kallad hefir ydur til síns ríkis
og dýrdar.

---

V. 5. * Post. G. b. 20, 33. 2 Cor. 2, 17. Róm. 1, 9. 2 Cor. 1, 23. sylg.
V. 6. * Jóh 5, 41. 44. * 1 Cor. 9, 12. 2 Cor. 11, 9. 12.
V. 7. * samanber v. 9. 2 Thess. 3, 7. 9.
V. 8. * 2 Cor. 12, 15.
V. 9. * Post. G. b. 20, 34. 1 Cor. 4, 12. 2 Thess. 3, 8. * 1 Cor. 9, 16.
V. 10. * 1 Tímóth. 3, 2.
V. 11. * Post. G. b. 20, 20. 31. * Kap. 2, 7.
V. 12. * 1 Mós. b. 17, 1. Ephes. 4, 1. 2 Thess. 1, 11. * 1 Pét. 5, 10.

13. Par fyrir aflátum vér ecki ad þacka Gudi
fyrir þad, ad þér móttoku veittud Guds ordi,
er þér numud af oss og * medtókud þad ecki sem
manna lærdóm, heldur sem Guds ord, eins og
þad í sannleika er, hvert líka hefir * sýnt sinn
14. krapt á ydur, sem trúadir erud. Brædur! ydar
kjør hafa lík verid safnada Guds í Gydínga-
landi, er játast hafa Jesú Kristi; því þér * haf-
15. id mátt þola sama af ydar ættíngjum, sem þeir
af Gydíngum, er bædi * líflétu Drottinn Jesúm
og * Spámennina; oss hafa þeir og ofsókt
16. og øllum mønnum eru þeir mótstædir; þeir * tál-
ma oss ad tala til heidíngjanna ad þeir frelsist
og * uppfylla þar vid mælir sinna synda, en ad
lokunum mun straffid koma yfir þá.
17. Vér, Brædur! sem um stutta tíd høfum
verid sviptir ydar náviskum ad líkhamanum til,
en ecki huganum, høfum med því meiri * alúd
18. og laungun kappkostad ad sjá ydur. Par fyrir
høfum vér — nefnilega: eg Páll — optar enn
einusinni * viljad koma til ydar, en Satan hefir
19. hindrad oss frá því. * Hver er vor von, vor
gledi, vor heidurs krans, er vér gétum stært oss
af? munud þér ecki og svo vera þad fyrir aug-

V. 13. * Matth. 10, 40. Galat. 4, 14. * 1 Corinth. 2, 5. 1 Thessal. 1, 5.
V. 14. * Post. G. b. 17, 5. 13. Hebr. 10, 34.
V. 15. * Post. G. b. 2, 23 * Matth. 23, 34.
V. 16. * Post G. b. 13, 50 14, 5 19. 17, 5. 13. * 1 Mós. b. 15, 16. Matth. 23, 32.
V. 17. * Róm. 1, 11. 1 Thess. 3, 6.
V. 18. * Róm. 15, 22.
V. 19. * Phil. 4, 1. 2 Thess. 1, 4.

líti Drottins vors Jesú Krísts, þá hann kémur? Þér erud vor sómi og vor gledi! 20.

I.) Til þess ad frétta af Thessaloníku mönnum segist Páll hafa sendt Tímótheus og þackar Gudi fyrir þá gledi-fregn, er hann hafi fengid med honum um þeirra stödugllyndi v. 1—9. II.) Girnist ad koma til þeirra v. 10—13.

## 3. Kap.

Þar fyrir, þegar vér ecki lengur gátum þol-
ad vid * rédum vér af ad verda einir eptir í 1.
Athenuborg og senda * Tímótheum bródur vorn 2.
og * Guds verkamann medur oss í Krísts nádar-
bodskapi, til þess hann ebli og * ørfi ydar trú,
ad enginn skuli * láta sig trubla af þessum 3.
þreyngíngum, því þér vitid, * ad þær eru oss
ætladar. Eg sagda ydur þad og fyrir þá eg * 4.
var hjá ydur, ad vér mundum * þreyngíngar
lída, hvad líka hefir rætst, eins og ydur er
kunnugt. Þar fyrir, þegar eg þoldi ecki lengur 5.
vid, senda eg til ad * frétta um trú ydar, hvert
* freistarinn hefdi ecki freistad ydar og vinna
vor ordid til einkis. En nú er Tímótheus apt- 6.
ur kominn frá ydur til vor og ber oss gledi-fregn

---

V. 1. * ad frétta eckert af ydur.
V. 2. * Post. G. b. 17, 14. 15. Phil. 2, 19. * Róm. 16, 21. * Cól. 4, 8.
V. 3. * Eph. 3, 13. Philipp. 1, 14. * Postul. G. b. 14, 22. 2 Tim. 3, 12.
V. 4. * Jóh. 14, 25. 29. Post. G. b. 17, 1. * 1 Pét. 4, 13.
V. 5. * Cól. 4, 8. * leidt til ad falla frá kristni, eda til ókristilegrar breytni. Matth. 4, 3. 1 Cor. 7, 5.

um trú ydar og * kjærleika og ad þér ávalt
minnist vor til góds og girnist ad sjá oss, eins
7. og * vér ydur. Þannig hafid þér, brædur!
huggad oss í allri vorri þreyngingu og neyd med
8. ydar trúfesti; því nú * lifum vér, fyrst þér hald-
9. id stødugglega vid Drottinn. Hvert þakklæti
megnum vér ad gjalda Gudi fyrir ydur, fyrir
alla þá gledi, er vér høfum af ydur fyrir
Guds augliti?
10. * Nótt og dag bidjum vér innilega, ad oss
mætti hlotnast ad sjá ydur og bæta úr brestum
11. trúar ydar; en sjálfur Gud Fadir vor og
Drottinn vor Jesús Kristur greidi oss veg til
12. ydar. En Drottinn vor fylli ydur og * audgi
elsku bædi innbyrdis ydar á milli og til allra,
13. svo hún verdi eins og elska vor til ydar; uppá
þad ad ydar hjørtu megi * stadfestast í heilag-
leika og þér birtast fyrir Gudi og vorum Fød-
ur * óstraffanlegir, þá Drottinn vor Jesús Krist-
ur * kémur ásamt øllum hans heiløgu.

4. Kap. I.) Páll upphvetur til framfara í heilagri rád-
vendni v. 1—8 og bródur-kjærleika, á-
samt sidavendni v. 9—12. II) Talar
um ad þeir, sem deya ádur enn Kristur

V. 6. * Þad er: til annara. * Kap. 2, 17.
V. 8. * Þad er: glødu lífi.
V. 10. * Róm. 1, 10. 1 Thess. 2, 17.
V. 12. * Kap. 4, 9. 1 Pét. 1, 22. 4, 8.
V. 13. * 2 Thess. 2, 17. * Eph. 1, 4. Cól. 1, 22. Opinb. h. 14, 5. * 1 Cor. 1, 8. Phil. 1, 10.

kémur til dóms, einkis fari á mis fyr-
ir það v. 13—18.

Enn framar biðjum vér ydur, brædur! og * á- 1.
minnum í umbodi Drottins Jesú, ad þér í því,
er þér hafid numid af oss, hvernig ydur ber *
ad breyta og þóknast Gudi, takid meiri og meiri
framförum. Þér vitid hver bodord vér hefum 2.
ydur géfid * í umbodi Drottins Jesú; því það 3.
er * Guds vilji ad þér heilagir séud, * haldid
ydur frá frillulifnadi; hverr og einn hafi vit á, 4.
* ad halda sínum líkhama í heilagleika og heid-
ri, en ecki * losta-bruna, eins og heidnir menn, 5.
* er ecki þeckja Gud; veiti ecki yfirgáng edur 6.
* hafi af sínum bródur í nockru, því ad Drott-
inn er hegnari alls þvílíks eins og eg * hefi ád-
ur sagt og innilega lagt ydur uppá hjarta; því 7.
ecki hefir Gud kallad oss til þess, ad vér skyld-
um * í saurlífi lífa, heldur í heilagleika. * Hverr, 8.
sem þetta forsmáir, hann forsmáir ecki menn,
heldur Gud, sem og hefir inngéfid oss * sinn
heilaga Anda. Ecki hafid þér þess þörf, ad eg 9.
skrifi ydur um * bródur kjærleikann, því * Gud
hefir sjálfum ydur kénnt ad * elskast innbyrdis.

V. 1. * 2 Theff. 3, 12. * Gal. 5, 16. Phil. 1, 27.
V. 2. * 2 Cor. 5, 20.
V. 3. * Róm. 12, 2. Eph. 5, 17. 1 Cor. 6, 15. 18.
V. 4. * 1 Cor. 6, 13. 15.
V. 5. * Cól. 3, 5. * 1 Cor. 15, 34. Eph. 2, 12. 4, 17. 18.
V. 6. * 1 Cor. 6, 8. * Gal. 5, 21.
V. 7. * Jóh. 17, 19. 1 Cor. 1, 2.
V. 8. * það er: Páls advaranir. * 1 Cor. 7, 40.
V. 9. * Kap. 3, 12. 2 Pét. 1, 7. * Esa. 54, 13. * Jóh. 13, 34. 15, 12. 1 Jóh. 3, 11. fl.

10. Já, þér audsýnid þessa somu elsku jafnvel ollum
brædrunum út um alla Makedoníu. En vér áminn-
um ydur, brædur! ad þér takid hér í meiri og
11. meiri framforum og leitid þar í samdar ad lifa
rósemu lífi og gæta ydar kalls skylduverka og
12. * vinna med hondum ydrum eins og eg hefi ydur
bodid, svo ad þér * sómasamlega umgángist þá,
* er fyrir utan eru og uppá engann séud komnir.
13. Ecki vil eg, brædur! láta ydur vera í * vanþeck-
íngu um þá burtsofnudu, svo ad þér séud ecki hrygg-
14. vir, eins og þeir, sem vonarlausir eru; því ef vér
trúum því, ad Jesús * sé dáinn og upp aptur ris-
inn, þá mun Gud somuleidis framleida fyrir
15. Jesúm þá, sem sofnadir eru ásamt honum; því
þad segi eg ydur * í Drottins orda stad: ad vér,
sem * lifandi verdum og eptir blífum vid tilkomu
Drottins, ad vér munum í engu fyrirrúmi verda
16. fyrir þeim, sem sofnadir eru; því * sjálfur Drott-
inn mun vid háhljóm, vid Hofudengils kall og
med Guds * lúdri af himni nidurstíga og þeir,
17. sem í Kristi eru dánir, skulu fyrst rísa upp; síd-
an munum vér, sem lifum og eptir blífum verda

---

V. 11. * 2 Thess. 3, 8. 12.
V. 12. Róm. 13, 13. * þad er: sofnudinn; fyrir utan sofnudinn vóru þeir, sem ecki hofdu kristni tekid. Cól. 4, 5. 1 Pét. 2, 12.
V. 13. * þad er: um þad, ad líf og endurgjalds tíd sé eptir þetta líf.
V. 14. * Róm. 14, 9. 2 Cor. 5, 15.
V. 15. * 1 Cor. 7, 10. * Kap. 15, 23. 51—53.
V. 16. * Matth. 24, 30. 31. 2 Thess. 1, 7. 10. * 1. Cor. 15, 52.

* hrífnir * til ſkýa áſamt þeim til ad * mæta
Drottni í loptinu og munum vér úr því * med
Drottni vera alla tíma. * Huggid þar fyrir 18.
med þeſſu hverr annann.

## 5. Kap.

I.) Páll hvetur til ad vanda líferni ſitt, þared
Kriſts koma til dómſins ſé hulin v. 1—
11. II.) Áminnir til elſku vid Kénni-
ſedur, til fridſemi og fleiri dygda og árn-
ar monnum þar til Guds adſtodar v. 12
—25. III) Qvedjur og ſkipan ad láta
alla leſa Piſtilinn v. 26—28.

Ahrærandi téda tíd og ſtund, er ecki þorf eg 1.
ſkriſi ydur, brædur! því ſjálfir vitid þér gjørla, 2.
ad dagur Drottins mun koma ſem * þjófur á
nóttu. Þegar menn ſegja: * nú er fridur og eng- 3.
in hætta, þá mun * ſnøgg eydilegging koma yfir
þá, eins og jódſótt yfir óléttar konur og þeir
munu ecki géta umflúid. En þér, brædur! erud 4.
ecki * í mirkri, ſvo ad ſá dagur * grípi ydur ſem
þjófur. Állir erud þér * ljóſsins ſynir og dags- 5.
ins ſynir. Vér heyrum ecki nóttinni og mirkr-

V. 17. * Opinb. b. 11, 12. * Poſt. G b. 1, 9—11.
* 2 Cor. 5, 10. * Jóh. 14, 3. 17, 24. 2 Cor. 5, 8.
V: 18. * 2 Cor. 13, 11.
V. 2. * Lúk. 12, 39 40. 2 Pét. 3, 10. Opinb. b. 3, 3.
V. 3. * Jer. 6, 14. 8, 11. Lúk. 21, 34.
V. 4. * þad er: vanþeckingu, vitid því hvernig þér eigid
ad búa ydur undir þeſſa tíd. Eph. 5, 8. * Op-
inb. b. 16, 15.
V. 5. * þad er; ljóſsins og dagſins ſynir kallaſt þeir, ſem
upplýſtir eru af Kriſts lærdómi. Lúk. 16, 8.
Jóh. 8, 12. 12, 46. Róm. 13, 12. 13.

6. inu til; látum oss því ecki * sofa heldur * vaka
7. og vera * ódruckna; því þeir, sem sofa, gjøra
þad á næturnar og þeir, sem drecka, drecka á
8. nóttunni. En látum oss, sem erum dagsins
børn, vera ódruckna, * hertýgjada brynju trúar-
innar og kjærleikans og hjálmi vonarinnar um
9. sáluhjálpina, því Gud hefir ecki áqvardad oss
undir straff, heldur til * ad ødlast sáluhjálp vegna
10. Drottins vors Jesú Krists, sem dó fyrir oss, svo
hvert vér * vektum edur sværfum þá skyldum vér
11. ásamt honum lifa: * Aminnid því hverr annann
og uppbyggid hverr annann hvad þér og gjørid.
12. Þess bidjum vér ydur, brædur! ad þér *
metid þá, sem vinna hjá ydur og veita ydur
forstødu í því, er Drottni vidkémur og áminna
13. ydur. Audsýnid þeim sérlega vyrdingu og *
elsku fyrir verk þeirra. Verid fridsamir inn-
14. byrdis. Enn framar áminni eg ydur, brædur!
ad þér * áminnid flysjúngana, huggid ístødulitla,
* styrkid breiska, hafid umburdarlyndi vid alla.
15. Sjáid til ad enginn * gjaldi íllt mót íllu, en

V. 6. * sá sésur, sem er hugsunarlaus um breytni sína: Eph 5, 14. * Lúk. 21, 36. 1 Cor. 15, 34. * þad er: gjætnir og haldandi girndum í taumi.
V. 8. * Esa. 59, 17. Róm. 13, 12. Eph. 6, 14. 17.
V. 9. * Róm. 6, 23.
V. 10. * Róm. 14, 8 9. 2 Cor. 5, 15.
V. 11. * Hebr. 10, 24. fl.
V. 12. * 1 Cor. 16, 13. Gal. 6, 6. Phil. 2, 29. 1 Tim. 5, 17. V. 13. * 1 Cor. 9, 11.
V. 14. * Matth. 18, 15. 2 Thess. 3, 6. 11. * Róm. 14, 1. Kap. 15, 1.
V. 15. * Ordsqv. b. 17, 13. 20, 22. Matth. 5, 39.

* leggid ávalt kapp á gódmennsku bædi hverr
vid annann og vid alla. Verid ætíd * gladir. 16.
* Bidjid án afláts. * Gjørid þackir fyrir allt, 17. 18.
því þad er Guds vilji ydur kunnur fyrir Je-
súm Krist. * Utsleckvid ecki andann. Forsmá- 19 20.
id ecki * spádóms gáfur, en * prófid allt og 21.
haldid því, sem gott er. * Haldid ydur frá illu, 22.
í hverri mind, sem þad sýnir sig. En sjálfur * 23.
fridarins Gud helgi ydur algjørlega og allur
ydar andi, sála og líkhami, vardveitist * fleck-
laust allt ad tilkomu Drottins vors Jesú Krists.
* Trúfastur er sá, er ydur hefir kallad, hverr 24.
ed og mun binda enda á sitt fyrirheiti. Brædr- 25.
ur! * bidjid fyrir oss.

* Heilsid øllum brædrunum med heilögum 26.
kossi. Eg * særi ydur í nafni Drottins, 27.
ad láta þetta bréf lesid verda fyrir øllum hei-
legum brædrum.

* Nádin Drottins vors Jesú Krists sé 28.
med ydur, Amen.

---

V. 15 * Hebr. 12, 14.
V. 16. * Lúk. 10, 22. Róm. 12, 12.
V. 17. * Lúk. 18, 1. Cól. 4, 2.
V. 18. * Eph. 5, 20. Cól. 2, 7.
V. 19. * Eph. 4, 23. 30. V. 20. * 1 Cor. 12, 10.
V. 21. * Róm. 2, 18. Phil. 1, 10.
V. 22. * Phil. 4, 8.
V. 23. * Róm. 15, 33. * 1 Cor. 1, 8. Cól. 1, 22.
V. 24. * 1 Cor. 1, 9. 10, 13. 2 Thess. 3, 3.
V. 25. * Cól. 4, 3.
V. 26. * Róm. 16, 16. 1 Cor. 16, 20.
V. 27. * Cól. 4, 16. V. 28. * Phil. 4, 23.

# S. Páls sídari Pistill

## til Thessaloniku manna.

1. Kap. I.) Gódar óskir 1—2. II.) Páll þackar Gudi fyrir þeirra siduglyndi og þolinmædi; huggar þá í þeirra þreyngíngum og bidur fyrir þeim v. 3—12.

1. Páll, * Silvanus og Tímótheus, óska ydur
Thessaloníku mennum, sofnudi Guds vors Fød-
2. urs og Drottins Jesú Krists, * nádar og fridar
af Gudi Fodur vorum og Drottni Jesú Kristi.
3. Skyldt er þad, brædur! ad vér * þockum
Gudi fyrir ydur eins og verdugt er; því * trú
ydar þróast ódum og innbyrdis elska sérhvers
ydar og allra yfir hofud, sýnir sig ríkuglega,
4. svo ad vér getum í ødrum Guds søfnudum *
stært oss af ydur, fyrir ydar * þolinmædi og trú,
undir ollum þeim ofsóknum og þreyngíngum, er
5. þér megid þola. Þetta er reksemd fyrir rétt-

V. 1. * 1 Thess. 1, 1. V. 2. * 1 Cor. 1, 3. fl.
V. 3. * 1 Thess. 1, 2. 2 Thess. 2, 13. * Lúk. 17, 5. Cól. 2, 7. Tít. 2, 2.
V. 4. * 2 Cor. 9, 2. 1 Thess. 2, 19. * Þad er: fastheldni vid kristna trú.

dæmi Guds, ad þér * verdugir álitist Guds rík-
is, * fyrir hvers sakir þér nú íllt lídid; med því 6.
þad er * réttvíst fyrir Gudi, ad endurgjalda þeim
þreyngíngu, er ad ydur þreyngja, en ydut, sem 7.
adþreyngdir erud, * hvíld med oss þá, þegar
Drottinn Jesús * opinberast af himni med sín-
um maktar englum og med * loganda eldi læt- 8.
ur hegníngu gánga yfir þá, sem ecki þeckjast Gud
og ecki hlýda * nádar lærdómi Drottins vors
Jesú Krists; hverjir * maklega hegníngu munu 9.
lída, eilífa fortapun, útskúfadir frá augliti Drott-
ins og frá hans maktar dýrd, þá hann * kémur 10.
til ad vegsamast af sínum heilögu og ad sýna
sig dásamlegann á öllum þeim, sem trúa; því
á þeim degi mun þad, sem vér vottudum fyrir
ydur, satt reynast. Þess vegna * bidjum vér 11.
áaflátanlega fyrir ydur, ad Gud vor gjöri ydur
* verduga sinni köllun og kröptuglega fylli ydur
öllu honum * velþócknanlegu ágjæti og trúar verk-
unum, svo ad nafn Drottins vors Jesú Krists 12.
* vegsamist á ydur og þér af honum, fyrir nád
Guds vors og Drottins Jesú Krists.

N

V. 5. * Lúk. 21, 36. * 1 Thess. 2, 14.
V. 6. * Jer 5, 24. Zach. 2, 12.
V. 7. * þad er : frinn frá mædu og farsælt líf. * 1 Thess. 4, 16. 1 Pét. 4. 13. Matth. 25, 31.
V. 8. * 2 Pét. 3, 7. * Róm. 10, 16.
V. 9. * Esa. 2, 19. Matth. 25, 41.
V. 10. * Post. G. b. 1, 11. Cól. 3, 4. Opinb. b. 1, 7.
V. 11. * 1 Thess. 5, 17. * 2, 12. * Eph. 1, 5. 11.
V. 12. * 1 Cor. 1, 31.

2. Kap. I.) Páll hrindir þeirri ímindun, ad Krists koma verdi svo brádum v 1—12. II.) Lofar Gud fyrir Thessaloníku manna útvalníngu, áminnir þá og bidur fyrir þeim v. 13—17.

1. En hvad áhrærir * tilkomu Drottins vors Je-
2. sú Krists og vora samsöfnun til hans, þá bid
eg ydur, brædur! ad þér ecki séud fljótir á ad
láta ydur hræda edur trubla hverki af nockrum
* anda, edur vid kénníngu edur bréf, svo sem þad
3. væri frá oss. * Látid engann villa ydur á nock-
urn hátt; því fyrst hlýtur fráfallid ad ské og
sá * madur syndarinnar auglýsast, fortöpunar
4. sonurinn, er setur sig og * upphefur á móti öllu
því, sem Gud edur heilagt kallast; og þad svo,
ad hann setur sig í Guds musteri og * tjer sig
5. eins og væri hann Gud. Minnist þér ecki þess,
ad eg sagdi ydur þetta * þá eg enn þá var hjá
6. ydur? en vitid þér hvad nú heldur honum uns
7. hann * opinberast á sinni tíd? því ósvífninnar
8. bisn er þegar farin ad brydda á sér, einúngis
ad sá yrdi úr vegi tekinn, er nú heftir hana,
því þá mun enn ósvífni koma í ljós, hverjum

---

V. 1. * 1 Thess. 4, 16. 17.
V. 2. * þad er: neinum, sem þæktist hafa guðlega andagift. 1 Jóh 4, 1.
V. 3. * Jer. 29, 8. Eph. 5, 6. Cól 2, 18. * 1 Jóh. 2, 18. Opinb. b. 13, 11.
V. 4. * Dan. 11, 36. Opinb. b. 13, 1. 4—6. * Ez. 28, 2.
V. 5. * Jóh 16, 4. Post. G. b. 17, 1.
V. 6 * 1 Jóh. 4, 3. * 2, 18.

Drottinn Jesús mun foreyda med * anda síns
munns og ad engu gjöra þá hann birtist kom-
andi. Hins tilkoma sýnir sig á þeim fortap- 9.
udu med * Satans krapti í öllu abli, táknum
og * stórmerkjum lýginnar og í allskags vélum
ránglætisins, vegna þess þeir gáfu ecki * sann- 10.
leiks elskunni inngáng hjá sér svo þeir hólpnir
yrdu. Þar fyrir mun * Gud senda þeim megna 11.
villudóma, ad þeir trúi lýgi, svo allir * straff- 12.
ist, sem ecki trúa sannleikanum, en hafa velþóckn-
un á ránglætinu.

En skyldt er ad vér ávalt * þöckum Gudi 13.
fyrir ydur, brædur; Drottins elskanlegu! ad Gud
hefir frá upphafi * útvalid ydur til sáluhjálpar
fyrir helgun andans og trú til sannleikans. Til 14.
þess * kalladi hann ydur med vorri kénníngu, ad
þér edlast skyldud dýrd Drottins vors Jesú
Krists. Brædur! standid því stödugir og hald- 15.
id fast vid þær lífs reglur, er þér numid hafid,
annadhvert af kénníngu vorri edur bréfi. En 16.
sjálfur Drottinn vor Jesús Kristur og Gud og
Fadir vor; sem * elskadi oss og gaf oss af nád

N 2

---

V. 8. * Það er: sínum kroptuga mætti. Esa. 11, 4. sam-
anb. Psálm. 33, 6. Opinb. b. 19, 15.
V. 9. * Jóh. 8, 41. 2 Cor. 4, 4 Eph. 2, 2. * Matth.
24, 24. Opinb. b. 13, 13.
V. 10. * 2 Tím. 4, 4.
V. 11. * Róm. 1, 24. 1 Tím. 4, 1.
V. 12. * v. 10.
V. 13. * Kap. 1, 3. * Eph. 1, 4. 1 Thess. 1, 4.
V 14. * 1 Pét 5, 10. Jóh 14, 3.
V. 16. * Róm. 5, 8. Gal. 2, 20.

17. eilífa huggun og góda von, hann huggi ydar * hjörtu og gjöri ydur stadfasta í sérhverjum góðum lærdómi og gódri breytni.

## 3. Kap.

I.) Páll bidur Thessaloníku menn ad bidja fyrir sér, huggar þá og bidur fyrir þeim v. 1—5. II.) Varar vid umgengni ósidsamra; hvetur ad draga dæmi af sér til ydjusemi og gódra verka v. 6—12. III.) Gefur reglur um, hvernig skuli haga sér vid óhlýdnga v. 13—16. IV.) Kvedja v. 17—18.

1. Enn framar, brædur! * bidjid fyrir oss, ad Drottins lærdómur megi * ódum útbreidast og
2. vegsamlegur verda eins og hjá ydur og ad vér mættum frelsast frá * ósidugum og vondum mönn-
3. um; því ecki er * öllum ad trúa, en Drottinn er * trúr, sem mun * styrkja ydur og geyma fyr-
4. ir íllu. Sakir Guds hefi eg það traust á ydur, ad þér hlýdid og munud hlýda því, sem eg
5. hefi bodid ydur; en Drottinn stýri ydrum hjörtum til mannelsku ad Guds og til þolinmædi ad Krists dæmi.
6. Enn bjódum vér ydur, brædur! í nafni Drottins vors Jesú Krists, ad þér * haldid ydur frá hverjum þeim bródur, er ósidlega hagar

V. 17. * 1 Thess. 3, 13
V. 1. * Róm. 15, 30. * Matth. 9, 38.
V. 2. * Post. G. b. 2, 40. Róm. 15, 31. * Róm. 10, 18.
V. 3. * 1 Cor. 1, 9. 10, 13. * 1 Pét. 5, 10. Jóh. 17, 15.
V. 6. * Róm. 16, 17. 1 Cor. 5, 11. 13. Tit. 3, 10. 2 Jóh. v, 10. 1 Thess. 4, 11.

sér fjærstædt þeim lífs reglum, er eg hefi fyrir
hann lagt. Sjálfir þeckid þér hvernig ydur 7.
ber ad * taka oss til eptirdæmis; því ecki lifd-
um vér * ósidlega hjá ydur, né þádum vort 8.
braud af nockrum géfins, heldur * unnum vér
med elju og atorku nótt og dag, svo vér værum
* engum ydar til þýngsla; ecki þess vegna ad 9.
oss bristi * heimild til þess, heldur til þess ad
* vér gjætum verid ydur munstur til ad breyta
eptir. Eg baud ydur nefnilega þad, þá eg var 10.
hjá ydur, ad ef einhverr vildi * ecki vinna, ætti
hann ecki heldur mat ad fá. En vér heyrum, ad 11.
sumir medal ydar lifi í * óskicki, vinni eckert
heldur eydi tídinni til óþarfa. Í Drottins vors 12.
Jesú Krists umbodi skipum vér slíkum og * á-
minnum þá, ad þeir * vinni med elju og hafi
sjálfir fyrir sér.

Brædur! * þreytist ecki gott ad gjøra. 13.
Ef sá er nockurr, sem ecki hlýdir minni áminn- 14.
íngu í þessu bréfi, þá athugid hann og * hafid
engin afskipti af honum, svo hann blygdist; en 15.
álitid hann samt ecki sem fjandmann, heldur *

---

V. 7. * 1 Cor. 4, 16. Phil. 3, 17. * 1 Thess. 2, 10.
V. 8. * Post. G. b. 20, 34. 1 Cor. 4, 12. 1 Thess. 2, 9.
* 2 Cor. 11, 9.
V. 9. * Matth. 10, 10. 1 Cor. 9, 4. 6. * 1 Cor. 4, 16.
1 Thess. 1, 6.
V. 10. * 1 Mós. b. 3, 19. Eph. 4, 28.
V. 11. * v. 6.
V. 12. * Róm. 15, 30. * 1 Thess. 4, 11.
V. 13. * Gal. 6, 9.
V. 14. * Matth. 18, 17. 1 Cor. 5, 9. 11.
V. 15. * Gal. 6, 1. 2.

16. áminnid sem bródur. En * Drottinn fridarins
veiti ydur frid ætíd og í ollu! * Drottinn sé
med ydur ollum!
17. * Qvedjau er skrifud med minni, Páls, eg-
in hendi; þad er merki sérhvers bréfs frá mér.
18. Svona skrifa eg. * Nádin Drottins vors Je-
sús Krists sé med ydur ollum, Amen!

# S. Páls fyrri Pistill
## til Tímótheusar.

1. Kap. I.) Gódar óskir v. 1—2. II.) Páll áminnir Tímótheus ad hindra áfbakadann skilning Mósis laga og prísar undir eins Krists lærdóms krapt til ad lagfæra menn og farsæla v. 3—20.

1. Páll Postuli Jesú Krists, eptir * rádstöfun
Guds vors Frelsara og Jesú Krists, sem er vor

V. 16. * Róm. 15, 33; 16, 20. Phil. 4, 9. * Matth. 28, 20.
V. 17. * 1 Cor. 16, 21. Col. 4, 18.
V. 18. * Róm. 16, 24.
V. 1. * Post. G. b. 9, 15. 13, 2.

* von, óskar Tímótheusi, sínum ekta * syni í 2.
trúnni, nádar, miskunar og fridar af Gudi
vorum Fødur og Jesú Kristi vorum Drottni.
Þá eg fór til * Makedoníu, beidda eg þig 3.
ad vera kyrrann í Ephesus og tilhalda vissum
mønnum ad þeir kénni ecki annarlegann lærdóm;
géfi ecki heldur gaum ad æfinthýrum og endalaus- 4.
um ættartølum, er framar leida til þrætu, held-
ur enn gudlegrar uppbyggíngar í trúnni. Því 5.
ad høfud augnamid kénníngarinnar er kjærleik-
urinn af hreinu hjarta, gódri samvitsku og hræsn-
islausri trú; en frá þessu eru sumir viknir og 6.
hafa snúid sér til þvættings, þeir látast vera løg- 7.
lærdir, þótt þeir hverki skilji sjálfir hvad þeir
segja eda hvad þeir þykjast sanna. Vér vitum 8.
ad * løgmálid er gott fyrir hvern þann, sem hag-
nýtir þad réttilega og eg veit ad løgmálid ecki 9.
er sett þeim réttlátu, heldur þeim ránglátu og
þverbrotnu, gudleysíngjum og stór-syndurum, van-
heiløgum og þeim, sem drýgja helgi-spjøll, fødur-
bønum og módurbønum, manndrápurum; frillu- 10.
lífis mønnum, þeim sem skømm drýgja med karl-
mønnum, selja * menn, lygurum, meinsæris-mønn-
um og gégn hverju ødru, sem gagnstædt er hrein-

---

V. 1. * Cól. 1, 27. Hebr. 2, 10.
V. 2. * Tit. 1, 4.
V. 3. * Post G. b. 20, 1. * Gal. 1, 6. 7.
V. 4. Kap. 4, 7. 6, 4. 2 Tim. 2, 23.
V. 5. Matth. 22, 37—40.
V. 7. Jóh. 3, 10. samanb. Matth 23, 13.
V. 8. Róm. 7, 12. * þad er: Mósis løgmál.
V. 9. Mósis løgmál midar sérdeilis til ad koma mønnum til ad fordast lesti, Krists trú krefur meira, sjá v. 5.
V. 10. * 2 Mós. 21, 16.

11. um lærdómi, samqvæmum þess sæla Guds dýrd-
lega nádar bodskapi, sem mér er tiltrúadur.
12. Jesú Kristi vorum Drottni, sem mig hef-
ir styrkann gjørt, séu þackir fyrir þad, ad hann
áleit mig trúann og setti mig til sinnar þjón-
13. ustu, mig, sem fordum var lastari, ofsóknari og
14. smánari; en eg hefi miskun odlast, því eg gjørdi
þad í * vantrú af * vanþeckíngu. Já, ríkuglega
hefir nád Drottins vors tjed sig í ad efla trú
15. mína á Jesú Kristi og elskuna til hans. Þad er
sannur lærdómur og í allann máta medtækileg-
ur: ad Kristur Jesús er kominn í heiminn til
ar gjøra syndugа hólpna, á medal hverra eg er
16. hinn helzti. En þess vegna hefi miskun odl-
ast, ad Kristur sýndi á mér stór-syndugum sitt
mikla lánglundar-gèd til eptirdæmis fyrir þá,
17. sem sídar trúa á hann, þeim til eilífs lífs. En
þeim ódaudlega, ósýnilega aldanna Konúngi,
honum, sem aleinn er Gud, sé heidur og dýrd
18. um aldir alda, Amen! Þetta er sú áminníng,
er eg fyrirlegg þér, son minn. Tímótheus! ad
þú, eptir því, sem ádur er um þig spád, tjáir
19. þig gódann stríds-mann, sért fastheldinn vid trúna
og góda samvitsku, frá hverri nockrir hafa vik-
20. id og lidid skipbrot á trú sinni. Í þessara tølu
eru * Hymeneus og * Alexander, hverja eg hefi

V. 12. Post. G. b. 9, 15.
V. 13. Post. G. b 8, 3. 9, 1. * 3, 17.
V. 15. Matth 9, 13. 18, 11. 1, 21.
V. 17. Róm. 16, 27.
V. 20. * 2 Tím. 2, 17 * 2 Tím. 4, 14 Post. G. b 19, 33
* 1 Cor. 5, 5 samanb Post G. b. 26, 18. Cól.
1, 13. 1 Jóh. 3, 8. Jóh. 8, 41—44.

géfid í Satans * vald, svo ad þeir af refsíngunni læri ad gudlasta ecki.

I.) Páll skipar ad bidja fyrir öllum v. 1—7. **2. Kap.**
II.) Reglur um þad, hverniá karlmenn og qvennmenn skuli hegda sér í þeirra gudræknis samkomum v. 8—15.

Fyrst og fremst * áminni eg til þess, ad menn 1.
frambeti bænir, óskir, fyrirbænir og þackargjörd
fyrir öllum mönnum; fyrir * Konúngum og 2.
valdsmönnum, svo vér med spekt og rósemi lif-
ad gétum gudrækilega og sómasamlega. Þetta 3.
er gott og þócknanlegt fyrir Gudi * vorum Frels-
ara, sem vill ad allir hólpnir verdi og komist 4.
til þeckíngar á sannleikanum, því einn er Gud, 5.
og einn er medalgángarinn milli Guds og manna,
madurinn Jesús Kristur, sem gaf sig sjálfann 6.
* til * lausnargjalds fyrir alla, til * vitnisburdar
á tilsettri * tíd; hann ad boda er eg settur pré- 7.
dikari og Postuli, heidinna þjóda lærimeistari
í trúnni og sannleikanum; þad segi eg satt og
lýg * ecki.

Þar fyrir vil eg ad karlmenn hvar helzt, 8.
sem þeir samankoma til * bænagjördar, * upp-
lypti heilögum höndum án reidi og þrætu.

---

V. 2. * Jerem. 29, 7.
V. 6. * Eph. 1, 7. * ad Gud vilji fyrirgéfa syndirnar. * Gal. 4, 4.
V. 7. * Post. G. b. 9, 15. Róm. 11, 13. Gal. 2, 8. 9. 2 Cor. 12, 6.
V. 8. * Jóh. 4, 21. * 2 Makkab. b. 3, 20.

9. Sömuleidis vil eg ad konurnar skrýdi sig * sje-
lega, med blygd og * hóflæti, ecki med hárflétt-
10. um, gulli, perlum og dýrindis * búníngi; heldur
eins og þeim konum sómir, er sýna vilja guds-
11. rækni í gódverkum. Konan á ad læra hljódlega
12. med allri undirgéfni, en henni hæfir ecki ad *
kénna eda tiltaka sér herradæmi yfir karlmann-
13. inum, heldur vera *kyrrlát; því fyrst var Adam
14. myndadur, Evá á eptir og Adam tældist ecki,
15. heldur var konan tæld og gjördist brotleg. En
hún verdur hólpin vegna barn-burdarins, ef þau
standa stödug í trú, kjærleika og heilagleika sam-
fara hóflæti.

3. Kap. I.) Reglur, hvílíkum þeim birji ad vera, sem takast til forstödu- og þiénustu-manna safnadanna v 1—13. II.) Minnir Tímótheus á grundvöll kristilegrar trúar v. 14—16.

1. Þad eru sannmæli: ad ef nockurr girnist Bisk-
2. ups * embætti, þá girnist hann gott verk, því
slíkur tilsjónarmadur á ad vera ólastanlegur, einn-
ar konu eginnmadur, árvakur, sparneytinn, sid-

---

V. 9. * 1 Pét. 3, 3. 4. samanb. Tít. 2, 3. * samanb. 1 Cor. 11, 3—18. * Esa. 3, 16. fl.
V. 10. Eph. 2, 10. samanb. Jak. 2, 18.
V. 12. * 1 Cor. 14, 34. * Eph. 5, 22. Tít. 2, 5.
V. 13. 1 Mós. b. 1, 27. 2, 7. 18.
V. 14. 1 Mós. b. 3, 6. 2 Cor. 11, 3.
V. 15. Konan var sköpud til þess ad mannkynid gæti tímgast.
V. 1. * Tilsjónar-manns í söfnudinum. Post. G. b. 20, 28.
V. 2. Samanb. Tít. 1, 5—9.

prúdur, géstrisinn, vel fallinn til ad kénna; en 3.
hverki * dryckjumadur, né offstopasamur, heldur
gjæfur, fráſneiddur deilum og * págjarn; sá ed 4.
veiti sínu heimili góda forstödu og med spekt
haldi börnum sínum hlýdugum. Því hverr, 5.
sem ecki hefir vit á ad veita sínu heimili forstödu,
hvernig má hann umsjón veita sefnudi Guds?
Ecki neinn, sem nýlega er ordinn trúadur, svo ad 6.
hann ecki upphrokist og verdi fyrir rógberarans
áfelli. Honum ber einnig hafa gódann ordstýr 7.
hjá þeim, sem fyrir * utan eru, ad hann falli
ecki í fyrilitníngu og tálsnorur rógberarans.

Somuleidis ega * Djáknarnir ad vera heid- 8.
virdir, ecki tvímælis-menn, ecki * vínsvelgjarar,
ecki sólgnir í ljótann gróda; sem vardveiti trúar- 9.
innar * leyndardóm í hreinni * samvitsku. Þessir 10.
skulu reynast fyrst og sídan takast til embættis-
ins, ef þeir eru ólastanlegir. Somuleidis ega 11.
konur þeirra ad vera heidvirdar, ecki * bakmál-
ugar, heldur árvakrar, trúar í öllu. Djákn- 12.
arnir séu einnar konu egin menn, veiti börnum
sínum og heimilum góda forstödu; því þeir, sem 13.
þjóna vel, afla sér góds frama og mikillar djörf-
ungar í * trúnni á Jesú Kristi. Þetta skrifa eg 14.
þér þó eg voni ad koma brádum til þín, svo ad 15.

V. 3. * 3 Mós. b. 10, 9. * 2 Tim. 2, 4.
V. 7. * þad er: fyrir utan sofnudinn.
V. 8. * sjá Post. G. b. 6, 3. * 1 Tim. 3, 3.
V. 9. * Kristis lærdóm, er ádur var óþecktur. Eph. 1, 9. 10. 3, 4. 5. 9. Cól. 1, 26. 1 Cor. 2, 7. * Kap. 1, 19.
V. 11. * Tít. 2, 3. V. 12. v. 3. 4.
V. 13. * 1 Jóh. 3, 21.

þú vitir, ef mér seinkar, hvernig þú skulir haga
þér í Guds húsi, sem er sefnudur lifanda Guds.
16. Stólpi og grundvollur * sannleikans og vafalaust
mikill er þessi gudrækninnar leyndar-dómur:
* Gud birtist í * holdinu; er réttlættur af * and-
anum; sjen af * englunum; bodadur medal heid-
inna þjóda; trúadur í heiminum; uppnuminn
í * dýrd.

## 4. Kap.

I.) Postulinn áminnir enn Tímótheus ad fyri-byggja ránga lærdóma og ad fordast þá sjálfur v. 1—11. II.) Hann géfi af sér gott eptirdæmi og sé trúr í sínu embætti v. 12—16.

1. En Andinn segir med berum ordum: ad á síd-
ustu * tídum muni nockrir gánga af trúnni, festa
2. trú til villu * anda og djefla lærdóma, sem af
flárædi kénna lygar og eru brennimerktir á sam-
3. vitskunni, banna ad giptast og ad neyta fædu, er
Gud hefir þó skapad til þess hún neytist med
þackargjørd af trúudum, er komnir eru til þeck-
4. íngar á sannleikanum, því ad øll Guds sképna
er gód og engin burtkastanleg, sé hún medtekin

V. 16. * 1 Cor. 3, 11. Eph. 2, 20. Jóh. 17, 3. 6. * J ellstu handritum og útleggíngum Nýa Testam. stendur: Sá, sem birtist, o. s. frv. * Jóh. 1, 14. 1 Jóh. 4, 2. fl. * Róm. 1, 4. Post. G. b. 10, 38. samanb. Matth. 3, 16. Lúk. 2, 40. Jóh. 10, 36. 38. (sjá Matth. 12, 28. samanb. vid Lúk. 11, 20.) * Lúk. 24, 51. Post. G. b. 1, 9.

V. 1. * Matth. 24, 24. * Mich. 2, 11. 1 Jóh. 4, 1. 2, 18. 2 Pét. 2, 1. 2 Thess. 2, 1—12.

V. 4. 1 Mós. b. 1, 31. Post. G. b. 10, 15. Cól. 2, 16.

med Þackargjørd, hún helgast med Guds ordi og 5.
bæninni. Þegar þú brýnir þetta fyrir brædrun- 6.
um, þá sýnir þú þig gódann þjón Jesú Krists,
vel mentadann í lærdómum trúarinnar og þeirri
ágjætu kénníngu, hverri þú hefir hlýdnast. Ford- 7.
ast þú vanheileg æfintýri og kérlínga * hégyl-
jur, en æf sjálfann þig til gudhrædslu. Líkam- 8.
leg æfíng er til lítils nýt, en gudrækni er til
alls nytsamleg og hefir fyrirheit bædi fyrir þetta
líf og hid tilkomanda. Þetta eru sannmæli allr- 9.
ar samsinníngar verdug, þess vegna leggjum vér 10.
oss í strit og umberum fyrirlitníngu, því vér
hofum sett vora von til ens lifanda Guds, sem
er Frelsari allra manna, einkum trúadra. Kunn- 11.
gjør þú þetta og kénn!

Enginn fyrirlíti þig vegna þinnar æsku, en 12.
vertú trúadra fyrirmind í lærdómi, * hegdun,
elsku, trú, skírlífi. Ver kappsamur í * lestri, á- 13.
minníngum, * kénníngu þángad til eg kém. Van- 14.
ræktu ecki þér veittà nádargáfu, hver þér var
* fyrirspád vid handa uppáleggíngu * Øldúng-

---

V. 5. samanber Tit. 1, 15.
V. 7. Kap. 1, 4. 2 Tím. 2, 16. 23.
V. 12. * Nockur handrit Nýa Testamentisins bæta hér inní: í anda.
V. 13. Kristnir héldu sømu venju eins og Gydíngar brúkudu í samkundu-húsum sínum, ad lesa part úr Biblíunni og sá, sém fann sig hæfann, tók þar af tækifæri ad géfa søfnudinum áminníngar og meddeila lærdóma. Lúk. 4, 16. 20—22. Post. G. b. 13, 15. 42. samanb. 1 Cor. 14, 19. 31.
V. 14. * Kap. 1, 19. samanb. 1 Cor. 14, 24—26. * Post. G. b. 6, 6. 7. 8, 17. 13, 3.

15. anna. Gjættu ad þessu, vertú allur í því, svo
16. ad þín framfør sé audsjen í öllu. Haf gát á
sjálfum þér og lærdóminum; vertú stödugur vid
þetta, því ef þú gjørir þad, munt þú gjøra
sjálfann þig hólpinn og þá, sem þig heyra.

5. Kap. I.) Hvernig Tímótheus egi ad haga áminningum sínum vid elldri menn og yngri v. 1—2. II.) Eckjur ega sérdeilislega ad njóta ølmusu safnadarins og kennendur; hverjar eckjur egi ecki ad fá þar í hlútdeild v. 3—18. III.) Áminning um varúd ad straffa Øldúnga og um gjætni í ad velja til þess embættis v. 19—25.

1. Ávíta ecki gamlann mann hardlega, heldur á-
minn sem * fødur, hina yngri sem * brædur;
2. aldradar konur sem mædur, úngar sem systur
keskniskaust.
3. 4. Heidra eckjur, sem eru sannar eckjur; en ef
nockur eckja á børn eda afkomendur, þá læri
þeir fyrst og fremst ad audsýna rækt ættmenn-
um sínum og endurgjalda * foreldrum, því þad
5. er þócknanlegt fyrir augliti Guds. Sannarleg
eckja, sem er adstodarlaus, hún hefir sett von
sína til Guds og er stødug í bæn og ákalli til
6. hans nótt og * dag. En hin býlífa er daud
7. þó hún lifi. Kunngjør þú þetta, svo þær séu
8. óstraffanlegar, en ef sá er nockurr, sem ecki vill

V. 16. samanber Post. G. b. 20, 28.
V. 1. * samanb. 3 Mós. b. 19, 32. * samb. 2 Thess. 3, 15.
V. 4. * Matth. 15, 4. V. 5. * Lúk. 2, 37.

sjá fyrir ýngum, helzt ef þeir eru heimilis-
menn hans, hann hefir afneitad * trúnni og er
heidnum manni argari. Ecki má ecki veljast
yngri enn sextug, sú er verid hefir eins manns 9.
* kona og kunn er ad góðverkum, ad hún hafi 10.
uppalid bern, verid géstrisin, hafi þvégid fætur
* trúadra, hjálpad naudstøddum, kappkostad allt
gott. En hjá úngum eckjum skaltu sneida þig, 11.
því þegar þær af gjálífi hætta ad hirda um Krist,
girnast þær ad giptast og gjørast sekar, þar ed 12.
þær brjóta sitt fyrra * heit. Slíkar venja sig
á ydjuleysi og ad rápa hús úr * húsi; já, eru 13.
ecki einúngis ydjulausar, heldur og * málugar,
hlutsamar og tidka ósæmilegt tal. Eg vil því 14.
ad enar úngu eckjur * giptist, ali bern, stjórni
húsi og gefi fjandmanni eckert tilefni til ills *
umtals; því nockrar eru þegar fallnar * frá og 15.
hafa snúid sér til * Satans. Ef nockurr trú- 16.
adur eda trúud á eckjur sér skyldar, hjálpi þau
þeim, ad þær séu ecki søfnudinum til byrdi og
ad hann géti hjálpad réttum eckjum.

Þeir Øldúngar, sem veita góda forstødu, 17.
mætist tvøfaldlega, allra helzt þeir, sem sveitast

---

V. 8. * Tit. 1, 16.
V. 9. * samanb. v. 14. vid Mark. 10, 12. Matth. 19, 7.
og 5 Mós. b. 24, 3. 4.
V. 10. þad er; sýnt þénustusemi, 1 Mós. b. 18, 4. 19, 2.
V. 13. * Ordsqv. b. 7, 11. * Tit. 2, 3.
V. 14. * 1 Cor. 7, 9. * Tit. 2, 8.
V. 15. * nefnilega: kristni, med því þær hafa gipst heidnum mønnum. * Eph. 2, 2.
V. 16. samanber v. 8.

18. vid ad kénna og fræda, því Ritníngin * segir: þú skalt ecki múlbinda nautid sem erjar. * Sömuleidis: verdur er verkamadurinn launanna.
19. Ecki skaltú veita móttöku klögun mót Öld-
20. úngi, nema tvø eda þrjú vitni * beri; en þá, sem misbrjóta skaltu ávíta í allra * nærveru, svo ad
21. hinir hafi og svo þar af * ótta. Eg særi þig fyrir augliti Guds, Drottins Jesú Krists og útvaldra Engla, ad þú gætir þessa án hleypidóms og gjerir eckert af medhaldi.
22. Vertú ecki fljótur til ad leggja hendur yfir * nockurn; taktú ecki heldur þátt í annara
23. syndum. Geym þig sjálfann óflekkadann. Dreck ecki framar vatn, heldur neyt lítils víns vegna maga þíns og þíns jafnadarlega heilsubrests.
24. Sumra manna syndir eru svo berar, ad þær
25. fordæmast * fyrifram, adrar þeckjast eptirá, sömuleidis lýsa sum góðverk sér strax, en þau, sem ecki eru þannig, géta ecki heldur * dulist.

**6. Kap.** I.) Præla skyldur v. 1—2. II.) Fals-kénnenda lærdómur leidir til þrætu og ágirndar v. 3—10. III.) Tímótheus áminnist til gudhrædslu v. 11—16. IV.) Hvad hann skuli kénna þeim ríku v. 17—19.

V. 18. * 5 Mós. b. 25, 4. * 5 Mós. b. 24, 14. Matth. 10, 10. 1 Cor. 9, 9—14.
V. 19. * 5 Mós. b. 17, 6. 19, 15.
V. 20. * samanb. Matth. 18, 17. Eph. 5, 11. * 5 Mós. b. 17, 13. 19, 20.
V. 22. * Post. G. b. 6, 6. 8, 17. 13, 3. 19, 6. 2 Tím. 1, 6.
V. 24. samanb. v. 22. * Gal. 5, 19.
V. 25. * Matth. 10, 26.

V.) Hann gjæti trúlega síns embættis, en fordist Þvætting v. 20—22.

Anaudugir Þrælar haldi sína drottna alls heid- 1.
urs * verduga svo ecki komi íllt ord á nafn Guds
eda * lærdóminn; Þeir sem trúada húsbændur 2.
ega, fyrirlíti Þá ecki, vegna Þess Þeir eru * bræd-
ur, heldur Þjóni Þess fúslegar, vegna Þess Þeir
eru trúadir og elsku verdir, sem Þyggja ega Þá
trúu Þjónustu. Kenn Þú Þetta og áminn um
Þad. Hverr, sem ødruvísi kennir og ecki fylgir 3.
vors Drottins Jesú Krists heilsusama lærdómi
og kenníngu, sem leidir til gudhrædslu, hann er,
Þrát: fyrir hroka * sinn, fávís; en er sólginn í 4.
vafa-spurníngar og orda-deilur, af hverjum qvikn-
ar øfund, deilur, bríxli, vondar getgátur, íll 5.
tíma-sóan hugspilltra manna, hverjum sannleik-
urinn er horfinn og sem hafa gudræknina sér til
* fjárplógs. Þesshattar menn skaltú fordast.
Í sjálfri sér er gudhrædslan mikill ávinníngur 6.
samfara nægjusemi. Fyrst vér høfum eckert inn- 7.
flutt í heiminn, Þá er Þad bert ad vér eckert
Þadan münum geta burtu haft. Þess vegna, 8.
ef vér høfum fædu og skýli Þá látum oss næg-
ja. Þeir Þar á nót, sem ríkir vilja verda, 9.

O

V. 1. * Eph. 6, 5. fl. * Róm. 2, 24. Tít. 2, 5. 8.
V. 2. * Þad er: Þeirra samkristnir.
V. 4 1 Cor. 8, 2. V. 5. * Tít. 1, 11. 2 Pét. 2, 13.
V. 6. Ordsqv. b. 15, 15. 16. 1 Tím. 4, 8.
V. 7. Job. 1, 21. Préd. 5, 15. Psálm. 49, 17—21.
V. 8. Ordsqv. b. 30, 8. Matth. 6, 29.
V. 9. Ordsqv. b. 23, 4. 28, 20. 22. 11, 28. Jak. 5, 1-5.

falla í freistíngar og snerur og margar girndir
dárlegar og skadlegar, er nidursöckva mennun-
10. um í ólucku og glötun; þvíad aura-elskan er
rót til alls ills, í hverja nockrir hafa svo fíkst,
ad þeir hafa villst frá trúnni og sært sig mörg-
11. um harmqvælum. En þú, Guds madur! um-
flý þvílíkt, en kappkosta réttvísi, gudhrædslu,
12. trú, kjærleika, þolinmædi, ljúflyndi. Berstú
trúarinnar gódu baráttu, handsama eilíft líf, þar
til ertú kalladur og játtir gódri játníngu í margra
13. vitna nærveru. Eg áminni þig um fyrir aug-
liti Guds, sem allt * lífgar og Jesú Krists, er
gjördi þá gódu játníngu fyrir þeim pontverska
14. * Pílatusi, ad þú gætir skyldu þinnar lýtalaust
og óadfinnanlega allt til opinberunar Drottins
15. vors Jesú Krists, hverja á sínum tíma mun
birtast láta enn sæli og alleina voldugi Konúng-
16. ur Konúnganna og Drottinn * Drottnanna; sá,
sem aleinn á ódaudlegleikann; sem býr í því
ljósi, er enginn fær tilkomist; hvern enginn mad-
ur hefir sjed; hverjum sé heidur og æfinlegt
veldi, Amen!
17. Bjód ríkum mennum þessarar aldar: ad
þeir séu ecki mikillátir, né treysti fallvöltum
* audi, heldur lifanda Gudi, sem veitir oss rík-

---

V. 10. 2 Mós. b. 23, 8. 5 Mós. b. 16, 19. Ordsq. 15, 16.
V. 12. 1 Cor. 9, 25. 26. Phil. 3, 12. 14. 2 Tim. 2, 5. 2 Tim. 4, 7.
V. 13. * Róm. 4, 17. * Jóh. 18, 36. 37.
V. 15. 5 Mós. b. 10, 17.
V. 16. 1 Jóh. 1, 5. 4, 12. 2 Mós. b. 33, 20.
V. 17. * Kap. 5, 7. Jób. 31, 24. 25. Psálm. 62, 11. Matth. 6, 19. Luk. 12, 15—20. * Jak. 5, 2. 3.

ríglega allt gott til * naudþurftar; ad þeir gjöri 18.
* gott; séu ríkir af * gódverkum, örlátir, fúsir
ad midla * ödrum, safni sér féssjód til góds for= 19.
lags uppá hid eptirkomanda, svo ad þeir hreppi
hid sannkallada líf. Kjæri Tímótheus! gjæt 20.
þess, sem þér er trúad fyrir, en fordast van=
heilagann þvætting og grillu spursmál ranglega nefnd=
ar vitsku, er nockrir hafa gefid sig vid og eru 21.
frá trúnni villtir. Nád sé med þér; Amen! 22.

# S. Páls sídari Pistill til Tímótheusar.

I.) Gódar óskir v. 1—2. II.) Postulinn hrós= ar Tímótheusar trú, hvetur til átörku, Þol= inmædi í pjáningum og fastheldni vid hreinn= ann lærdóm v. 3—12. III.) Qvartar yfir nockrum, hrósar ödrum v. 13—18. **I. Kap.**

Páll, Jesú Krists Postuli, settur ad Guds 1.
vilja til ad bóda lífid fyrir Jesúm Krist, ósk=



V. 17. * Matth. 6, 25—34
V. 18. * 5 Mós. b. 15, 7. 10. * Lúk. 12, 21. Jak. 2, 8. 14. 17. * Jak. 2, 15. 16. Róm. 12, 8.
V. 19. Matth. 6, 20. Lúk. 16, 9.

2. ar sínum elskulega syni Tímótheusi nádar, miskunar og fridar af Gudi, Fødur og Jesú Kristi vorum Drottni.

3. Eg þacka Gudi, hvern eg med hreinni samvitsku * dýrka, ad minna forfedra sid, eptir því, eg án aflátz minnist þín í mínum bænum
4. nótt og * dag. Þegar mér renna í hug tár þín, lángar mig til ad sjá þig, svo ad mín gledi
5. verdi fullkomin. Eg man til þinnar falslausu trúar, er fyrst bjó í ømmu þinni Lóis og módur þinni Evníku; en eg er fullviss um ad hún
6. líka býr í þér. Þess vegna minni eg þig á ad glæda hjá þér gáfu Guds, sem þér er veitt med
7. minni handa uppáleggíngu, því ecki hefir Gud géfid oss hugleysis * anda, heldur máttar, kjær-
8. leiks og hygginda; blygdast því ecki kénníngar Drottins vors, né mín, hans bandíngja, heldur samþínstu nádar lærdóminum, styrktur vid Guds
9. * krapt, sem oss hefir frelsad og kallad med heilagri * køllun, ecki fyrir vorra verka * sakir, heldur af nád, sem hann eptir sinni rádstøfun hafdi frá
10. eilífd fyrirhugad oss vid Jesúm * Krist; en sem fyrst nú er augljós ordin vid komu vors Frelsara Jesú * Krists, sem hefir afmád daudann med því ad leida í ljós lífid og óforgengi-
11. legleikann med sínum nádar * lærdómi, hvers

---

V. 3. * Post. G. b. 23, 1. * Róm. 1, 9. Eph. 1, 16.
V. 5. Post. G. b. 16, 1.
V. 6. samanb. Citatíur vid 1 Tím. 4, 14.
V. 7. * Róm. 8, 15. 16. V. 8. * Róm. 1, 16.
V. 9 * 1 Thess. 4, 7. Eph. 1, 4. * Eph. 2, 8. Róm. 6, 23. Tit. 3, 5. * Róm. 16, 25.
V. 10. * Cól. 1, 26. * Hebr. 2, 14. 15. 1 Cor. 15, 26.

prédikari, Postuli og kénnari eg er medal heid-
inna þjóda. Fyrir þá skuld líd eg þetta, en 12.
eg blygdast ecki þess, þared eg veit og er viss
um, ad sá, á hverjum eg hefi traust, er megn-
ugur ad vardveita mitt * geymslu fé til ens á-
qvedna dags.

Hafdú stodnglega þér fyrir augum munst- 13.
ur þeirra heilsusemu lærdóma, sem þú af mér
hefir numid med trú og elsku, sem er í Jesú
* Kristi. Vardveittu þad góda * geymslu-fé hei- 14.
lags Anda, sem í oss * býr.

Þú veitst ad allir úr Asíu hafa yfirgéfid 15.
mig, medal þeirra Fygellus og Hermogenes.
Drottinn veiti miskun Onesiphorí húsi, því opt 16.
hefir hann endurnært mig og ecki skammast sín
fyrir fjötur mín; þvert á mót leitadi hann kost- 17.
gjæfilega ad mér þá hann kom til Róm, þar 18.
til hann fann mig. Drottinn láti hann á effsta
degi finna * miskun hjá Drottni! þér er alkunn-
ugt hversu hann stundadi mig í Ephesus.

I.) Páll áminnir Tímótheus til dugs og þol- **2. Kap.**
gjædis í hans embætti, því mikil laun séu
í vændum v. 1—13. II.) Til ad setja
sig á móti þeim, sem leida adra afvega

---

V. 11. Gal. 1, 15. 16. 2, 7. 8. Post. G. 6. 9, 15.
V. 12. * þad er: þad lærdóms- og prédikara-embætti,
sem mér er af Gudi á hendur falid. Kap. 2, 9.
V. 13. * 1 Tím. 1, 14.
V. 14. * samanb. v. 12 og 1 Tím. 6, 20. * þad er: þá
upplýsingu og þad heilaga hugarfar, sem Guds
andi innrætir. 1 Cor. 3, 16.
V. 18. * Matth. 5, 7.

v. 14—18. III.) En þó menn séu í Guds söfnudi misjafnir, standi Guds bygging samt stödug v. 19—21. IV.) Varar vid æstu brestum, grubli; hvetur til hógværdar v. 22—26.

1. Vertú þar fyrir, son minn! sterkur í nád Je-
2. sú Krists og þad, sem þú heyrdir af mér í
margra vitna * nærveru, fádu þad aptur trú-
um mönnum, sem hæsir eru ad kénna ödrum;
3. en þoldú illt, sem gódur stríðsmadur Jesú Krists.
4. Enginn hermadur flær sér í atrar sýslanir, svo
ad hann þóknist þeim, sem tók hann á mála.
5. Ecki heldur fær så sigurkransinn, sem géfur sig
frammá leikvöllinn, nema hann berjist löglega.
6. Fyrst eptir afstadna vinnu á jardyrkjumadur-
7. inn ad njóta ávaxtanna; þú skilur hvad eg segi.
8. Drottinn géfi þér skilníng í öllu. Minnstu Je-
sú Krists, Davíds ættar, sem frá daudum er
9. upprisinn eptir mínum nádar bodskap; vegna
hvers eg líd illt, jafnvel fjötur eins og illvirki;
10. en lærdómur Guds fjötrast * ecki. Þess vegna
umber eg allt sakir enna útvöldu, svo ad þeir
hljóti hjálpræði Jesú Krists, med eilífri * dýrd.
11. Þad er sannur lærdómur: ad ef vér med honum
12. deyjum, þá munum vér og med honum lifa; ef
vér höldum út, þá munum vér og med honum

V. 2. * Kap. 1, 13.
V. 5. 1 Cor. 9, 25 26. 2 Tim. 4, 7. 8.
V. 9. * hans útbreidsla hindrast ecki fyrir þad. K. 1, 12.
V. 10. * samanb. Róm. 6, 23.
V. 11. Róm. 6, 5. 8, 17. 2 Cor. 4, 10.

* ríkja; ef vér afneitum honum, mun hann og
afneita* oss; ef vér verdum ótrúir, þá verdur 13.
hann samt trúr, sjálfum sér getur hann ecki af-
neitad.
Aminn þú um þetta og vitna fyrir augliti 14.
Drottins, ad þeir ecki géfi sig í orda-þrætur,
sem til einkis gagna, en eru til afvegaleidslu
þeim, sem áheyrsla verda. Legg kapp á ad 15.
audsýna þig Gudi vandadann verkamann, er ecki
þarf ad skammast sín og rétt fer med sannleiks-
ins lærdóm. En fordast vanheilagann þvætting; 16.
því * slíkir ana lengra og lengra framm í Gud-
leysi og lærdómur þeirra etur um sig, sem Hel- 17.
bruni. Í slíkra tolu eru Hymeneus og Phile- 18.
tus, sem fráviknir eru sannleikanum, segja upp-
risuna þegar skéda og hafa umsnúid trú sumra.
En Guds bygging stendur stödug og hefir þenn- 19.
ann stimpil: Drottinn þeckir * sína — og: —
hverr, sem nefnir Drottins nafn, haldi sér frá
* ránglæti. Í stóru húsi eru ecki einúngis kér 20.
af gulli og silfri, heldur og af tré og leiri, sum
vegleg, sum óvyrduleg, þar fyrir mun hverr, sem 21.
heldur sér hreinum frá * þessum verda kér til
heidurs, Drottni helgad og húsbóndanum gagn-
legt, hæfilegt til sérhverrar gódrar * brúkunar.

---

V. 12. * Opinb. b. 3, 21. Matth. 10, 33. 24, 13.
V. 16. * nefnilega; þeir, sem fara med þvætting.
V. 19. * Psálm 1, 6. Jóh. 10, 14. 27. * samanb. Matth. 7, 21—23. Luk 13, 25. 27.
V. 20. Allir, sem medkénna sig til Krists, eru ecki eins gódir. samanb. Matth. 13, 24. 47. 48. 1 Cor. 11, 19.
V. 21. * lætur sig ecki saurga af þeirra óhreinu kéra saurindum. * Kap. 3, 17.

22. Fordast þú æskunnar girndir; en kappkosta rétt-
vísi, trú, kjærleika, frid vid alla þá, sem ákalla
23. Drottinn med hreinu hjarta. Fordastú dárleg-
ar og óskynsamar spurníngar, vitandi ad þær
24. leida af sér þrættanir; en Drottins þjóni sómir
ecki ad deila, heldur vera blídur vid alla, lag-
25. inn ad kénna, þolugur vid áreitíngar. Sá ed
med blídlyndi leidrétti mótstødu-menn, ef ské kynni
ad Gud gjæfi þeim sinnaskipti, svo þeir komist
26. til þeckíngar á sannleikanum og endurvitkist úr
djøfulsins * snøru, í hverri þeir hafa flæktir verid
til ad gjøra hans vilja.

## 3. Kap.

I.) Postulinn segir fyrir hættulegar tídir v. 1—9. II.) Hrósar Timótheusi v. 10—12. III.) Áminnir um ad taka sér vara fyrir svikurum, en halda sér stødluglega vid Guds ord. v. 13—17.

1. Því skaltú vita, ad á sídustu døgum,
2. munu verda hættulegar tídir, því þá munu
menn verda sérgódir, fégjarnir, raupsamir, þótta-
fullir, lastmálir, foreldrum óhlýdugir óþacklátir,
3. vanhelgir, kjærleikslausir, óhaldinordir, bakmál-
4. ugir, bindindislausir, hatandi dygdir, svikarar,
framhleypnir, * hrokafullir, elskandi meira mun-
5. adarlífid enn Gud; hafandi gudhrædslu skin, en
6. afneita hennar krapti. Sneid þig hjá þvílík-

V. 26. * 1 Tim. 6, 9.
V. 1. samanb. 2 Thess. 2, 3 — 12.
V. 4. * af þeirra speki.
V. 5. Matth. 7, 5. st. 15, 7. 8. Tit. 1, 16.
V. 6. Tit. 1, 11.

um; á medal þessara eru þeir, sem smeygja sér
inní hús og véla qvennsniftir, sem eru syndum
hladnar og leidast af margháttudum girndum.
Þær eru alltaf ad læra, en komast aldrei til 7.
þeckíngar á sannleikanum. Líka sem Jannes og 8.
Jambres mótstódu * Mósi, þannig mótstanda
þessir sannleikanum; eru menn * hugspilltir og
rækir hvad trúna * snertir. En þeim mun ecki 9.
mikid verda ágengt, því fíblska þeirra mun verda
hverjum manni augljós eins og hinna vard.

En þú hefir breytt eptir mér í lærdómi, 10.
hegdun, ásetníngi, trú, lánglundar-gédi, kjær-
leika, þolgædi, í ofsóknum og þjáníngum þvílík- 11.
um, sem eg mátti líða í * Antiochiu, Ikóniu,
* Lystra, hverjar ofsóknir eg stódst, því ad Drott-
inn frelsadi mig úr þeim öllum. Enda munu 12.
allir verda ofsóktir, er lifa vilja gudrækilega ept-
ir Jesú Krists reglu. En vondir menn og svik- 13.
arar munu vaxa í vondskunni; villa adra og
villast sjálfir. En haldtú stöduglega vid þad, 14.
sem þú hefir numid og ert sannfærdur um, þared
þú veitst af hverjum þú hefir numid þad og þér er 15.
frá barnæsku kunnug heileg Ritníng, sem gétur
þig vísann gjört til sáluhjálpar, med trúnni á Je-
sú Kristi. Öll Ritníng er af Gudi innblásin og nyt- 16.
som til lærdóms, til sannfæríngar gégn mótmælum,
til lagfæríngar, til mentunar í rádvendni svo Guds 17.
madur sé algjörr og til alls góds verks hæfilegur.

---

V. 8. * 2 Mós. b. 7, 11. * 1 Tím. 6, 5. * Tít. 1, 16.
V. 11. * Post. G. b. 13, 50. * 14, 1. 5. 6 19.
V. 12. Matth. 16, 24. Jóh. 17, 14. Post. G. b. 14, 22.
1 Thess. 3, 3.

4. Kap. I.) Postulinn áminnir Timótheus til trúskaparí hans embætti v. 1—5. II.) Fyrisegir sinn dauda v. 6—8. III.) Bidur Timótheus koma til sín, — qvartar yfir nockrum — en huggar sig vid Guds adstod v. 9—18. IV.) Heilsanir v. 19—22.

1. Eg særi þig vid Gud og vid Jesúm Krist, sem
uppvekja mun lifandi og dauda og vid hans til-
2. komu og ríki, ad þú prédikir lærdóminn og hald-
ir áfram med þad í tíma og * ótíma; sannfær,
straffa, áminn med ítrasta þolgjædi og lærdómi.
3. Því sú tíd mun koma ad menn ecki þola þann
heilsusama lærdóm, heldur safna sér kénnendum
samqvæma egin girndum, eptir því, sem þeim
4. eyrun * klæja; og snúa eyrunum burt frá sannleik-
5. anum ad hégyljum. En vert þú gjætinn og
greindur í ellu, þol þú íllt, gjættu prédikara
embættisins, gjordu þjónustunni fullnustu.
6. Nú þegar á eg ad fórnfærast og minn lausn-
7. ar-tími er fyrir hendum. Eg hefi barist gódri
8. baráttu, hláupid fullkomnad, trúnni haldid. Enda
er handa mér assídis lagdur réttlætisins sigur-
krans, hvern Drottinn, sá enn réttláti Dómari,

V. 1. 2 Thess. 2, 8. Matth. 25, 31. Joh. 5, 27.
V. 2. * Þad er: hvert þér er þad haganlegt eda ecki og hvert þad líkar tilheyrendum eda ecki. sjá v. 3.
V. 3. * Mich. 2, 11. samanb. Post. G. b. 17, 21.
V. 4. 2 Thess. 2, 10. 11.
V. 6. samanb. Phil. 1, 23. 2 Pét. 1, 14.
V. 7. Phil. 3, 14. Post. G. b. 20, 24. 1 Tim. 6, 12. Jak. 1, 12.

mun géfa mér á þeim (águedna) degi, en ecki einúngis mér, heldur og ollum, sem hlacka til hans opinberunar.
Kappkosta ad koma brádum til mín; því 9.
* Demas hefir yfirgéfid mig, af því hann elsk- 10.
adi meir þenna heim og er farinn til Thessa-
loníku, Kreskes er farinn í Galatíu og Títus til
Dalmatíu. Lúkas er einn hjá mér. Taktu til 11.
þín * Markús og lát hann fylgjast med þér, því
hann er * nytsamur mér til þjónustu; * Tychikus 12.
hefi eg sendt til Ephesus. Þegar þú kémur, 13.
þá færdu mér mottulinn, sem eg skildi eptir í
Tróas hjá Karpus og bækurnar, einkanlegá skinn-
bækurnar. * Alexander, járnsmidurinn, hefir 14.
audsýnt mér margt íllt; Drottinn gjöri vid
hann eptir hans verkum. Taktú þér líka vara 15.
fyrir honum, því ad hann hefir stórum mótstad-
id vorum ordum. Í mínu fyrsta forsvari stód 16.
enginn med mér, heldur yfirgáfu mig allir; ó
ad þeim mætti þad ecki tilreiknast. En Drott- 17.
inn stód med mér og efldi mig, til ad framm-
fylgja kénníngunni, svo allir heidíngjar skyldu
hana heyra. Líka em eg frelsadur úr ljónsins
gini og framvegis mun Drottinn frelsa mig frá 18.
ollu * illu og hjálpa mér til síns himneska rík-
is. Honum sé dýrd frá eilífd til eilífdar, Amen!

---

V. 10. * Cól. 4, 14.
V. 11. * Post. G. b. 15, 37. Cól. 4, 10. * Philem. v. 11.
V. 12. * Eph. 6, 21. Post. G. b. 20, 4.
V. 14. * 1 Tím. 1, 20. V. 18. * Matth. 6, 13.

19. * Heilsadu Priska og Aqvílast og * Onesi-
20. phóri húsi. * Erastus vard eptir í Corinthu,
en * Tróphímus skildi eg eptir sjúkann í Mí-
21. letus. Kappkosta ad koma ádur vetrar. Þér
heilsa Evbúlus og Púdes, Línus, Klaudía og
22. allir brædurnir. Drottinn Jesús Kristur sé
med þínum anda! Nádin sé med ydur, * Amen!

# S. Páls Pistill
## til Titusar.

**1. Kap.** I.) Qvedja v. 1—4. II.) Hvílíkur sá egi ad vera, sem Títus setur til Kénnara á Krít v. 5—11. III.) Páll lýsir Kritar mönnum og skipar ad ávíta þá v. 12—16.

1. Páll, Guds þjón, Postuli Jesú Krists, sett-
ur vegna trúar Guds útvaldra og sannleikans
2. þeckíngar, gudrækni til eblíngar og til vonar á
eilífu lífi, er hinn * haldinordi Gud hafdi ad
3. sönnu heitid frá * eilífd, en gjørdi á sínum tíma

V. 19. * Post. G. b. 18, 2. * Kap. 1, 16.
V. 20. * Post. G. b. 19, 22. * Post. G. b. 20, 4.
V. 22. * Tít. 3, 15.
V. 2. * 4 Mós. b. 23, 19. 2 Tím. 12, 3. * Róm. 1, 2.

þetta sitt heit fyrst nú kunnugt, með heirri
boðun, er mér er á hendur falin eptir Guðs
vors Frelsara tilskipun, ósKar Títusi, mínum ekta 4.
* syni í beggja sameginlegu trú, náðar, miskunar
og friðar af Guði Feður og Drottni Jesú
Kristi vorum Frelsara.
Þess vegna skildi eg þig eptir í Krít, til 5.
þess þú færðir í lag það, sem ábrast og tilsett-
ir * Öldúnga í sérhverri borg, eins og eg skip-
aði þér: ólastanlegann, einnar konu eginmann, 6.
hann, sem á trúuð børn, er hverki hafi íllt orð
á sér fyrir ótérlegt líferni, né séu þverbrotin;
því Biskup á að vera ólastanlegur, svo sem 7.
Guðs * ráðsmaður, enginn sjálfbyrgíngur; hverki
reiðigjarn, né * vínsvelgur, né ribbaldi, né svi-
virðilegs ávinníngs girugur; heldur * géstrisinn, 8.
gott elskandi, ráðsvinnur, réttvís, heilagur, bind-
indissamur, sem heldur fast við þann trúverðuga 9.
lærdóm, eins og hann hefir kénndur verið, svo að
hann sé fær um að fræða í þeim heilsusama lær-
dómi og hrekja þá, sem móti mæla. Því marg- 10.
ir eru þverbrotnir, fara með þvætting og leiða
aðra í villu, allra helzt hinir * umskornu; þá 11.
ber honum að niðurþagga; þvílíkir umsnúa heil-
um * heimilum með því þeir kénna það, sem

V. 3. * Eph. 3, 9. Cól. 1, 26.
V. 4. * 1 Tim. 1, 2. samanb. við Phil. 2, 20. 22.
V. 5. * samanb. Post. G. b. 14, 13.
V. 6. 1 Tim. 3, 2. 4. samanb. við 5, 9.
V. 7. * 1 Cor. 4, 1. samanb. Matth 24. 45. 1 Pét. 5, 2.
* 3 Mós b. 10, 9. Eph. 5. 18.
V. 8. * 1 Tim. 3, 2.
V. 10. * það er: Gyðíngar; sjá t. d. Post. G. b. 15, 1.
V. 11. * samanb. 2 Tim. 3, 6.

ósæmilegt er fyrir svívirdilegs ávinnings * sakir.
12. Nóckurt þeirra egid skáld segir um þá: Krít-
ar menn eru sífeldir lygarar; oarga dýr; leti-
13. magar. Þessi vitnisburdur er sannur. Straffa
þú þá þess vegna hardlega; svo ad þeir lifi
14. samqvæmt þeirri óbrjáludu trú og ecki gefi gaum
ad bábiljum * Gydínga og setníngum þeirra, sem
15. fráhverfir eru * sannleikanum. Hreinum er ad
sönnu allt hreint, en þeim, sem saurgadir eru
og vantrúadir er eckert * hreint; þeirra hugar-
16. far og samvitska er * saurgud. Þeir vidurkenna
ad þeir þeckja Gud, en neita því med verkun-
um; þeir eru vidurstyggilegir, þverúdarfullir og
til hvers góds verks óhæfir.

2. Kap. Postulinn ávísar Titusi, um hvad hann skuli áminna hvern sérílagi; hvílíkur vera sjálfur; talar um Krists sendíngar augnamid v. 1—15.

1. En kenn þú þad, sem einum heilsusamlega lær-
2. dómi sæmir: þeim eldrudu, ad þeir séu gjætnir,
heldvyrdir, rádsvinnir, réttsinnadir í trúnni, kjær-

---

V. 11. * 1 Tim. 6, 5.
V. 14. * 1 Tim. 1, 4. 4, 7. * Esa. 29, 13 Cól. 2, 14. 16.
V. 15. * þad er: sá, sem hefir dygdugt hugarfar, hann verdur ecki Gudi misþócknanlegur fyrir þad, hvad hann etur eda dreckur. Matth. 15, 11. Lúk. 11, 39. 40. 1 Cor. 6, 12. samanb. og Róm. 14, 14. 15. 20. 21. 23. en sá, sem hefir vondt hugarfar, er ætíd Gudi misþócknanlegur.
* þad er: af medvitund vondrar breytni.
V. 16. 2 Tim. 3, 5. 8.

leika og stødulyndi; sømuleidis enum øldrudu 3.
konum, ad þær í * háttalagi séu eins og heiløg-
um sómir, ecki bakmálugar, né sólgnar í ofdryck-
ju, heldur gott kénnandi; svo ad þær ladi engar 4.
yngri til ad elska sína ektamenn og børn, ad 5.
vera sidlátar, skírlífar, stunda hús sitt; séu góð-
samar, sínum bændum * undirgéfnar; svo ad ecki
komist íllt ord á Guds lærdóm. Sømuleidis á- 6.
minn þú ena yngri, ad þeir séu ráð-settir í
kénníngu. Sýn sjálfann þig hvervetna, sett 7.
munstur í góðum * verkum, kénníngin sé án spill-
íngar og med verdugleika. Ræda þín sé heilsu- 8.
samleg og óræk; svo ad mótparturinn blygdist.
Áminn þrælana ad þeir séu húsbændum sínum 9.
undirgéfnir og í øllu þócknanlegir, ecki svarir, 10.
ecki stelvísir, heldur audsýni algjørda trúmensku,
svo ad lærdómur Guds vors Frelsara prýdist í
øllu; því Guds sáluhjálplega nád er kunn ord- 11.
in øllum mønnum, er frædir oss, ad vér afneita 12.
skulum ógudlegleika og veraldlegum girndum, en
lifa sidsamlega, réttvíslega og gudrækilega í þessum
heimi, bídandi þeirrar sælu, sem er í vændum 13.
og dýrdlegrar opinberunar þess mikla Guds og
vors Frelsara Jesú Krists, sem hefir útgéfid sig 14.
fyrir oss, svo ad hann endurleysti oss frá alls-
konar óréttlæti og hreinsadi sér sjálfum fólk til

---

V. 3. * 1 Tim. 2, 9. V. 5. * Eph. 5, 22.
V. 7. * samanb. 1 Pét 5, 2. 3.
V 9. samanb. 1 Tim. 6, 1. 2. 1 Pét. 2, 18.
V. 11. 1 Tim. 2, 4.
V. 12. samanb. Eph 1, 4. 5, 27. Col. 1, 22.
V. 13. 1 Cor. 1, 7. Phil. 3, 20. 1 Thess. 1, 10. samanb. Matth. 16, 27.

* eignar, það er kostgjæfið væri til góðra * verka.
15. Kénn þú þetta, áminn og straffa með allri alvörugéfni; lát engann fyrirlíta þig.

3. Kap. I.) Títus á að áminna um hlýðni við Yfirvöld og til fleiri dygða v. 1—8. II.) Að forðast fánýtár spurníngár og þrättanir v. 9—11. III.) Niðurlag Pistilsins v. 12—15.

1. Aminn þá, að þeir séu höfðingjum og yfirvöldum * undirgéfnir, sýni þelm hlýðni, séu
2. reiðubúnir til alls þess, sem gott er, íllmæli engum, séu ódeilugjarnir, eptirgéfandi, sýni allskon-
3. ar hógværð við alla menn; því vér vórum og svo forðum óskynsamir, óhlýðnir, afvega gengnir, þjónuðum girndum og margsslags munaðarlísi, lifðum í vondsku og öfund, vórum haturs verð-
4. ir og hötuðum hverr annann. En þá auglýsti sig gjæðska Guðs vora Frelsara og elska hans til
5. mannanna; ekki vegna réttlætandi verka, sem vér höfðum gjört, heldur af * náð sinni frelsaði hann oss með * endurfæðíngar laugínni og endurnýúngu
6. heilags Anda, hverjum hann ríkuglega * úthellti
7. yfir oss fyrir Jésúm Krist vorn Frelsara, svo að

V. 14. Matth. 20, 28. Gal. 5, 4. 2, 20. * 2 Mós. b. 19, 5. 5 Mós. b. 4, 20. * 2 Cor. 5, 15.
V. 1. * samanb. Róm. 13, 1. 1 Pét. 2, 13. 14.
V. 3. 1 Cor. 6, 11. Eph. 2, 1. 3. samanber 4, 17. 18. 1 Pét 4, 3. V. 4. Kap. 2, 11.
V. 5. * Róm. 3, 24. Eph. 2, 4. fl. * það er: skírninni. samanb. Eph. 5, 26.
V. 6. * Róm. 5, 5. úthella yfir, það er: yfirgnæfanlega veita eða útbúa með.

vér réttlættir fyrir þessa hans * náð, yrdum
hluttakandi hins eptirvænta eilífa lífs. Þetta er 8.
trúverdugur lærdómur og hér um vil eg þú
sannfærir adra; svo að þeir, sem hafa trú sett
til Guðs, láti sér umhugað að kappkosta góð
verk. Þetta er mönnum gott og nytsamlegt.
En fávísleg spursmál og ættarþúlur, deilur og 9.
þrætur út af lögmálinu skaltu fordast, því þær
eru óþarfar og hégómlegar. Hjá flockadrátta- 10.
sömum manni skaltu sneida þig, eptir það að
þú einusinni eda tvisvar hefir áminnt hann; med 11.
því þú veitst að þvílíkur er fráskúinn og geng-
ur svo afvega, að hann er sjálfdæmdur. Þegar 12.
eg sendi Artemas eda Tychikus til þín, þá flýt
þér að koma til mín í Nikópólis; því þar hefi
eg ásett að hafa vetrar-vist. Greid þú um- 13.
hyggjusamlega veg Zenusar lögvitríngs og * Ap-
pollós, svo að þá ekkert * bresti. * Vorir ega og 14.
að læra að kappkosta góðgjerðir til að bæta úr
naudþurftum annara, svo að þeir séu ekki * á-
vaxtarlausir. Allir, sem hjá mér eru heilsa 15.
þér. Heilsa þú öllum trúudum, sem elska oss.
Náð sé með ydur öllum!

P

V. 7. * Róm. 3, 24. V. 12. Eph. 6, 21. 22.
V. 13. * Post. G. b. 18, 24—28. * samanb. 3 Jóh. v. 6.
V. 14. * það er: þeir, sem Páll Postuli og hans Læri-
sveinar höfdu kristnað á eyunni Krít. * nefnil.
í góðum verkum.

# S. Páls Pistill
## til Phílemons.

I.) Páll óskar Phílemoni og fleirum góds v. 1—3. II.) Hrósar Phílemoni v. 4—7. III.) Bidur hann taka í sátt Þræl hans Onesimus, er frá honum hafdi strokid, en Páll sídan kristnad v. 8—21. IV.) Nidurlag Pistilsins v. 22—25.

1. Páll bandíngi Jesú Krists og medbródir
minn Tímótheus, qvedjum Phílemon vorn ástfólgna
2. og lidsmann vorn, vora kjæru Appíu og
Archípus vorn stríds-félaga og allann söfnudinn í
3. þínu * húsi. Nád og fridur sé med ydur af
Gudi vorum Fødur og Drottni Jesú Kristi.
4. Gudi mínum gjöri eg þackir í hvert sinn
5. sem eg minnist þín í mínum bænum, frá því eg
heyrdi um trú þína og elsku, er þú hefir til
6. Drottins Jesú og til allra *heilagra, því hluttekníng
þín í trúnni hefir verkad kroptuglega til þess,
ad öll þau gjædi, sem í oss eru vegna * Jesú
7. Krists eru kunnug * ordin. Þess vegna hefum vér

V. 2. * samaud. Róm. 16, 5. V. 5. * þ. e. kristinna.
V. 6. * þad er: upplýsíng, dygd og farsæld, sem sannkristnum
eru eginlegar. * þad er: einnig þeim, sem ecki eru kristnir.

mikla gledi og huggun af kjærleika þínum, því-
ad, þú, bródir! hefir ecki lítid hughreyst hvern
hinna heilagu.
Þar fyrir, þó eg med mikilli djerfúng, sem 8.
Krists umbodsmadur, géti skipad þér það, sem
þér sómir ad gjera, þá vil eg heldur bidja þig 9.
í vinsemd; þú veitst hvílíkur eg er, gamal-menn-
id Páll, sem nú þar ad auk er bundinn sakir
Jesú Krists. Eg bid þig fyrir son minn One- 10.
simus, hvern eg * gétid hefi í mínum fjötrum.
Hann var þér ádur óþarfur, nú er hann bædi 11.
þér og mér gagnlegur. Þenna sendi eg. Taktú 12.
honum vel; hann er minn augasteinn. Eg girnt- 13.
ist ad sennu halda honum hjá mér, svo ad
hann í þinn stád þjónadi mér í fjötrum mínum,
sem eg ber sakir nádar bodskapsins; en án 14.
þinnar vitundar vilda eg ecki gjera það, svo ad
það liti ecki út eins og þessi velgjerníngur væri
neyddur út af þér, heldur væri fríviljugur. Má- 15.
ské hann þar fyrir um stundarsakir hafi skilist
vid þig, ad þú sídan skyldir ávalt halda honum;
ecki framar eins og þræli, heldur ánaudugum 16.
betri, sem elskulegum bródur, mjøg kjærum mér,
en því framar þér, bædi vegna líkamlegrar
þjónustu og í Drottins erindum. Þar fyrir ef 17.
þú álítur mig stallbródur þinn, þá taktu á móti
honum eins og eg væri það sjálfur. En ef hann 18.
hefir gjört þér órétt, ellegar er þér skuldugur,
þá tilreiknadu mér það. Eg skrifa þetta med 19.
egin hendi — eg skal endurgjalda — ecki vil eg



V. 10. * 1 Cor. 4, 15. Gal. 4, 19.

nefna þad ad þú ert mér jafnvel skyldugur um
20. þig sjálfann. Sannarlega, bródir! eg vil hafa
ágóda af því ad þú ert ordinn Drottins. Hug-
21. hreystu þenna minn augastein í Drottni. Full-
viss um þína hlýdni skrifa eg þetta, því eg veit
ad þú munir gjöra meira enn eg hefi mælst til.
22. En hafdu líka til reidu gésta herbergi handa
mér, því eg vona ad eg vegna ydar bæna muni
23. géfast * ydur. Þér heilsar Epaphras, sem er
24. bandíngi eins og eg sakir Jesú Krists, sömuleidis
Markús, Aristarchus, Demas og Lúkas, mínir
25. medþjónar. Nádin Drottins vors Jesú Krists
sé med ydar anda.

# Pistillinn

## til hinna Hebresku.

**1. Kap.** Í fyrndinni lét Gud Spámenn sína kunn-
gjöra fedrunum sinn vilja, en fyri skémstu
lét hann Son sinn, sem Englunum er
ædri, gjöra hid sama v. 1 — 14.

1. Sá Gud, er * fordum taladi til fedranna í
fleiri skipti, og med mergu móti fyrir munn

V. 22. * nefnilega: laus úr fjötrunum.
V. 1. * 4 Mós. b. 12, 6. 8. Lúk. 1, 70.

sinna Spámanna; hann * hefir á þessum sídustu
tímum til vor talad fyrir Soninn, hvern hann 2.
setti erfíngja * allra hluta, * fyrir hvern hann
og svo heiminn skóp, hverr, af því hann er geisli 3.
hans dýrdar og * eptirmind hans veru, sem
ellu stjórnar med sínu kreptuga ordi, þá settist
hann til * hægri hlidar gudlegri hátign á hædum,
eptir þad hann med dauda sínum hafdi * hreinsad
oss frá syndunum og er ordinn Englunum; 4.
þeim mun hærri, sem hann hefir þeim * háleit-
ari tign edlast. Því til hvers af englunum hef- 5.
ir Gud nockurntíma sagt: * þú ert minn Son-
ur í dag gat eg þig? og enn aptur segir hann;
* eg vil vera hans Fadir og hann skal vera
minn Sonur; en þá hann þar á mót bodar 6.
komu síns * frumgétna Sonar í heiminn, qvedur
hann svo ad ordi; * allir englar Guds skulu til-
bidja hann. En um Englana verdur svo ad 7.
ordi qvedid; * sína Engla brúkar hann, sem
vinda og sína þjóna, sem eldíngar. En um 8.
Soninn þar á mót: * þitt hásæti, o Gud! varir
um aldur og æfi, þinn veldissproti er veldisspíra
réttvísinnar. Þú elskar réttindin en hatar ráng- 9.
indin, þess vegna hefir Gud, þinn Gud * smurt
þig med gledinnar vidsmjøri framyfir þína jafn-

V. 1. * Gal. 4, 4. V. 2. * Eph. 1, 10. * Jóh. 1, 3.
V. 3. * Jóh. 14, 9. 2 Cor. 4, 4. Cól. 1, 15. 16. * Hebr. 8, 1. * Kap. 9, 14. 26.
V. 4. * Phil. 2, 9. 10.
V. 5. * Psálm. 2, 7. * 2 Sam. 7, 14.
V. 6. * Róm. 8, 29. Cól. 1, 15. 17. * Psálm. 97, 7.
V. 7. * Psálm. 104, 4. V. 8. * Psálm. 45, 7. 8.
V. 9. * Post. G. b. 10, 38.

10. íngja. Og á edrum stad stendur: * Drottinn!
í endverdu grundvalladir þú jördina og himn-
11. arnir eru þín * handaverk. * Þeir munu und-
ir lok lída, en þú varir vid, allir munu þeir
12. fyrnast sem annad fat og líka sem mettul muntú
þá * samanvefja, þeir munu umbreytast, en þú
13. ert hinn sami og þín ár munu ecki þrjóta. En
til hvers af Englunum hefir Gud nockurntíma
sagt: * sit þú mér til hægri handar, þángad til
14. eg gjöri óvini þína ad þinni fóta-skör. Eru þeir
ecki allir * þjónustubundnir andar, sem sendir
eru í þeirra þarfir, er edlast skulu sáluhjálpina?

## 2. Kap. Áminníng ad halda vid lærdóminn vegna Krists hátignar og forlíkunar v. 1—18.

1. Þess vegna ber oss því framar ad halda hug-
ánum stedugum vid þann lærdóm, er vér hef-
2. um heyrt, ad ecki villumst vér frá honum. Því
hafi sá lærdómur, sem kunngjördur var fyrir
Englánna milligaungu * stedugur stadid og * ell
yfirtrodsla og óhlýdni gégn honum fengid sín
3. makleg málagjöld, * hvernig skyldum vér þá géta
sloppid hjá hegníngu, ef vér vanrækjum svo heilsu-
samann lærdóm, * hvern Drottinn vor sjálfur
hóf fyrstur ad kénna og sem sídan er stadfestur

V. 10. * Psálm. 102, 26. * Psálm. 8, 4.
V. 11. * Psálm. 102, 27. Esa. 51, 6. Lúk. 21, 33.
V. 12. * Psálm. 102, 27. 28.
V. 13. * Psálm. 110, 1. Eph. 1, 20. Hebr. 10, 12.
V. 14. * Psálm. 34, 8.
V. 2. * Mósis lögmál. Post. G. b. 7, 53. Gal. 3, 19.
* 5 Mós. b. 27, 26.
V. 3. * Hebr. 10, 29. 12, 25. * Mark. 1, 14. 15.

til vor kominn frá þeim, er hann heyrdu. Þar 4.
Gud sjálfur * styrkti þeirra vitnisburd med
táknum, undrum, margskonar kraptaverkum og
heilags Anda útbýtingu eptir * sinni velþóknun.
Því ecki gaf hann Englunum vald yfir þeim kom- 5.
anda heimi, * um hvern vér hér tølum. En 6.
svo hefir víss madur komist ad ordi * einhvers-
stadar: hversu veglegur er madurinn ad þú skul-
ir minnast hans, eda mannsins sonur ad þú skul-
ir líta til hans. Um stundarsakir gjørdir þú 7.
hann Englunum óædri, med * vegsemd og heidri
krýndir þú hann og settir hann yfir verk þinna handa.
* Alla hluti lagdir þú undir hans fætur; en 8.
fyrst hann gjørdi honum alla hluti undirgéfna,
þá hefir hann eckert þad eptirskilid, er ecki sé
undir hann lagt. En vér sjáum þó enn þá ecki
* ad allir hlutir séu undir hann géfnir. En þar 9.
á móti sjáum vér, ad Jesús, sem um stundarsakir
var gjørdur Englunum óædri, er, vegna þess hann
* daudann þoldi, med dýrd og vegsemd kórónadur,
svo ad hann af Guds nád lidi daudann * fyrir alla.
Því þad hæfdi þeim, * fyrir hvern og af hverjum 10.
allt er gjørt, þeim, er leidir marga sonu til
dýrdar, dýrdleganu ad gjera * hofund þeirra vel-

---

V. 4. * Mark. 16, 20. Post. G. b. 2, 22. 14, 3. * 2 Cor. 12, 11. V. 5. * Þ. e. Messíasar ríki.
V. 6. * Psálm. 8, 5. fl. V. 7. * Eph. 1, 21.
V. 8. * Matth. 28, 18. * Kap. 10, 13.
V. 9. * Phil. 2, 8. 9. Post. G. b. 2, 33. * 1 Jóh. 2, 2.
V. 10. * Jóh. 1, 3. Róm. 11, 36. * Lúk. 24, 26. Post. G. b 3, 15. Kap. 5, 31.

11. ferdar eptir afstadnar lídanir. Því * sá, sem helgar og þeir, sem helgadir verda, eru allir born eins fodurs, þess vegna fyrirverdur hann sig
12. ecki ad kalla þá * brædur * þar hann segir: eg vil kunngjera þitt nafn brædrum mínum, midt í
13. sofnudinum vil eg sýngja þér lof. Og enn annarstadar: * á hann vil eg setja mitt traust og þar á eptir: * sjá hér em eg og þau born, er
14. Gud gaf mér. En af því bornin hafa hold og blód, þá er hann * einnig ordinn þess hluttakandi, svo ad hann med (sínum) * dauda gæti svipt krapti daudans yfirrádanda, þad er, djofulinn og * frelsad þá, sem af ótta fyrir daudanum lifdu allann sinn aldur undir * ánaudar oki,
15. 
16. Því vegna þess hann engannveginn ad sér tók
17. Englana, heldur Abrahams nidja, þá hlaut hann í ellu ad gjerast brædrum sínum * líkur, svo hann verda kynni miskunsamur og trúlyndur Hofudprestur í sínu embætti fyrir Gudi, þá hann * fridþægdi fyrir fólksins syndir. Því vegna þess hann
18. hefir sjálfur mátt kénna á freistíngum, þá getur hann hjálpad þeim, sem freistadir verda.

3. Kap.

---

V. 11. * Kap. 13, 12. Jóh. 17, 19. * Matth. 12, 50. Jóh. 15, 14. 20, 17.
V. 12. * Psálm 22, 23. 26.
V. 13. * Psálm. 18, 3. * Esa. 8, 18. * Jóh. 10, 29. 17, 6. 9.
V. 14. * Jóh. 1, 14. * Esa. 23, 8. Hós. 13, 14. 2 Tím. 1, 10. V. 15. * Luk. 1, 74. Róm. 8, 15.
V. 17. * Kap. 4, 15. 16. 5, 2. * v. 1.

I.) Hlýdni vid Krist, sem er ædri enn Móses 3. Kap.
v. 1—6. II.) Advaran móti þvermódsku
v. 7—19.

Þess vegna, þér, heilögu brædur! sem hluttak- 1.
andi erud ordnir þeirrar himnesku * köllunar, géf-
id gætur ad Jesú Kristi, * Postula og ædsta
Presti vorrar játníngar, sem trúr var þeim, er 2.
hann þar til skipadi, eins og Móses var trúr í
öllu hans húsi. * Þó álítst þessi verdugur þeim 3.
mun ædri tignar enn Móses, sem sá, * er húsid
byggir er ædri enn húsid sjálft. (En sérhvert 4.
hús er gjört af einhverjum, en * Gud hefir
gjört allt). Móses var ad sönnu * trúr í öllu 5.
hans húsi, svo sem þénari, í því ad kunngjöra
þad, * sem fyrir hann var lagt. En Kristur er 6.
þar á móti settur, sem Sonur yfir hans hús og
hans * hús erum vér, ef ad vér allt * til æfi-
loka höldum fast vid djörfúng og hrósun vorr-
ar vonar.

Þess vegna, eins og heilagur Andi segir: 7.
* í dag, á medan þér heyrid hans raust, þá
forherdid ecki ydar hjörtu, eins og fordum í upp- 8.

V. 1. * 1 Pét. 1, 5. Phil 3, 14. * Gal. 4, 4. * Kap. 4, 14. 6, 20.
V. 2. * Þad er: Móses var trúr umsjónar-madur yfir Guds fólki, sem hér kallast hús. samanber v. 6. í þessum Kap. 4 Mós. b. 12, 7.
V 3. * Zach. 6, 13. Matth. 16, 18.
V. 4. * 2 Cor. 5, 1. 18. Eph. 2, 10.
V. 5. * v. 2. * 5 Mós. b. 18, 15. 18.
V. 6. * 1 Cor. 3, 16. 6, 19. Eph. 2, 21. 22. * Matth. 24, 13.
V. 7. * Psálm. 95, 7. 8.

hlaupinu á * freistínga-deginum í eydimerkinni,
9. hvar * fedur ydar freistudu mín og reyndu mig,
þótt þeir í 40 ár hefdu sjed verk þau, er eg gjørdi.
10. Þess vegna gramdist eg þjód þessari og sagdi:
óaflátanlega villast þeir í hjørtum sínum og þeck-
11. ja ecki mína vegu. Þar fyrir * sór eg í brædi
minni, ad þeir aldrei skyldu komast til míns
12. hvíldarstadar.* Gjaldid varhuga vid því, brød-
ur! ad enginn ydar búi yfir vondu vantrúar
hjarta, er vilji falla frá enum lifanda Gudi.
13. Heldur * áminnid hverr annann hvers daglega,
svo lengi sagt verdur í dag, ad enginn af ydur
14. forherdist af syndarinnar afvegaleidslu. Því vér
erum ordnir * hluttakandi í Kristi ef vér * allt
til æfiloka holdum fast vid þann fyrsta trúar-
15. bragda grundvøll. Fyrst sagt er: * í dag, ef þér
heyrid hans raust, þá forherdid ecki ydar hjørtu
16. eins og hinir gjørdu í upphlaupinu. Hverjir
vóru þad þá, sem reittu hann til reidi, þó þeir
heyrdu hana? vóru þad ecki allir þeir, sem Mó-
17. ses leiddi útaf Egyptalandi? og hverjir vóru þad,
sem mógudu hann í 40 ár? vóru þad ecki þeir,
18. * sem syndgudu og féllu í eydimørkinni? Og
hverjir vóru þad, sem * hann sór, ad aldrei skyldu
ná inngaungu í hans hvíldarstad, nema þeir

---

V. 8. * 2 Mós. b. 17, 2. V. 9. * 4 Mós. b. 14, 22.
V. 11. * 4 Mós. b. 14, 21—23. * þ. e. Kanaans land.
V. 13. * 1 Thess. 5, 14.
V. 14. * þad er: Krists velgjørningum. 2 Pét. 1, 4.
* Opinb. b. 2, 10. 25.
V. 15. * v. 7. V. 17. * 4 Mós. b. 14, 33. sl. 26, 65.
V. 18. * v. 11. 5 Mós. b. 1, 34.

vantrúudu? Svo sjáum vér þá, ad þeir gátu 19.
ecki nád þar inngaungu vegna vantrúar sinnar.

I.) Framhald v. 1—13. II.) Kristur er vor 4. Kap.
ypparsti Prestur v. 14—16.

Lekum oss því vara fyrir ad enginn á medal 1.
vor sýnist ad draga þig apturúr, fyrst þad fyrir-
heit ad vér megum inngánga til hans hvíldar-
stadar, stendur oss enn þá opid. Því og svó oss, 2.
er fyrirheitid gésid eins og þeim, en þetta fyr-
irheit kom þeim til engra nota, hverjum þad vár
bodad, vegna þess þad fyrirhitti enga trú hjá
þess heyrendum, hverri þad gjæti sámþýst.
En vér, sem trúum, munum inngánga til hans 3.
hvíldar eptir hans egin ordum: * Eg sór í reidi
minni: þeir skulu ecki inngánga í mína hvíld, jafn-
vel þó verkin * væru fullgjerd vid grundvellun
heimsins. Því einhversstadar er svo ad ordi 4.
qvedid um hinn 7da dag: og Gud hvíldist á hin-
um sjeunda degi af ellum sínum verkum. Og apt- 5.
ur stendur á þessum stad: þeir skulu * ecki inn-
gánga til minnar hvíldar. Þared nú nockrir 6.
ega enn þá eptir ad inngánga til hvíldar þess-
arar og þeir, sem hún í fyrstu var heitin, nádu
ecki inn ad gánga fyrir vantrúar sakir, þá hefir 7.
hann ad nýu ákvedid vissann dag, þar hann svo
laungum tíma seinna segir fyrir Davíds munn:

V. 3. * Psálm. 95, 11. * þad er: hverjum hvíldin á
eptir fylgdi.
V. 4. * 1 Mós. b. 2, 2.
V. 5. * 4 Mós. b. 14, 29. 5 Mós. 1, 34. 35.

í dag — því svo er ad ordi qvedid — * í dag,
ef þér heyrid hans rødd, þá forherdid
8. ecki hjørtu ydar. Ef * Jósúa hefdi leidt
þá til hvíldar, þá hefdi (Davíd) ecki talad um
9. annann dag eptir þann tíma. Þess vegna hlýt-
ur hvíldin enn þá ad vera Guds fólki eptir-
10. skilin. Og * sá, sem inngengur í hans hvíld,
mun hvílast af sínum verkum, líka sem það
11. Gud hvíldist af sínum. Kostum því kapps ad
ná inngaungu í hvíld þessa, ad enginn steypi sjálf-
12. um sér, sekum vidlíkrar vantrúar. Því Guds
ord * er lifandi og kreptugt og beittara hverju tví-
eggjudu sverdi og þreyngir sér milli sálar og
anda, lidamóta og mergjar og dæmir þánka og
13. hjartans hugrenníngar. Og * engin skepna gét-
ur falist fyrir þeim, um hvern vér hér tølum,
* allt er opid og ondverdt fyrir hans augum.
14. Þar vér høfum þann * mikla Hefudprest
Jesúm Guds Son, sem inn er genginn í himin-
inn, þá látum oss halda fast vid játníngu vora.
15. Því vér høfum ecki þann ypparsta Prest, * er
ecki kunni ad sampínast vorum veikleika, heldur
þann, sem * freistadur er á allann hátt eins og

V. 7. * Kap. 3, 7. V. 8. * 5 Mós. 31, 7.
V. 10. * Opinb. b. 14, 13.
V. 12. * Pred. b. 12, 11. Esa. 40, 2. Jer. 23, 29. 1 Cor. 14, 24. Opinb. b 1, 16.
V. 13. * Sir. 15, 19. 23, 29. * Psálm. 34, 16. 17. 133, 13—15.
V. 14. * Kap. 3, 1. 6, 20. 7, 26. 8, 1. fl.
V. 15. * Kap. 2, 17. * Matth. 4, 1. Lúk. 22, 28. Esa. 53, 9. 2 Cor. 5, 21. 1 Pét. 2, 22.

vér, þó án syndar. Látum oss því með djörf- 16.
üng nálgast * náðarstólinn, að vér ödlumst
miskun og finnum náð til hjálpar oss nær
oss álliggur.

I.) Framhald v. 1—10. II.) Qvartan yfir 5. Kap.
ryktirteftaleysi Hebreskra v. 11—14.

* Sérhverr ypparsti Prestur, sem útaf mönn- 1.
um er valinn, er * manna vegna skipaður til
Guðs þjónustugjerðar, * að hann frambeti gáf-
ur og fórnir fyrir syndirnar. Og þar hann er * 2.
sjálfur breiskleika undirorpinn, þá getur hann
vorkénnt þeim vankunnandi og þeim, sem villtir
fara. Hér fyrir * ber honum einnig að færa 3.
fórnir ecki síður fyrir sínar, heldur enn fólksins
syndir. Ecki tekur nockurr sér sjálfur þennann 4.
heidur, heldur hlýtur hann að vera af Gudi
kjörinn * eins og Aron einnig var. Þannig * 5.
tók og Kristur sér ecki sjálfur þann heidur að
verda ypparsti Prestur, heldur sá, er til hans
sagdi: * þú ert Sónur minn, í dag gat eg þig.
Sem líka segir á ödrum stad: * þú ert kénni- 6.
maður að eilífu, eins og Melkisedek, hverr eð á 7.
sínum holdsvistar dögum með tárum og qvein-
stöfum frambar bænir og audmjúk andvorp fyr-

V. 16. * Kap. 10, 22. 1 Jóh. 3, 21. * Róm. 3, 25.
V. 1. * 2 Mós. b 28, 1 fl. * Kap. 8, 3. Kap. 10, 6.
V. 2. * Kap. 2, 18. * Kap. 4, 15.
V. 3. * 3 Mós. b. 9, 7. 16, 6. fl.
V. 4. * 2 Mós. b. 28, 1.
V. 5. * Jóh. 8, 54. * Psálm. 2, 7.
V. 6. * Psálm. 110, 4. Hebr. 7, 17.

ir þann, sem megnadi ad frelsa hann frá dauð-
anum og vard bænheyrdur vegna sinnar guð-
8. ræðni. Og þótt hann Sonur væri, lærdi hann
9. * hlýdni af því, sem hann leid. Og er eptir
sína uppháfningu ordinn ollum þeim, er honum
* hlýdnast, * undirrót til æwarandi farsældar
10. og er af Gudi sjálfum úthrópadur ypparsti Prest-
ur á líkann hátt * og Melkísedek.
11. Hér um hofum vér mikid ad segja, sem
þúngskilid er, af því þér erud svo eptirtekta-
12. litlir; því þó þér tímans vegna mættud vera
ordnir lærimeistarar, þá hafid þér þorf ad ein-
hverr * kenni ydur af nýu fyrstu stöfun Guds
lærdóma og hafid * þorf á mjólk en ecki megn-
13. ri fædu. En hverr, sem á mjólk nærist, þeckir
14. ecki fullkominn lærdóm, því hann er * barn. En
megna fædan er fyrir þá fullordnu, sem vegna
vana hafa fengid æfdann smeck til ad adgreina
gótt frá íllu.

## 6. Kap.

Postulinn áminnir Hebreska, ad þeir líkist þeim ecki, sem fallid hafa frá lærdóminum, svo ad þeir fari ecki á mis vid þad loford, sem Abraham var gefid v. 1—20.

1. Þar fyrir viljum vér sleppa ad útlista fyrsta
grundvoll Krists lærdóms og halda áfram til þess,

V. 7. * Matth. 26, 39. 27, 46. 50. Lúk. 22, 42. 23, 40. Jóh. 12, 27. 17, 1.
V. 8. * Phil. 2, 8. V. 9. * Róm. 1, 5. * Kap. 2, 10.
V. 10. * v. 6.
V. 12. * Kap. 6, 1. 2. * 1 Cor. 3, 2. fl. 1 Pét. 2, 2.
V. 13. * 1 Cor. 3, 1. 14, 20.

sem fullkomnara er, ad ecki forum vér aptur ad
leggja grundvøllinn til lærdómsins um * aptur-
hvarf frá daudum verkum, um trúná á Gud, um 2.
lærdóm skírnarinnar, handanna uppáleggingu,
uppprisu hinna daudu og þann eilífa dóm. Og 3.
þetta viljum vér þá gjøra, * ef Gud lofar. Því 4.
þad er ómøgulegt, ad þeir, sem eittsinn eru
ordnir upplýstir, og hafa fengid smeck á þeirri
himnesku gáfu og hluttakandi eru ordnir hins
heilaga Anda og hafa smackad Guds góda ord 5.
og krapt komandi aldar og hafa þó fallid frá, 6.
ad þeir muni endurnýast til betrunar, þar þeir
hafa fyrir sitt leiti ad nýu krossfest Guds Son
og haft hann ad spotti. Því jørd sú, er dreck- 7.
ur þad regn, sem opt fellur yfir hana og færir
þeim hagqvæmann gródur, er hana yrkja, hún
medtekur blessun af Drottni; en hin, sem ber 8.
þyrna og þistla, er engu nýt og finnur * bráda
formælingu og verdur um sídir eldi sfoldin. En 9.
vér vonum annars betra og heilsusamlegra um
ydur, elskanlegir! þótt vér tølum þannig. Því 10.
Gud er * ecki ránglátur, ad hann gleymi *
gjørdum ydar og kjærleika, er audsýnt hafid hon-
um til dýrdar, med því ad þér hafid þjónad og
þjónid heiløgum. Einúngis viljum vér óska: 11.

---

V. 1. * Kap. 9, 14.
V. 3. * Póst. G. b. 18, 21. Jak. 4, 15.
V. 4. * Kap. 10, 26. 1 Jóh. 5, 16. 2 Pét. 2, 20. Matth. 12, 31. 45.
V. 8. * Matth. 21, 19.
V. 10. * Róm. 14, 31. 2 Chron. b. 15, 7. Ordsqv. b. 14, 31. Matth. 10, 42. 25, 40. 1 Cor. 15, 58.

ad sérhverr ydar * kostgæfi hid sama allt til
ætilsfa, svó ad ydar von mætti fullkomnast, ad
12. ecki verdid þér annara eptirbátar, heldur þeirra
eptirbreytendur, sem vegna trúar og * bidlund-
13. ar ódlast hafa þad fyrirheltna. Því, þá Gud
veitti * Abraham fyrirheitid, sór hann vid sjálf-
ann sig, af því hann hafdi engann ædri vid ad
14. sverja og sagdi: sannlega * vil eg blessa þig
15. og margfalda. Þannig ødladist hann þad fyrir-
heitna * af því hann beid þess med bidlundar-
16. gédi. En * menniruir sverja eid vid þann, sem
þeim er ædri og eidurinn gjerir enda á allri
17. þeirra þrætu og stadfestir sannleikann. Þar fyr-
ir styrkti Gud heityrdi sitt med eidi, þá hann
enn ysirgnæfanlegar vildi sýna * erfingjum fyrir-
18. heitisins óraskanlegleika sinna áhyktana, svo ad
vér vegna tveggja óbrygdulla hluta, sekum hverra
Gud ómøgulega gat hafa * skrøkvad ad oss,
skyldum hafa øruggt traust, sem til hans flýum,
til ad hendla þá sælu von, sem oss er geymd;
19. hverja vér høfum líka sem akkeri sálarinnar ó-
20. bifanlega og støduga, sem sér innþreyngir í þad
allrahelgasta, hvert Jesús, vor fyrirrennari, er
inngenginn fyrir oss og ordinn * ypparsti Prest-
ur ad eilífu eins og Melkísedek.

---

V. 11. * Kap. 3, 6. 14. Matth. 24, 13.
V. 12. * v. 15.
V. 13. * 1 Mós. b. 17, 4. 22, 16. Ps. 105, 9. Lúk. 1, 73.
V. 14. * 1 Mós. b. 12, 2. 22, 17.
V. 15. * Kap. 10, 36. V. 16. * 2 Mós. b. 22, 11.
V. 17. * v. 13. V. 18. * Tit. 1, 2.
V. 20. * Kap. 3, 1. 4, 14. 5, 6.

Jesús er ypparsti Prestur, fullkomnari enn 7. Kap. allir adrir v. 1—28.

En * Melkísedek þessi, er var Salems Kon- 1.
úngur og kénnimadur Guds hins hæsta, hvert
ed geck í veg fyrir Abraham og blessadi hann,
þá hann sneri heimleidis frá drápi Konúnganna
og hverjum * Abraham skipti tíundum af ellu 2.
herfángi sínu, hans nafn má fyrst útleggjast,
Konúngur Réttvísinnar og þar næst
Konúngur fridarins, þat hann var Kon-
úngur í Salem. Hann hafdi hverki fødur né 3.
módur, eda ættlegg, hverki lífs upptek né lífs end-
ir, en líkist í því Syni Guds, ad hann er
kénnimadur ad eilífu. Byrdid nú fyrir ydur 4.
hvílíkur sá megi verid hafa, hverjum jafnvel
sjálfur forfadirinn * Abraham gaf tíundir af her-
fángi sínu. Ad vísu hafa þeir af Leví nidjum, 5.
er klerkdóm taka * heimild til þess ad leggja
eptir løgunum, tíundar útsvar á þjódina, þad er:
brædur sína, þótt þeir séu af Abraham komnir.
En hér tók sá tíundir af Abraham, sem ecki var 6.
Abrahams ættar og * blessadi þann, er fengid
hafdi * fyrirheitin. Því verdur þó ecki móti 7.
mælt, ad sá, sem er minnihattar, blessast af þeim,
sem meirihattar er. Hér taka daudlegir menn 8.
tíundir, en þar sá, um hvern vitnad er, ad
hann æ lifi. Og * Leví, hvers afkomendur 9.

Q

V. 1. * 1 Mós. b. 14, 18. V. 2. * 1 Mós. b. 14, 20.
V. 4. * Post. G. b. 2, 29. V. 5. * 4 Mós. b. 18, 21,
V. 6. * 1 Mós. b. 14, 19. Róm. 4, 13.
V. 9. * 4 Mós. b. 18, 26.

plaga tíundir ad taka, hefir — ad eg komist svo
ad ordi — mátt svara tíund í Abrahams per-
10. sónu. Því þá Melkisedek mætti Abraham, var
11. hann enn í lendum fodur síns. Hefdi * full-
komnan fengist fyrir þann levítiska kénnimanns-
skap (til hvers fólkid var bundid med løgum)
hver þerf hefdi þá framar á því verid, ad nýr
kénnimadur skyldi tilsetjast líkur Melkisedek en
12. ecki Aaron. Því vid umbreytingu kénni-stéttar
13. innar hlutu legin og svo ad umbreytast. En
nú er sá, um hvern þessi spádómur hljódar, ann-
arar ættar, í hverri enginn hefir altarinu þjón-
14. ad. Því þad er alkunnugt, ad Drottinn vor
er fæddur * af Júdæ ætt, fyrir hverja ætt Mó-
ses enga tilskipun hefir gjort, vidvíkjandi kénni-
15. manns embættinu. Og enn audsjáanlegra er
þetta á því ad annar kénnimadur framkémur líkur
16. Melkisedek, hverr ecki hefir ødlast embættid ept-
ir tilskipun þess løgmáls, sem gjørir rád fyrir
daudlegum kénnimønnum, heldur ódaudlegum
17. upparsta Presti; því svo verdur ad ordi qved-
id: * þú ert kénnimadur ad eilífu, eins og Mel-
18. kisedek. Svo er þá hid fyrra løgmál * aftekid,
19. sakum þess * ófullkomlegleika og vanhlýtar; (því
þad megnadi engann * fullkominn ad gjøra) en
í þess stad innleidd betri von, vegna hverrar vér
20. gétum * nálægt oss Gudi. Enn framar ad því

V. 11. * v. 18. 19. Gal. 2, 21.
V. 14. * 1 Mós. b. 49, 10. Ruth. 4, 17. fl. Esa. 11, 1.
V. 17. * Kap. 5. 6. Psálm. 110, 4.
V. 18. * Gal. 4, 9. * Róm 8, 3.
V. 19. * Jóh. 1, 17. Post. G. b. 13, 38. 39. Róm. 3, 20.
* Esa. 2, 18. 3, 12.

leiti, sem Jesús var með svörnum eiði inn-
settur; að því leiti er hann orðinn meðalgángari
betri sáttmála. Aðrir urðu kénnimenn eiðlaust, 21.
en þessi þar á móti með eiði þess, sem til 22.
hans sagði: * Herrann sór og hann skal ecki
ydrast þess, þú ert kénnimaður að eilífu eins og
Melkisedek. Þeir yppurstu Prestar vóru marg- 23.
ir einn eptir annann, því dauðinn kippti þeim
burt; en þessi heldur stöðugu kénnimanns em- 24.
bætti af því hann lifir að eilífu. Þess vegna 25.
getur hann og svo ætíð liðsinnt þeim, þar hann
æ lifir til þess að * tala þeirra máli. * Því- 26.
líks kénnimanns höfðum vér þörf, er heilagur
væri og saklaus, óflekkaður, * syndurum fráskil-
inn og orðinn himnunum hærri; er ecki þirftu 27.
daglega, sem aðrir yppurstu Prestar, að * færa
fórnir, fyrst fyrir sinar eginn, þar næst fyrir
fólksins syndir, þetta gjörði hann * eitt sinn, þá
hann fórnfærði sjálfum sér. * Lögmálið innsetur 28.
þá til yppurstu Presta, sem hafa mannlegann
breiskleika, en orð eiðsins, sem yngra er enn
lögmálið, tilsetur Soninn, sem að eilífu er
* fullkominn.

Jesús er ypparsti Prestur á himni og miðill **8. Kap.**
þess nýa sáttmála, því sá eldri er afmáð-
ur v. 1—13.



V. 21. * Psálm. 110, 4.
V. 25. * Kap. 9, 24. Róm 8, 34. 1 Jóh. 2, 1.
V. 26. * Kap. 4, 14. 15. * 1 Pét. 2, 22.
V. 27. * 3 Mós. b. 9, 7. 16, 3. 6. fl. * Hebr. 9, 12. 26.
V. 28. * Kap. 5, 1. 2. * v. 9. Kap. 2, 10.

1. Höfud inniħald þess, sem sagt hefur verid, er þetta, vér höfum þann ypparsta Prest, et * situr hægrameginn vid hásæti þess almáttuga á
2. himnum. Og sem er Prestur helgidómsins og þeirrar * sönnu tjaldbúdar, hverja Gud sjálfur
3. hefir reist, en enginn madur. Því hvert ypparsti Prestur er til þess settur ad frambera gáfur og fórnir, því * verdur þessi og svo ad hafa
4. þad, er hann frambera kunni. Því hefdi hann verid jardneskur Prestur, þá hefdi hann ecki kunnad Prestur ad vera þar, sem þar eru adrir Prestar fyrir, sem færa fórnir eptir lögun-
5. um; þessit * stemja Guds þjónustuna í því musteri, hvert ad er eptirmind og skuggi þess himneska, eins og Mósi var bodid þá hann skyldi fullgjöra tjaldbúdina: * géf gætur ad, stendur þar, ad þú gjörir allt eptir munstri því, sem
6. hér var sýnt á fjallinu. En nú hefir hann fengid þeim mun ypparlegra kennimanns embætti, sem * sáttmáli sá er ypparlegri, sekum þess hann er grundvalladur á betri fyrirheitum.
7. Því hefdi sá fyrri sáttmáli verid óadfinnanlegur,
8. þá hefdi ecki eins annars vidþurft. En nú ávítar Gud þá segjandi: * Sjá! þeir dagar munu koma, segir Drottinn: þá eg vil semja nýjann sáttmála vid Israels ætt og Júdæ ætt,

---

V. 1. * Kap. 1, 3. 13. Cól. 3, 1.
V. 2. * Kap. 9, 8. 11. 24. 10, 20. 21.
V. 3. * Kap. 5, 1. Eph. 5, 2.
V. 5. * Cól. 2, 17. Hebr. 10, 1. * 2 Mós. b. 25, 10.
V. 6. * Kap. 7, 22. 2 Cor. 3, 6.
V. 8. * Jer. 31, 31. fl. 33, 14.

ecki líkann þeim sáttmála, er * eg gjørdi vid for- 9.
fedur þeirra á þeim degi, þá eg tók í hønd þeirra,
til þess ad leida þá út af Egyptalandi, því vegna
þess þeir héldu ecki minn sáttmála, þá yfirgaf
eg þá, segir Drottinn. En sáttmáli sá, er eg 10.
hér eptir mun semja vid Israels fólk, skal vera
á þá leid, segir Drottinn, ad eg * mun inngéfa
mitt løgmál í þeirra hugskot og grafa þad á þeirra
hjørtu og eg skal vera þeirra Gud og þeir skulu
vera mitt fólk og þá mun ecki hverr landi og 11.
bródir þurfa ad áminna annann segjandi: þecktu
Drottinn, því * allir skulu þeckja mig frá þeim
minnsta þeirra á medal til þess mesta. Því * eg 12
mun vera vægur vid þeirra yfirtrodslu og ecki
framar minnast synda þeirra og bodorda brota.
Med því ad kalla þetta nýann sáttmála, hefir 13.
hann því lýst, ad sá fyrri sé úr gyldi genginn, en
þad, sem gamalt er og forut, er því nálægt ad
lída undir lok.

I.) Fórnfæringar Gamla Testamentisins vóru **9. Kap.**
ónógar v. 1—10. II.) En sú fórn, sem
Kristur frambar, fullnóg v. 11—28.

Ad vísu hafdi sá fyrri sáttmáli reglugjørdir 1.
fyrir Guds-þjónustunni og jardneskann helgi-
dóm. Því í * fremra hluta tjaldbúdarinnar, er 2.
kalladist þad heilaga, var * kérta-hjálmurinn og

V. 9. * 2 Mós. b. 19, 5. fl.
V. 10. * Jer. 24, 7. Zach. 8, 8.
V. 11. * Esa. 54, 13. Jóh. 6, 45. * Jeram. 31, 34.
V. 2. 2 Mós. b. 26, 1. fl. * Kap. 25, 31.

3. tjaldid og sko undirbúin og bak vid þad innra
fortjald, var hinn annar hluti, er kalladist þad *
4 allrahelgasta, í hverjum ad var þad gullega reyk-
elsis-ker og * sáttmáls ørkin, er allavega var gulli
búin, í henni var * gullfatan med Manna í og * sá
blómgadi Aarons vendur og * legmáls-spjøldin.
5. * Uppyfir sáttmáls ørkinni vóru þeir dýrdlegu
Kerúbim, sem yfirskygdu lokid á sáttmáls ørkinni,
frá hverju hér ecki gjørist þørf ad skrifa sérílagi.
6. Sem nú þetta var þannig tilreidt, * gengu Prest-
arnir, er framqvæmdu Gudsþjónustuna, daglega
7. inn í fram-musterid. En í innra hluta musterisins,
gëck einúngis sá ypparsti Prestur * eittsinn á ári
hverju, ecki án blóds, er hann * offra skyldi fyrir
8. sínar og fólksins syndir, med hverju hinn helgi Andi
vildi sýna, * ad vegurinn til þess allrahelgasta stædi
enn þá ecki opinn, svo lengi sú fyrri tjalbúd enn þá
9. stód vid lýdi, hver einúngis vera skyldi sem fyrir-
mind allt til vorra tíma, þá gáfur og fórnir fram-
berast, sem þó ecki megna, hvad samvitskuna
snertir, ad gjøra þann fullkominn, sem ad Guds-
10. þjónustunni vinnur, hvers gudsdýrkan einúng-
is er í því fólgin ad halda sér frá vissri * fædu
og dryck og í ýmislegum þvottum, hverjar til-
skipanir líkamann áhrærandi einúngis vóru leg-
bodnar, þángad til ný endurbót yrdi þar á gjørd.

V. 3. * 2 Mós. b. 26, 33.
V. 4. * 2 Mós. b 25, 10. * 16, 33 * 4 Mós. b. 17, 8.
* 2 Mós. b. 25, 21 34, 29 1 Kóng. b. 8, 9.
V. 5. (2 Mós b. 25, 18. V. 6. * 4 Mós. b. 18, 3. fl.
V. 7. * 3 Mós. b. 16, 2 fl. * Hebr. 5, 3.
V. 8. * Esa. 35, 8. Jóh. 14, 6. Hebr. 10, 19. 20.
V. 10. * 1 Mós. b. 11, 2. fl. 4 Mós. b. 19, 7. fl.

En þá Kristur kom, sem * ypparsti Prestur, er 11.
oss skyldi afreka þau tilkomandi gædi, gèck hann
í gégnum hina stærri og fullkomnari tjaldbúd,
sem ecki er med hendum gjørd, þad er: ecki
bygd uppá jardneska vísu, hafandi hverki * hafra- 12.
né uxa-blód, heldur gèck hann eitt sinn med sitt
* egid blód inní þad allra-helgasta og afrekadi
oss * eilífa endurlausn. Hafi * uxa- og hafra- 13.
blód og * aska brendrar qvígu, sem steckt var á
þá, er óhreinir höfdu gjerst, hreinsad þá, er út-
vortis vóru óhreinir, hversu miklu framar mun 14.
þá * blódid Krists, er í krapti þess eilífa Anda
* fórnfærdi sjálfann sig Gudi óflecfadann, hreinsa
vora samvitsku af * saurugum verkum, svo ad
vér * þjónum þeim lifanda Gudi? Og þess 15.
vegna er hann * medalgángari nýs Testamentis,
ad þá hann væri * dáinn til forlíkunar fyrir
þau afbrot, sem skédu undir þeim fyrra sáttmála,
allir þeir, sem kalladir vóru, fá kynnu * þá ei-
lífu arfleifd, sem þeim var heitin. Því hvar 16.
eitt Testament á ad géta fengid sinn fulla krapt,
þar hlýtur þess daudi ad vera hljódbær, er
þad gjerdi. Því * eitt Testament fær fyrst krapt 17.
vid eins dauda, en gyldir engannveginn medan
sá lifir, er þad gjerdi. Þess vegna var ecki held- 18.

V. 11. * Kap. 3, 1. 4, 14.
V. 12. * 3 Mós. b. 16, 3. * Post. G. b. 20, 28 * K. 10, 12.
V. 13. * 3 Mós. b. 16, 14. * 4 Mós. b. 19, 9. fl.
V. 14. * 1 Pét. 1, 10. Opinb. b. 1, 5. * Gal. 1, 4. 2, 20. Tit. 2, 14. * 1 Thess. 1, 9. Hebr. 6, 1. * Luk. 1, 74. Róm. 6, 13.
V. 15. * Kap. 12, 24. 1 Tím. 2, 5. * Róm. 5, 6. * Kap. 6, 23.
V. 17. * Gal. 3, 15.

19. úr hinn fyrri sáttmáli saminn án blóds. Því
þá Móses * hafdi lesid upp öll bodord lögmáls-
ins fyrir fólkinu, tók hann uxa- og hafra-blód
ásamt vatni og skarlats-raudri ullu og ísópi og
stökti á sjálfa lögbókina og allt fólkid, svo mæl-
20. andi. * Þetta er blód þess sáttmála, sem Gud
21. hefir samid vid ydur. * Semuleidis stökti hann
blódi á samkundu tjaldbúdina og öll áhöld Guds-
22. þjónustugjördarinnar. Og eptir Mósis lögum,
hlýtur * nærfeldt allt ad hreinsast med blódi
og * án blóds úthellíngar skédur engin fyrirgéfn-
23. íng. Hér af flýtur þad, ad fyrst fyrirmind
þess himneska verdur ad hreinsast med slíkum
hlutum, þá hlýtur þad himneska sjálft ad hreinsast
med þeirri fórn, er lángt yfirgángi þar jard-
24. nesku. Því Kristur er ekki inngenginn í þann
helgidóm, er med höndum sé gjördur og sem
einúngis sé eptirmind þess sannkallada helgidóms,
heldur er hann inngenginn í sjálfann himininn,
til þess nú * ad birtast fyrir Guds augliti vor
25. vegna. Ekki géck hann heldur þar inn til þess
ad fórnfæra sér optar enn einusinni, eins og * sá
ypparsti Prestur gengur einusinni á hverju ári
inní þad allra helgasta med annarlegu blódi,
26. (Því annars hefdi hann optlega mátt píslir lída
frá því heimurinn var skapadur), heldur birtist

V. 19. * 2 Mós. b. 24, 5. 6.
V. 20. * 2 Mós. b. 24, 8. Matth. 26, 28.
V. 21. * 2 Mós. b. 29, 21. 3 Mós. b. 8, 15. 19.
V. 22. * 3 Mós. b. 17, 11. * Eph. 7, 7.
V. 24. * Róm. 8, 34. 1 Jóh. 2, 1.
V. 25. * 2 Mós. b. 30, 10. 3 Mós. b. 16, 2. fl.

hann þar nú í * eitt einasta skipti * undir
endalok veraldar, þá hann fórnfærdi sjálfum sér
til synda afplánunar. Og eins og mennum er 27.
fyrirsett eittsinn ad deya, en eptir þad er
dómurinn, þannig er og * Kristur eittsinn fórn- 28.
færdur, til þess ad burttaka margra syndir, en
í annad sinn mun hann birtast, án þess ad vera
synda-fórn ellum, sem hans vænta til frelsunar.

I.) Sama efni v. 1—18. II.) Uppørsan til 10. Kap.
stødugly ndis í trúnni v. 19—39.

Því * løgmálid, sem einúngis hefir * skugga 1.
tilkomandi gjæda, en ecki þeirra skírá mind,
megnar engannveginn med þeim somu fórnum,
er árlega verda frambornar án afláts, * fullkom-
lega ad hreinsa fórnfærendurnar. Því hefdi 2.
ecki annars verid hætt vid ad frambera þær,
þar fórnfærendurnir hefdu ecki framar haft nockra
samvitsku stíngi, eptir þad þeir eittsinn vóru
ordnir hreinsadir. Slíkar fórnfæríngar þéna 3.
miklu framar til þess ad endurnýa árlega synd-
anna endurminníngu. Því þad er * ómøgulegt 4.
ad uxa- og hafra-blód géti afmád syndir. Þar 5.
fyrir, þá Messías er afmáladur, svo sem kom-
andi í heiminn, er hann látinn qveda svo ad
ordi: * offur og fórnir gédjast þér ecki, en * lík-

V. 26. * v. 12, 28. * Gal. 4, 4. V. 28. * Róm. 5, 6. 8.
V. 1. * Þad er: sú mósaiska Gudsþjónusta. * Cól. 2,
16. 17. * Hebr. 7, 19.
V. 4. * 3 Mós. b. 16, 14. 18. 4 Mós. b. 19, 4.
V. 5. * Psálm. 40, 7. 50, 9. Esa 1, 11. Amos 5, 21.
* Þ. e.: þann líkama, sem eg gæti þér fórnfært.

6. ama tilbjóstú mér. A brenniförnum og synda
7. offri hefir þú enga velþóknun. Þá sagdi eg,
eins og um mig stendur skrifad í bókinni; sjá!
8. eg kém, Gud! þinn vilja ad gjøra. Þá hann
fyrst hefir sagt, ad þú hverki viljir, né hefir
þócknun á offrum, fórnfæríngum, brennifórnum
né synda=offrum, sem þó ega ad framberast eft=
9. ir Mósis løgum. Þá segir hann: * sjá! eg
kém ad gjøra þinn vilja; hann burttekur þad
10. fyrra til ad stadfesta þad sídara. Fyrir þenn=
ann Guds vilja erum vér helgadir med fórn=
færíngu líkama Jesú Krists, sem * einusinni er
11. skéd. Sérhverr Prestur kémur fram til þess
daglega ad fremja Gudsþjónustu og frambera
optlega hinar somu fórnir, er þó * engannveginn
12. géta afsekad synda qvittun. En þá hann hafdi
fært eina einustu synda fórn, * situr hann ad ei=
13. lífu til Guds hægri handar og * bídur framveg=
is * þángad til óvinir hans verda gjerdir ad
14. hans fóta skør. Því med * einni fórn, hefir
hann ad eilífu fullkomna gjørt þá, er helgadir
15. verda. Um þetta fullvissar oss og svo heilagur
16. Andi; því eptir þessi ord: * þetta er sáttmáli
sá, er eg eptirleidis vil semja vid þá, seg=
ir Drottinn, mitt løgmál vil eg innræta * í
hjørtu þeirra og skrifa þad í þeirra hugskot;
17. og eg vil ecki framar minnast synda þeirra, né

---

V. 9. * Psálm. 40, 8. 9. V. 10. * v. 14.
V. 11. * v. 1. V. 12. * Kap. 1, 3. 13. 8, 1.
V. 13. * Kap. 2, 8. * Eph. 1, 20.
V. 14. * Kap. 9, 12. 25.
V. 16. * Jer. 31, 33. fl. Róm. 11, 27. * Jóh. 6, 45.

misbrota. Hvar þetta er fyrirgéfid, þar er ecki 18.
framar þörf fórnfæríngar vegna syndanna.
Þar vér, brædur! fyrir Jésú blód hefum 19.
* djörfúng til ad inngánga í þad allrahelgasta,
hvert hann hefur opnad oss * nýann og sálu- 20.
hjálplegann veg gégnum fortjaldid, þad er:
hans eginn líkama; og þar vér hefum einn 21.
mikinn Prest yfir Drottins húsi, þá * látum 22.
oss þad nálgast med einlægum hjörtum og ör-
uggu trúar-trausti, ad hreinsudum vorum hjört-
um frá * vondri samvitsku. Og látum oss, ad 23.
laugudum vorum líkama í hrelnu vatni, * halda
fast vid játníngu vorrar vonar, því * trúr er
sá, sem fyrirheitid hefir géfid; og géfum gæt- 24.
ur hvorjir ad ödrum, til þess ad uppörfa oss til
kjærleika og gódra verka; og yfirgéfum ecki vorn 25.
söfnud, sem sumra er sidur, heldur * uppörfum hann
og þad því framar, sem * þér sjáid ad * dagurinn
nálgast meir. Því ef vér syndgum af * ásettu rádi 26.
eptir þad vér hefum ödlast þeckíngu sannleikans,
þá géfst engin fórn framar fyrir syndirnar, held- 27.
ur * óttaleg eptirbid dómsins og brennandi vand-
lætíng, sem tortýna mun hinum þverbrotnu.
Hljóti sá, sem yfirtredur Mósis lög, án allrar 28.
vægdar ad missa lífid, * eptir tveggja eda þrigg-

V. 19. Jóh. 10, 9. Eph. 2, 13. 18.
V. 20 * Jóh. 14, 6. Hebr. 9, 8.
V. 21. * Eph. 3, 12. Hebr. 4, 16. * Kap. 13, 18.
V. 23. * Kap. 4, 14. * 1 Cor 1, 9. 1 Thess. 5, 24.
V. 25. * Cól. 3, 16. * 1 Cor. 10, 11. * þ. e. Messiasar koma.
V. 26. * 1 Mós. b. 15, 30. Matth. 12, 31. fl.
V. 27. * Ezech. 36, 5, Zeph. 1, 18. 3, 8.
V. 28. * 4 Mós. b. 35, 30. 5 Mós. b. 11, 6. fl.

29. ja votta vitnisburdi: * hve miklu þýngra straffi haldid þér ecki sá sæta muni, er Son Guds fót-
um tredur og álítur * sáttmálans blód, med hverju hann er helgadur, ecki heilagra enn hvert
30. annad og smánar anda nádarinnar. Því vér vitum hverr sagt hefir: * þad er mitt ad hefna
eg vil endurgjalda, segir Drottinn og enn apt-
31. ur: * Drottinn mun dæma sitt fólk. Skélfi-
32. legt er ad falla í hendur lifanda Guds. End-
urminnist hinna fyrri daganna, á hverjum þér
* máttud þola svo margar þreyngíngar, eptir
33. þad þér vórud ordnir upplýstir, þá þér ýmist
í allra augsýn máttud sæta smán og pínslum,
enn annad veisíd taka þátt í þeirra kjörum, er
34. þannig vóru medhöndladir. Því þér hefdud *
sampíníngu med þeim faungnu og * tókud med
gledi móti missir fjármuna ydvarra, af því
þér vissud, ad þér * áttud betri og varanlegri
35. fjársjód á himnum. Kastid því ecki burt ydar
örugga módi, hverr * mikil laun mun ödlast,
36. Því * á þolgjædi hafid þér þörf, svo ad þér
* úr býtum berid þau fyrirheitnu gjædi, fyrir
37. þad þér hafid gjört Guds vilja. Því innan
hardla skamms tíma mun sá koma, sem vænt-
anlegur er og ecki tefja.

---

V. 29. * Kap. 2, 3. 12, 25. * 1 Cor. 11, 25.
V. 30. * 5 Mós. b. 32, 35. * v. 36. Psálm. 50, 4.
V. 32. * Gal. 3, 4. Phil. 1, 29. 30.
V. 34. * Post. G. b. 5, 41. * Jak. 1, 2. * Matth. 5, 12.
Kap. 6, 20. fl.
V. 35. * Matth. 10, 32.
V. 36. * Lúk. 21, 19. * Hebr. 6, 12.

En sá * réttláti af trú sinni mun hólp- 38.
inn verda, en dragi nockurr sig í hlé, mun sála
mín enga gédþeckni á þeim hafa, en vér erum 39.
ecki af þeim, er sig í hlé draga sjálfum þeim
til fortepunar, héldur af þeim, sem trúa sér
til sáluhjálpar.

Trúarinnar ágæti v. 1—40. **11. Kap.**

En trúin er * erugg eptirvænting þeirra hluta, 1.
sem mádur vonar og sannfæring um það, sem
hann ecki sjer. Hennar vegna verdur þeim 2.
fyrri mennum hrósad. Fyrir trúna fullvissumst 3.
vér um ad heimurinn sé skapadur * fyrir Guds
ord, á þann hátt, ad * þad sýnilega sé til
ordid af því ósýnilega. Vegna * Abels trúar, 4.
mat Gud fórn þá, er hann færdi honum fram
yfir Kains, hennar vegna féck hann vitnisburd
ad hann væri réttlátur, því Gud lýsti velþóckn-
un sinni yfir offri hans; hún gjörir þad og ad
hann enn nú talar af * gref sinni. Vegna trúar 5.
sinnar var * Enok burt numinn, ad hann ecki
skyldi daudann sjá og hann fannst ecki framar,
af því Gud hafdi numid hann í burtu, því ád-
ur enn hans burtnumníng skédi, féck hann þann
vitnisburd, ad hann væri Gudi þócknanlegur.
An trúar er ómögulegt Gudi ad þócknast, því 6.

V. 38. * Róm. 1, 17.
V. 1. * Róm. 8, 38. 1 Cor. 2, 9.
V. 3. * 1 Mós. b. 1, 1—3. 2 Pét. 3, 5. * Róm. 4, 17.
2 Cor. 4, 6.
V. 4. * 1 Mós. b. 4, 5. * það er: til vor. Matth. 23, 35.
V. 5. * 1 Mós. b. 5, 24. Sir. 44, 18.

sá, sem vill koma til Guds, verdur ad trúa því
ad hann sé til og ad hann umbuni þeim, er
7. hans leita. Trúin gjerdi þad ad verkum, ad
þá * Nói var af Gudi advaradur um þad,
sem enn þá ecki sást, óttadist hann Gud og
smídadi örkina til frelsis sínu húsi; med trúnni
* fordæmdi hann heiminn og vard hluttakandi
8. þeirrar réttlætingar, sem fæst fyrir trúna. Fyr-
ir trú sína * hlýdnadist Abraham, þá honum
var bodid ad fara til þess stadar, er verda átti
hans ódal og hann fór, þó hann ecki vissi hvert
9. hann fara skyldi. Fyrir trúna * bjó hann í
því fyrirheitna landi, eins og á annarlegri lód
og heldt til í tjaldbúdum, ásamt þeim Isaak og
Jakob, sem hluttakarar vóru hins sama fyrir-
10. heitis. Því hann * vænti þeirrar borgar, er
fastann grundvöll hefdi, hverrar * smidur og
11. byggingar-meistari sjálfur Gud er. Fyrir trúna
ödladist sjálf Sara * krapt til barns getnadar
þótt hún væri úr barneign, því hún héldt þann
12. * trúfastann, sem fyrirheitid hafdi gefid. Þess
vegna qviknadi og af einum manni og þad *
ellihrumum slík nidja mergd, * sem stjörnur eru
á himni edr * sandkorn vid sjáfarstrend, sem

V. 7. * 1 Mós. b. 6, 8. 14. Róm. 3, 24. * þ. e. gjerdi sínum óráðvøndu samtída mønnum kinnroda og sannadi þá seka ad vera.
V. 8. * 1 Mós. b. 12, 14.
V. 9. * 1 Mós. b. 14, 13. 17, 8.
V. 10. * Kap. 12, 22. 13, 14. * 2 Cor. 5, 1. Hebr. 3, 4.
V. 11. * 1 Mós. b. 17, 19. 21, 2. Róm. 4, 19. * Hebr. 10, 23.
V. 12. Róm. 4, 19. * 1 Mós. b. 15, 5. * 22, 17.

ecki verdur tolu á komid. Í trúnni dóu allir 13.
þessir, hafandi ecki fengid uppfyllingu fyrirheit-
anna, heldur sied þau áleingdar og breidt mót
þeim fadminn, játandi ad þeir væru * útlendíng-
ar og gestkomandi á jordu þessari. En þeir, 14.
sem slíkt mæla, sýna þar med, ad þeir séu ad
leita síns rétta fodurlands. Því hefdu þeir 15.
meint til þess fodurlands, hvadan þeir komu,
þá hefdu þeir haft tíma til ad snúa þángad aptur.
En nú þrádu þeir annars betra, þad er þess 16.
himneska fodurlands, fyrir því * blygdast Gud
ecki þeirra vegna ad kallast þeirra * Gud, því
hann hafdi tilreidt þeim borg. Vegna trúar 17.
* fórnfærdi Abraham syni sínum Ísaak, þá Gud
freistadi hans og sá fórnfærdi sínum einka-syni,
er fengid hafdi fyrirheitin og til hvers þad hafdi 18.
sagt verid: * af Ísaak skal kynþáttur þinn ærl-
ast, því hann hugsadi, þad med sér, ad Gud 19.
megnadi ad reisa upp frá daudum og þess vegna
* heimti hann hann aptur midt úr daudans
hættu. Vegna trúar um þad ókomna * lagdi 20.
Ísaak blessun sína yfir Jakob og Esaú. Vegna 21.
trúar blessadi Jakob á deyanda degi * yfir báda
syni Jósephs, * hallandi sér framm á húninn á
stafi sínum. Vegna trúar * taladi Jóseph á sinni 22.

V. 13. * 1 Mós. 23, 4. 1 Chron. 29, 15. Ps. 39, 13.
V. 16. * Kap 2, 11. * 2 Mós. b. 3, 6.
V. 17. * 1 Mós. b. 22, 1. ff.
V. 18. * 1 Mós. b. 21, 12. Róm. 9, 7.
V. 19. * 1 Mós. b. 22, 12.
V. 20. * 1 Mós. b. 27, 28. 39.
V. 21. * 1 Mós. b. 48, 15. * Kap. 47, 31.
V. 22. * 1 Mós. b. 50, 24.

dauda-stundu um útgaungu Ísraëls barna af
Egyptalandi og gjordi rádstefun fyrir beinum sín-
23. um. Vegna trúar földu foreldrar * Mósis hann
í þrjá mánudi eptir hans fædíngu, af því þau
sáu ad sveininn var fagur og * létu ecki skélf-
24. ast af skipun Konúngsins. Vegna trúar *
hafnadi Móses, þá hann var ordinn fulltída
madur, sæmd þeirri ad kallast Pharaós dóttur-
25. urson, svo hann * kaus heldur ad lída íllt med
Guds fólki, enn ad njóta skammvinnrar ánægju
26. syndsamlegs munadar. Og áleit þad meiri á-
vinníng ad lída * vanvyrdu Krists, en alla E-
27. gyptalands fjársjódu. Vegna trúar * yfirgaf
hann Egyptaland og óttadist ecki Konúngsins reidi
og tjádi sig stödugann, eins og hann sæi þann
28. * ósýnilega. Vegna trúar * héldt hann Páska
og rjódradi blódi páska-lambsins á sín dyra-gætti,
ad sá, sem frumburdina deyddi, ecki skyldi snerta
29. Gydínga. Vegna trúar * gengu Ísraelítarnir
yfir hid rauda haf, sem annad þurrlendi, en þá
Egyptskir freistudu hins sama, drucknudu þeir.
30. Vegna * trúar hrundu Hjerikós múrar, þá búid
31. var ad gánga í kríngum þá í 7 daga. Vegna
trúar * fyrirfórst ecki skjækjan Rahab ásamt þeim
vantrúudu, af því hún tók fridsamlega móti

V. 23. * 2 Mós. b. 2, 2. Póst. G. b. 7, 20. 21. * Kap. 5, 29.
V. 24. * 2 Mós. b. 2, 11. 12. V. 25. * Ps. 84, 11.
V. 26. * þ. e. : líka vanvyrdu og Kristur leid.
V. 27. * 2 Mós. b. 2, 15. 12, 41. * Jóh. 20, 29.
V. 28. * 2 Mós. b. 12, 18.
V. 29. * 2 Mós. b. 14, 22.
V. 30. * þad er : Jósúæ. Jós. 6, 20.
V. 31. * Jós. 2, 19. 6, 20.

njóſnar-mennunum. Hvad ſkal ea framar hér um 32.
ræda? mig mundi ſkorta tíma ef eg færi, ad ſeg-
ja frá * Gedeon, * Barak og * Samſyni og *
Jephtah, * David og * Samúeli og Spámenn-
unum, (er vegna trúar ſinnar * yfirunnu Kon- 33.
únga-ríkin, fremdu réttvíſina, * ødluduſt fyrirheit-
in, * byrgdu kjapt ljónanna), * ſlecktu eldſins 34.
abl, * umflúdu ſverds eggjar, * urdu ſtyrkvir ept-
ir veikindi, * øflugir í ſtrídi, * komu her óvin-
anna á flótta, * qvinnurnar fengu aptur ſína 35.
framlídnu. * Adrir vóru útþandir til píntínga
og þádu þó ecki lauſn, ad þeir ødluduſt adra
betri uppriſu. * Adrir máttu ſæta hádyrdum 36.
og húdſtrokum og þar á ofan fjøtrum og fáng-
elſi; (vóru * grýttir, ſagadir, freiſtadir, líflátnir 37.
med ſverdi og þeir, hverra heimurinn var ecki
verdur, * fóru um kríng í ſauda- og geita-ſkinn-
um * vid ſkort, þreyngíngar og misþyrmíngar)
ráfudu um fjøll og óbygdir í hellirum og gjótum. 38.
En þótt allir þeſsir hefdu fengid vitnisburd * um 39.

R

---

V. 32. * Dóm. b. 6, 11. * 4, 6. 13, 24. * 11, 6. 9. * 1 Sam. b. 13, 14 17, 45. * Kap. 1, 20.

V. 33. * 2 Sam. b. 8, 1. 10, 19. * 7, 12. Hebr. 10, 36. * Dan 6, 23.

V. 34. * Dan. 3, 25. * 1 Sam. b. 19, 12. 20, 1. * 2 Kóng b. 20, 7. Job. 42, 10. Pſálm. 6, 9. * Dóm. b. 7, 11. 20. 1 Sam. 14, 6, 16. * Dóm. b. 15, 15.

V. 35. * 1 Kóng. b. 17, 23. 2 Kóng. b. 4, 36. * 2 Makkab. b. 6, 19. 28. 7, 1. fl.

V. 36. * Jer. 20, 2.

V. 37. * 1 Kóng. b. 21, 13. * 2 Kóng. b. 1, 8. * 1 Cor. 4, 11.

V. 39. * v. 2.

40. trú sína, ødlnduſt þeir þó ecki fyrirheitin; því
Guð hafdi ſjed betur fyrir vorum hlut, ad þeir
ecki án vor algjørdir yrdu.

Uppørſan til ſtødugłyndis í trúnni og hlýdni 12. Kap.
vid Kriſt v. 1—29.

1. Fyrſt vér erum umkríngdir af ſlíkum vitna fjølda,
*þá léttum á oſs allri byrdi og vidlodandi ſynd
og *rennum þolgódir ſkeid þad, ſem oſs er fyr-
2. irſett. horfandi til trúarinnar uppbyrjara og full-
komnara Jeſú, ſem *í ſtad gledi þeirrar, er
hann átti koſt á, þoldi kroſsfeſtíngu og hann,
ſem mat einſkis þótt hann ſmánadur væri, *ſit-
3. ur nú hægrameginn vid Guds háſæti. Gætid
ad þeim, *ſem ſlík mótmæli þoldi gégn ſér af
ſyndurunum, ſvo þér ecki þreytiſt og látid hug
fallaſt í hjørtum ydrum.
4. *Enn þá, ſem komid er, hefir ydar ſtríd vid
5. ſyndina ecki koſtad ydar blód (og þó hafid þér
gleymt þeirri huggunar grein, ſem ávarpar yd-
ur eins og børn: *Son minn, litils vyrdtu
ecki hyrtíngu Drottins og láttu ecki heldur hug
6. þinn falla, þó hann vandi um vid þig) því hvern
þinn Drottinn *elſkar, hinn ſama agar hann
og typtar hvern þann ſon hardlega, er hann ad

V. 1. *Róm. 6, 4. 13. 2 Cor. 7, 1. 1 Pét. 2, 1. *1 Cor. 9, 24. Phil. 3, 13. 14.
V. 2. *Lúk. 24, 26. 46. Poſt. G. b. 3, 15. 5, 30. *Hebr. 1, 13. 8, 1.
V. 3. *Lúk. 2, 34. V. 4. *1 Cor. 10, 13.
V. 5. *Job. 5, 17. Ordsqv. b. 3, 11. 12.
V. 6. *Opinb. b. 3, 19.

sér tekur. Ef þér umberid hyrtinguna, þá fer, 7.
Gud eins med ydur, sem born sín; því hvert er sá 8.
sonur, sem fadirinn ecki agi? en séud þér án hyrt-
íngar, í hverri allir hafa tekid hlutdeild, þá er-
ud þér í sannleika launsynir, en ecki skilgétin
born. Ef nú vorir holdlegu fedur eru vorir 9.
typtunar-menn og vér samt berum virdíngu fyrir
þeim, skyldum vér þá ecki miklu heldur vera
undirgéfnir * andanna Fødur, svo ad vér megum
lifa? Því þeir ogudu oss um fáa daga eptir því, 10.
sem þeim leitst, en hann hyrtir oss sjálfum oss
til góda, til þess vér verda skulum hluttakend-
ur hans heilagleika. En øll hegníng þykir heldur 11.
vera sorgar-en gledi-efni, medan á henni stend-
ur; en eptir á gefur hún þeim, sem vid hana hafa
fullkomnast, heilsusamann ávøxt rádvendninnar.

* Réttid því hinar magnvønu hendurnar og 12.
þau máttþrota knén og * stígid óskeist med fótum 13.
ydrum, svo ad sá hinn fatladi limur ecki vindist
heldur læknist. Stundid * eptir fridsemi vid alla 14.
og heilagleikanum, án hvers enginn kann Drott-
inn * ad sjá. Hafid gát á ad enginn * sleppi 15.
af Guds nád, ad engin beisk rót renni upp,
sem trublun af stad komi og margir þessvegna
saurgist. Ad enginn ydar sé * frillulífis-mad- 16.
ur né vanheilagur eins og Esaú, sem fyrir *
einn málsverd seldi sinn frumgétníngar rétt. Því 17.



V. 9. * 4 Mós b. 16, 22. 27, 16. Esa 57, 6.
V. 12. * Esa. 35, 3. V. 13. * Psálm. 73, 2.
V. 14. * Róm. 12, 18. 2 Tím. 2, 22. * Matth. 5, 8.
V. 15. * 2 Cor. 6, 1.
V. 16. * Eph. 5, 3. Cól. 3, 5. * 1 Mós b. 25, 33.

Þér vitid * ad honum var sinjad, þá hann síd-
an vildi erlast blessunina, því hans ydkan var
árángurslaus, þótt hann leitadi þess med tár-
18. um; því þér erud * ecki komnir til fjalls þess, sem
þreifanlegt er, eda elds þess, er brenni, né til
19. þoku, mirkurs eda óvedurs * eda básúnu-hljóms
eda hinnar talandi raustar, hverrar áheyrendur
20. beiddust ad ecki væri lengur til sín talad (því
þeir stódust ecki þá skipun, ad jafnvel eitt dýr
21. skyldi grýtast ef þad snerti vid fjallinu og svo var
þad ógurlegt, sem fyrir augu bar, ad Móses
22. sagdi: eg em hræddur og * skjálfandi), held-
ur erud þér komnir til * fjallsins Zíon og * borg-
ar Guds lifanda, hinnar himnesku Jerúsalem
23. og Englanna * mørgu þúsunda til samqvæmis
og samkundu hinna frumgétnu, hverra nøfn eru
*ískrifud á himnum og til Guds * allra dóm-
24. ara og til anda réttlátra, sem algjørdir eru ordn-
ir og til Jesú * medalgángara ens nýa sáttmála
og til * þess ádreifda blóds, sem betur talar *
25. enn Abel. Sjáid vid því ad þér ecki útskúfid
þeim, er talar, því ef þeir sluppu ecki strafflaust,

---

V. 17. * 1 Mós. b. 27, 34. fl.
V. 18. * 2 Mós. b. 19, 12.
V. 19. * 2 Mós. b. 20, 19. 5 Mós. b. 5, 25. fl. 18, 16.
V. 20. * 2 Mós. b. 19, 12. 13.
V. 21. * 2 Mós. b. 19, 16.
V. 22. * Esa. 2, 2. * Gal. 4, 26. Opinb. b 3, 12. * Dan. 7, 10.
V. 23. * Lúk. 10, 20. * 1 Mós. b. 18, 25.
V. 24. * Kap. 8, 6. 9, 15. * 2 Mós. b. 24, 8. 1 Pét. 1, 2. Hebr. 10, 22. * því þad krefst ecki hefndar eins og Abels blód, heldur lýsir synda qvittun. 1 Mós. 4, 10. Hebr. 11, 4.

sem * útskúfudu þeim, sem á jordu taladi Guds
erindi, þá munum vér því sídur þad géta, ef
vér þverskellumst vid þann, er frá himni talar,
hvers raust ad þann tíd skók jordina, en nú 26.
hefir hann kunngjørt * segjandi: * enn nú einusinni
mun eg skaka ecki einúngis jordina heldur og
svo himininn, en þetta ord: enn nú einu- 27.
sinni géfur ad skilja, * ad þeir skéknu hlutir
skuli umbreytast, svo sem þeir, er med høndum
séu gjørdir, svo ad þad vari vid, sem óskékid
er. Látum oss því, er féngid høfum eitt óbif- 28.
anlegt ríki, sýna þacklátt hjarta, med hverju
vér þjónum Gudi, uppá hønum þacknæmilegann
máta, med blygdunarsemi og * lotníngarfullum
ótta. Því * vor Gud er fortærandi eldur. 29.

## 13. Kap.

I.) Ymislegar uppbvatníngar, sem endast med
þeim tilmælum: ad sofnudurinn vilji bid-
ja fyrir høfundinum v. 1—20. II.) Fyri-
bænir v. 21—22. III.) Sagt frá Tí-
mótheusar lausn; heilsad og bedid ad
heilsa; árnad góds v. 23—25.

Haldid stødugum * bródur-kjærleika. Gleymid 1. 2.
ecki * géstrisninni, því vegna hennar hafa nockr-

---

V. 25. * Kap. 2, 3. 10, 29.
V. 26. * nefnilega: þad, sem strax á eptirfylgir í sama versi. * Hagg. 2, 6.
V. 27. * Psálm. 102, 27. 2 Pét. 3, 10.
V. 28. * Phil. 2, 12.
V. 29. * 5 Mós. b. 4, 24. 9, 3. Esa. 30, 27.
V. 1. * Róm. 12, 10. 1 Pét. 1, 22.
V. 2. * Róm. 12, 13. 1 Pét. 4, 9. * 1 Mós. b. 18, 3. 19, 2. 3.

3. ir sér óafvitandi * hýst Englana. Minnist * bandíngjanna, sem værud þér þeirra sambandíngjar og þeirra, er íllt líða, svo sem þeir, er sjálfir
4. búa í líkama þessum. Hjúskapurinn skal heidurlegur haldinn vera hjá ollum og hjónasængin óflekkud, því frillulífis menn og * hór-karla mun
5. Gud straffa. Sýnid * enga fégirni í ydar hegdun, heldur * látid ydur nægjast þad þér hafid, því Gud sjálfur hefir sagt: eg skal ekki sleppa
6. þér né * yfirgéfa þig, svo vér megum órugglr segja: Drottinn er minn hjálpari og því * skal ég ecki óttast, hvad géta mennirnir gjört mér?
7. Verid minnugir * ydar lærifedra, sem Guds ord hafa til ydar talad, skodid þeirra lífs afdrif og
8. * breytid eptir þeirra trúar stodugleyndi. Jesús Kristur er * í dag og á morgun og * ad eilífu einn
9. og hinn sami. * Látid ydur ecki afvega leida af ýmislegum og annarlegum lærdómum, því þad er gott ad styrkja hjarta sitt vid Krists nádar lærdóm, en ekki vid * nautnar reglur Gydínga, sem eckert stoda þá, sem eptir þeim gánga.
10. Vér hofum eitt altari, af hvers fórnum þeir ecki hafa rétt ad eta, er tjaldbúdinni þjóna.

V. 3. * Matth. 25, 36. Róm. 12, 15. Cól. 4, 18.
V. 4. * 1 Cor. 6, 9. 10.
V. 5. * 5 Mós. b. 16, 9. 1 Tím. 6, 9. 10. * Ordsqv. b. 15, 16. Matth 6, 25. 34. Phil. 4, 11. 1 Tím. 6, 6. * 5 Mós. 31, 6. 8. Jós. 1, 5.
V. 6. * Psálm. 56, 5. 12.
V. 7. * v. 17. * 1 Cor. 4, 16. 11, 1.
V. 8. * Psálm. 2, 9. * Opinb. b 1, 18.
V. 9. * Jér 29, 8. Matth. 24, 4. Róm. 16, 17. Eph. 4, 14. 5, 6. fl. * Jóh. 6, 27. Róm. 14, 17.

Því blóð þeirra * dýra, sem til synda hreinsun- 11.
ar er af enum ypparsta Presti borið inní það
heilaga, þeirra hræ eru * brennd fyrir utan her-
búðirnar. Þess vegna leið Jesús * utan borg- 12.
ar hliða, að hann helgaði lýðinn með sínu blóði.
Gaungum því til hans út fyrir herbúðirnar, ber- 13.
andi hans vanvyrðu; því vér * hefum hér ecki 14.
varanlegann samastað, heldur leitum vér annars
tilkomanda. Látum oss því ætíð fyrir hans 15.
stutníng * frambera fyrir Guð lofgjørdar offur,
það er: ávøxt vara vorra, er viðurkénna hans
nafn. Gleymið ecki * velgjørdaseminni og greið- 16.
vikninni, því * slíkar fórnir eru Guði þacknæmi-
legar. * Hlýðið yðrum kénnifeðrum og verið 17.
þeim eptirlátir, því þeir * vaka yfir yðar sálum,
svo sem þeir, er reikníngskap standa skulu, svo
þeir gjøri það með gledi, en ecki með andvørp-
un, því þér hafið ecki gott af því. * Biðjið 18.
fyrir oss, því vér erum oss þess fullkomlega með-
vitandi, að vér hefum * góða samvitsku og viljum
breyta vel í øllum greinum. En því heldur 19.
bið eg yður þessa, að eg þess fyrr géti skilast
yður aptur.

---

V. 11. * 3 Mós. b. 4, 5. 12. 21. * 2 Mós. b. 29, 14.
V. 12. * Jóh. 19, 17. 18.
V. 14. * Psálm. 39, 13. Mich. 2, 10. Phil. 3, 20. 1 Pét. 2, 11. fl.
V. 15. * 3 Mós. b. 7, 12. Psálm. 50, 23. 51, 19. 1 Pét. 2, 5. Opinb. b. 1, 6.
V. 16. * 2 Cor. 9, 12. * Phil. 4, 18.
V. 17. * Phil. 2, 29. 1 Thess. 5, 12. 1 Pét. 5, 5. * Esa. 33, 2. 8.
V. 18. * Eph. 6, 18. 19. * 2 Cor. 1, 12.

20. En Guð friðarins, er * uppvakti af dauða
Drottinn vorn Jesúm Krist hinn * mikla hirðir
21. sauðanna fyrir blóð þess eilífa sáttmála, hann
* fullkomni yður í ollu góðu verki, til að gjora
hans vilja, hann, sem fyrir Jesúm Krist í yð-
ur verkar, það honum er þóknanlegt; * honum
sé dýrð um aldir alda, Amen!

22. Eg bið yður, bræður! að þér látið yður
ekki mínar upphvatningar leiðast, því fáorðt skrif-
23. aði eg yður. Eg læt yður vita, að bróðir vor
Tímótheus hefir fengið lausn, ásamt með hver-
jum eg ætla að sjá yður, komi hann bráðum.
24. Heilsið ollum yðar leiðtogum og ollum heilegum.
25. Þeir frá Italíu heilsa yður. * Náð sé með
ollum yður, Amen!

---

V. 20. * Post. G. b. 2, 24. * Esa. 40, 11. Ezech. 34, 23.
Zach. 9, 11. Jóh 10, 11
V. 21. * 2 Cor 3, 5. Phil. 2, 13. * 2 Tim. 4, 18.
V. 25. * Tit. 3, 15.

S. Ja-

# S. Jakobs Pistill.

I. Kap.

I.) Heilsan og uppvorfan v. 1—8. II.) Fátæk-ir og ofsóktir kallast sælir v. 9—12. III.) Orsök til freistínga v. 13—18. IV.) Á-minníngar v. 19—27.

Jakob, Guds og Drottins Jesú Krists þjón, 1.
heilsar þeim 12 kynqvíslum, sem utanlands búa
* (medal heidíngja); álítid þad mesta fagnadar- 2.
efni, brædur minir! þegar þér ratid í ymisleg-
ar raunir, þér, sem * vitid ad reynsla ydar 3.
trúar verkar þolinmædi. En þolinmædin full- 4.
komni verkid, svo ad þér séud fullkomnir og al-
gjørdir og í * engu brest hafid. * En vanti ein- 5.
hvern ydar vitsku, sá bidji þann, sem géfur øll-
um ríkuglega og telur ecki eptir og mun hon-
um géfast. En hann * bidji ørugglega og efist 6.
ecki; því sá, sem er efablandinn, hann er líkur
hafsins bylgjum uppæstum og hrektum af vindi.
Sá madur hugsi ecki ad hann fái nockud hjá 7.
Drottni. Hann, sem er madur tvílyndur, ó- 8.
stødugur í øllu sínu rádlagi.

---

V. 1. * Post. G. b. 8, 1—4. Jóh. 7, 35.
V. 3. * Róm. 5, 3. V. 4. * 1 Cor. 1, 7.
V. 5. * Ordsqv. b. 2, 3. 4. V. 6. * Jóh. 14, 13. 15, 17.

9. Sá audvyrdilegi bródir hrósi sér í sinni
10. upphefd, en sá ríki í sinni lægíngu; því eins
11. og * grassins blóm mun hann burt hverfa; því
sólin rennur upp med steikjandi hita og grasid
skrælnar og þess blóm dettur af og fegurd þess
útlits tortýnist; þannig mun hinn ríki visna
12. í sínum útvegum. Sæll er sá madur, sem
stendst reynsluna, því þegar búid er ad reyna
hann mun hann medtaka kórónu lífsins, sem Gud
hefir þeim heitid, er hann elska.
13. Enginn, sem freistast, segi: eg freistast af
Gudi, því Gud freistast ecki af hinu ílla, en
14. hann sjálfur freistar og einkis; heldur freistast
hverr einn dreginn og tældur af sinni egin girnd;
15. sídan, þá girndin hefir fengid getnad, fædir
hún * syndina, en þá syndin er fullkomnud fædir
16. hún dauda. Villist ecki, mínir elskulegu bræd-
17. ur! öll * gód og öll fullkomin gjöf er ofanad og
kémur nidur frá Fodur ljósanna, hjá hverjum
hverki er umbreyting né umskiptíngar skuggi.
18. Eptir sínu rádi * fæddi hann oss fyrir sann-
leikans ord, ad vér skyldum vera frumgródi
hans sképna.
19. Þar fyrir, brædur mínir elskulegir! sé
hverr madur * fljótur til ad heyra, seinn til *
20. ad tala, seinn til reidi, því mannsins reidi
21. vinnur ecki þad, sem rétt er fyrir Gudi. Af-
leggid því allann * hrodaskap og leifar íllskunn-

V. 10. * Job. 14, 12. Esa. 40, 6. 7.
V. 15. * Róm. 6, 23. V. 17. * Jóh. 3, 27.
V. 18. * 1 Pét 1, 23. Jer. 2, 3.
V. 19. * Ordsqv. b. 5, 1. 2. * 17, 27.
V. 21. * Róm. 13, 12.

ar og medtakid ordid med hógværd, sem í ydur
er gródursett, þad, sem er kreptugt til ad * bjarga
ydar sálum. En verdid ordsins * gjörendur og 22.
ecki einúngis heyrendur, hvar med þér svíkid
ydur sjálfa. Því, sé einhverr ordsins heyrari 23.
og ecki gjörari, sá er líkur þeim manni, sem gá-
ir ad andlits skapnadi sínum í speigli, því hann 24.
skodadi sjálfann sig og géck á burt og gleymdi
hvílíkur hann var. En sá, sem skygnist stedug- 25.
lega inní * hid fullkomna frelsis lögmál og er
ecki gleyminn heyrari, heldur gjörníngsins gjörari,
hann mun verda * sæll af sínu verki. Þykist 26.
einhverr ydar á medal gudrækinn og * heldur
ecki sinni túngu í taumi en tælir sitt egid hjarta,
hans gudrækni er fánýt. Hrein og óflekkud 27.
gudsdýrkan fyrir Gudi og Fødur er sú: ad vit-
ja munadarlausra og eckna í þeirra þreyngíngu
og ad vardveita sjálfann sig * flecklausann frá
heiminum.

2. Kap.

I.) Menn skulu ecki fara í manngreinar álit v. 1—7. II.) Audsýna øllum kjærleika og hlýdnast øllum Guds bodordum v. 8—13. III.) Trúin er daud án verka v. 14—26.

Brædur mínir! hafid ecki * manngreinar mun 1.
vidvíkjandi trú vors dýrdlega Drottins Jesú
Krists. Því þegar madur gengur inní ydar 2.

V. 21. * Róm. 1, 16. V. 22. * Matth. 7, 21. 24.
V. 25. * Kap. 2, 12. * Jóh. 13, 17.
V. 26. * Ps. 34, 14. 39, 2. V. 27. * Róm. 12, 2.
V. 1. * Ordsqv. b. 24, 23. 5 Mós. 1, 17.

sësnud, sem gullhríng hefir á hendi í skínandi
klædum og annar fátækur í töturlegum fötum
3. og ydur verdur starsýnt á þann, sem vel er búinn
og þér segid til hans: set þig hér heidurlega og
til hins fátæka: stattu þar, eda settu þig hér
4. á mína fótskör, gjörid þér þá ekki greinar-
mun med sjálfum ydur og gjörist dómendur
5. vondra hugsana. Heyrid, brædur mínir elsku-
legir! * útvaldi Gud ekki fátæka heimsins, * aud-
uga í trú og erfíngja ríkisins, er hann hafdi heit-
6. id þeim, sem hann elska. En þér * óvyrdid
þá fátæku. Eru þad ekki hinir ríku, sem þjá
7. ydur og draga ydur fyrir dómstóla? Spottid
þér ekki sjálfir þad heidurlega nafn, sem þér
erud med nefndir?
8. Ef ad þér gjörid fullnustu því konúnglega
lögmáli * eptir Ritníngunni: elska skaltú ná-
únga þinn, sem sjálfann þig, þá gjörid þér vel.
9. En ef þér * farid í manngreinar álit, þá drýg-
id þér synd og lögmálid færir ydur heim sann-
10. inn, ad þér séud yfirtrodslumenn. Því þó ein-
hverr * héldi allt lögmálid, en yrdi brotlegur í
11. einu (bodordí) sá er sekur vid þau öll. Því sá,
sem sagdi: þú skalt ekki hór drýgja, sá hinn sami
sagdi: þú skalt ekki vega mann; en þó ad þú
drýgir ekki hór, ef ad þú vegur mann, ertú
12. ordinn lögmálsins yfirtrodslu-madur. Þannig
talid og þannig gjörid, sem þeir, er dæmast munu

V. 5. * 1 Cor. 1, 26. * 1 Tím. 6, 18.
V. 6. * 1 Cor. 1, 27.
V. 8. * 3 Mós. b. 19, 18. Matth. 22, 39.
V. 9. * 3 Mós. b. 19, 15. fl.
V. 10. * 5 Mós. b. 27, 26. Matth. 5, 19. fl.

eptir * lögmáli frelsisins. Því * ómiskunsamur 13.
dómur mun gánga yfir þann, sem ecki gjörir misk-
un; miskun hælist úm vid dóminn.
Hvad * stodar þad, brædur mínir! þótt 14.
einhverr segist hafa trú, en hefir ecki verkin?
mun sú trú géta bjargad honum? Ef ad bród- 15.
ir eda systir eru nakin og vantar daglega nær-
íngu, en einhverr ydar segdi til þeirra: farid 16.
í fridi, vermid ydur og mettid, en géfid þeim ecki
þad, sem líkaminn þarf med, hvad * stodar þad?
Svo er og trúin hafi hún ecki verkin, þá er 17.
hún daud útaf fyrir sig. En einhverr segir: 18.
þú hefir trú og eg hefi verk, * sýn mér þá trú
þína án verka þinna, eg skal sýna þér mína
af mínum verkum. Þú trúir ad Gud sé einn, 19.
þú gjörir vel, og svo * djöflarnir trúa og skélf-
ast. En þú, fávísi madur! Viltú vita ad trú- 20.
in er daud án verkanna? Abraham, fadir vor, 21.
sem * offradi syni sínum Isaak á altari, vard
hann ecki réttlættur af verkunum? Sjer þú ecki 22.
ad trúin var samtaka verkunum og af verkun-
um fullkomnadist trúin? og Ritníng sú rættist, 23.
sem segir: * Abraham trúdi Gudi og þad reikn-
adist honum til réttlætis og hann var kalladur
* Guds vinur. Sjáid! ad madur réttlætist af 24.
verkunum og ecki af trúnni einúngis. Somu- 25.
leidis skjækjan * Rahab, réttlættist hún ecki af

---

V. 12. * K. 1, 25. V. 13. * Matth. 5, 7. 18, 35. 25, 41.
V. 14. * Matth. 7, 26 V. 16. * 1 Jóh. 3, 18.
V. 18. * Gal. 6, 6. Tit. 3, 8.
V. 19. * Mark. 1, 24. V. 21. * 1 Mós. b. 22, 10. 12.
V. 23. * 1 Mós. b. 15, 6. * Esa. 41, 8. 2 Chron. 20, 7.
V. 25. * Jós. b. 2, 1. 6, 13. Hebr. 11, 31.

verkunum, þegar hún tók vid sendimønnunum og
26. lét þá fara frá sér adra leid. Því eins og lík-
aminn er daudur án andans, svo er og trúin
daud án verkanna.

## 3. Kap. I.) Brúkun túngunnar v. 1—12. II.) Vís-
dóminum lýst v. 13—18.

1. Veri ecki margir af ydur, brædur mínir! kénn-
endur, því vér vitum ad vér (kénnendurnir) mun-
2. um fá þýngra dóm; því allir * rasum, vér
margvíslega. * Verdi einhverjum ecki á í ordi,
þá er hann fullkominn madur, fær um ad stýra
3. øllum sínum líkama. Sjáid! vér * leggjum
beitsli hestum í munn, svo þeir hlýdi oss og vér
4. rádum vid allann þeirra líkama. Sjáid og skip-
in! þó þau séu stór og rekist af hørdum vedrum
verdur þeim stýrt med harla litlu stýri hvert
5. sem stýrimadurinn vill. Þannig * er túngan
litill limur, en kémur þó miklu af stad. Sjá!
í hversu miklum skógi gétur litill eldur qveikt.
6. Túngan er og * eldur, heimur ránglætis. Svó
er túngan medal vorra lima, hún * fleckar all-
ann líkamann og upptendrar allt lífid, sjálf upp-
7. tendrud af helvíti; því øll náttúra * dýranna
og fuglanna, bædi skridqvikinda og sjódýra er
tamin og hefir verid tamin af mannlegri nátt-

V. 2. * Ordsqv. b. 20, 9. * Psálm. 34, 14. Sir. 14, 1.
1 Pét. 3, 10.
V. 3 * Psálm. 32, 9. Ezech. 38, 4.
V. 5. * Psálm. 12, 4. 5. 57, 5.
V. 6. * Sir. 5, 7. 8. * Matth. 15, 11. 18.
V. 7. * Esa. 1, 8.

ûru, en túnguna gétur enginn manna tamid, 8.
þessa óhemju, * fulla af deydandi eitri. Med 9.
henni * vegsømum vér Gud og Fødurinn og med
henni formælum vér mønnunum, sem * skapadir
eru eptir Guds mind. Af þeim sama munni 10.
framgengur blessan og bølvan; þetta má ecki svo
vera, brædur mínir! mun uppsprettan af sama 11.
munna láta upp vella sætt og beiskt vatn? Mun 12.
* fíkju-tréd géta gétid af sér, brædur mínir!
olíu eda víntréd fíkjur? svo gétur engin upp-
sprettá gétid salt vatn og sætt.

Sé nockurr * hygginn og skynugur ydar á 13.
medal, sá sýni med gódri umgengni sín verk í
hóglæti speckinnar. En ef þér hafid beiska * øf- 14.
und og ertni í ydar hjarta, þá * stærid ydur ecki
og ljúgid ecki gégn sannleikanum. Sú * speki 15.
kémur ecki ofanad, heldur er hún jardnesk, hóld-
leg, djofulleg. Því hvar, sem * øfund og ertni 16.
er, þar er sundurþyckja og øll vond háttsemi.
En spekin ofanad er fyrst ómeingud, þarnærst 17.
fridsøm, sannsýn, full miskunar og gódra ávaxta;
fer ecki í manngreinar mun, er hræsnislaus.
En réttlætisins ávøxtur verdur þeim í fridi sád- 18.
ur, sem * fridinn gjøra.

V. 8. * Matth. 12, 34. 23, 33.
V. 9. * Sir. 51, 31. * 1 Mós b. 9, 6.
V. 12. * Matth. 7, 16. V. 13. * Eph. 5, 15.
V. 14. * Eph. 4, 31. * 1 Jóh. 4, 20.
V. 15. * 1 Cor. 2, 6. 7.
V. 16. * 1 Cor. 8, 8. Gal. 5, 20.
V. 18. * Hebr. 12, 11. * Esa. 32, 17.

4. Kap. I.) Postulinn varar vid deilum v. 1 — 4.
II.) Rædur til lítillætis og audmýktar
v. 5 — 12. III.) Varar vid sjálfbyrg-
íngsskap v. 13 — 17.

1. Af hverju koma stríd og bardagar á medal yd-
ar? af hverju ødru enn af ydar girndum, sem
2. * strída í ydar limum. Þér girnist og fáid ecki;
þér drepid og øfundid og ávinnid þó eckert; þér
berjist og strídid og fáid þó ecki, af því þér bid-
3. jid ecki. Þér * bidjid og ødlist þó ecki, af því þér
bidjid ílla, til þess ad þér gétid sóad því í ydar
4. býlífi. Þér hórdóms menn og hórkonur! vitid
þér ecki, ad * vinátta heimsins er óvinátta Guds?
þess vegna, hverr, sem vill vera vinur heimsins,
hann verdur óvinur Guds.
5. Eda haldid þér, ad Ritníngin tali forgéf-
ins: sá andi, sem í oss býr, leidir hann til
6. øfundar? nei, hann * géfur meiri nád; því seg-
ir (Ritníngin): * Gud mótstrídir dramblátum,
7. en lítillátum géfur hann nád. Verdid því und-
irgéfnir Gudi, * standid móti djeflinum og þá
8. mun hann flýa frá ydur. * Nálægid ydur Gudi
og þá mun hann nálægja sig ydur. * Hreinsid
hendur ydar, þér, syndarar! og gjørid flecklaus
9. ydar hjørtu, þér tvílyndu! Verist ílla af (ver-
id aumir), syrgid og grátid; ydar hlátur umbreyt-
10. ist í sorg og gledin í hrigd. * Audmýkid ydur fyr-

V. 1. * Róm. 7, 23. 1 Pét. 2, 11.
V. 2. * Job. 27, 9. V. 4. * Jóh. 15, 19. 17, 24.
V. 5. * Eph. 2, 4. 7. V. 6. * Job. 22, 29. Ps. 138, 6.
V. 7. * Eph. 4, 27. 6, 12. fl.
V. 8. * Jer. 15, 19. * Esa. 1, 16.
V. 10. * Job. 22, 29. * Lúk. 14, 11.

ir Drottni, hann mun upphefja ydur. * Hallmæl- 11.
id ecki hverr ødrum, brædur minir! sá, sem hall-
mælir bródur sínum og * dæmir hann, sá hall-
mælir løgmálinu og dæmir þad; en ef þú dæm-
ir løgmálid, þá ertú ecki løgmálsins gjørari, held-
ur dæmari. Einn er løggjafinn og dómarinn, sá 12.
sem kann ad frelsa og tortýna. En hverr ertú,
sem dæmir annann?

Heyrid nú, * þér, sem segid: í dag og á 13.
morgun skulum vér ferdast til þessarar borgar,
og dvelja þar eitt ár og kaupslaga og græda,
(þér, sem * ecki vitid, hvad á morgun verdur; 14.
því * hvílíkt er ydvart líf? gufa, sem sjest um-
stund, en hverfur sídan), í stad þess þér ættud ad 15.
segja: * ef Drottinn vill, munum vér bædi lifa
og gjøra þetta eda hitt. En nú stærid þér yd- 16.
ur í ydar oflátúngsskap; allt slíkt * stærilæti er
vondt. Hverr, * sem því hefir vit á gott ad gjøra 17.
og gjørir þad ecki, honum er þad synd.

## 5. Kap.

I.) Postulinn varar vid rángsleitni og sællífi, sem audmønnum er hætt vid v. 1—6.
II.) Upphvør til stødugl yndis v. 7—11.
III.) Ad vera eid-var v. 12. IV.) Krapt-



V. 11. * 3 Mós. b. 19, 16. * Matth. 7, 11. Róm. 2, 1.
V. 13. * Lúk. 12, 18.
V. 14. * Ordsqv. b. 27, 1. Lúk. 12, 20. * Esa. 40, 6.
1 Cor. 7, 31.
V. 15. * Post. G. b. 18, 21. 1 Cor. 4, 19.
V. 16. * 1 Cor. 5, 6. V. 17. * Lúk. 12, 47.

ur bænarinnar v. 13—18. V) Leidrétting þess frávillta 19—20.

1. Heyrid nú, þér * ríku! grátid og qveinid yfir
2. þeim eymdum, sem yfir ydur munu koma. Ydar * audur er fúnadur og ydar klædi ordin mel-
3. jetin. Ydar gull og silfur er ordid rydbrunnid
og rydid á því skal vera ydur vitni og eta ydar
hold sem eldur; þér hafid * fjársjódum safnad
4. á sídustu døgunum. Sjá! * launin, sem þér haf-
id dregid af verka-mennunum, sem hafa slegid
ydar lønd, hrópa og køll kornskéru-mannanna
5. eru komin til eyrna Drottins allsherjar; þér
* hafid lifad í sællífi og * vellystingum á jørd-
unni; þér hafid alid ydar hjørtu, eins og * á
6. skurdardegi. Þér hafid dæmt til dauda og
drepid hann réttláta, hann * stendur ecki á móti
ydur; * þreyid því, brædur mínir! þar til Drott-
inn kémur.
7. Sjá! akuryrkju-madurinn væntir jardar-
innar dýrmæta ávaxtar, en þreyir þó þar til
8. hann fær morgun- og qveld-døggina. Þreyid
og þér, styrkid ydar hjørtu, því * tilkoma
9. Drottins er nálæg. Qvartid ecki hverr yfir
ødrum, brædur mínir! svo þér ecki verdid dæmd-

V. 1 * Ordsqv. b. 11, 28. Amos 6, 1. 1 Tím. 6, 9.
V. 2. * Matth. 6, 19. V. 3. * Róm 2, 5.
V. 4. * 3 Mós. b 19, 13. 5 Mós b. 24, 14. Job 24, 10. 11.
V. 5. * Luk. 16, 19—25. * 1 Tim. 5, 6. * Esa. 22, 13. * Ezech. 39, 17. V 6. * Matth. 5, 39.
V. 7. * Luk. 21, 19. Hebr. 10, 36. * 3 Mós. b. 26, 4. 5. 5. Mós. b. 11, 14.
V. 8. * 1 Cor. 10, 11 Phil. 4, 5.
V. 9. * Matth. 24, 33.

ir; sjá! dómarinn * stendur fyrir dyrunum.
Brædur mínir! takid Spámennina, sem talad 10.
hafa í Drottins umbodi, til eptirdæmis uppá
* þad ad líða íllt med þolinmædi. Sjá! vér 11.
prísum þá sæla, sem þolgódir eru; þér hafid
heyrt þolgædi * Jobs og vitid hver endalok
Drottinn þar á gjørdi; því Drottinn * er harla
miskunsamur og vorkunlátur.

En * umfram allt, brædur mínir! sverjid 12.
hverki vid himininn né vid jørdina, né nockurn
annann eid; ydar * já sé já og ydar nei sé
nei, svo þér komid ecki undir dóm.

Egi einhverr bágt ydar á medal, þá bidji 13.
hann; * gángi honum vel, þá sýngi hann (lof); sé 14.
einhverr ríkur ydar á medal, þá kalli hann til
sín øldúnga safnadarins og þeir skulu bidja fyr-
ir honum og * smyrja hann vidsmjøri í nafni
Drottins. Og * bæn trúarinnar mun frelsa 15.
þann sjúka og Drottinn mun reisa hann á fæt-
ur og þó hann hafi syndir drýgt, mun honum
fyrirgéfid verda. * Játid hverr fyrir ødrum 16.
ydar yfirsjónir og * bidjid hverr fyrir ødrum, svo
þér heilbrygdir verdid. * Mikid megnar * krept-
ug bæn góds manns. Elías * var madur líkur 17.



V. 10. * Matth. 5, 12.
V. 11. * Matth. 5, 11. * Job 1, 21. 22. * Ps. 103, 8.
V. 12. * Matth. 5, 34. fl. * 2 Cor. 1, 17. 18.
V. 13. * Eph. 5, 19. Cól. 3, 16.
V. 14. * 1 Makkab. b. 6, 13. 16, 18.
V. 15. * Psálm 30, 3. 2 Makkab. b. 2, 32. fl.
V. 16. * 4 Mós. b. 5, 7. * 1 Thess. 3, 1. * Ordsqv. b. 15, 29. * Psálm. 145, 18.
V. 17. * Post. G. b. 14, 15.

oss ad háttum og þó * bad hann med bæn ad
ecki skyldi rigna og þá rigndi ecki yfir landid í
18. þrjú ár og sex mánudi. Og þá hann * bad aptur, gaf Himininn regn og jordin bar sinn ávöxt.
19. Brædur mínir! ef nockurr medal ydar *
villist frá sannleikanum og einhverr umvendir
20. honum, þá skal hann vita, ad hverr, sem * snýr
syndaranum frá villu hans vegar, mun frelsa
sálu frá daudanum og * hylja fjølda af syndum.

# S. Péturs fyrri Pistill.

**1. Kap.** I.) Postulinn óskar þeim kristnu í Asíu v. s. v. nádar og fridar v. 1—2. II.) Upptelur nockra kristilegrar vonar og trúar lærdóma v. 3—12. III.) Aminnir þá kristnu til heilags, kjærleiksfulls lifernis og fastheldni vid Guds ord v. 13—25.

1. Pétur, Postuli Jesú Krists, þeim útlendíngum, sem * hvervetna tvístradir eru út um Pon-

V. 17. * 1 Kóng. b. 17, 1. Sir. 48, 2. 3.
V. 18. * 1 Kóng. b. 18, 41. fl.
V. 19. * Matth. 18, 15. Gal. 6, 1. 1 Thess. 5, 14.
V. 20. * Psálm. 51, 15. * Ordsqv. b. 10, 12. 1 Pét. 4, 8.
V. 1. * Jóh. 7, 35. Jak. 1, 1.

tus og Galataland, Kappadosíu, Asíu og Bi- 2.
thyníu, hverjir eptir Guds Födurs * fyrirhygg-
ju kjörnir eru fyrir helgun andans til ad
vera hlýdnir Jesú Kristi og hreinsadir med hans
* blódi, * margfaldist ydur nád og fridur!
* Lofadur veri Gud og Fadir vors Drott- 3.
ins Jesú Krists, sem eptir * mikilli miskun sinni
hefir * endurfædt oss til lifandi vonar fyrir Je-
sú Krists upprisu frá daudum, til óforgengilegr- 4.
ar, óflekkadrar og * óvisnanlegrar arfleifdar, sem *
geymd er ydur á himnum, hverja máttugur 5.
Gud vardveitir, fyrir trúna til þess frelsis,
sem víst mun * opinberlega rætast seinna meir.
* Gledjist af þessu, þótt þér enn þá stundarkorn 6.
(ef svo skyldi ské) mædast verdid í margskyns
raunum, til þess ad * reynsla ydar trúar sann- 7.
ist lángtum dýrmætari * enn gullsins, (sem eyd-
ist þó þad sé ádur reynt í eldi) og verdi ydur
til hróss, vegs og vyrdíngar, þegar Jesús Krist- 8.
ur * opinberast, hvern þér elskid, þótt * ekki
hafid þekt hann; á hvern þér trúid, þótt enn
þá ekki hafid sjed hann; þér fagnid med óum-
rædanlegri og dýrdlegri gledi, þegar þér berid 9.
úr býtum laun ydar trúar, sálnanna frelsi. Ept- 10.

---

V. 2. * Róm. 8, 29. * Hebr. 12, 24. * 2 Pét. 1, 2. Júd. v. 2.
V. 3. * 2 Cor. 1, 3. * Eph. 1, 3. * Jóh. 3, 3.
V. 4. * Kap. 5, 4. * Cól. 1, 5. 2 Tím. 1, 12.
V. 5. * Cól. 3, 4.
V. 6. * Róm. 5, 3. 2 Cor. 4, 17. 1 Pét. 4, 12. 13.
V. 7. * Jak. 1, 3. * Esa. 48, 10. Ordsqv. b. 17, 3. Sir. 2, 5. 1 Cor. 3, 13. 1 Pét. 4, 12. * Cól. 3, 4.
V. 8. * 2 Cor. 5, 7. 1 Jóh. 4, 20. Hebr. 11, 27.

ir þessu frelsi hafa * Spámennirnir grandgæfi-
lega leitast, já, grenslast þegar þeir voru ad spá
11. fyrir um þá náð, sem ydur mundi ské og skygn-
ast um á hverjum eda hvílíkum tíma þad mundi
rætast, sem * sá Krists andi, er med þeim var,
* vottadi fyrirfram um píníslir þær, sem liggja
mundu fyrir Kristi og þá vegsemd, sem honum
12. eptir þær væri ætlud. Þeim var þad opinber-
ad, ad þeir gegnudust ecki svo * sjálfum sér,
sem oss í því, sem ydur er nú þegar kunngjert
af þeim, sem hafa bodad ydur Evangelíum *
fyrir heilagann Anda, er sendur var af himn-
um ofan, inní hvert jafnvel * Englana fýsir
ad skygnast.
13. Þar fyrir * gyrdid ydar hugskots lendar,
verid * varhygdarsamir og setjid algjerlega von
ydar til þeirrar nádar, sem ydur veitist í opin-
14. berun Jesú Krists. Eins og * hlýdin børn, *
hagid ydur ecki eptir fyrri fýsnum í * vanvitsku
15. ydar, heldur eptir þeim heilaga, sem ydur hefir
* kallad, verid þér einnig * heilagir í øllu ydar
16. dagfari; því svo er ritad: * verid heilagir, því

---

V. 10. * 1 Mós. b 49, 10. Dan. 2, 44. 9, 24. Hagg. 2, 9. Zach. 6, 12. Matth. 13, 17.

V. 11. * 2 Pét. 1, 21 * Psálm. 22, 7. Esa. 53, 3. Dan. 9, 26. Luk. 24, 26.

V. 12. * Dan. 12, 9. 13. Hebr 11, 13. 29. Post. G. b. 2, 4. * Eph. 3, 10.

V. 13. * Lúk. 12, 35. Eph. 6, 14 * Luk. 21, 34. Róm. 13, 13.

V. 14. * Eph 5, 1. * Róm. 12, 2. * Post. G. b 17, 30.

V. 15. * 2 Tim 1, 9. * Luk. 1, 75 2 Cor. 7, 1.

V. 16. * 3 Mós. b. 19, 2 20, 7.

*eg em heilagur.* Og fyrst þér * ákallid, * Fød- 17.
urinn, sem án manngreinar álits dæmir hvern
eptir sínum tilverknadi, svo * hagid ydru dag-
fari um ydar útlegdar tíma med * andvara og 18.
vitid, ad þér * ecki erud med forgengilegum
munum, gulli eda silfri endurleystir frá því hé-
gómlega athæfi, er þér numdud af fedrum ydar,
heldur med * dýrmætu blódi Krists, svo sem * 19.
óflekkads og lýtalauss lambs, sem ad sennu * 20.
ádur fyrir veraldarinnar grundvøllun var til þess
kjørinn, en birtist * á þessum sídustu tímum
ydar vegna; ydar, sem fyrir hann trúid á Gud, 21.
hverr ed * reisti hann upp frá daudum og sæmdi
hann * vegsemd, til þess ad ydar trú og von
væri á Gud. Fyrst þér nú hafid med hlýdni vid 22.
sannleikann * hreinsad ydar sálir fyrir andann
til * følskalausrar brædra-elsku, svo elskid hverr
annann innilega af hreinu hugarþeli. Þér, 23.
* sem erud endurbornir, ecki af forgengilegu *
sædi, heldur óforgengilegu, med ordi Guds lif-
anda og sem varir til eilífdar. Því ad * allt 24.
hold er, sem gras og øll dýrd mannsins sem gras-

---

V. 17. * Matth. 6, 9. * 5 Mós. b. 10, 17. 2 Chron. 19, 7. * 2 Cor. 5, 6. * Phil. 2, 12.
V. 18. * 1 Cor. 6, 20. 7, 23.
V. 19. * Post. G. b. 20, 28. Hebr. 9, 12. 14. Opinb. b. 1, 5. 5, 9. * Jóh. 1, 29. 36. Hebr. 7, 26.
V. 20. * Róm. 16, 25. Eph. 1, 9. 3, 9. * Gal. 4, 4.
V. 21. * Post. G. b. 2, 24. * Phil. 2, 9.
V. 22. * Jak. 4, 8. * Róm. 12, 10. Hebr. 13, 1. 1 Tím. 1, 5.
V. 23. * Jóh. 1, 13. Jak. 1, 18. * 1 Jóh. 3, 9.
V. 24. * Psálm. 102, 12. Esa. 40, 6. 7. Jak. 1, 10. 11.
V. 25. * Matth. 5, 18. Lúk. 21, 33.

25. blómstur; grasid skrælnar upp og þess blómstur
fellur af, en * ordid Drottins varir ad eilífu og
þetta er þad ord, sem ydur er kunngjert.

2, Kap. I.) Ad þeir, svo sem trúadir, séu fastir vid Krists lærdóm v. 1—10. II.) Forðist holdlegar girndir, hlýdi yfirvaldinu og séu í ollu rádvandir v. 11—17. III.) Kénnir hver sé skylda þjénustu-fólks v. 18—25.

1. * Leggid því af alla íllmennsku og allt undir-
2. ferli og hræsni og ofund og alla bakmælgi; sæk-
ist eins og nýfædd * born, eptir enni skynsam-
legu óméingudu * mjólk, svo þér þroskist af henni,
3. ef þér hafid annars * smackad hve Drottinn er
4. ljúfur, til hvers þér erud komnir svo sem til
* lifanda steins, hverr ad sonnu er * af menn-
um burtsnaradur, en hjá Gudi útvalinn dýrmæt-
5. ur. Verdid líka sjálfir (eins og) lifandi stein-
ar * uppbygdir til ad vera andlegt hús, heilagt
* Prestsdæmi, til ad frambera * andlegar fórnir,
6. Gudi þacknæmar, vegna Jesú Krists; þarfyrir
stendur þetta líka í Ritníngunni: * sjá eg legg
á Zíon hyrníngar-stein, útvalinn dýrmætann
og hverr, sem trúir á hann, mun ecki verda til

V. 1. * Eph. 4, 22. 25. Cól. 3, 8. Hebr. 12, 1. Jak. 1, 21.
V. 2. * Matth. 18, 3. 1 Cor. 14, 20. * Hebr. 5, 13.
V. 3. * Psálm. 34, 9.
V. 4. * Eph. 2, 20. * Matth. 21, 42.
V. 5. * Eph. 2, 21. * Esa. 66, 21. Opinb. b. 1, 6. * Hós. 14, 3. Mal 1, 11. Róm. 12, 1.
V. 6. * Esa. 28, 16. Róm. 9, 33.

skammar. Hann, ydar, sem trúid, dýrmæti, en 7.
hinum, er ecki trúdu, sá * steinn, hverjum bygg-
endur burtsnerudu, hann er ordinn ad hyrníng-
ar-steini, ad * ásteitíngar steini og hrefunar hellu.
Þeir hrefudu, sem ecki vildu trúa ordinu, hvar 8.
til þeir og vóru settir. En þér erud * útvalid 9.
kynferdi, * konúnglegt Prestsdæmi, heileg þjód,
* ódals fólk, er skyldud kunngjøra hans velgjørd-
ir, sem * kalladi ydur úr mirkrinu til síns ad-
dáanlega ljóss; þér, sem fordum * eckert fólk 10.
vórud, en erud nú Guds fólk; þér, sem ecki
vórud miskunar adnjótandi, en hafid nú misk-
un hlotid.

Þér ástkjæru! eg áminni ydur, sem *adkomu- 11.
menn og útlendínga, ad þér * haldid ydur frá
holdlegum girndum, hverjar í gégn sálunni strída.
Hafid * góda umgengni medal heidíngja, svo 12.
ad * þeir, midt í því þeir hallmæla ydur, sem
íllvirkjum, þegar þeir adgjæta ydar * gódu verk,
dýrki Gud á vitjunar degi. Verid * undirgéfn- 13.
ir allri mannlegri tilskipun, Drottins vegna,
hvert heldur Konúnginum, svo sem enum ypp- 14.
arsta, edur Landstjórnurum, svo sem þeim, er
af honum útsendast, til refsíngar íllvirkjum, en

V. 7. * Psálm. 118, 22. Post. G. b. 4, 11. * Esa. 8, 14. Lúk. 2, 34.
V. 9. * 2 Mós. b. 19, 6. 5. Mós. b. 7, 6. * Opinb. b. 5, 10. 20, 6. * Tít. 2, 14. * Esa. 43, 21. * Cól. 1, 13.
V. 10. * Hós. 2, 23. Róm. 9, 25.
V. 11. * Hebr. 11, 13. 13, 14. Róm. 13, 14.
V. 12. * Róm. 12, 17, 2 Cor. 8, 21. Phil. 2, 15. Hebr. 13, 18. * 1 Pét. 3, 16. Tít. 2. 8. * Matth. 5, 16.
V. 13. * Róm. 13, 1. Tít. 3, 1.

15. * umbunar þeim, sem vel breyta; því sá er vilji
Guds, ad þér * med gódri breytni nidurþagg-
16. id vanvitsku qvis heimskíngja. Svo sem * frjálsir,
ir, en ecki eins og þér hefdud frelsid íllskunni
til yfirhylmíngar, heldur svo sem Guds þjónustu-
17. menn; * vyrdid alla; * elskid brædurnar; * óttist
Gud; * heidrid Konúnginn!
18. Þér, * þjónustu-menn! verid undirgéfnir
húsdrottnum (ydar) med allri óttasemi, ecki ein-
úngis þeim gódu og gjæfu, heldur einnig þeim
19. sérlundudu; því þad er *þockasælt, ef einhverr
af samvitskusemi fyrir Guds sakir umber mis-
20. þyrmíngar, lídi hann sikn-saka; því hvada hrós
er þad, þó þér þolugir lídid sleg þau, er þér
hafid tilunnid, en * ef þér breytid vel og er-
ud svo þolgódir undir því, sem þér verdid ad
21. lída, þad (ávinnur) nád hjá Gudi; því þar
til erud þér kalladir, med því Kristur hefir
einnig * lidid fyrir oss og géfid oss * eptirdæmi,
22. til þess þér skyldud feta í hans fótspor; * hverr
ed enga synd gjerdi og engin svik fundust í hans

---

V. 14. * Róm. 13,3. 4.
V. 15. * Kap. 3, 9. Tít. 2, 8.
V. 16. * Jóh. 8, 32. Róm. 6, 18. 1 Cor. 7, 22. 8, 9.
Gal 5, 1. 13. 2 Pét. 2, 19.
V. 17. * Róm. 12, 10. Phil. 2, 3. * 2 Pét. 1,7. * Ordsqv.
b. 24, 21. * Matth. 22, 21.
V. 18. * Eph. 6, 5. Tít. 2, 9.
V. 19. * Matth. 5, 10.
V. 20. * Kap. 3, 14. 17. Kap. 4, 14.
V. 21. * Kap. 3, 18. * Matth. 11, 29. 16, 24. Jóh. 13,
5. Phil. 2, 5. 1 Jóh. 2, 6.
V. 22. * Esa. 53, 9. Jóh. 8, 56. 2 Cor. 5, 21.

munni; hverr ed ecki * formælti í móti, þá honum 23.
var formælt, ecki ógnadi þegar hann leid, en gaf
(málefni sitt) honum á vald, er rétt dæmir: hverr 24.
ed sjálfur * bar vorar syndir á sínum líkama
uppá tréd, til þess ad vér, * daudir frá synd-
unum, lifdum réttlætinu, fyrir hvers undir þér
erud læknadir. Því þér vórud eins og * villu- 25.
ráfandi saudir, en erud nú aptur snúnir til
hyrdis og biskups ydvarra sálna.

I.) Skylda hjónanna v. 1—7. II.) Upp- 3 Kap.
hvatning til dygdugs lifernis v. 8—22.

Sömuleidis, þér * konur! verid undirgéfnar yd- 1.
var ektamennum, svo ad, ef nockrir væru, sem
* ecki vildu trúa ordinu, þeir þó kynnu án ords-
ins ad láta sig vinna fyrir umgengni qvennanna;
þegar þeir sæu ydar skírlífu umgengni í ótta 2.
(Drottins); hverra * skart ecki sé útvortis í 3.
hárfléttun og gull-leggíngum eda klædaburdi, held- 4.
ur * hjartans hulinn madur í óforgengilegu
(skarti) hógværdarinnar og kyrrlætis anda, hvert
dýrt er metid í Guds augsýn. — Þannig prýddu 5.
sig einnig fordum heilagar konur þær, er von-
udu á Gud og vóru sínum ektamennum und-
irgéfnar, svo sem Sara, er var hlýdin Abra- 6.

V. 23. * Esa. 53, 7. Jóh. 8, 44. 49. 1 Pét. 3, 9.
V. 24. * Esa. 53, 4. * Róm 7, 6. 6, 2. 11.
V. 25. * Psálm. 119, 176 Esa. 53, 6. Ezech. 34, 6. 37, 24. Luk. 15, 4. Jóh. 10, 11. Hebr. 13, 20.
V. 1. * Eph. 5, 22. Tit. 2, 5. * 1 Cor. 7, 16.
V. 3. * 1 Tim. 2, 9. Tit. 2, 3.
V. 4. * Psálm. 45, 14. Róm. 2, 24. 7, 22. 2 Cor. 4, 16.

ham og kalladi hann * Herra; hverrar dætur
þér erud ordnar, þegar þér hegdid ydur vel og
7. hrædist ecki neina skélfíngu. Líka einnig þér
* ektamenn! búid vid þær med skynsemi, eins
og (hlýdir) því veikara qvennlega kyni og aud-
sýnid þeim vyrdíngu, eins og þeim, sem líka
eru samarfar lífsins nádar-gáfu, svo ad ydar
bænagjordir ecki hindrist.
8. En yfir höfud verid allir * samhuga, medlíd-
unarsamir, bródurlegir, * miskunsamir, ljúflyndir
9. * Endurgjaldid ecki íllt med íllu, ecki skammaryrdi
med skammaryrdi, heldur blessid í þess stad og vitid
ad þér erud til þess kalladir, ad þér * blessun erfid.
10. Því sá, sem vill * elska lífid og njóta gódra daga,
hann haldi túngu sinni frá vondu og sínum vörum
11. ad ecki tali slátt; hann * sneidi sig hjá vondu
og gjeri gott, * leiti fridar og fylgi honum ept-
12. ir. Því * augu Drottins eru til réttlátra og
hans eyru til þeirra bæna, en andlit Drottins
13. er í móti þeim, sem íllt adhafast. Og hverr er
sá ydur géti grandad, ef þér eptirfylgid hinu

---

V. 6. * 1 Mós. b. 18, 12.
V. 7. * Eph. 5, 25. 1 Cor. 7, 3.
V. 8. * Róm. 12, 16. 15, 5. 1 Cor. 1, 10. Phil. 2, 2. 3, 16. * Lúk. 6, 36.
V. 9. * 3 Mós. b. 19, 18. Ordsqv. b. 20, 22. Matth. 5, 39. Róm. 12, 17. 1 Thess. 5, 15. * Matth. 25, 34.
V. 10. * Psálm. 34, 13. Jak. 1, 26. 3, 6.
V. 11. * Psálm. 37, 27. Esa. 1, 16. 17. 3 Jóh. v. 11. * Hebr. 12, 14.
V. 12. Psálm. 33, 18. * 2 Thess. 1, 9.

góda og þó þér * lída yrdud fyrir réttlætis sak- 14.
ir erud þér samt sælir, * hrædist ecki þeirra
ógnun og skélfist ecki, en helgid Drottinn Gud 15.
í ydar hjörtum; verid jafnan reidubúnir med
hógværd og * vyrdíngu * ad forsvara ydur
fyrir hverjum (manni), sem krefur af ydur skil
fyrir þeirri von, sem í ydur er og hafid góda sam- 16.
vitsku, ad þeir, sem * hallmæla ydar góda kristi-
lega framferdi, verdi til skammar fyrir þad
þeir atyrda ydur á bak eins og íllvirkja; því 17.
* þad er betra, ef Gud vill svo vera láta, ad
þér lídid fyrir góðverk enn fyrir íllverk; þvíad 18.
* Kristur leid og svo einusinni fyrir (vorar) synd-
ir, hinn réttláti * fyrir ránglata; til þess hann
fengi greidt oss veg til Guds, var hann * deydd-
ur eptir holdinu, en lifandi gjördur eptir and-
anum, í hverjum hann einnig er burtgenginn 19.
og hefir prédikad þeim í vardhaldi (verandi)
öndum, er fordum höfdu verid óhlýdnir, þegar 20.
Guds * þolinmædi bidleikadi vid á Nóa dög-
um medan örkin var í smídum, í hverju * fá-
ar, þad er: átta sálir frelsudust í gégnum vatn-
id; hvers eptirmind * skírnin gjörir oss nú 21.

---

V. 14. * Matth. 5, 10. 1 Pét. 2, 20. * Es. 8, 12. 13. 51, 12. Jer. 1, 8. Matth. 10, 28.
V. 15. * Phil. 2, 12. Psálm. 119, 46. Post. G. b. 4, 8.
V. 16. * Kap. 2, 12. 15. 19.
V. 17. * Kap. 2, 20.
V. 18. * Kap. 2, 21. Hebr. 9, 28. * Róm. 5, 6. * 1 Cor. 13, 4.
V. 20. * 1 Mós. 6, 3. 14. Róm. 2, 4. * 2 Pét. 2, 5.
V. 21. * Mark. 16, 16. Eph. 5, 26. Tit. 3, 5.

hjálplega og er hún ecki burtnám saurinda af
líkamanum, heldur sáttmáli góðrar samvitsku við
22. Guð fyrir upprisu Jesú Krists; hverr eð í
himininn uppfarinn er Guði * til hægri hand-
ar og Englarnir og valdin og kraptarnir eru
honum undirgéfnir.

## 4. Kap. Áminníng að afleggja lesti, ydka mannkosti og líða þolinmódlega ofsóknir v. 1—19.

1. Fyrst Kristur hefir * fyrir oss liðið í holdinu,
svo útbrynjið ydur einnig með * sama sinni,
(því að sá, sem líður á holdinu, * hann hefir
2. látið af syndinni) að þér ecki framar, það eptir
er æfinnar í holdinu, lifið mannanna girndum,
3. heldur * Guðs vilja. Nóg er aðgjört, að vér
undanfarinn lífs tíma framið höfum heiðíng-
janna vilja, þegar vér lifðum í lausúng, losta-
semdum, vínsvalli, ofáti, ofdryckjum og svívyrði-
4. legum skurðgóða-dýrkunum, af hverju þeir
furða sig yfir að þér ecki viljið hlaupa með úti
5. sama óhófs foræði og útníða ydur; en þeir * ega
að gjöra honum reikníngsskap, sem reiðubúinn
6. er að * dæma lifendur og dauða. Því þar fyr-
ir er Evangelíum og svo kunngjört * þeim dauðu,

V. 22. * Róm. 8, 34. Eph. 1, 20. fl.
V. 1. * Kap. 2, 21. * Phil. 2, 5. * Róm. 6, 7. Hebr. 12, 1.
V. 2. * Róm. 14, 7. 2 Cor. 5, 15. Gal. 2, 20. Hebr. 9, 14.
V. 3. * Eph. 4, 17. 18.
V. 5. * 2 Cor. 5, 10. * Post. G. b. 10, 42. 2 Tím. 4, 1.
V. 6. * Jóh. 5, 25.

ad þeir ad sonnu dæmdir verdi af mennum á
holdinu, en samt lifi Gudi med andanum; en 7.
allra hluta endir *nálægist; verid því *hóssam-
ir og árvakrir til bænanna; en umfram alla hluti,
hafid innilegann kjærleika hverr til annars, því 8.
ad *kjærleikurinn mun hylja fjølda synda. *Ver- 9.
id gestrisnir innbyrdis *án møglunar; eptir því, 10.
sem hverr hefir þegid *gáfu til, þjóni hverr ødr-
um þar med, eins og gódir *rádsmenn yfir
Guds *margvíslegu nád. Hverr, sem *kénn- 11.
ir, (kénni) svo sem Guds ord; hverr, sem þjón-
ar (Embætti) þjóni eptir þeirri orku, sem Gud
gefur, svo í ellum greinum verdi Gud dýrkadur
fyrir Jesúm Krist, hverjum (tilheyrir) dýrd
og veldi um aldir alda. Amen!

Þér ástkjæru! *látid ydur ecki undra þann 12.
bruna, sem *skédur ydur til reynslu, eins og
ydur hendi nockud fáheyrt; heldur gledjid ydur 13.
svo sem *takandi hlutdeild í Krists pínslum, til
þess ad þér einnig í opinberun hans dýrdar,
mættud fagnandi gladir vera. Þó þér vanvyrdt- 14.
ir verdid fyrir nafnid Krists, erud þér *sæl-
ir, þvíad dýrdarinnar og Guds andi hvílir
yfir ydur, sem ad sonnu af hinum er lastadur,

---

V. 7. * 1 Cor. 10, 11. Phil 4, 5. 2 Pét. 3, 9. 1 Jóh. 2, 18. Hebr. 10, 25. * Róm. 13, 13. 1 Pét. 5, 8.
V. 8. * Ordsqv. b. 10, 12. Jak. 5, 20.
V. 9. * Hebr. 13, 2. Róm 12, 13. Jóh. 6, 43. Phil. 2, 14.
V. 10. * Róm. 2, 6. 1 Cor. 12, 4. * Matth. 25, 14. Lúk. 11, 42. Tit. 1, 7. * 2 Cor. 8, 11. Eph. 4, 11.
V. 11. * Róm. 12, 6. fl. 2 Cor. 2, 17. * Kap. 5, 11.
V. 12. * Jak. 1, 2. * Es. 48, 10. 1 Cor. 3, 13.
V. 13. * Matth. 5, 10. Post. G. b. 5, 41.
V. 14. * Kap. 2, 20. Matth. 5, 11.

15. eh af ydur vegsamadur. Enginn ydar lídi svo
sem manndrápari, þjófur eda íllvirki, eda sem
16. annarlegur njósnari; en ef hann lídur sem krist-
inn, þá fyrirverdi hann sig ecki, heldur * veg-
17. sami Gud í slíku tilfelli; því tíminn er * ad
dómurinn birjist á Guds húsi, en birjist hann
fyrst á oss, hver munu þá afdrif verda þeirra,
18. sem ecki trúa Guds Evangelio og ef sá * rétt-
láti frelsast varla, hvar mun þá hinn ógudlegi
19. og syndarinn birtast? Þar fyrir skulu og þeir,
sem lída eptir Guds vilja, * fela honum, svo
sem trúfostum Skapara, þeirra sálir á hendur,
med gódum verkum.

## 5. Kap. I.) Postulinn talar um skyldu Öldúnganna og hinna yngri v. 1—5. II.) Og svo allra manna v. 6—9. III.) Gódar óskir og heilsanir v. 10—14.

1. Öldúngana medal ydar áminni eg sam-old-
úngur og vottur * ad Krists pínslum, eg sem
og svo er hluttakari þeirrar * dýrdar, sem sídar
2. mun opinberast. Alid * Guds hjord, sem hjá
ydur er og gjætid hennar ecki * naudugir, held-
ur sjálfviljugir, ecki * fyrir skammarlegs ábata

V. 15. * 1 Thess. 4, 11.
V. 16. * Jóh. 21, 19.
V. 17. * Es. 10, 12. Jer. 25, 29. 49, 12. Ezech. 9, 6. Lúk. 23, 31.
V. 18. * Lúk. 23, 13. Ordsqv. b. 11, 13.
V. 19. * Psálm. 31, 6. Lúk. 23, 46.
V. 1. * Lúk. 24, 48. Opinb. b. 1, 9. * Róm. 18, 8.
V. 2. * Post. G. b. 20, 28. * 1 Tim. 3, 1. * Tít. 1, 11.

sakir, hèldur med fúsum hüga; ecki svo sem þeir, 3.
er * vilja drottna yfir arfleifd (Drottins,) held-
ur verid * fyrirmind hjardarinnar, svo munud 4.
þér, þegar * hinn ædsti hyrdir birtist, * óvisnan-
lega dýrdarinnar kórónu ödlast; sömuleidis, þér 5.
yngri, verid Öldúngunum undirgéfnir.
En verid * allir hverr ödrum undirgéfnir
og íklýdist lítillætinu, því ad Gud * mótstend-
ur dramblátum; en lítillátum géfur hann nád.
Þar fyrir * lítillækid ydur undir Guds völdugu 6.
hönd, ad hann upphefji ydur á sínum tíma.
Allri ydar * áhyggju varpid uppá hann, því 7.
ad hann * ber umhyggju fyrir ydur; * verid 8.
gjætnir, vakid, því ydar * mótstandari djöfull-
inn gengur um kríng sem grenjandi ljón. leit-
andi (þess) hvern hann svelgi. * Mótstandid 9.
honum fastir í trúnni og vitid, ad sömu naudir
fyrirhitta ydar brædur í heiminum.
En sá Gud allrar nádar, sem oss hefir kall- 10.
ad til sinnar eilífu dýrdar í Kristi Jesú, eptir ad

T

V. 3. * 1 Cor. 3, 5. 2 Cor. 1, 24. * Phil. 3, 17. 1 Tim. 4, 12. Tit. 2, 7.
V. 4. * Esa. 40, 11. Ezech. 34, 23. Jóh. 10, 11. Hebr. 13, 20. * 1 Pét. 1, 4. 1 Cor. 9, 25. 2 Tim. 4, 8. Jak. 1, 12.
V. 5. * Róm. 12, 10. Eph. 5, 21. Phil. 2, 3. * Jak. 4, 6. Ordsqv. b. 3, 34. Lúk. 14, 11.
V. 6. * Jób. 22, 29. Jak. 4, 10.
V. 7. * Psálm. 37, 5. 55, 23. Matth. 6, 25. Lúk. 12, 22. * Psálm. 48, 18.
V. 8. * Lúk. 21, 36. 1 Thess. 5, 6. * Lúk. 22, 31. Jób. 1, 7.
V. 9. * Eph. 4, 27. Kap. 6, 11. 13. 16. Jak. 4, 7.

vér hefum * lidid um lítinn tíma, hann sjálf-
ur fullkomni ydur, * styrki, * efli og stadfesti;
11 honum sé * dýrd og veldi um aldir alda, Amen!
12. Med Sylvanus, ydar (ad eg meina) trúfasta
bródur, hefi eg fátt eitt skrifad, áminnt og vitn-
ad, ad þetta er sú sanna Guds nád, í hverri
13. þér standid. Ydur heilsar sá í Babylon sam-
valdi (sefnudur) og minn sonur * Markús.
14. * Heilsid hverr ødrum med kjærleiks kossi. Frid-
ur sé med ydur øllum, sem erud í Kristi Je-
sú! Amen!

# S. Péturs sídari Pistill.

I. Kap. I.) Postulinn óskar þeim trúudu nádar v. 1—4. II.) Aminnir til dygda v. 5—15. III.) Sýnir trúverdugleika sinnar kenningar v. 16—21.

1. Símon Pétur, þjón og Postuli Jesú Krists,
þeim, sem med oss hafa hlotid þá * somu dýr-

V. 10. * 2 Cor. 4, 17. Hebr. 10, 37. 1 Pét. 1, 6. * 2 Thess. 3, 3. * Cor. 1, 21.
V. 11. * Hebr. 13, 21. V. 13. * Post. G. b. 12, 12.
V. 14. * Róm. 16, 16. 1 Cor. 16, 20. 2 Cor. 13, 12. 1 Thessal. 5, 26. V. 1. * Róm. 1, 12.

mætu trú á réttlæti Guds vors og Frelsara
Jesú Krists. * Nád og fridur margfaldist yd- 2.
ur * í þeckingu Guds og Jesú vors Drottins!
Svo sem hans guddómlegi máttur hefir veitt 3.
oss allt til lífs og gudrækni, * med þeckingu
hans, sem oss hefir * kallad, eptir (sinni) dýrd
og * dygd; fyrir hverjar þau * stærstu og 4.
dýrmætu fyrirheit eru oss gefin, til þess ad
þér, fyrir þau skyldud verda * hluttakandi í
gudlegri náttúru, þegar þér fordist veraldlegra
girnda spillíngu.

Svo leggid alla stund þar á og audsýnid 5.
í ydvarri * trú dygdina, en í dygdinni vitskuna,
en í vitskunni hófsemina, en í hófseminni þolin- 6.
mædina, en í þolinmædinni gudræknina, en í gud- 7.
ræknunni * bródur-elsku, en í bródur-elsku kjær-
leikann (til allra), því ef þetta er hjá ydur og 8.
fer vaxandi, mun þad ecki láta ydur vera ydju-
lausa né ávaxtarsama í vors Drottins Jesú
Krists vidurkénníngu, því hjá hverjum þetta ecki 9.
er, hann er * blindur, byrgir fyrir augu sér og
* gleymir hreinsun sinna fyrri synda; þar fyrir 10.
kostgjæfid því meir, brædur! ad * stadfesta ydar
köllun og útvalníngu, því ef þér þetta gjörid,
munud þér ecki hrasa, því þannig mun ydur 11.

T 2

V. 2. * 1 Pét. 1, 2. * Jóh. 17, 3.
V. 3. * v. 2. * 1 Pét. 2, 9. 5, 10. * gædsku.
V. 4. * Esa. 56, 5. Jóh 1, 12. Gal. 3, 26. * Jóh. 14, 23.
2 Cor. 3, 18. Eph. 4, 24. 1 Jóh. 1, 3. 3, 2.
V. 5. * Tit. 3, 8. V. 7. * 1 Thess. 3, 12.
V 9. Jóh. 7, 17. 1 Jóh. 2, 9. 11. Es. 59, 9. * Jak. 1, 24.
V. 10. * Hebr. 3, 14.

ríkuglega géfinn verda inngángur í þad eilífa
ríki vors Drottins og Frelsara Jesú Krists.
12. Þess vegna * vil eg ecki forsóma jafnan ad
áminna ydur um þetta, þótt þér þad vitid og
13. séud styrkvir í nálægum sannleika. En eg held
þad rétt svo lengi, sem eg er í þessari tjaldbúd, * ad
14. vekja ydur med áminníngu, því eg veit, ad
skammt er ad bída, ad minni * tjaldbúd verdi
svipt, eins og vor * Drottinn Jesús Kristur
15. opinberadi mér. En eg vil kapps um kosta, ad
þér jafnan hafid þad, sem eptir mína útfor haldi
þessu ydur í minni.
16. Þvíad ecki hofum vér * spekilegum æfin-
søgum eptirfylgt, þegar vér kunngjørdum ydur
krapt og híngadkomu vors Drottins Jesú Krists,
heldur vórum vér sjálfir * sjónarvottar ad hans
17. hátign; því hann medtók af Gudi Fødur * heid-
ur og dýrd, þegar þvílik rødd hljómadi yfir hon-
um í hátignarfullri dýrd: * þessi er minn elsku-
legur Sonur, á hverjum eg hefi velþóknun
18. og þessa rødd heyrdum vér af himnum hljóma,
þegar vér * vórum med honum á fjallinu helga.
19. Svo vér hefum betur stadfest spádóms ordid
og gjørid þér vel ad géfa gaum ad því, svo sem
* því ljósi, er skín í mirkum stad, þar til dagur
ljómar og * morgun-stjarnan upprennur í ydar

V. 12. * Róm. 15, 14. 15. V. 13. * Kap. 3, 1.
V. 14. * 2 Tim. 4, 6. * Jóh. 21, 18. 19.
V. 16. * 1 Cor. 1, 17. 2, 1. * Matth. 17, 1. Jóh 1, 14.
V. 17. * Matth. 17, 5. * Kap. 3, 17. Cól. 1, 13.
V. 18. * Lúk. 9, 28.
V. 19. * Psálm. 119, 105. 2 Cor. 4, 5. 6. * Opinb. b. 2,
28. 22, 16.

hjertum; vitandi þetta fyrst, ad enginn * spá- 20.
dómur í Ritníngunni * gétur útlagst af sér sjálf-
um. Þvíad aldrei hefir neinn spádómur eptir 21.
mannsins vilja framfluttur verid, heldur * af hei-
legum Anda tilknúdir hafa þeir * heilegu Guds
menn talad.

Postulinn lýsir til varúdar falskénnendum og **2. Kap.**
þeirra fyriliggjanda straffi v. 1—22.

En til vóru einnig * Falsspámenn medal fólks- 1.
ins, eins og á medal ydar munu vera falskénn-
endur, hverjir innleida munu háskasamlegar villu-
meiníngar og þared þeir * afneita Drottni, sem
þá hefir endurkeypt, munu þeir yfir sjálfa sig
færa bráda glötun; og * margir munu eptir- 2.
fylgja glötunar (kénníngu) þeirra, fyrir hverra
sakir vegur sannleikans verdur lastadur og af 3.
ágirni munu þeir med uppdiktudum ordum hafa
ydur fyrir fé; * þeirra dómur fyrir laungu
(felldur) mun ecki dragast og þeirra glatan sofn-
ar ecki. Því ef Gud þyrmdi ecki * Englunum, 4.
sem syndgudu, heldur steypti þeim nidur til
helvítis og setti þá * í mirkra fjotur, svo ad
þeir geymist til dómsins og * þyrmdi hann ecki 5.

V. 20. * Róm. 12, 6. * eda: má eptir eginn hugþótta útleggjast.
V. 21. * 2 Tím. 3, 16. 1 Pét. 1, 11. * Spek. b. 7, 27.
V. 1. * 1 Mós. b. 13, 1. Matth. 24, 11. 1 Tím. 4, 1. * 2 Jóh. v. 7. 1 Jóh. 2, 22.
V. 2. * 2 Tím. 4, 3. V. 3. * 5 Mós. b. 32, 35.
V. 4. * Jóh. 8, 44. Júd. v. 6. * Spek. b. 17, 18. Opinb. b. 20, 1. ff.
V. 5. * 1 Mós. b. 7, 6—8. 8, 1.

hinni gömlu vereldu, þegar hann lét flódid koma
yfir vereld hinna ógudlegu, en verndadi Nóa,
6. þann réttlætis prédikara * sjálfann áttunda; og
fordæmdi borgirnar * Sódóma og Gómorra í
ösku lagdar til umturnunar og setti þær til
dæmis fyrir þá, sem eptirá mundu lifa ógud-
7. lega og * frelsadi hann réttláta Loth, sem var
undirokadur af svívyrdulegum lifnadi þeirra ó-
8. gudlegu. Þvíad þessi réttláti, er hann bjó á
medal þeirra, * qvaldist í (sinni) réttlátu sálu,
dag frá degi af þeim ódáda-verkum, hver hann
9. mátti sjá og heyra. Svo veit Drottinn ad
frelsa þá gudræknu * frá freistni, en ad vard-
veita þá óréttlátu til hegníngar á dóms degi,
10. en einna helzt þá, * sem gánga eptir holdinu í
girnd saurlifnadar og forsmá herradæmid, sem
djarfir og sérþóttafullir ecki svífast ad lasta
11. tignar-veldin; þared þó * Englarnir, sem eru
meiri í mætti og krapti, ecki frambera þeim á
12. móti neinn ófrægjandi dóm frá Drottni. En
þessir, svo sem * skynlaus dýr náttúrleg, fædd til
veidi og eydileggíngar, lasta þad sem þeir ecki
þeckja og munu því fyrirfarast í þeirra fordjorfun,
13. og ránglætis verdlaun hljóta, þeir halda sitt yndi
sællífi á hverjum degi, þeir eru * skarn og skömm;

---

V. 5. * 1 Pét. 3, 20.
V. 6. * 1 Mós. b. 19, 24. 5 Mós. b. 29, 23. Esa. 13, 19.
Jud. v. 7.
V. 7. * 1 Mós. b. 19, 7. 9.
V. 8. * Psálm. 119, 158. Ezech. 9, 4.
V. 9. * v. 7. 1 Cor. 10, 13. V. 10. * Júd. v. 4. 7. ff.
V. 11. * Júd. v. 9. V. 12. * Júd. v. 10.
V. 13. * Jud. v. 12.

þeir hafa gaman af sínum hreckjum, þegar sit-
ja ad veitslum med ydur; augun hafa þeir full 14.
af hórdómi og óstedvandi frá synd, þeir ginna
til vid sig óstyrkar sálir, þeir hafa hjarta æft
í ágirni, bölvunar bern. Þegar þeir yfirgáfu 15.
réttann veg, villtust þeir og fylgdu vegi * Bi-
laams Bosorssonar, hvert ed elskadi laun órétt-
lætisins, en hann fékk * straff fyrir sína yfir-
sjón. Þad mállausa brúkunar-dýr taladi med mann- 16.
legri raustu og aptradi Spámannsins fásinnu.
Þessir eru brunnar * vatnslausir, * ský tvístr- 17.
ud af stormvedri, hverjum geymd er myrkurs-
ins dymma til eilífdar. Því þegar þeir * láta 18.
klýngja drembilega hégóma ord, locka þeir med
holdlegum girndum til blygdunarleysis þá, sem
virkilega hafa umflúid hina, er í villunni gánga,
og heita þeim * frelsi, þared þeir þó sjálfir eru 19.
spillingarinnar þrælar, því * af hverjum nockurr
sigrast, undir þann þrælkar hann einnig. Því 20.
ef þeir, sem hafa umflúid * saurlifnad veraldar-
innar fyrir * þeckingu Drottins og Frelsarans
Jesú Krists, verda aptur þari flæktir og yfir-
unnir, þá verdur þeim hid * sídara verra hinu
fyrra. Því betra var þeim ecki ad þeckja * veg- 21.
inn réttlætisins; en þeckjandi ad snúa aptur frá

---

V. 15. * 4 Mós. b. 22, 7. 19. 31, 16. Júd. v. 11.
V. 16. * 4 Mós. b. 22, 28.
V. 17. * Júd. v. 12. Ordsqv. b. 25, 14.
V. 18. * Psálm. 17, 10. Júd. v. 16.
V. 19. * Gál. 5, 13. * Jóh. 8, 34. Róm. 6, 16. 20.
V. 20. * 1 Jóh. 2, 16. 5, 19. * 2 Pét. 1, 8. * Matth. 12, 45. Hebr. 6, 4. fl.
V. 21. * Lúk. 12, 47. 48.

22. Því heilaga bodordi, sem þeim var gefid. En
þeim gengur eptir þeim * sanna ordsqvidi: hund-
urinn snýr aptur til sinnar spýu og svínid þveg-
id til forar haugsins.

## 3. Kap.

Postulinn talar I.) um Krists tilkomu v. 1—10. II.) Um kristinna undirbúning móti honum v. 11—18.

1. Þessi er nú sá annar Pistill, elskanlegir! sem
eg skrifa ydur, í hverjum eg * med áminníngu
2. uppvek ydar hreinskilna sinni, svo ad þér * minn-
ist þeirra orda, sem fyrifram eru telud af þeim
heilegu Spámonnum og vor Postulanna bodords
3. frá Drottni og Frelsaranum. Vitid þá fyrst
þetta: ad * á sídustu dogum munu koma spottar-
ar, sem framgánga eptir þeirra egin girndum
4. og segja: * hvar er fyrirheit hans tilkomu? því-
ad frá þeim tíma fedurnir sofnudu, stendur allt
5. vid sama frá upphafi skopunar; því þetta vilja
þeir láta sér vera hulid, ad fyrir ordid Guds,
urdu * fordum himnarnir og * samanstód jordin
6. af vatninu og í gégnum vatnid, hvar fyrir *
vereldin, sem þá var, kom undir vatn og eydi-
7. lagdist. En núverandi himnar og jord eru fyrir
hans ord vardveitt, geymd * eldinum á dag

V. 22. * Ordsqv. b. 26, 11.
V. 1. * Kap. 1, 13. V. 2. * Kap. 1, 15. 19.
V. 3. * 1 Tim. 4, 1. 2. 2 Tim. 3, 1. Jud. v. 18.
V 4. * Esa. 5, 19. Jer. 17, 15. Ezech. 12, 22.
V. 5. * 1 Mós. b. 1, 6. Ps. 136, 6. * Ps. 24, 2.
V. 6. * 1 Mós. b. 7, 17. 21.
V. 7. * Ps. 102, 27. Esa. 51, 6. 2 Thess. 1, 8. Hebr. 1, 24.

dómsins og þeirra ógudlegu manna glotunar.
En þetta eina veri ecki hulid fyrir ydur, elsk- 8.
anlegir! ad * einn dagur er hjá Drottni, sem
þúsund ár og þúsund ár svo sem einn dagur.
* Ecki seinkar Drottinn sínu fyrirheiti (eins og 9.
sumir álíta þad fyrir seinlæti) heldur hefir hann
* bidlund vid oss, þared hann * vill ecki ad nein-
ir fortapist, heldur ad allir snúi sér til sinnis
betrunar. En * dagur Drottins mun koma, sem 10.
þjófur á nóttu, á hverjum * himnarnir munu
med miklum gný forgánga, en hofudsképnurnar
af eldi sundurleysast og jordin og þau verk,
sem á henni eru, munu uppbrenna.

Med því ad allt þetta skal sundurleysast, 11.
hvílíkum * birjar ydur þá ad vera? Med hei- 12.
logu framferdi og gudrækni egid þér ad vænta
og þrá eptir þeim Guds tilkomu degi, * á hver-
jum himnarnir munu af eldi sundurleysast og
hofudsképnurnar af hita brádna. En eptir hans 13.
fyrirheiti vonum vér eptir * nýum himni og nýri
jordu, í hverjum réttlætid byggir.

---

V. 8. * Psálm. 90, 4.
V. 9. Hab. 2, 3. Hebr. 10, 37. * Esa. 30, 18. Spek. b. 11, 24. 12, 28. Róm. 2, 4. 1 Pét. 3, 20. * Ezech. 18, 23. 32. 1 Tim 2, 4.
V. 10. * Matth. 24, 27. Lúk. 12, 39. 1 Thess. 5, 23. Opinb. b. 16, 15. Psálm. 102, 27. Esa. 51, 6. Luk. 21, 33.
V. 11. * Lúk. 21, 36.
V. 12. * Psálm. 50, 3. 2 Thess. 1, 8. Esa. 65, 17. 66, 22. Opinb. b. 21, 1.

14. Þar fyrir, elskanlegir! med því þér skulud
þessa * vænta, þá kostgjæfid óflekkadir og * óstraff-
15. anlegir hjá hönum í fridi fundnir verda; og á-
lítid * bidlund vors Drottins ad vera ydur til
frelsis; svo sem og vor elskulegi bródir Páll,
eptir þeirri speki; sem honum er géfin, hefir
16. skrifad ydur, eins og í ollum bréfum, þegar
hann í þeim talar um þessa hluti, í hverjum
sumt er þúngskilid og hverju vankunnandi og ó-
stadfastir (í Krists lærdómi) vinda vid, eins og
þeim ødrum Ritníngum til sinnar egin glotun-
17. ar. Þar fyrir, elskanlegir! med því þér vitid
þad fyrirfram, þá * gjætid ydar ad þér ecki tæl-
ist med af villu ógudlegra manna, né fallid frá
18. ydar egin stødugleika. En * vaxid í nád og *
þeckíngu vors Drottins og Frelsara Jesú Krists!
honum sé * dýrd, bædi nú og til eilífrar tíd-
ar, * Amen!

---

V. 14. * 1 Thess. 3, 15. 5, 23. * 1 Cor. 1, 8. Phil. 1, 10.
V. 15. * v. 9. 1 Pét. 3, 20.
V. 17. * Mark. 13, 5. 23.
V. 18. * Cól. 1, 10, * Kap. 1, 3. * 1 Pét. 4, 11.

S. Jó-

# S. Jóhannesar fyrsti Pistill.

I.) Um samfélag vid Gud v. 1—7. II. Um synda medkénningu v. 8—10. 1. Kap.

Þad, sem var * frá upphafi; þad, sem vér 1.
hofum heyrt; þad, sem vér med vorum augum
hofum sjed; þad, sem * vér hofum skodad og
vorar * hendur hafa þreifad á um þad lífs-
ins ord (því * lífid er opinberad og vér hofum 2.
sjed og vottum og bodum ydur lífid þad eilífa,
hvert ed var * hjá Fodurnum, en birtist oss)
hvad vér hofum sjed og heyrt, þad bodum vér 3.
ydur, til þess ad þér líka gjætud haft * samfé-
lag vid oss, en vort samfélag er vid Fodurinn
og hans Son Jesúm Krist. Og þetta skrif- 4.
um vér ydur, svo ad ydar * fognudur géti ord-
id fullkominn. En þessi er bodskapurinn, hvern 5.
vér hofum heyrt af honum og bodum ydur:
ad * Gud er ljós og ekkert mirkur er í honum.

V. 1. * Jóh. 1, 1. * v. 14. 2 Pét. 1, 16. * Lúk. 24, 39. Jóh. 20, 27.
V. 2. * Jóh. 1, 4. Róm. 16, 26. Col. 1, 26. 2 Tím. 1, 10. * Jóh. 1, 2.
V. 3. * Jóh. 17, 21. 1 Cor. 1, 9.
V. 4. Jóh. 15, 11. 16, 24. 2 Jóh. v. 12.
V. 5. * Psálm. 104, 2. Jóh. 1, 9. 3, 12.

6. Ef vér segjum, ad vér hefum samfélag vid hann
og gaungum þó í myrkrinu, þá * ljúgum vér og
7. fylgjum ecki sannleikanum. En ef vér fram-
gaungum í ljésinu, eins og hann er sjálfur í ljós-
inu, þá hefum vér samfélag innbyrdis og blódid
* Jesú Krists hans Sonar hreinsar oss af
allri synd.
8. Ef vér segjum: * vér hefum ecki synd, þá
svíkjum vér sjálfa oss og sannleikurinn er ecki í
9. oss. En ef vér * vidurkénnum vorar syndir, þá
er hann trúfastur og réttvís, svo ad hann fyr-
irgéfur oss syndirnar og hreinsar oss frá ellu
10. ránglæti. Ef vér segjum, ad vér ecki hefum
syngdad, gjorum vér hann ad lygara og * hans
ord er ecki í oss.

## 2. Kap.

1.) Kristur er syndugra árnadar-madur v. 1—2. II.) Guds bodord ega ad haldast v. 3—11. III.) Heimurinn ecki elskast v. 12—17. IV.) Antikristur fordast v. 18—26. V.) Bodid ad vera í Kristi v. 27—29.

1. Börn mín! þetta skrifa eg ydur til þess, ad
þér syndgid ecki, en ef einhverr syndgar, þá
hefum vér * árnadarmann hjá Fodurnum, Je-

V. 6. * Kap. 2, 4.
V. 7. * Post. G. b. 20, 28. 1 Pét. 1, 19. Hebr. 9, 14.
V. 8. * 1 Kóng. b. 8, 46. Ordsqv. b. 20, 9. Kap. 23, 10.
Préd. b. 7, 20.
V. 9. * Psálm. 32, 5. V. 10. * Kap. 2, 4.
V. 1. * Róm. 8, 34. Hebr. 7, 25. 9, 24.

sum Kristhinn réttláta; því hann er * forlíkan 2.
fyrir vorar syndir, þó ecki einúngis fyrir vorar,
heldur líka * fyrir alltar veraldarinnar syndir.
Og þaraf vitum vér, ad vér * þeckjum hann, 3.
ef vér vardveitum hans ord. Hverr, * sem seg- 4.
ir: eg þecki hann og vardveitir ecki hans bod-
ord, er lygari og í slíkum er ecki sannleikur.
En hverr hans ord * vardveitir, í þeim er 5.
sannarlega Guds kjærleiki fullkomlegur og af því
þeckjum vér, ad vér erum í honum; hverr, sem 6.
segist * vera í honum sá á ad * haga sér eins og
hann hegdadi sér. Brædur! nýtt bodord skrifa 7.
eg ydur * ecki, heldur gamalt bodord, * sem þér
hafid haft frá upphafi, þad gamla bodord er
ordid, hvert þér heyrt hafid frá upphafi. Apt- 8.
ur skrifa eg ydur nýtt bodord, sem er satt í
honum og í * ydur, ad * mirkrid er hjálidid og
þad sanna ljós skín nú. Hverr, sem segir sig 9.
í ljósinu vera og * hatar sinn bródur, sá er enn
þá í mirkrinu. Hverr, * sem elskar sinn bród- 10.
ur, sá er í ljósinu og í honum er ecki hrösun.
En hverr sinn bródur hatar, sá er í mirkrinu 11.
og ráfar í mirkrinu og veit ecki hvert hann géng-
ur, því mirkrid hefir blindad hans augu.

V. 2. Róm 3, 25. 2 Cor. 5, 18. Cól. 1, 20. * Jóh. 1, 29. 3, 16. 4, 42. Hebr. 2, 9.
V. 3. * Jóh. 8, 55. V. 4. * 1 Jóh. 1, 6. 4, 20.
V. 5. * Jóh 13, 35. 14, 21. 23.
V. 6. * Jóh. 15, 4. 5. * 12, 15. Cól. 2, 6. 1 Pét. 2, 21.
V. 7. * 2 Jóh. v. 5. * Kap. 2, 24. Kap. 3, 11.
V. 8. * sem er sannarlegt í tilliti til hans og ydar * Jóh. 1, 9. 12, 3. 5. Róm. 13, 12.
V. 9. * Kap. 3, 14. 4, 20. V. 10. * 1 Pét. 1, 10.
V. 11. * Kap. 3, 14. 4, 20.

12. Eg skrifa ydur, børn! ad * syndirnar séu yd-
13. ur fyrirgéfnar fyrir hans nafn. Eg skrifa yd-
ur, fedur! þvíad þér þeckid hann, sem er * frá
upphafi. Eg skrifa ydur, úngfólk! því þér haf-
14. id sigrad þann vonda. Eg skrifa ydur, børn!
því þér þeckid Fødurinn. Eg hefir skrifad yd-
ur, fedur! því þér þeckid þann, sem er frá upp-
hafi. Eg hefir skrifad ydur, úngfólk! því þér
erud * styrkvir og Guds ord varir í ydur og
15. þér hafid sigrad hinn vonda. * Elskid ecki heim-
inn, ecki heldur þá hluti, sem í honum eru; ef
nockur elskar heiminn, í honum er ecki kjærleiki
16. Fødursins; því allt þad í heiminum er, sem er
fýsn * holdsins, fýsn augnanna og lífernis dramb-
semi, þad er ecki af Fødurnum heldur af heim-
17. inum; og * heimurinn forgengur og hans fýsn,
en sá, sem breytir eptir * Guds vilja, var-
ir ad eilífu.
18. Børn! þad er hin sídasta stund og svo sem
þér hafid heyrt, ad Antikristar komi, svo eru
nú margir Antikristar * ordnir, hvar af vér
19. vitum ad þad er hin sídasta stund. Frá oss eru

---

V. 12. * Lúk. 24, 47. Post G. b. 10, 43.
V. 13. * Jóh. 1, 1. V. 14. * Eph. 6, 10.
V. 15. * Matth. 16, 24. Jóh. 15, 19. Róm. 8, 8. 12, 2.
Gal. 1, 10.
V. 16. * Lúk. 14, 18. ff.
V. 17. * Psálm. 90, 10. 1 Cor. 7, 31. 1 Pét. 1, 24.
* Psálm. 15, 5.
V. 18. * Svo kolludust allir fals-kristar, sem ofsóknend-
ur Krists og mótstødu-menn hans lærdóms.
v. 22. 4, 3. Matth. 24, 5. 24. Post. G. b. 20,
29. 2 Thess. 2, 3. 2 Pét. 2, 1. 2 Jóh. v. 7.

þeir * útgengnir, en þeir vóru ecki af oss, því
ef þeir hefdu verid af oss, þá hefdu þeir stød-
ugir med oss verid, en þeir skyldu * augljósir
verda, ad þeir ecki eru allir af oss. Og * þér 20.
hafid smurníngu af þeim heilaga og vitid allt.
Ecki skrifadi eg ydur af því þér vissud eckl sann- 21.
leikann, heldur af því þér vitid hann og af því
ad einginn lýgi er af sannleikanum. Hverr er 22.
lýgigjarn nema sá, sem neitar, ad Jesús sé Krist-
ur? þessi er sá * Antikristur, sem afneitar Fød-
urnum og Syninum. Hverr, sem * afneitar 23.
Syninum, hefir ecki heldur Fødurinn. Hverr,
sem vidurkénnir Soninn, hefir og Fødurinn.
Hvad þér þar fyrir * heyrt hafid frá upphafi, 24.
veri varanlegt hjá ydur, en ef þad varir hjá
ydur hvad þér frá upphafi heyrt hafid, þá mun-
ud þér einnig vid Soninn og Fødurinn * stødug-
lega halda ydur og þetta er loforpdid, hverju 25.
hann hefir oss heitid, þad eilífa lífid. Þetta 26.
hefi eg skrifad ydur til um þá, sem vilja af-
vega leida ydur.

Og sú * smurníng, hverja þér medtókud 27.
af honum, vidheldst hjá ydur, svo þér * þurfid
ecki, ad nockurr kénni ydur, heldur svo sem sú
smurníng frædir ydur um allt og hún er sannindi

V. 19. * Post G. b. 20, 30. * 1 Cor. 11, 19.
V. 20. * Hebr. 6, 13. 2 Pét. 1, 12. Eph. 1, 13, 14.
1 Jóh. 2, 24. Cól. 1, 4. 5, 9.
V. 22. * Kap. 4, 3. 2 Jóh. v. 7.
V. 23. * Luk. 12, 9. Jóh. 5, 23. 2 Tim. 2, 12.
V. 24 * v. 1. 2. 3. 7. * Jóh. 14, 23.
V. 25. * 1 Tim. 4, 8.
V. 27. * v. 20. * Jer. 31, 34. Jóh. 6, 45.

og ecki lýgi, þá haldid ydur fastlega vid hann
28. eins og hún hefir kénnt ydur. Og nú, børn!
* haldid ydur stødugt vid hann, svoad þegar
hann opinberast vér høfum * djørfúng og med
blygdun verdum ecki rækir frá honum í hans
29. tilkomu; ef þér vitid ad hann er réttvís, þá
skiljid þér einnig, ad * hverr réttvísina gjørir er
af honum fæddur.

3. Kap. I.) Þeir trúudu hafa von um sælu og ford-
ast þess vegna ad drýgja syndir v. 1—
16. II.) Þeir skulu elskast innbyrdis og
af kjærleikanum þeckjast ad vera Guds
børn v. 11—24.

1. Sjáid hvílíkann kjærleika Fadirinn hefir oss
audsýnt; ad vér skulum * Guds børn kallast,
þess vegna * þeckir ecki heimurinn oss, ad hann
2. þeckir ecki hann. Þér ástsamlegir! nú erum vér
* Guds børn og þad er enn þá ecki opinbert
hvad vér verda munum, en * vér vitum, ad
þegar hann birtist, vér munum honum * líkir
verda, því vér munum * sjá hann, svo sem
3. hann er. Og hverr, sem hefir þessa von til
hans * hreinsar sjálfann sig, eins og hann er
4. hreinn. Hverr, sem gjørir syndina, gjørir líka

V. 28. * Jóh. 15, 4. 9. * 1 Jóh. 3, 21. 4, 17.
V. 29. * Kap. 3, 7. 10.
V. 1. * Jóh. 1, 12. * 16, 3. 17, 25.
V. 2. Esa. 56, 5. Gal. 3, 26. 4, 26. * Róm. 8, 13.
1 Cor. 15, 49. Cól. 3, 4. * Róm. 8, 29. Phil.
3, 21. * 1 Cor. 13, 12. Matth. 5, 8.
V. 3. * 2 Cor. 7. 1. 1 Pét. 1, 15. 16.

lagabrot og * syndin er lagabrot og þér vitid, 5.
ad hann hefir birtst * til þess ad hann burt-
taki vorar syndir og * engin synd er í honum;
hverr, sem * stødugur er í honum, syndgar ecki,
hverr, sem syndgar * hefir hverki séd hann né 6.
þeckt Born! látid *engann villa ydur, hverr, 7.
sem *réttvísina gjørir, er réttvís eins og hann
er réttvís. Hverr, sem syndina gjørir * er 8.
af djeflinum, þvíad djefullinn syndgar frá upp-
hafi; til þess birtist Guds Sonur, * ad hann
nidurbrjóti djefulsins verk. Hverr af Gudi er 9.
fæddur * gjørir ecki synd, því * sædi hans er
varanlegt í honum og hann gétur ecki syndgad,
þvíad hann er af Gudi fæddur. Þaraf eru 10.
augljós børn Guds og børn djefulsins, hverr, sem
* ecki gjørir réttvísi, er ecki af Gudi og hverr
ecki elskar sinn bródur.

Því þetta er þad sama bodord, hvert þér 11.
* hafid heyrt frá upphafi, * ad vér skulum elska
hvert annann; ecki sem * Kain, er var af hin- 12.
um vonda og sló í hel bródur sinn og fyrir hvad
sló hann hann í hel? því hans * verk vóru vond,

U

V. 4. * Kap. 5, 17.
V. 5. * Esa. 53, 4. 2 Cor. 5, 21. * Jóh. 8, 46. Hebr. 4, 15.
V. 6. * Kap. 2, 4. 3, 9. * Kap. 4, 8. 3 Jóh. v. 11.
V. 7. * Eph. 5, 6. * 1 Jóh. 2, 29. 3, 10.
V. 8. * Matth. 13, 38. 39. Jóh. 8, 44. * 1 Mós. 3, 15.
V. 9. * Kap. 3, 6. 5, 18. * 1 Pét. 1, 23.
V. 10. * Kap. 2, 29. 4, 8.
V. 11. * Kap. 2, 7. 24. * Jóh. 13, 34. 15, 12.
V. 12. * 1 Mós. b. 4, 8. Hebr. 11, 4. * Jóh. 3, 19.

13. en hans bródurs réttileg. Undrist ecki, brædur
14. mínir! * þótt heimurinn hati ydur. Vér vitum
ad vér erum * komnir úr daudanum til lífsins,
af því vér elskum bræburnar, hverr, sem * ecki
elskar sinn bródur, hann blífur í daudanum;
15. hverr sinn bródur * hatar, er manndrápari og
þér vitid ad enginn manndrápari hefir eilífa lífid
16. í sér varanda. Af því þeckjum vér * kjærleik-
ann Guds, ad hann setti sitt líf út fyrir oss,
eins erum vér skyldugir ad setja lífid út fyrir
17. brædurnar. En hann, sem * hefdi þessa heims
audæfi og sæi sinn bródur naud lída og aptur-
lokadi sínu hjarta fyrir honum, * hverninn er
18. Guds kjærleiki stødugur í honum? Børn mín!
* elskum ecki med ordi og túngu, heldur med
19. verki og sannleika og af þessu þeckjum vér, ad
vér erum af sannleikanum og getum stillt til fridar
20. vor hjørtu fyrir hans augliti, ad þótt vort
hjarta fordæmi oss, er Gud samt meiri voru
21. hjarta og * þeckir allt. Þér ástsamlegir! ef
vort hjarta fordæmir oss ecki, þá høfum vér
22. * djørfúng til Guds og hvers vér * bidjum, þad

---

V. 13. * Matth. 5, 11. Jóh. 15, 18. 19. 17, 14.
V. 14. * Jóh. 5, 24. * 1 Jóh. 2, 11. 4, 12. 3 Mós. b. 19, 17.
V. 15. * Matth. 5, 21. 22. Gal. 5, 21.
V. 16. * Jóh. 3, 16. 15, 13. Róm. 5, 8. Eph. 5, 2. 25.
V. 17. * 5 Mós. b. 15, 7. Lúk. 3, 11. Jak. 2, 15. * 1 Jóh. 4. 5. 20. 5, 1.
V. 18. * Jak. 2. 15. V. 20. * Jóh. 16, 30.
V. 21. * Kap. 2, 28. 4, 17. 5, 14.
V. 22. * Psálm. 10, 17. 34, 16. 145, 18. Ordsqv. b. 15, 29. 28, 9. Jer. 29, 12. Matth. 7, 7. 18, 19. 21, 22. Jóh. 9, 31. 14, 13.

munum vér meðtaka af honum, af því vér heldum hans boðorð og gjerum það, sem þóknanlegt er fyrir hans augliti. Og þetta er hans 23.
boðorð: * að vér trúum á nafn hans Sonar Jesú Krists og * elskum hverr annann eptir því
boðorði, sem hann gaf oss og * hverr, sem 24.
heldur hans boðorð, sá er stöðuglega í honum og hann í honum og þar af * þeckjum vér, að hann er stöðuglega í oss, af þeim * anda, hvern hann hefir oss gefið.

I) Jóhannes talar um falskénnendur v. 1—5. **4. Kap.**
II. Um elsku til Guðs og náungans v. 6—21.

Þér ástsamlegir! * trúið ecki sérhverjum anda, 1.
heldur * reynið andana hvert þeir séu af Guði,
því að * margir Fals-kénnendur hafa út um
heiminn gengið. Þaraf þeckið þér Guðs Anda: 2.
* hverr andi, sem viðurkénnir að Jesús Kristur
hafi í holdi komið, sá er af Guði. Hverr andi, 3.
sem ecki viðurkénnir, að Jesús Kristur hafi í
holdi komið, sá er ecki af Guði og * þessi er sá
Antikrists (andi) um hvern þér hafið heyrt, að



V. 23. * Jóh. 6, 29. * 3 Mós. b. 19, 18. Jóh. 15, 12. Eph. 5, 2. 1 Thess. 4, 9. 1 Pét. 4. 8.
V. 24. * Jóh. 14, 13. * 1 Jóh. 4, 13. * Róm. 1, 9.
V. 1. * Jer. 14, 14. 23, 16. 29, 9. Matth. 7, 15. 16. 24, 4. Eph. 5, 6. Cól. 2, 18. * 1 Cor. 14, 29. 1 Thess. 5, 21. Opinb. b. 2, 2. * 2 Pét. 2, 1. 1 Jóh. 2, 18. 2 Jóh. v. 7.
V. 2. * 1 Cor. 12, 3. 1 Jóh. 2, 22. 5, 1. 2 Jóh. v. 7.
V. 3. * Kap. 2, 18. 22. 2 Jóh. v. 7. 2 Thess. 2, 3. fl.

hann komi og hverr ed nú þegar er í heimin-
4. um. Þér, börn! erud af Gudi og hafid þá
yfirunnid, þvíad sá er meiri, * sem í ydur er,
5. enn hinn í heiminum. Þeir * eru af heiminum
og þess vegna tala þeir um heiminn og heim-
urinn heyrir þá.
6. Vér erum af Gudi og hverr, sem * þeck-
ir Gud, heyrir oss; hverr, sem ecki er af Gudi,
heyrir oss ecki; af þessu þeckjum vér anda sann-
7. leikans og anda villudómsins. Þér ástsamlegir!
elskum hverr annann, þvíad kjærleikurinn er af
Gudi og hverr, * sem elskar, er af Gudi fæddur
8. og þeckir Gud. Hverr, sem * ecki elskar, þeck-
9. ir ecki Gud, þvíad Gud er kjærleikurinn; í því
* opinberast kjærleiki Guds til vor, ad Gud
sendi sinn eingétinn Son í heiminn, svo vér
10. skyldum lifa fyrir hann. Í þessu er kjærleik-
urinn, ecki ad vér elskudum Gud, heldur ad *
hann elskadi oss og sendi sinn Son * til forlík-
unar fyrir vorar syndir.
11. Þér ástsamlegir! fyrst Gud hefir svo elsk-
ad oss, þá erum vér og * skyldugir ad elska
12. hverr annann. Enginn * hefir nockurntíma
Gud sjed, ef vér * elskum hverr annann, þá er

V. 4. * 2 Kóng. b. 6, 16. V. 5. * Jóh. 3, 31. 15, 19.
V. 6. * Jóh. 8, 47. 10, 27. 3 Jóh. v. 11.
V. 7. * Kap. 5, 1. 2. Jóh. 8, 12.
V. 8. * v. 16. Kap. 2, 4. 3, 6.
V. 9. *. Róm. 5, 8. 8, 32. 1 Jóh. 3, 16.
V. 10. * Jóh. 15, 16. Róm. 3, 24. 2 Cor. 5, 19.
* 1 Jóh. 2, 2.
V. 11. * Matth. 18, 33. Jóh. 15, 12, 13.
V. 12. * 2 Mós. b. 33, 20. Jóh. 1, 18. 1 Tim. 1, 17.
* 1 Jóh. 3, 23. * Kap. 2, 5. 4, 17.

Gud stoduglega í oss og * hans kjærleiki er
fullkomnadur í oss. Þaraf þeckjum vér, ad vér 13.
* erum stodugir í honum og hann í oss, ad hann
hefir géfid oss af sínum anda; og vér * hofum 14.
sjed og vitnum, ad * Fadirinn hefir útsendt
Soninn heimsins Frelsara. Hverr, sem * vid- 15.
urkénnir, ad Jesús sé Guds Sonur, í honum
er Gud stoduglega og hann í Gudi. Og vér 16.
hofum þeckt og trúad þeim kjærleika, sem Gud
hefir til vor; Gud er * kjærleikurinn og hverr,
sem er stodugur í kjærleikanum, sá er stodugur
í Gudi og Gud í honum. Í þessu * fullkomnast 17.
kjærleikurinn hjá oss, ad vér hofum * djorfúngu
á degi dómsins, þvíad * líka sem hann er, svo
erum vér einnig í heimi þessum. * Hrædsla 18.
er ecki í kjærleikanum, heldur útrekur fullkominn
kjærleiki hrædsluna, þvíad hrædslan hefir qvol,
en sá, sem hrædist er ecki fullkomnadur í kjær-
leikanum. Vér elskum hann, því * hann hefir 19.
elskad oss fyrri. * Ef einhverr segir: eg elska 20.
Gud og hatar sinn bródur, sá er lygari; því
hverr, sem ecki elskar sinn bródur, hvern hann
hefir sjed, hverninn gétur sá elskad Gud, hvern
hann hefir ecki sjed? og þetta * bodord hofum 21.

---

V. 13. * Kap. 3, 24. Jóh. 14, 20. 17, 21.
V. 14. * Kap. 1, 2. Jóh. 1, 14. * Gal. 4, 4. 1 Jóh. 2, 2.
V. 15. * Kap. 5, 5. V. 16. * v. 8.
V. 17. * v. 12. * Kap. 2, 28. 3, 21. * Jak. 2, 13. 1 Pét. 1, 15. 1 Jóh. 3, 3.
V. 18. * Róm. 8, 15.
V. 19. * v. 10.
V. 20. * Kap. 2, 4. 11. 3, 15. 17.
V. 21. * 3 Mós. b. 19, 18. Matth. 22, 29. Jóh. 3, 34.

vér frá honum: að sá, * sem elskar Guð, elski einnig sinn bróður.

5. Kap. I.) Sá, sem elskar Guð, heldur Guðs boðorð, sá, sem er af Guði fæddur og trúir að Jesús sé Guðs Sonur, yfirvinnur heiminn v. 1—6. II.) Þrjú vitni um Krist; Guðs vitnisburður er sannur v. 7—13. III.) Upphvatning til trúar og bænar; varúð móti synd og afguða dýrkun v. 14—21.

1 Hverr, sem trúir að Jesús sé Kristur, er af Guði fæddur og hverr, sem elskar Foðurinn, elskar einnig þann, sem er * fæddur af honum.
2. Þar af þekkjum vér að vér elskum Guðs börn, þegar vér elskum Guð og höldum hans boðorð;
3. því * þetta er kjærleikurinn til Guðs, að vér höldum hans boðorð og boðorðin hans eru * ekki
4. þúng; því allt, sem af Guði er fædt, * yfirvinnur heiminn og vor trú er sá sigur, sem
5. hefir yfirunnið heiminn. En hverr er, * sem yfirvinnur heiminn nema sá, sem trúir, að * Je-
6. sús sé Guðs Sonur? Þessi er sá, sem kom með * vatni og blóði Jesús Kristur, ekki með vatni einúngis, heldur með vatni og blóði og andinn er sá, sem vitnar, að andinn sé sannleikurinn.

V. 21. * 1 Jóh. 5, 1.
V. 1. * v. 4. Kap. 2, 22. 23. 4, 2, 15. Jóh. 1, 12. 13. fl.
V. 3. * Jóh. 14, 15. 21. 23. 15, 10. * Matth. 11, 30.
V. 4. * Jóh. 16, 33.
V. 5. * 1 Cor. 15, 57. 1 Jóh. 4, 4. * v. 15.
V. 6. * Jóh. 19, 39.

Því þeir eru * þrír, sem vitna [í himn- 7.
inum: Fadirinn, * ordið og heilagur Andi og
þessir þrír eru eitt. Og þeir eru þrír, sem vitna 8.
á jördunni *]: andinn, vatnid og blódið og þess-
ir þrír eru til eins. Ef * vér medtekum mann- 9.
anna vitnisburd, þá er Guds vitnisburdur meiri,
því þetta er vitnisburdur Guds, hvern * hann
hefir vitnad um sinn Son. Hverr, * sem trú- 10.
ir á Guds Son, hefir þenna vitnisburd í sér
sjálfum, hverr, sem ecki trúir Gudi, hefir gjört
hann ad lygara, af því hann hefir ecki trúad
þeim vitnisburdi, hvern Gud hefir vitnad um
sinn Son. Og þetta er vitnisburdurinn: ad 11.
Gud hefir géfid oss eilíft líf og * þetta líf er
í hans Syni. Sá, sem hefir Soninn, * hefir 12.
lífid, sá, sem ecki hefir Guds Son, hefir ecki
lífid. Þetta * hefir eg skrifad ydur, sem * trúid 13.
á nafn Guds Sonar, svo þér vitid, ad þér hafid
eilíft líf og svo þér trúid á nafn Guds Sonar.

Og þetta er * sú djörfúng, hverja vér hef- 14.
um til hans, ad ef * vér bidjum nockurs eptir
hans vilja, þá heyrir hann oss. Og ef vér vit- 15.

V. 7. * Psálm. 33, 6. Matth. 28, 19. 1 Cor. 12, 4—6. 2 Cor. 13, 3. * Jóh. 1, 1. Opinb. b. 19, 13.
V. 8. * Þau ord, sem eru innsirklud í 7da og 8da versi finnast hverki í neinum gömlum handritum, ellsiu útleggingum, né hjá Kirkjufedrunum.
V. 9. * Jóh. 8, 17. * v. 18 5, 37.
V. 10. * Jóh. 3, 18. 33. Róm. 8, 16
V. 11. * Jóh. 1, 4. 2 Tim. 1, 10.
V. 12. * Jóh. 3, 16. 36. 5, 24.
V. 13. * Jóh. 20, 31. * 3, 18. 1 Jóh. 3, 23.
V. 14. * Kap. 3, 21. * Psálm. 145, 18. Luk 11, 9. Jóh. 16, 23. 1 Jóh. 3, 22.

um ad hann heyrir oss, hvers, sem vér bidjum,
þá vitum vér ad vér fáum þær bænir, hverra
16. vér hofum hann bedid. Ef nockurr * sier sinn
bródur synd drýgja og ecki til dauda, sá bidji
og mun gefa honum líf, þeim, sem ecki syndg-
ar til dauda; * sé syndin til dauda, fyrir henni
17. segi eg ecki ad hann skuli bidja. Allt * ráng-
læti er synd og synd er, sem ecki er til dauda.
18. * Vér vitum, ad hverr af Gudi er fæddur,
syndgar ecki, heldur sá, sem af Gudi er fæddur,
* gjætir sín sjálfs og hinn vondi snertir hann
19. ecki. Vér vitum ad vér erum af Gudi og ad
20. allur * heimurinn liggur í því vonda; en vér
vitum, ad Guds Sonur * er kominn, og hefir
gefid oss þann skilníng, ad vér þeckjum þann,
* sem sannarlegur er og erum í hinum sannarlega,
í hans Syni Jesú Kristi. Þessi er * sá sanni
21. Gud og þad * eilífa líf. Börn! * varid ydur
vid afgudum, Amen!

---

V. 16. * Jak. 5, 16. * 4 Mós. b. 15, 30. 1 Sam. b. 2, 25.
Matth. 12, 31. 2 Pét. 2, 20. Hebr. 6, 4, 10, 26.
V. 17. * Kap 3, 4.
V. 18. * Kap. 3, 9. * 2 Thess. 3, 3.
V. 19. * Gal. 1, 4.
V. 20. * Lúk 24, 45. * Jóh. 17, 3. * Róm. 9, 5. 1 Tím.
3, 16. Hebr. 1, 8. * Jóh. 11, 25. 14, 16.
V. 21. * 2 Mós. b. 20, 3.

# S. Jóhannesar annar Pistill.

I.) Jóhannes óskar góds kristinni Frú og börnum v. 1—6. II.) Varar vid raungum lærdómi v. 7—11. III.) Lofar komu sinni, ber Frúñi systur barnaña qvedju v. 12—13.

Oldúngurinn (skrifar) útvaldri frú og þeim 1.
börnum hennar, hver * eg elska í sannleika og
ecki einúngis eg, heldur einnig allir þeir, sem
hafa * þeckt sannleikann, fyrir sakir * sannleik- 2.
ans, sem í oss er stedugur og med oss mun
verda til eilífdar. * Náð, miskun, fridur veri 3.
med ydur af Gudi Födur og af Drottni Jesú
Kristi Syni Fødursins í sannleika og kjærleika.
Nærsta gladur er eg, þegar eg hefi fundid af 4.
børnum þínum þá, sem * gánga í sannleikanum,
eptir því boderdi hvert vér medtókum af Fød-
urnum. Og nú bid eg þig, frú! ecki svo sem 5.
eg skrifi þér * nýtt bodord, heldur þad, hvert
vér heyrt høfum frá upphafi, ad vér skulum

V. 1. * 3 Jóh. v. 1. * 1 Tím. 2, 4.
V. 2. * 1 Jóh. 1, 8. V. 3. * 1 Tím. 1, 2.
V. 4. * 3 Jóh. v. 4.
V. 5. * Jóh. 13, 34. 15, 12. 1 Jóh. 2, 7. 3, 11. 23.

6. elska hverr annann. Og * þetta er kjærleikur-
inn, ad vér gaunguin eptir hans bodordum.
Þetta er bodordid * eins og þér hafid heyrt frá
upphafi, ad þér skulud eptir því breyta.
7. Því margir * villumenn eru komnir inní
heiminn, sem ecki vidurkénna Jesúm Krist ad
vera kominn í holdi; þessi er sá villumadur og
8. Antikristur. Gjætid ad ydur, ad vér ecki * tep-
um því, sem vér hefum unnid, heldur ad vér
9. megum medtaka full laun. Hverr, sem * víkur
frá og ecki er stødugur í Krists lærdómi, hefir
ecki Gud, en sá, sem er stødugur í Krists lær-
10. dómi, hefir bædi Fødurinn og Soninn. Ef *
einhverr kémur til ydar og fer ecki med þenna
lærdóm, þá * hýsid hann ecki og * segid hann
11. ecki velkominn. Því hverr, sem segir hann vel-
kominn, * verdur hluttakandi í hans vondu verkum.
12. Þótt eg hefdi margt ad skrifa ydur, hefir
eg * ecki viljad brúka þar til bréf og blek, held-
ur vona eg ad koma til ydar og tala munni
til munns, svo ad vor gledi verdi fullkomin.
13. Þér heilsa børn systur þinnar ennar útvøldu,
Amen!

---

V. 6. * 1 Jóh. 5, 3. Jóh. 15, 10. * 1 Jóh. 2, 24.
V. 7. * Matth. 24, 5. 24 2 Pét. 2, 1. 1 Jóh. 2, 18. 22.
V. 8. * Gal. 3, 3. 4. 1 Thess. 3, 5. V. 9. * 3 Jóh. v. 11.
V. 10. * 1 Cor. 16, 22. 2 Thess. 3, 14. * Róm. 16, 17.
1 Cor. 5, 11. Tit. 3, 10. * Matth. 26, 49. 27.
29. 28, 9. Post. G. b. 15, 23. Jak. 1, 1. fl.
V. 11. * 1 Tim. 5, 22.
V. 12. * * 3 Jóh. v. 13. 14. 1 Jóh. 1, 4.

# S. Jóhannesar þridji Pistill.

I.) Jóhannes heilsar Gajusi, gledur sig yfir hans trú og kjærleiks verkum v. 1—8. II.) Qvartar yfir vondsku Díótrefes's v. 9—11. III.) Hrósar Demetriusar gudrækni; bodar komu sína og ber og bidur ad bera qvedjur v. 12—15.

Öldúngurinn (skrifar) þeim elskulega * Ga- 1.
jusi, hvern * eg elska í sannleika. Þú elskulegi! 2.
eg óska ad þér vegni vel í öllu og ad þú hafir
góda heilsu, eins og þinni sálu vel vegnar. Því 3.
eg vard mikid gladdur, þegar brædurnir komu og
vitnudu um þinn * sannleika, hverninn þú geng-
ur í sannleikanum. Eg hefi enga stærri gledi 4.
enn þessa, ad heyra mín børn * gánga í sann-
leikanum. Þú, elskulegi! þú gjørir trúlega allt, 5.
hvad þú * vinnur fyrir brædurnar og géstina;
hverjir vitnad hafa um þinn kjærleika fyrir 6.
søfnudinum, hverja þú gjørdir vel ad styrkja til
þeirra reisu verduglega eptir Guds bodi, því 7.
fyrir hans nafns sakir eru þeir af stad farnir og *
hafa vid engu tekid hjá heidíngjum; þar fyrir 8.

V. 1. * Róm. 16, 23. * 2 Jóh. v. 1.
V. 3. * 2 Jóh. v. 4. V. 4. * v. 3. Ps. 36, 3.
V. 5. * Róm. 16, 23. V. 7. * Matth. 10, 8.

erum vér skyldugir að taka þesskáttar menn
að oss, að vér séum samverkandi í sannleikanum.
9. Eg hefir skrifað söfnudinum til, en Díótre-
fes, sem vill vera fremstur medal þeirra, tek-
10. ur oss ecki (vel); þar fyrir, þegar eg kém, vil
eg minna hann á hans verk, er hann gjörir, í
því hann með vondum ordum ófcægir oss og
lætur sér ecki nægja með það, að hann sjálfur
ecki * taki í móti brædrunum, heldur * bannar
ödrum, er vilja, að gjöra það og rekur þá út
11. úr söfnudinum. Þú, elskulegi! * eptirfylgdu ecki
því vonda, heldur hinu góða; hverr, sem gott
* gjörir er af Gudi, en hverr íllt gjörir, * hefir
ecki sjeð Gud.
12. Demetríus hefir gódann vitnisburd af öllum
og af sannleikanum sjálfum, einnig vér vitnum
og * þér vitið að vor vitnisburdur er sannur.
13. Eg hefdi margt að skrifa, * en eg vil ecki skrifa
14. þér með bleki og penna, því eg vænti brádum
að sjá þig og munum við þá talast við munni
15. til munns. * Fridur sé með þér! Þér heilsa
vinirnir, heilsa þú vinunum með nafni.

V. 10. * Matth. 23, 13. * 1 Thess. 2, 16.
V. 11. * Psálm. 37, 27. Ordsqv. 6. 2, 20. Esa. 1, 16.
1 Pét. 3, 11. * Jóh. 8, 47. * 1 Jóh. 3, 6.
V. 12. * Jóh. 19, 35. V. 13. * 2 Jóh. v. 12.
V. 15. * 1 Pét. 5, 14.

# S. Júdasar Pistill.

I.) Postulinn varar vid fals=kénnendum og ógudlegum 1—19. II.) Kénnir hversu breyta skal vid slika v. 20—25.

Júdas, Jesú Krists þjón, bródir Jakobs, 1.
heilsar þeim kelludu, sem í Gudi Fodur helgadir
og í Jesú Kristi vardveittir eru: miskun- 2.
semi og fridur og kjærleiki margfaldist ydur.
Elskanlegir! þared eg gjori mér allt ómak fyrir 3.
ad skrifa ydur til, þá vard eg ad skrifa ydur
til um sameginleg sáluhjálpar efni og uppørfa til
ad forsvara þá trú, sem heilegum hefir einu-
sinni verid kénnd. Því inní sofnudinn hafa 4.
lædst nockrir menn, sem fyrir laungu eru áqvard-
adir til þessa straffs, ógudlegir, sem gjera nád
Guds vors ad býlífi (íll-lifnadi) og afneita vor-
um einasta Herra og Drottni Jesú Kristi. Vil 5.
eg því minna ydur á, þótt þér einusinni vitid
þad, ad þá Drottinn hafdi frelsad fólkid frá
Egyptalandi, þá tortýndi hann þar eptir þeim,

V. 1. Lúk. 6, 16. Post. G. b. 1, 13. Jóh. 17, 11.
1 Pét. 1, 5. V. 2. 2 Pét. 1, 2.
V. 3. Phil. 1, 27. 1 Tím. 1, 18. 6, 12.
V. 4. Tít. 1, 16. 2, 12. 2 Pét. 2, 1.
V. 5. 4 Mós. b. 14, 29—35. 26, 64. 65. 1 Cor. 10, 5.

6. sem ecki trúdu og Englana, sem ecki gjættu
sinnar upphaflegu tignar, heldur yfirgáfu sinn
bústad, hefir hann geymt í mirkvastofu í eilífum
7. fjøtrum til dóms þess mikla dags. Sømuleid-
is Sódóma og Gomorrá og kríngum liggjandi
borgir, sem drýgdu saurlífnad á líkann hátt og
þessir og gengu eptir annarlegu høldi, þær eru
settar til eptirdæmis og eru straffadar med ei-
8. lífum eldi. Eins eru og þessir draumvilltir,
saurga líkamann, óvirda herradæmid og lasta
9. tignarvøldin. En Michául høfudengill, þá hann
þráttadi vid djøfulinn um líkama Mósis, vogadi
ecki ad framsegja løstunar dóm yfir hónum, held-
10. ur sagdi: Dróttinn straffi þig. En þessir lasta
þad, sem þeir þeckja ecki; þarámóti þad, sem
þeir þeckja náttúrlega eins og skynlaus dýr, þad
11. brúka þeir sér til fordjørfunar. Vej þeim, því
þeir gánga á veg Kains, hrapa í villu Balaams fyr-
ir ávinníngs sakir og tortýnast fyrir mótmæli sin
12. eins og Chóre. Þessir eru svívirdíng í ydar
kjærleiks veitslum, eru ósvífnir í bordhaldi, ala
sjálfa sig; þeir eru vatnslaus ský, sem rekast fyr-
ir vindum, visnud tré, ávaxtarlaus, útdaud, upp-
rætt; ólmar (villtar) hafsbylgjur, sem freyda eg-
13. in skømmum; reikandi stjørnur, hverjum dimma
14. mirkursins er geymd til eilífdar. Um þessa spádi

---

V. 6: 2 Pét. 2, 4. Jóh. 8, 44.
V. 7. 1 Mós. b. 19, 24. 25. Esa. 13, 19. Jer. 10, 16.
Hós. 11, 8. 2 Pét. 2, 6. Lúk. 6, 24.
V. 8. 2 Pét. 2, 10. V. 9. 2 Pét. 2, 11. Zach. 3, 2.
V. 11. 1 Jóh. 3, 12. 2 Pet. 2, 15. 16. 4 Mós. b. 12, 31.
V. 12. 2 Pét. 2, 13. 17. Ordsqv. b. 25, 14.
V. 13. Esa. 57, 20.

og Enoch, sjøundi madur frá Adám, segjándi:
sjá! Drottinn kémur med sínum heilögu þúsund-
um, til ád halda dóm yfir øllum og straffa alla 15.
ógudlega fyrir øll þau ógudlegu verk, sem þeir
hafa drýgt og fyrir øll þau íllmæli, sem þéir
ógudlegu syndarar hafa talad gégn honum. Þess- 16.
ir eru møglunarsamir, qvortunarsamir, gánga
eptir girndum sínum; munnur þeirra talar ofsa,
þeir meta manninn eptir gagninu. En þér 17.
elskanlegir! minnist þeirra orda, sem ádur hafa
tølud verid af Postulum Drottins vors Jesú
Krists. Því þéir søgdu ydur; ád á sídasta tím- 18.
anum mundu koma spóttarar, sem gengi eptir
þeirra egin ógudlegu girndum. Þessir eru þeir, 19.
sem gjøra sig fráskila, holdlegir, sem ecki hafa
andann.

En þér, elskanlegir! uppbyggid ydur sjálfa 20.
í ydar heiløgustu trú, bidjid í heiløgum Anda;
vardveitid ydur sjálfa í kjærleika Guds og vænt- 21.
id miskunar Drottins vors Jesú Krists til ei-
lífs lífs. Aumkvid ydur yfir suma med grein- 22.
armun, en frelsid suma med ótta og kippid þeim 23.
úr eldinum og (varist) hatid jafnvel kyrtilinn,
sem fleckadur er af holdinu.

---

V. 14. 1 Mós b 5, 22—24. Dan. 7, 10. Post. G. b. 1, 11. 2 Thess. 1, 7—10. Opinb. b. 1, 7.
V. 15. Matth. 12, 36. 25, 31.
V. 16. Tit. 3, 3. Ps. 17, 10. 73. 8. 9. 2 Pét. 2, 18.
V. 18. Post. G. b. 20, 29. 1 Tim. 4, 1. 2 Tim. 3, 1. 4, 3. 2 Pét. 2, 1. 3, 3.
V. 19. Ordsqv. b. 18, 1.
V. 20. 2 Pét. 1, 5. 1 Thess. 1, 3.
V. 21, 1 Cor. 1, 7. 1 Thess. 1, 10.

24. Þeim, sem kann ad vardveita ydur frá
hrøsun og láta ydur mæta fyrir sinni dýrd ó-
25. straffanlega í fognudi, einum Gudi, vorum
Frelsara fyrir Jesúm Krist vorn Drottinn, sé
dýrd og hátign, kraptur og vald, nú og um
allar aldir. Amen!

# S. Jóhannesar Opinberunar Bók.

**1. Kap.** Inngángurinn v. 1—8. (II.) Jóhannesi er skipad ad skrifa þeim sjö, søfnudum í Asíu sína vitrun v. 9—20.

1. Opinberan Jesús Krists, hverja Gud hefir
géfid honum til ad sýna * sínum þjónum þad,
sem ské skal innan skamms og hann sendi sinn
Engil og lét hann sýna þad Jóhannesi, sínum
2. þjóni, hverr ed kunngjördi * Guds ord og vitnis-
burdinn um Jesúm Krist, * eins og hann vissi.

V. 24. Róm. 16, 25. Eph. 3, 20. 1 Cor. 1, 5.
V. 25. Róm. 16, 27. 1 Tim. 1, 17. 1 Pét. 5, 11.
V. 1. * v. 19. Kap. 22, 6. 7.
V. 2. * Kap. 6, 9. * 1 Jóh. 1, 1.

* Sæll er sá, sem les þessi spádóms orð og þeir, 3.
sem heyra þau og geyma það, sem þarí er skrif-
að; því * tíminn er nálægur. Jóhannes heils- 4.
ar þeim * sjø söfnuðum í Asíu: * náð sé með
yður og friður * af þeim, sem er og þeim, sem
var og þeim, sem koma mun og af þeim * sjø
öndum, sem eru frammi fyrir hans hásæti og 5.
af Jesú Kristi, þeim trúa vottinum, * frum-
burði framliðinna, * höfðingja jarðarinnar Kón-
únga, honum, sem * elskaði oss og * þvoði oss
af vorum syndum með sínu blóði og hefir gjört 6.
af oss * Konúnga, kennimenn síns Guðs og Føð-
urs; honum sé dýrð og kraptur um aldir alda,
Amen! Sjá! hann kémur * í skýunum og 7.
hvert auga * mun sjá hann, eins þeir, sem hann
gegnum-stúngu og allar kynqvíslir jarðarinnar
munu fyrir honum skélfast; já, vissulega mun
svo verða. Eg em A og O, * segir Guð Drott- 8.
inn, sá, sem er og var og koma mun, sá alvaldi.
Eg Jóhannes, yðar bróðir og ásamt yð- 9.
ur * hluttakandi í þrenngíngu, í ríki og eptirvænt-

X

---

V. 3. * Kap. 22, 7. * Róm. 13, 11. 1 Pét. 4, 7. Jak. 5, 8. Opinb b. 22, 10.
V. 4. * v. 11. * Róm. 1, 7. * 2 Mós. b 3, 14. Opinb. b. 1, 8. 4, 8. 11, 17. 16, 5. Hebr. 13, 8. * 3, 1.
V. 5. * Cól. 1, 18. 1 Cor. 15, 20 * Opinb. b. 17, 14. 19, 16. * Gal. 2, 20. Opinb. b. 5, 8. * 1 Pét. 1, 18. 19. 1 Jóh. 1, 7.
V. 6. * Esa. 61, 6. 1 Pét. 2, 5. 9.
V. 7. * Dan. 7, 13. Post. G. b. 1, 11. * Jóh. 19, 37.
V. 8. * Kap. 22, 13. V. 9. * Róm. 8, 17.

íng Jesú Krists, eg var á þeirri eyu, sem kall-
ast Patmus, fyrir sakir Guds ords og vitnis-
10. burdar Jesú Krists. Eg * var í anda á Drott-
ins degi og * heyrdi á bak mér mikla raustu,
11. sem lúdur gilli; hún sagdi: skrifa þú í bók
þad, sem þú sier og send þad þeim sjø sefnut-
udum í Ephesus, Smyrna, Pergamus, Thya-
12. tíra, Sardes, Philadelphíu og Laódíceu. Eg
snéri mér vid, til ad vita hvada raust þad
væri, sem vid mig taladi og sem eg snéri mér
13. vid, sá eg * sjø ljósa-stikur gulllegar og medal
þeirra * ljósa-stikna einhvern líkann * manns
syni; hann var í skósídu klædi og spennt gull-
14. belti um bringuna; * hefud hans og hár var,
eins og hvít ull, eins og mjøll, hans * augu
15. vóru sem elds logi; hans fætur sem glóandi lát-
ún í elds-ofni; hans * málrómur sem nidur marg-
16. ra vatnsfalla. Hann hafdi * sjø stjernur í sinni hæg-
ri hendi og af hans munni géck * tvíeggjad sverd
biturt, af hans * andlíti ljómadi sem af sólu,
17. þá hún skín í krapti sínum. En þá eg sá hann,
féll eg fyrir fætur honum, sem daudur væri;
hann lagdi þá sína hægri hønd yfir mig og
sagdi: hrædstu ecki, eg em hinn fyrsti og sídasti
18. og sá lifandi; eg dó, en, sjá! eg lifi um aldir

---

V. 10. * Kap. 4, 2. * Kap. 10, 3. 8.
V. 12. * 2 Mós. b. 25, 37.
V. 13. * Kap. 2, 1. * Esa. 1, 26. Dan. 7, 13. Opinb. b.
15, 6.
V. 14. * Dan. 7, 9. 2, 18. * Kap. 2, 18. 19, 12.
V. 15. * Kap. 14, 2. 19, 6.
V. 16. * Kap. 1, 20. * Esa. 49, 2. Eph. 6, 17. Hebr. 4,
12. * Matth. 17, 2.

alda og eg * hefi lykla daudans og undirheima.
Skrifa því hvad þú sjed hefir, bædi þad, sem 19.
er og * hvad hér eptir skal ské. Þessi er leynd- 20.
ardómurinn þeirra * sjø stjarna, sem þú hefir
sjed í minni hægri hendi: þær sjø stjørnur eru
englar þeirra sjø safnada, en þær sjø ljósa-stik-
ur eru þeir sjø safnadir.

I.) Hvad Jóhannes á ad skrifa søfnudinum í **2. Kap.**
Ephesus v. 1—7. II.) í Smyrna v.
8—11. III.) í Pergamus v. 12—17.
IV.) í Thyatiru v. 18—29.

Skrifa þú engli safnadarins í Ephesus: þetta 1.
segir sá, sem heldur á þeim * sjø stjernum í
sinni hægri hendi og gengur medal þeirra sjø
gullegu ljósa-stikna. Eg þecki þín * verk, þína 2.
mædu og þolgjædi og veit ad þú ecki lídur þá,
sem vondir eru; þú hefir * prófad þá, sem hafa
þóktst vera Postular, en vóru þad þó ecki og
hefir fundid ad þeir vóru lygarar. Þú hefir samt 3.
haft * þolinmædi og umborid þá mín vegna og
ecki þreyttst. En * þad þyki mér ad þér, ad 4.
þú hefir sleppt þínum fyrri kjærleika. Gádu 5.
því ad hverju þú hefir sleppt, * sjádu ad þér
og breyttu eins og fyrrum; ellegar skal eg finna



---

V. 18. * Psálm. 68, 21. V. 19. * v. 11. 4, 1.
V. 20. * Kap. 2, 1.
V. 1. * Kap. 1, 13. 16. 20.
V. 2. * 1 Thess. 1, 3. Opinb. b. 2, 9. 13. 19. * 1. Jóh 1, 2.
V. 3. * Hebr 10, 36. V. 4. * v. 14, 20.
V. 5. * Mark. 1, 15.

þig brádum og þoka þinni ljósastiku úr stad,
6. nema þú sjáir ad þér. En þess máttu þó
njóta, ad þú hatar * athæfi þeirra Nikolaita,
7. eins og eg. Hverr, sem * eyru hefir, hann heyri
hvad andinn segir søfnudunum: þeim, * sem sigr-
ar, mun eg gefa ad eta * af lífsins trénu, sem
stendur í aldingardi míns Guds.
8. Skrifa þú Engli safnadarins í Smyrna: þetta
segir sá * fyrsti og sídasti, sá sem dó og * end-
9. urlifnadi, eg þecki * þín verk, þraung þína og
fátækt, (en þú ert samt * ríkur) og lastmæli
þeirra gégn þér, sem kalla sig * Guds fólk, en
10. eru þad þó ecki, heldur søfnudur Satans. * Qvíddu
ecki því mótlæti, sem þú átt fyrir høndum.
Bústú vid því, ad djøfullinn mun varpa nockr-
um ydar í fángélsi til ad freistast og þér mun-
ud þreyngíngu hafa í 10 daga. * Vertu stødugur
allt til daudans, þá skal eg géfa þér * lífsins
11. kórónu. Hverr, sem * eyru hefir hann heyri
hvad andinn segir søfnudunum: þeim, sem sigrar
honum skal sá * annar daudi eckert granda.
12. Skrifa þú engli safnadarins í Pergamus:
þetta segir sá, sem hefir þad * tvíeggjada bitra

V. 6. * Kap. 2, 15.
V. 7. * Matth. 11, 15. Opinb. b. 3, 6. * v. 17, 26. * 1 Mós. b. 2, 9. Opinb. b. 22, 2.
V. 8. * Esa. 41, 4. 48, 12. Opinb. b. 1, 11. * v. 18.
V. 9. * v 2. * Kap. 3, 17. * Róm. 2, 17. Jóh. 8, 39.
V. 10. * Matth. 10, 28. * Matth. 10, 22. Hebr. 3, 14. Opinb. b. 3, 11. * 1 Cor. 9, 25. 2 Tim. 4, 7. 8. Jak. 1, 12.
V. 11. * Matth. 11, 15. 13, 9. * Kap. 20, 14. 21, 8.
V. 12. * Kap. 1, 16. Hebr. 4, 12.

sverd: eg þecki þín verk og veit ad þú býr 13.
þar, sem * Satans adsetur er. Samt * heldur
þú stødugt vid mitt nafn og hefir ecki afneitad
minni trú, jafnvel ecki í þann tíd ad minn * trú-
fasti vottur Antípas var líflátinn hjá ydur, þar,
sem Satan býr. Þó * þyki mér fátt eitt ad þér, 14.
ad nockrir eru þeir hjá þér, sem halda vid *
kénníngu Balaams þess, er kénndi Balaak ad
leggja snøru fyrir Gydínga svo þeir æti afguda-
fórnir og drýgdu saurlifnad; allt eins hefir þú 15.
nockra hjá þér, sem halda vid * kénníngu Ni-
kolaitanna. * Sjádu því ad þér, ellegar mun 16.
eg brádum finna þig og * vega ad þeim med
sverdi míns munns. Hverr, * sem eyru hefir 17.
heyri hvad andinn segir søfnudunum: þeim, sem
sigrar, skal eg géfa ad eta af því * hulda
himnabraudi; eg skal géfa honum hvítann hlut
med áskrifudu * nýu nafni, sem enginn þeckir,
nema sá, er vidtekur.

Skrifa þú engli safnadarins í Thyatíru: 18.
Þetta segir Guds Sonur, hvers * augu eru
sem elds logi og hvers fætur eru sem látún. Eg * 19.
þecki þín verk, þína elsku, trúmennsku og þjón-
ustu og þitt stødugleyndi; þín sídari góðverk eru
fleiri enn hin fyrri. En * þad þykir mér ad 20.

V. 13. * Kap. 13, 2. * Kap. 3, 8. * Kap. 1, 5.
V. 14. * v. 4. 4 Mós. 22, 5. 25, 2. 31, 16. Júd. v. 11.
V. 15. * v. 6.
V. 16. * Matth. 3, 2. * 19, 15. 21. * Esa. 11, 4. 49, 2.
2 Thess. 2, 8. Opinb b. 1, 16.
V. 17. * v. 7. 11. * v. 26. * Jóh. 6, 50. 51. Opb. b. 3, 12.
V. 18. * Kap. 1, 14. 15. V. 19. * v. 2. 9. 13.
V. 20. * v. 4. * Post. G. b. 15, 20. 1 Cor. 10, 19. 20.

þér, að þú líður Jessabel konu þinni, sem þyk-
ist vera spákona og afvegaleiðir mína þjóna með
sínum kénníngum, að * drýgja saurlifnað og eta
21. afguða fórnir. Eg * hefi géfið henni frest til
að sjá að sér, en hún vill þó ecki láta af sínum
22. saurlifnaði. Sjá! eg mun * kasta henni í reck-
ju og þeim, sem hórast með henni, í miklar
23. þreyngíngar, ef þeir bæta ecki ráð sitt. Börn
hennar skal eg drepa til dauðs, svo að allir
sefnuðir viti, að eg em sá, * sem rannsaka hjört-
un og nýrun og séxhverjum yðar * skal eg gjalda
24. eptir hans verkum. En yður segi eg, hinum öðr-
um í Thyatíru, sem ecki haldið við þessa kénn-
íngu og ecki hafið kannað djúp Satans, sem
25. þeir svo kalla: uppá yður skal eg enga aðra
byrði leggja, * en haldið því, sem þér hafið,
26. þar til eg kém. Þeim, sem * sigrar og heldur
til enda mín boðorð, skal * eg géfa vald yfir
27. heiðnum þjóðum; hann skal * smala þeim með
28. járnstaf og sundurmola eins og leirker; því-
líkt vald * féck eg líka hjá mínum Föður og
29. eg skal géfa honum * morgunstjernuna. Hverr,
* sem eyra hefir hann heyri hvað andinn seg-
ir söfnuðunum.

V. 21. * Spek. b. 10, 12. Róm. 2, 4.
V. 22. * Kap. 18, 9.
V. 23. * Psálm. 7, 10. Jer. 11, 20. Jóh. 2, 24. 25.
* Psálm. 62, 13. Róm. 2, 6.
V. 25. * Kap. 3, 11.
V. 26. * v. 7. 11. 17. * Psálm. 2, 8. 1 Cor. 6, 2.
V. 27. * Kap. 12, 5. 19, 15. * Kap. 3, 21. Lúk. 22, 29.
V. 28. * 2 Pét. 1, 19. Opinb. b. 22, 16.
V. 29. * Kap. 3, 6.

I.) Hvad Jóhannes á ad skrifa søfnudinum í Sardes v. 1—6. II.) í Philadelphiu v. 7—13. III.) í Laódiceu v. 14—22.

## 3. Kap.

Skrifa þú Engli safnadarins í Sardes: þetta 1.
segir sá, sem * hefir þá sjø anda Guds og * þær
sjø stjernur. * Eg þecki háttalag þitt, ad þú
lifir ad nafninu, en ert þó daudur, * vaknadu 2.
og styrk hid annad, sem ætlar ad deya, því eg
hefi fundid margt ábótavant í fari þínu fyrir
Guds augliti. Rifjadu upp fyrir þér, hvad 3.
þú hefir numid og heyrt og bættú rád þitt;
því ef þú vakir ecki, skal * eg koma ad þér
eins og þjófur og ecki veitstú á hverri stundu eg
muni koma yfir þig, þó eru fáeinir menn hjá 4.
þér í Sardes, sem ecki hafa saurgad sín klædi;
þeir skulu vera hjá mér * í hvítum búníngi, því
þeir eru þess maklegir. Sá, sem sigrar, hann 5.
skal skrýdast hvítum búníngi og hans nafn skal
eg ecki afmá af * lífs=bókinni; eg skal * kannast
vid hans nafn fyrir mínum Fødur og fyrir hans
Englum. Sá, sem eyra hefir, hann heyri hvad 6.
andinn segir søfnudunum.

Skrifa þú Engli safnadarins í Philadel= 7.
phíu: þetta segir sá heilagi, sá sanni, sem hefir

---

V. 1. * Kap. 1, 4. 4, 5. * Kap. 1, 16. * Kap. 2, 9.
V. 2. * 1 Cor. 15, 34. Eph. 5, 14.
V. 3. * Kap. 2, 5. 3, 19. * Matth. 24, 43. 1 Theff. 5, 2. Opinb. b. 16, 15.
V. 4. * Kap. 4, 4. 6, 11.
V. 5. * Phil. 4, 3. Lúk. 12, 8. Opinb. b. 29, 12. * Matth. 10, 32.

lykil Davíds *, hann, sem lýkur svo upp, ad enginn * læsir aptur og læsir svo aptur, ad enginn
8. lýkur upp. Eg þecki þín verk; sjá! eg hefi lokid svo upp dyrunum fyrir þér, ad enginn getur lokad þeim aptur; því þú hefir lítinn mátt, en hefir þó haldid mín ord og ecki afneitad mér.
9. Sjá! eg skal láta nockra af Satans søfnudi, sem segjast vera * Guds fólk, en eru þad þó ecki heldur ljúga, eg skal láta þá koma og kasta sér fløtum fyrir
10. fætur þér, svo þeir viti ad eg elska þig. Fyrir þad ad þú hefir vardveitt mitt bodord um stødugslyndi, eg skal líka vardveita þig frá þeirri rauna stund, sem * koma mun yfir allann heim
11. til ad reyna jardarinnar innbúa. Eg * kém brádum, * haldtú fast því, sem þú hefir, svo
12. enginn taki frá þér þína * kórónu. Hann, sem sigrar, skal eg gjøra ad máttartré í * musteri míns Guds og hann skal þadan aldrei út fara eg skal skrifa á hann nafn míns Guds og * nafn hinnar nýu Jerúsalem, borgar míns Guds þeirrar, er kémur af himni ofan frá mínum Gudi
13. og mitt nýa nafn. Hverr, sem eyra hefir, hann heyri hvad andinn segir søfnudunum.
14. Skrifa þú Engli safnadarins í Laódíceu: Þetta segir sá óbrygdull, sá trúi og * sanni vott-
15. urinn, upphaf Guds skepunar. Eg þecki hátta-

V. 7. * 1 Jóh. 5, 20. * Jóh. 12, 14.
V. 9. * Róm. 2, 28. Opinb. b. 2, 9.
V. 10. * Post. G. b. 11, 28.
V. 11. * Phil. 4, 5. Opinb. b. 1, 3. * Kap. 2, 25. * 1 Cor. 9, 25.
V. 12. * Kap. 14, 1. 22, 4. * Kap. 21, 2. 10. Gal. 4, 26. Hebr. 12, 22. V. 14. * v. 7.

lag þitt, ad þú ert hverki kaldur né heitur; skárra
væri ad þú værir annadhvert kaldur eda heitur;
en eins og þú ert nú, hálfvolgur, hverki heitur 16.
né kaldur, mun eg skirpa þér útaf mínum munni.
Þú segir: eg em * ríkur og vel audugur ordinn 17.
og þarfnast einskis; en þú veitst ecki ad þú ert
vesælingur, aumíngi og fátæklíngur, blindur og
* nakinn. Eg ræd þér ad kaupa af mér eld- 18.
skírt gull, svo þú verdir ríkur og * hvít klædi
til ad skýla þér med, svo ad ecki auglýsist van-
virda þíns fatleysis; berdú augna smyrsl á augu
þín, svo þú verdir sjáandi. Eg aga þá og vanda 19.
um vid þá, sem eg * elska; leggdú því allt
kapp * á ad bæta rád þitt. Sjádú! eg stend vid 20.
hurdina og drep á dyr; sá, sem heyrir raust
mína og lýkur upp fyrir mér, til hans * mun
eg inngánga og vid skulum eta qvöldverd sam-
an. Þann, sem sigrar, skal eg láta * sitja hjá 21.
mér í mínu hásæti, eins og eg sjálfur ad unnum
sigri settist hjá mínum Födur í hans hásæti.
Sá, sem hefir eyra, hann heyri hvad andinn 22.
segir söfnudunum.

Jóhannes sier dyrd Guds v. 1—11. **4. Kap.**

Eptir þetta gat eg ad líta hvar dyr lukust upp 1.
á himni og sú raust, sem eg ádur hafdi heyrt

V. 17. * 1 Cor. 4, 8. Opinb. b. 2, 9. * 16, 15.
V. 18. * Kap. 16, 15. 19, 8.
V. 19. * Job. 5, 17. Ordsqv. b. 3, 12. Hebr. 12, 6. * Matth. 3, 2. Opinb. b. 2, 5. 16.
V. 20. * Jóh. 14, 21. 23.
V. 21. * Matth. 19, 28. 1 Cor. 6, 2. 2 Tim. 2, 12. Jóh. 17, 24.

A

vid mig tala sem gjallanda lúdur, sagdi; kom
hingad upp og mun eg sýna þér hvad héreptir
2. skal ské. Eg * vard strax í anda og sá ad há=
3. sæti stód á himni og * einhverr sát á því; sá
var ásýndum líkur Jaspis= og Sardis=steini og
í kríngum hásætid gékk regnbogi, sem Smarag=
4. dus á ad sjá. Umhverfis hásætid * vóru 24
hasæti og á hásætunum sá eg sitja 24 Öldúnga,
skrýdda hvítum klædum og hofdu á hofdum sér
5. gull=legar kórónur. Utfrá hásætinu gengu eld=
íngar, gnýhljód og þrumur og sjö logandi eld=
leg blis brunnu fyrir hásætinu, þad eru þeir sjö
6. andar Guds. Frammi fyrir hásætinu var sem
glersjór, líkur krystalli; fyrir midju hásætinu og
umhverfis þad vóru fjegur dýr, alsett augum í
7. bak og fyrir. Eitt dýrid var líkt * ljóni, annad
kálfi, þridja dýrid hafdi manns andlit og þad
8. fjórda var líkt erni á flugi. Þau fjegur dýrin
hofdu sex vængi hvert, alsetta augum umhverfis
og innanverdt. Þau hrópudu án afláts dag og
nótt; * heilagur, heilagur, heilagur, Drottinn
Gud alvaldi, sá, sem er og var og vera mun.
9. Og þegar dýrin gjalda honum dýrd og heidur
og þackir, sem á hásætinu situr, honum, sem lifir
10. um aldir alda, þá falla þeir 24 Öldúngar
framm fyrir þeim, sem á hásætinu situr og til=
bidja þann, sem lifir um aldir alda og varpa
sínum kórónum nidur fyrir hásætinu og segja;

V. 2. * Kap. 1, 10. * Kap. 5, 1.
V. 4. * Kap. 11, 16. V. 7. * Ezech. 1, 10.
V. 8. * Esa. 6, 3. Opinb. b. 1, 4. 8. 11, 17.

þér, Drottinn! * ber vegsemd, heidur og krapt- 11.
ur, því þú hefir * skapad alla hluti og fyrir
þinn vilja eru þeir til ordnir og skapadir.

Bókin og lambid v. 1—14. 5. Kap.

I hægri hendi þess, er * í hásætinu sat, sá eg 1.
bók, sem skrifud var bádum megin og innsiglud
med sjö innsiglum. Þá sá eg * sterkann Engil, 2.
sem hrópadi hárri röddu: hverr er þess verdur
ad brjóta frá innsiglin bókarinnar og opna hana.
En enginn var sá á himni eda jördu eda und- 3.
ir jördunni, sem opnad gæti bókina og sjed í
hana. Eg grét stórum af því, ad enginn skyldi 4.
sá finnast, sem verdugur væri ad opna bókina
og líta í hana. Þá sagdi einn af Öldúngunum 5.
vid mig: grát ecki! vit þad, ad ljónid af * Júdæ
ættqvísl, * afsprýngur Davíds, hefir sigur unn-
id, svo þad getur brotid frá þau sjö innsigli bók-
arinnar og * opnad hana. Þá sá eg * lamb, 6.
eins og slátrad, standa milli hásætisins og þeirra
fjögurra dýranna og Öldúnganna, þad hafdi sjö
horn og sjö augu, sem eru þeir sjö andar Guds,
sendir út um allann heim. Þad kom og tók vid 7.
bókinni af hægri hendi þess, er í hásætinu sat.
Og þá þad hafdi tekid vid bókinni, féllu þau 8.
fjögur dýrin og þeir 24 Öldúngar fram fyrir
lambinu og héldu hverr um sig á hörpum og

V. 11. * Kap. 5, 12. * Kap. 10, 6. 14, 7.
V. 1. * Kap 4, 2. V. 2. * Kap. 10, 1.
V. 5. * 1 Mós. b. 49, 90. * Esa. 11, 1. 10. Róm. 15, 12.
Opinb. b. 22, 16. * Kap. 6, 1. fl.
V. 6. * Jóh. 1, 29. 1 Pet. 1, 19.

gullskálum fullum af reykélsi, það eru bænir
9. heilagra. Þá súngu þeir nýann lofsaung, svo
mælandi: verdugur ert þú ad taka vid bókinni
og opna hennar innsigli, því þér hefir verid
slátrad og þú hefir keypt oss Gudi til handa,
af øllum kynqvíslum, túngumálum, þjódum og
10. ættum * med þínu blódi; þú hefir gjørt oss ad
Konúngum og kennimønnum fyrir vorum Gudi,
11. ad vér skyldum ríkja yfir jørdunni. Sídan sá
eg og heyrdi umhverfis hásætid, dýrin og Øld-
úngana, raustu margra Engla, sem vóru ad tølu
tíu þúsundir tíu þúsunda og þúsundir þúsunda;
12. þeir søgdu med hárri røddu: verdugt er * það
slátrada lambid * ad medtaka vald og ríkdóm,
13. vitsku og krapt, heidur, dýrd og þackir. Þá heyrda
eg hverja * skêpnu á * himni og jørdu og und-
ir jørdunni og allt hvad í sjónum er, undirtaka
og segja: þeim, sem í hásætinu situr og lamb-
inu séu þackir og heidur, dýrd og kraptur um
14. aldir alda; og þau fjøgur dýrin søgdu: Amen!
en Øldúngarnir féllu framm og * tilbádu.

## 6. Kap. Lambid opnar 1ta, 2ad, 3ja, 4da, 5ta og 6ta innsiglid v. 1—17.

1. Nú sá eg ad lambid opnadi eitt af þeim sjø inn-
siglum og heyrdi eitt af þeim * fjórum dýrum

---

V. 9. * Post. G. b. 20, 28. 1 Cor. 6, 20. 7, 23. Eph. 1, 7. 2 Pét. 2, 1. Hebr. 9, 12. 10, 10.
V. 10. * 1 Pét. 2, 5. 9. Opinb. b. 1, 6.
V. 12. * Kap. 13, 8. * Kap. 4, 11. 7, 10. 12.
V. 13. * Psálm. 148, 1. fl. * Phil. 2, 10.
V. 14. * Kap. 4, 10. V. 1. * Kap. 4, 6. 7.

segja eins og med þrumugný: kom og sjá! Þá 2.
sá eg * hvítann hest og sá, sem á honum sat,
héldt á boga. Honum var gefin kóróna og hann
fór af stad sigrandi og til ad sigra. Þegar lambid 3.
opnadi annad innsiglid heyrdi eg annad dýrid 4.
segja: kom! Þá gékk út annar hestur raudur;
þeim, sem á honum sat, var gefid vald til ad *
eyda fridi á jørdunni, svo ad menn slátrudu
hverr ødrum og honum var fengid í hendur mik-
id sverd. Þegar lambid opnadi þridja innsigl- 5.
id heyrdi eg þridja dýrid segja: kom og skoda!
Þá sá eg * svartann hest; sá sem honum reid,
héldt á metum í hendinni. Þá heyrdi eg raustu 6.
medal þeirra fjøgurra dýranna, sem sagdi: einn
mælir hveitis tólf skildínga og þrír mælirar
byggs tólf skildínga; en eigi skaltú vidsmjørinu
eda víninu granda. Þegar lambid opnadi fjórda 7.
innsiglid, heyrda eg fjórda dýrid segja: kom og
skoda! Þá sá eg * bleikann hest, sá sem honum 8.
reid hét daudi og helvíti var í før med hon-
um; honum var gefid vald til ad drepa fjórda
part jardar-búanna med * sverdi, húngri, drep-
sótt og jardarinnar vørgum. Þegar lambid 9.
opnadi fimta innsiglid, sá eg fyrir nedan *
altarid sálir þeirra manna, sem drepnir høfdu
verid * fyrir sakir Guds ords og þess vitnis-
burdur, sem þeir høfdu haldid; þar * hrópudu 10.
háhstøfum og søgdu: þú heilagi og sannordi Drott-

V. 2. * Kap. 19, 11. fl.
V. 4. * Matth. 24, 6. 7. V. 5. * Zach. 6, 2.
V. 8. * Zach. 6, 3. 6. * Ezech. 14, 13. fl.
V. 9. * Kap. 8, 3. 9, 13. 14, 18. * Kap. 1, 9. 19, 10. fl.
V. 10. * Lúk. 18, 7.

inn, hvad skal þad lengi vara, ad þú dæmir og
11. hefnir vors blóds á innbúum jardarinnar? Þeim
var fénginn hvít kápa og sagt, ad þær skyldu
bída vid enn þá stundarkorn, þar til komnir
væru samþjónar þeirra og brædur, sem deydast
12. skyldu eins og þeir sjálfir. Þegar lambid opn-
adi sjötta innsiglid, sá eg ad * mikill jardskjálfti
vard; * sólin sortnadi eins og hærusekkur og allt
13. túnglid vard eins og blód; stjörnur himins hrap-
udu nidur á jördina eins og þá fíkjutré, skak-
id af stormvindi, kastar nidur fíkjum sínum;
14. * himininn hvarf eins og samanvafid bókfell og
hvert * fjall og ey færdst úr stödvum sínum; *
15. konúngar jardarinnar, höfdíngjar og Hersföríng-
jar, ríkismenn og maktarmenn, þegn og þræll,
16. * földu sig í hellirum og hömrum fjallanna og
sögdu * til fjallanna og hamranna: hrynjid yfir
oss og felid oss fyrir ásjónu þess, sem í hásæt-
17. inu situr og fyrir reidi lambsins; því nú er
kominn sá * mikli dagur hans reidi; hverr fær
nú stadist?

## 7. Kap. I.) Gydínga ættqvíslir innsiglادar v. 1—8. II.) Lofsaungur þjódanna v. 9—17.

1. Eptir þetta sá eg fjóra Engla, sem stódu á
fjórum hornum jardarinnar, þeir héldu þeim
fjórum vindum jardarinnar, svo vindur nædi ecki

---

V. 12. * Kap. 16, 18. * Lúk. 21, 25. Post. G. b 2, 20.
V. 14. * Psálm. 102, 27. Lúk. 21, 33. * Kap. 16, 20.
V. 15. * Kap. 19, 18. 19. * Esa. 2, 19.
V. 16. * Lúk. 23, 30.
V. 17. * Esa. 13, 9. Róm. 2, 5.

ad blása yfir jørdina, eda hafid eda nockurt tré.
Annann Engil sá eg stiga upp úr sólaruppkomu- 2.
stad, sá héldt á * innsigli hins lifanda Guds og
hrópadi hárri reddu til þeirra fjegurra Engl-
anna, sem vald høfdu fengid til ad granda jørd-
unni og sjónum. Hann sagdi: grandid hvørki 3.
jørdunni, né sjónum, né trjánum, þar til * vér
høfum innsiglad þjóna Guds á ennum þeirra.
Þá heyrda eg tølu þeirra innsigludu; af øllum 4.
ættqvíslum, Gydinga, vóru innsiglada hundrad
fjørutíu og fjórar þúsundir. af Júdasar ættqvísl 5.
vóru tólf þúsundir innsiglada; af Rúbens ætt-
qvísl vóru tólf þúsundir innsiglada; af Gads
ættqvísl vóru tólf þúsundir innsiglada; af Ass- 6.
ers ættqvísl vóru tólf þúsundir innsiglada; af
Neftalims ættqvísl vóru tólf þúsundir innsiglad-
ar; af Manasses ættqvísl vóru tólf þúsundir
innsiglada; af Simeons ættqvísl vóru tólf þús- 7.
undir innsiglada; af Leví ættqvísl vóru tólf
þúsundir innsiglada; af Isaschars ættqvísl vóru
tólf þúsundir innsiglada; af Zebúlons ættqvísl 8.
vóru tólf þúsundir innsiglada; af Jóseps ætt-
qvísl vóru tólf þúsundir innsiglada; af Benja-
míns ættqvísl vóru tólf þúsundir innsiglada.
Eptir þetta sá eg mikinn fjølda manna, 9.
svo ad eigi vard tølu á komid, af * allskyns fólki,
kynqvíslum, þjódum og túngumálum; þeir stódu
frammi fyrir hásætinu og frammi fyrir lamb-
inu klæddir * hvítum kápum med pálmvidar.

V. 2. *) Kap. 14, 1. V. 3. * Kap. 9, 4.
V. 9. * Kap. 5, 9. * Kap. 3, 5. 18. 6, 11. 19, 8.

10. greinir í hendum sér. Þeir * felludu upp hárri
röddu segjandi: * frelsid er ad þacka vorum
11. Gudi, sem í hásætinu situr og lambinu. Og all-
ir Englar, sem stódu umhverfis hásætid og Öld-
úngana og þau fjøgur dýrin, féllu þá fram á
ásjónur sínar fyrir hásætinu og tilbádu Gud,
12. svo mælandi: Amen! * lof og dýrd, vitska og
þackargjørd, heidur og vald og kraptur sé Gudi
13. vorum um aldir alda, Amen! Einn af Öld-
úngunum taladi til mín og sagdi: þessir, sem
skrýddir eru hvítum skyckjum, hverjir eru þeir
14. og hvadan eru þeir komnir? Eg svaradi hon-
um: Herra minn! þú veitst þad. Þá sagdi hann
vid mig: þetta eru þeir, sem komnir eru úr
hørmúnginni miklu og hafa * þvegid sínar skyck-
15. jur og hvítfágad þær í blódi lambsins. Þess
vegna eru þeir frammi fyrir hásæti Guds og
þjóna honum dag og nótt í hans musteri og sá, sem
16. í hásætinu situr mun * tjalda yfir þeim. Þá
mun hverki * húngra né þyrsta framar og ecki
mun * sólarhiti eda nockurt bruni á þá falla.
17. Því * lambid, sem er fyrir midju hásætinu, * mun
gæta þeirra og vísa þeim á lifandi vatns lindir og
* Gud mun þerra hvert tár af þeirra augum.

---

V. 10. * Kap. 6, 10. * Psálm. 3, 9. Esa. 43, 11.
V. 12. * Kap. 5, 12.
V. 14. * Hebr. 9, 14. Opinb. b. 1, 5.
V. 15. * Esa. 4, 5. 6.
V. 16. * Esa. 49, 10. * Psálm. 121, 6.
V. 17. * Kap. 5, 6. * Jóh. 10, 10. 11. * Esa. 25, 8.
Opinb. b. 21, 4.

I.) Lambid opnar 7da innsiglid v. 1. II.) Englar med sio básúnum v. 2—6. III.) Sá 1ti, 2ar, 3ji og 4di Engill básúnar v. 7—13.

## 8. Kap.

En þegar lambid opnadi sjeunda innsiglid, 1.
vard þögn á himni hérumbil hálfa stund.
Þá sá eg sjo Engla, sem stódu frammí 2.
fyrir Gudi; þeim vóru fengnar * sjo básúnur.
Þá kom annar Engill og * stadnæmdist vid 3.
altarid, hann hélt * á gulllegu reykélsis keri;
honum var fengid mikid af reykélsi, til þess ad
brenna því á því gullllega altari, sem var frammí
fyrir hásætinu, medan allir heilagir væru ad bid-
jast fyrir og undir bænum * heilagra sté reyk- 4.
urinn af reykélsinu úr hendi Engilsins fram fyr-
ir Gud. Sídan tók Engillinn reykélsis kerid, 5.
fyllti þad med eldi af altarinu og varpadi því
ofan á jördina; urdu þá gnýhljód og þrumur
og eldíngar og landskjálfti. Þeir sjo Englar, 6.
sem héldu á þeim sjo básúnum bjuggu sig þá
til ad blása.
Þegar sá fyrsti básúnadi, vard hagl og eld- 7.
ur blódi blandad og dundi ofan á jördina; þá
brann þridjúngur jardarinnar og þridjúngur
trjánna og allt grængresi. Þegar annar Eng- 8.
illinn básúnadi, féll ofan í sjóinn líka sem stórt
fjall, logandi af eldi og þá vard þridjúngur sjáf-
arins ad blódi; dó þá þridjúngur lifandi sképna 9.



V. 2. * 1 Cor. 15, 52.
V. 3 * Kap. 6, 9. 9, 13. 14, 18. * Kap. 5, 8.
V. 4. * Post. G. b. 10, 4.

10. í sjónum og þridjúngur skipanna fórst. Þegar
þridji Engillinn básúnadi, féll af himni * stór
stjarna, logandi sem blis og datt yfir þridjúng
11. ánna og yfir uppsprettur vatnanna. Þessi stjarna
hét Remma, þá vard þridjúngur vatnanna
rammur og margir menn dóu af því, ad vötn-
12. in vóru beisk ordin. Þegar fjórdi Engillinn
básúnadi, vard lostinn þridjúngur sólarinnar og
túnglsins og stjarnanna, svo ad þau formirkvud-
ust um þridjúng og dagurinn misti þridjúng
13. sinnar birtu og nóttin sömuleidis. Sídan sá eg
og heyrdi einn örn fljúga um midhimininn, hann
kalladi hárri röddu: * vei vei, vei! þeim, sem
á jördu búa, vegna lúdur-þyts hinna þriggja
Engla, sem héreptir munu básúna.

## 9. Kap. Sá 5ti og 6ti Engill básúnar v. 1—21.

1. Þegar sá fimti Engill básúnadi, sá eg stjörnu
falla af himni ofan á jördina; henni var feng-
2. inn lykill ad brunni afgrunnsins. Hún lauk
upp brunni afgrunnsins og þá lagdi reyk upp af
brunninum eins og af stórum elds-ofni og sólin
og loptid vard * formirkvad af reyknum úr
3. brunninum. Engisprettur fóru úr reyknum of-
an á jördina, þær vóru eins magnadar og jard-
4. ar-höggormar. Þeim var bannad ad granda
grasi jardarinnar og öllum grænum jurtum og
trjám, nema þeim mönnum, sem ekki höfdu *
5. innsigli Guds á ennum sínum. Þeim var svo

V. 10. * Kap. 9, 1.
V. 13. * Kap. 9, 12. 11, 14. 15, 1.
V. 2. * Kap. 8, 12. V. 4. * Kap. 7, 3.

bodid ad þær dræpi þá ecki, heldur qveldi þá í
fimm mánudi; þessi qvøl var eins og þegar
høggormur stíngur mann. Á þeim tímum munu 6.
menn * leita daudans, en ecki finna hann; þeir
munu æskja sér ad deya, en daudinn mun ford-
ast þá. Engisprettürnar vóru svipadar hestum, 7.
búnum til bardaga; á høfdum þeirra vóru eins
og gullkórónur og ásjónur þeirra vóru eins og á
mønnum. Þær høfdu hár eins og qvennmanns hár 8.
og * tennur eins og ljóns tennur; brynjur þeirra 9.
vóru eins og járnbrynjur og vængja þyturinn eins
og * vagna gnýr, þá margir hestar hlaupa fram
til bardaga. Þær hefdu stél, lík høggorma spord- 10.
um og brodda í stélunum. Þær hefdu vald til
ad granda mønnunum í fimm mánudi. Engill 11.
afgrunnsins er Konúngur yfir þeim; hann heit-
ir á Hebresku Abaddón, en á Grísku Apol-
lyón (eydileggjari). Sú fyrsta * plága var nú 12.
umlidin, en tvær adrar koma hér á eptir.
Þegar sjötti Engillinn básúnadi heyrdi eg 13.
eina rødd fara frá fjórum hyrníngum þess * gull-
lega altaris, sem frammi var fyrir Gudi; hún 14.
sagdi vid sjøtta Engilinn, sem héldt á básún-
unni: * leys þá fjóra Engla, sem fjøtradir eru
hjá * því mikla fljóti Evphrat. Sídan vóru 15.
þeir fjórir Englar leystir og stódu þeir vidbún-
ir á hverri stundu, á hverjum degi, mánudi og



V. 6. * Job. 3, 21. Esa. 2, 19. Jer. 8, 3. Hós. 10, 8. Luk. 23, 30. Opinb. b. 6, 16.
V. 8. * Jóel. 1, 6. V. 9. * Jer. 47, 3.
V. 12. * Kap. 8, 13. V. 13. * Kap. 8, 3.
V. 14. * Kap. 20, 7. * Kap. 16, 12.

16, ári, til að drepa þriðjúng mannanna. Tala
riddara liðsins vóru tvennar tíuþúsundir tíuþús-
17. unda, þessa tölu féck eg að vita. Líka sá eg
hestana í vitruninni og þá, sem þeim riðu, þeir
hefðu eldrandar, bláar og bleikgulat brynjur,
höfuð hestanna vóru eins og ljóna höfuð og af
munnum þeirra géck eldur, reykur og brenni-
18. steinn. Af þessum þremur plágum, eldi, reyk
og brennisteini, sem útgéck af munnum þeirra,
19. drapst þriðjúngur mannanna. Því makt hest-
anna var í munni þeirra og töglum, því töglin
vóru lík höggormum og vóru með höfðum; með
20. þeim grönduðu þeir. Þeir menn, sem ecki fyr-
irfórust í þessum plágum, * létu samt ecki af
háttalagi sínu, heldur tilbáðu afguði og líkn-
eskjur * úr gulli, silfri, eyri, steini og tré, sem
21. hverki géta sjeð, heyrt, né gengið. Ecki létu
þeir heldur af manndrápum, göldrum, saurlifn-
aði eða þjófnaði.

10. Kap. I.) Þar sjö þrumur raddir v. 1—4. II.)
Eiður Engilsins v. 5—7. III.) Bæk-
língurinn v. 8—11.

1. Síðan sá eg annann * Engil sterkann stíga af
himni ofan, hann var klæddur skýi; yfir höfði
honum var * regnbogi, * andlit hans var eins
2. og sólin og fætur hans, sem eldstólpar. Hann

V. 20.] * Kap. 16, 11. * 3 Mós. b. 17, 7. 5 Mós. b. 32,
16. Dan. 5, 23.
V. 1. * Kap. 5, 2. * Kap. 4, 2. * Kap. 1, 16. Matth.
17, 2.

heldt á opnum bæklíngi í hendinni og setti hægra fótinn á sjóinn, en hinn vinstra á jördina.
3. Hann * kalladi hárri roddu eins og þá ljón öskrar og þegar hann hafdi kallad, töludu þær
4. sjo reidarþrumur sínar raddir. En þá þær sjo þrumur höfdu talad, ætladi eg ad fara ad skrifa; þá heyrdi eg rödd af himni, sem sagdi: * innsigla þú þad, sem þær sjo reidarþrumur hafa talad og skrifa þad ecki.
5. Sá * Engill, sem eg sá standa á sjónum og jordunni, * hóf upp sína hægri hönd til himins og * sór vid þann, sem
6. lifir ad eilífu, sem * skóp himininn og þad sem í honum er, jordina og þad, sem á henni er og sjóinn og þad, sem í honum er: ad enginn frestur mundi lengur géfinn verda; heldur, þá sá sjo-
7. undi Engill básúnadi, skyldi * framqvæmast Guds leynda ráđ, sem hann hafdi birt Spámönnunum, sínum þjónum.
8. Röddin, sem eg heyrdi af himni, taladi þá til mín aptur og sagdi: far og tak þann opna bækling, er Engillinn heldur á, sem stendur á sjónum og jordunni.
9. Eg fór til Engilsins og bad hann fá mér bæklínginn; hann sagdi vid mig: tak og et hann, hann mun verda beiskur í maganum, en í munni þínum sætur, sem hunáng.
10. Eg tok þá vid bæklíngnum af Englinum og át hann og var hann sætur í munni mínum, sem hunáng, en þá eg hafdi etid hann, féck eg

---

V. 3. * Kap. 18, 2.
V. 4. * Dan. 8, 26. 12, 4. 9.
V. 5. * Dan. 12, 7. * 1 Mós. b. 14, 22. 5 Mós. b. 32, 40.
V. 6. * Matth. 26, 63. * Psálm. 124, 8.
V. 7. * Róm. 11, 25. 1 Cor. 15, 51.

11. maga verki. Þá sagdi hann vid mig: * þér ber aptur ad spá í gégn þjódum, fólkum, túngumálum og mergum Kóngungum.

**11. Kap.** I.) Mæling musterisins v. 1—2. II.) Þeir tveir vottar v. 3—14. III.) Sá 7di Engill básúnar v. 15—19.

1. Mér var fenginn reirleggur, líkur staf, med þessum ummælum: statt upp og mæl musteri Guds
2. og altarid og þá, sem bidjast þar fyrir. En fordyrinu fyrir utan musterid skaltú sleppa og ecki mæla þad, af því þad er ætlad heidíngjum * og þeir munu fóttróda borgina helgu * í fiørutýgi og tvo mánudi.
3. En mína tvo votta vil eg láta spá * í eitt þúsund tvo hundrud og sextýgi daga, klædda
4. sorgar búníngi. Þetta eru þær tvær vidsmjørs vidargreinir og þeir tveir ljósastjakar, sem standa
5. frammi fyrir Drottni jardarinnar. Vilji nockur þeim granda, skal * eldur gánga framm úr munni þeirra og eyda óvinum þeirra og þannig
6. skal hverr deya, sem þeim vill granda. Þeir hafa vald til ad * loka himninum, svo ecki komi regn um spádóms daga þeirra; þeir hafa og * vald til ad snúa votnunum í blód og slá jerdina med
7. * allskonar plágum, svo opt, sem þeir vilja. Þegar þeir hafa aflokid sínum vitnisburdi, mun

V. 11 * Kap. 1, 11. 19.
V. 2. * Lúk. 21, 24. * Kap. 13, 5.
V. 3. * Kap. 12, 6. V. 5. * 2 Kóng. b. 1, 10. 12.
V. 6. * 1 Kóng. b. 17, 1. 18, 1. * 2 Mós. b. 7, 17. 19. * 2 Mós. b. 8 og 9. k.

* dýrid, sem [uppstígur úr afgrunninu, * herja á
þá, hafa sigur og drepa þá. * Hræ þeirra munu 8.
liggja * á stræti borgarinnar ennar miklu, sem í
andlegum skilníngi kallast Sódóma og Egypta-
land, hvared og þeirra Drottinn er krossfestur.
Menn af ýmsum þjódum, ættqvíslum, túngu- 9.
málum og fólki munu sjá þeirra hræ í hálfann
fjórda dag og ecki leyfa ad lík þeirra verdi lögd
í legstad. Innbúar jardarinnar * munu gledja 10.
sig yfir þeim og vera kátir og senda hverr ödr-
um gjafir, þared þessir tveir Spámenn qvöldu
innbúendur jardarinnar. En ad lidnum þeim 11.
hálfum fjórda degi, fer lífs-andi frá Gudi í þá;
þeir rísa þá á fætur og mikill ótti fellur yfir þá,
sem þá sjá. Þeir heyrdu þá rödd mikla af himni, 12.
sem sagdi vid þá: komid híngad upp! þeir fóru
þá upp til himins í skýi, svo óvinir þeirra
horfdu á. Á þeirri stundu vard * svo mikil hrær- 13.
íng, ad tíundi partur borgarinnar hrundi og í
þeim jardskjálfta dóu sjö þúsundir manna; þeir,
sem eptir vóru, urdu óttaslegnir og lofudu himn-
anna Gud. Sú önnur * plága var nú umlidin, 14.
en sú þridja kémur brádum.

Þegar sá * sjöundi Engill básúnadi, komu 15.
upp miklar raddir á himni, svo segjandi: * vor
Drottinn og hans Smurdi hefir fengid vald
yfir heiminum og mun ríkja ad eilífu. Þeir 16.

---

V. 7. * Kap. 13, 1. * v. 7. Dan. 7, 21.
V. 8. * Jer. 9, 22. * Kap. 18, 10.
V. 10. * Jóh. 16, 20. V. 13. * Kap. 16, 18.
V. 14. * Kap. 8, 13.
V. 15. * Kap. 10, 7. * Eph. 5, 3. Opinb. B. 12, 10. 19, 6.

* tuttugu og fjórir Öldúngar, sem sátu á sín-
um stólum frammi fyrir Gudi, * féllu þá fram
17. á sínar ásjónur, tilbádu Gud og segdu: vér þökk-
um þér, Drottinn Gud alvaldi! * þú, sem ert
og varst, * fyrir það ad þú hefir tekid þitt
18. mikla veldi og ríkir. Heidíngjarnir íllskudust,
en þín * hegníng kom og sá tími, þá þeir fram-
lidnu skulu dæmdir verda og þínir þjónar og
Spámenn og heilagir og þeir, sem óttast þig
skulu fá sitt * endurgjald, smáir og stórir, en
19. þeir fyrirfarast, sem * eydileggja jördina. Þá
opnadist * Guds musteri á himni og * sáttmáls
örk Drottins birtist í hans musteri; urdu þá *
eldíngar, hvellir, reidarþrumur, jardskjálfti og
* mikid hagl.

## 12. Kap. Qvinnan og drekinn v. 1—18.

1. Þá birtist mikid teikn á himni; það var kona,
sem hafdi um sig sólarbaug, túngl var undir
fótum hennar, en á höfdi hennar kóróna med
2. tólf stjörnum í. Hún var þúngud og þjádist
3. af mikilli jódsótt og hljódadi. Þá sást annad
teikn á himni, það var stór dreki eldraudur,
hann hafdi sjö höfud og tíu horn og á höfdunum
4. sjö kransa. Hann dróg med spordinum þridjúng
himins stjarna og kastadi þeim á jördina; drek-

V. 16. * Kap. 4, 10. * Kap. 7, 11.
V. 17. * Kap. 1, 4. 8. Kap. 4, 8. 16, 5. * Kap. 19, 6. Psálm. 21, 14.
V. 18. * Kap. 6, 17. * Matth. 20, 8. * 2 Thess. 1, 6.
V. 19. * Kap. 15, 5. Hebr. 9, 4. * Kap. 4, 5. 8, 5. * Kap. 16, 21.

inn stadnæmdist hjá konunni, sem ad því var
komina ad fæda og ætladi ad gleypa barnid, þá
hún hefdi fædt. Hún fæddi sveinbarn, sem ríkja 5.
skyldi yfir ollum þjódum med járnsprota; barnid
var skyndilega flutt burt fram fyrir Gud og hans
hásæti; en konan flúdi á eydimerk, hvar Gud 6.
hafdi tilbúid henni samastad og þar skyldi hún
haldast vid í * tólfhundrud og sextýgi daga.
Eptir þad * hófst stríd á himni: Michael og 7.
hans Englar stríddu á drekann, en drekinn og
hans Englar strídu á móti; hann hafdi mid- 8.
ur og héldst ecki framar vid á himni; og var 9.
þeim * mikla dreka, þeim * gamla heggormi,
sem kallast djøfull og Satan, honum, sem afvega
leidir alla menn, kastad ofan á jordina og hans
Englum med honum. Þá heyrdi eg mikla rødd 10.
af himni, svo segjandi: nú er * frelsid fengid og
kraptur og * ríki vors Guds og veldi hans
Smurda, því áklagari vorra brædra, sem * á-
klagar þá fyrir Gudi vorum nótt og dag, er
nidurkastadur. Þeir hafa sigrad hann fyrir blód 11.
lambsins og fyrir ord þeirra vitnisburdar; þeir
hafa hætt lífi sínu fram í daudann. Verid þess 12.
vegna gladir, þér himnar og þér, sem á himnum
búid. Vej sé jordunni og sjónum, þvíad djøfull-
inn er ofan til ydar farinn í miklum mód, því
hann veit, ad hann hefir naumann tíma. En 13.
sem drekinn sá, ad búid var ad varpa honum of-

V. 6. * Kap. 11, 3.
V. 7. * Dan 10, 13. 20. 12, 1. Júd. v. 9.
V. 9. * Lúk. 10, 18. Opinb. b. 20, 2. * 1 Mós. b. 3, 1. ff. Jóh. 12, 31. 2 Cor. 11, 3.
V. 10. * Kap. 11, 15. * Eph. 5, 5. * Job. 1, 9. 2, 5.

an á jördina, offókti hann konuna, sem fædt hafdi
14. sveinbarnid. Þá vóru konunni gefnir tveir stór-
ir arnar vængir, til ad fljúga á hann stad í eydi-
merkinni, sem henni * var ætladur, hvar hún
átti ad vera í fjærlægd vid höggorminn * um tíd,
15. tídir og hálfa tíd. Höggormurinn spjó vatni
út úr sér á eptir konunni eins og vatnsflódi,
16. svo ad hún hrifist burt af straumnum; en jörd-
in kom konunni til hjálpar og opnadi sinn munn
og svalg vatnsflódid, sem drekinn hafdi útspú-
17. id. Drekinn íllskadist vid konuna og fór burt til
ad herja á hina af afkomendum hennar, sem * vard-
veittu Guds bodord og hefdu Jesú * vitnisburd.
18. Sídan stadnæmdist eg vid sjáfar ströndina.

## 13. Kap. Þau tvö dýr v. 1—18.

1. Eg sá * dýr stíga upp af hafinu, þad hafdi
tíu horn og sjö höfud; á hornunum vóru tíu
kransar og á höfdunum vóru guðlöstunar ord.
2. Þetta dýr, sem eg sá, var líkt Pardusdýri, fæt-
urnir vóru eins og bjarnar fætur, munnurinn eins
og á ljóni; * drekinn gaf því sitt vald, sitt * hásæti
3. og mikil yfirrád. Eitt af höfdum þess var sárt
eins og med daudlegu sári, en þetta banasár
vard heilt og allir menn fylgdu dýrinu med
4. undrun og tilbádu drekann, fyrir þad ad hann
hafdi veitt dýrinu yfirrádin, líka tilbádu þeir

V. 14. * Esa. 30, 20. * Dan. 7, 25. 12, 7.
V. 17. * Kap. 14, 12. * 1 Jóh. 5, 10.
V. 1. * Dan. 7, 7. Opinb. b. 17, 3. 9. 12.
V. 2. * Kap. 12, 9. * Kap. 2, 13.

dýrid, segjandi: * hverr kann ad jafnast vid dýr-
id? og hverr gétur strídt vid þad? Því * var 5.
veittur munnur til ad tala stórýrdi og gudlast-
anir og lofad ad fara því fram * í fjørutíu og
tvo mánudi. Þad upplauk þá sínum munni til 6.
ad tala * løstunar-yrdi gégn Gudi, lastadi hans
nafn og hans tjaldbúd og þá, sem á himni búa.
Því var lofad ad herja * á heilaga og sigra þá; 7.
því var géfid vald yfir allskyns kynqvísl, fólki,
túngumáli og þjód. * Allir innbúar jardarinn- 8.
ar munu tilbidja hann, hverra * nøfn ecki eru
skrifud í lífs-bók lambsins, þess slátrada allt í
frá skøpun heimsins. Hverr, sem eyru hefir 9.
hann heyri. Hverr, sem * herleidir, hann skal 10.
herleiddur verda; hverr, sem * med sverdi drep-
ur, skal med sverdi drepinn verda. * Hér reyn-
ir á þolgædi og trú heilagra.

Eg sá * annad dýr stíga upp af jørdunni; 11.
þad hafdi tvo horn, * lík lambs hornum, mál þess
var eins og dreka mál. Þad fer ellu því sama 12.
fram, sem hid fyrra dýrid, í augsýn þess og læt-
ur jørdina og alla, sem á henni búa, tilbidja fyrra
dýrid, hvers banvæna sár hafdi verid læknad.
Þad * gjørir stór tákn og lætur eld falla til jard- 13.

---

V. 4. * Kap. 18, 18.
V. 5. * Dan. 7, 8. 11. 25. 11, 36. * Kap. 12, 6.
V. 6. * Kap. 16, 9. 11. V. 7. * Kap. 14, 12.
V. 8. * Kap. 8, 13. 12, 12. * Kap. 3, 5. 17, 8. 20, 12.
V. 10. * Kap. 11, 18. * Matth. 26, 52. Opinb. b. 18, 6.
* Kap. 14, 12.
V. 11. * Kap. 11, 7. * Matth. 7, 13. 24, 11. 24.
V. 13. * Matth. 24, 24. 2 Thess. 2, 9. Opinb. b. 16, 14.

14. ar af himni í augsýn manna. Það afvegaleið-
ir þá, sem á jörðunni búa, * með þeim tákn-
um, sem því er lofað að gjöra í augsýn dýrs-
ins, segir innbúum jarðarinnar að gjöra líkn-
eski eptir því dýrinu, sem fengið hafði sár af
15. sverðinu, en lifði þó. Því var lofað að gefa
líf líkneskju dýrsins, svo líkneskjan talaði og lét
drepa alla þá, sem ekki vildu * tilbiðja líkneski
16. dýrsins. Það lætur alla, stóra og smáa, ríka
og fátæka, frjálsa og ófrjálsa setja merki á sína
17. hægri hend eða enni, til þess enginn géti keypt
eða selt nockuð, nema sá, sem hefir * merkið,
18. nafn dýrsins eða tölustafi nafns þess. Hér ríð-
ur á speki; sá, sem skilning hefir, útreikni * 
tölustafi dýrsins; því talan er manns nafn og
talan er sexhundruð sextíu og sex.

14. Kap. I.) Lofsaungur þeirra innsigluðu v. 1—5.
II.) Það eilífa Evangelium v. 6—13.
III.) Straffunar-dómur Guðs v. 14—20.

1. Síðan sá eg lambið standa * á fjallinu Zíon
og með því hundrað fjörutíu og fjórar þúsund-
ir, sem höfðu nafn þess og nafn föður þess skrif-
2. að á sínum ennum. * Eg heyrði þá rödd af
himni, líka sem nið margra vatnsfalla eða sem
mikinn þrumugný; en röddin, sem eg heyrði var
eins og * hörpu hljómur hörpuslagara, sem leika
3. á hörpur sínar. Þeir súngu nýjann saung frammi

V. 14. * K. 16, 14. 19, 20. V. 15. * K. 14, 11. 19, 20.
V. 17. * Kap. 14, 9. 11. V. 18. * Kap. 15, 2.
V. 1. * Psálm. 2, 6. Opinb. b. 7, 4.
V. 2. * Kap. 1, 10. 15. * Kap. 5, 8.

fyrir hásætinu og þeim fjórum dýrum og öld-
úngunum; en enginn gat numid saunginn, nema
þær hundrad fjørutíu og fjórar þúsundir, sem
keyptar vöru frá jørdunni. Þessir eru * þeir, 4.
sem ecki hafa saurgad sig med konum, því þeir
hafa vardveitt sitt skírlífi; þeir fylgja lambinu,
hvert sem þad fer og hafa * keyptir verid frá
mønnunum, svo sem * frumgródi Guds og lambs-
ins. * J þeirra munni finnst engin lýgi, því 5.
þeir eru * lýtalausir.

Eg sá annann Engil fljúga um midhim- 6.
ininn, hann héldt á eilífum nadar bodskap, sem
hann kunngjørdi innbúum jardarinnar, allri þjód,
kynqvísl, túngumáli og fólki. Hann sagdi hárri 7.
røddu: * óttist Gud og vegsamid hann, því tími
hans dóms er fyrir høndum; tilbidjid þann, sem
* gjørt hefir himininn og jørdina og sjóinn og
uppsprettur vatnanna. Annar Engill kom á 8.
eptir honum og sagdi: hún er fallin! hún * er
fallin! sú mikla Babylon, sem birlad hefir øll-
um þjódum vín síns eitrada saurlifnadar. Þar 9.
á eptir kom hinn þridji Engill, sem sagdi hárri
røddu: hverr, sem * tilbidur dýrid og þess líkn-
eskju og lætur merkja sig á sínu enni eda hønd,
hann skal drecka vín Guds reidi, sem * hellt er 10.
óblondudu á hans reidi bikar og * qveljast í eldi

V. 4. * 1 Cor. 6, 15. 2 Cor. 11, 2. Opinb. b. 3, 4.
* 1 Cor. 6, 20. Opinb. b. 3, 9. * Jak. 1, 18.
V. 5. * Psálm. 32, 2. * Eph. 5, 27. Cól. 1, 22.
V. 7. * Préd. b. 12, 13. 5 Mós. b. 32, 3. * Psálm. 33, 6.
146, 6. V. 8. * Kap. 16, 19. 18, 2.
V. 9. * Kap. 19, 20.
V. 10. * Kap. 16, 19. * Kap. 19, 20. 20, 10.

og brennisteini í augsýn heilagra Engla og lambs-
11. ins. Og * qvala-reykur þeirra mun uppstíga
eilíflega; þeir, sem tilbidja dýrid og þess líkn-
eskju og láta merkja sig med þess * fángamarki,
12. skulu enga ró hafa nótt né dag. Hér reynir
á * þolgjædi heilagra, sem * vardveita bodord
13. Guds og trúna á Jesúm. Þá heyrdi eg * rödd
af himni, sem sagdi: * skrifa þú, sælir eru þeir
framlidnu, sem * nú eru í Drottni dánir. Já!
segir andinn, þeir * géta hvílt sig eptir sitt erf-
idi, því þeirra verk verda þeim samferda.
14. Sídan sá eg hvítt ský og * einhvern sitja
á skýinu líkann manni; hann hafdi gulllega kór-
15. ónu á höfdinu og bitrann ljá í hendinni. Þá
géck annar Engill út úr musterinu, hann kalladi
hástöfum til þess, sem á skýinu sat: bregdtú
ljánum og skér upp, því * uppskéru tíminn er
kominn og korn jardarinnar ordid fullvaxid.
16. Sá, sem á skýinu sat brá þá ljánum ofan á jörd-
17. ina og jördin var slegin. Þá géck annar
Engill út úr musterinu á himnum, hann héldt
18. líka á bitrum ljá; en annar Engill géck frá
altarinu, hann hafdi vald yfir eldinum; hann
hrópadi hátt til þess, sem héldt á þeim beitta
ljá og sagdi: bregdtú þínum hvassa ljá og af-
skér vínberin af víntrjám jardarinnar, því þrúg-
19. urnar eru ordnar fullvaxnar. Engillinn brá þá

V. 11. * Kap. 19, 3. * Kap 13, 16. 17. 16, 2.
V. 12. * Kap. 13, 10. * Kap. 12, 17.
V. 13. * Kap. 12, 10. * Kap. 1, 11. 19. * 1 Cor. 15, 18.
1 Thess. 4, 14. * Hebr. 4, 10.
V. 14. * Dan. 7, 13. Opinb. b. 1, 13.
V. 15. * Kap. 6, 17. Matth. 13, 39.

ljá sínum ofan á jördina og afskar vínber jard-
arinnar og kastadi þeim í þá stóru vínpressu
Guds reidi. Sídan var * vínpressan trödln út- 20.
anborgar og géck svo mikid * blód (rauda-løgur)
út af vínpressunni, ad tók upp undir hesta beitsl-
in og flaut yfir sextán hundrúd skeidrúm.

I.) Þær sjø seinustu plágur; saungur sigurveg- **15. Kap.**
aranna v. 1—4. II.) Þær sjø reidi-skál-
ir v. 5—8.

Sídan * sá eg annad mikid og dásamlegt teikn 1.
á himni, * sjø Engla, sem høfdu þær sjø sein-
ustu plágur, med hverjum Guds reidi átti ad
enda. Eg sá eins og * glersjó eldi blandinn og 2.
þá, sem sigrad høfdu dýrid og þess líkneskju og
tølu þess nafns standa vid glersjóinn, * med
hørpur Guds í høndum sér. Þeir sýngja saung 3.
* Mósis, Guds þénara og saung lambsins seg-
jandi: * mikil og dásamleg eru þín verk, Drott-
inn Gud alvaldi, * réttvísir og sannir eru þín-
ir vegir, þjódanna Konúngur! Hverr skyldi * 4.
ecki óttast þig, Drottinn! og vegsama þitt nafn?
því þú einn ert heilagur; * allar þjódir munu
koma og falla fram fyrir þér; þínar réttvísu
rádstafanir eru opinberar ordnar. Eptir þetta 5.
sá eg ad opnadist musteri * vitnisburdar tjaldbúd-

V. 20. * Esa. 63, 3. * Esa. 34, 3.
V. 1. * Kap. 12, 13. * Kap. 21, 9.
V. 2. * Kap. 4, 6. * Kap. 12, 11. * Kap. 5, 8. 14, 2.
V. 3. * 2 Mós. b. 15, 1. 5 Mós. b. 32, 1. 44. * Psálm. 111, 2. 139, 14. * Ps. 145, 17. Opinbb. 16, 7.
V. 4. * Jer. 10, 6. 7. * Psálm. 85, 9. Esa. 66, 23.
V. 5. * 4 Mós. b. 1, 50. Opinb. b. 11, 19.

6. arinnar á himni. Þá géngu út úr musterinu,
þeir sjø Englar, sem høfdu þær sjø plágur, þeir
vóru * skrýddir hreinu skínanda líni og girdtir
7. um bríngurnar med gulllegum beltum. * Eitt
af þeim fjórum dýrum féck þeim sjø Englum sjø
gulllegar skálar, fullar af reidi Guds, þess er
8. lifir um aldir alda. * Þá fylltist musterid reyk-
jar af dýrd og almætti Guds og enginn mátti
inngánga í musterid, þar til aflidnar vóru þær
sjø plágur þeirra sjø Engla.

## 16. Kap. Þeir sjø Englar hella úr þeim sjø skálum. v. 1—20.

1. Eg heyrdi mikla raust frá musterinu, sem tal-
adi til þeirra sjø Engla: farid og * hellid úr þeim
2. sjø skálum Guds reidi yfir jørdina. Þá fór sá
fyrsti og hellti úr sinni skál yfir jørdina. Þá
komu ljót og íll sár á þá menn, sem høfdu
3. * mark dýrsins og tilbádu þess líkneskju. Sá
annar Engill hellti úr sinni skál í sjóinn og vard
hann ad blódi eins og dauda-blódi, svo ad hver
4. lifandi skepna dó í sjónum. Sá þridji Engill
hellti úr sinni skál í fljótin og uppspretur vatn-
5. anna og urdu þau ad blódi. Eg heyrdi Engil
vatnanna segja: * réttvís ertu, * sem ert og varst,
6. þú hinn heilagi! ad þú hefir dæmt þannig; af
því þeir * hafa úthellt blódi heilagra og Spá-

V. 6. * Kap. 1, 13. V. 7. * Kap. 4, 6. 9.
V. 8. * 2 Mós. b. 40, 34. 1 Kóng. b 8, 10. Esa. 6, 4.
V. 1. * Kap. 15, 7. V. 2. * Kap. 13, 16. 17.
V. 5. * 2 Mós. b. 9, 27. * Kap. 1, 4. 8.
V. 6. * Matth. 23, 34. 35.

mannanna, hefir þú géfið þeim blóð að drecka:
þeir eru þess maklegir. Þá heyrði eg talað frá 7.
altarinu: já, Drottinn Guð alvalti! * sannir
og réttvísir eru þínir dómar. Sá fjórði hellti 8.
úr sinni skál í sólina, honum var géfið vald til
að brenna mennina í eldi. Mennirnir stiknuðu 9.
þá af miklum hita og * lestuðu Guð, sem hafði
vald yfir þessum plágum og * ecki betruðu þeir
sig, svo þeir gæfi honum dýrðina. Sá fimti 10.
hellti úr sinni skál á hásæti dýrsins, þá formirk-
vaðist þess ríki og menn bitu í túngur sínar af
ofraun og * hallmæltu himinsins Guði fyrir sín 11.
harmqvæli og sár, en létu þó ecki af athæfi sínu.
Sá sjötti hellti úr sinni skál í fljótið mikla 12.
Evphrat; vatnið í því þornaði þá upp, svo að
ferðin greiddist fyrir Konúngana úr sólar-upp-
komu-stað. Síðan sá eg þrjá óhreina anda eins 13.
og padður fara * úr munni drekans og * dýrsins
og * fals-spámannsins. Þetta eru * djefla andar, 14.
sem gjøra teikn, hverjir eð fara til allra Kon-
únga í veröldinni, til að safna þeim saman til
* stríðsins, þess mikla dags Guðs hins alvalda.
Sjá! eg kém * eins og þjófur, sæll er sá, sem 15.
vakir og geymir sín klæði, svo hann gángi ecki
nakinn um kríng og aðrir sjái hans blygðun.



---

V. 7. * Kap. 15, 3. V. 9. * K. 13, 6. * K. 9, 20. 21.
V. 11. * Kap. 9, 21.
V. 13. * Kap. 12, 9. 17. * Kap. 11, 7. * Kap. 19, 20.
V. 14. * Matth. 24, 24. 2 Thess. 2, 9. Opinb. b. 13, 13.
* Kap. 17, 14. 20, 9.
V. 15. * Matth. 24, 42 fl. Luk. 12, 39. 1 Thess. 5, 23.
2 Pét. 3, 10. Opinb. b. 3, 3.

16. Andarnir sofnudu þeim saman á þeim stad, sem
á Hebresku kallast Harmageddón (Straffs-
17. fjall). Sá siøundi hellti ur sinni skál útí loptid,
þá gékk raust mikil útaf musteri himinsins frá
18. hásætinu, sem sagdi: þad er skéd *, þá urdu eld-
íngar og raddir og þrumur og * hræríng svo mik-
il, ad aldrei hefir ordid ønnur eins frá því
menn urdu til á jørdunni eins og sú hræríng
19. varð. Þá skiptist borgin mikla í þrjá hluti og
borgir heidíngjanna hrundu. Þannig minntist
Gud hejrrar miklu Babylonar, ad hann gaf
20. henni staup af víni sinnar heiptar reidi. * Allar
21. eyjar hyurfu og fjøllin urdu ad engu, þá féll *
vættarþúngt hagl af himni yfir mennina; en
mennirnir hallmæltu Gudi fyrir hagl-pláguna,
þvíad sá plága var ákaflega mikil.

## 17. Kap. I.) Sú mikla hórkona Babylon v. 1—6. II.) Utþýdíng hórkonunnar og dýrsins v. 7—18.

1. Einn * af þeim sjø Englum, sem héldu á þeim sjø
skálum, kom til mín og taladi svo vid mig: kom
híngad, eg skal * sýna þér straff skækjunnar miklu,
2. sem situr á þeim mørgu vøtnum, med hverri
Konúngar jardarinnar hafa drýgt saurlifnad og
innbúar jardarinnar eru ordnir druknir af víni
3. hennar hórúnar. Hann leiddi mig þá í anda á

V. 18. * Kap. 4, 5. 8, 5. * Kap. 6, 12. * Kap. 11, 13. 19.
V. 20. * Kap. 6, 14.
V. 21. * 2 Mós. b. 9, 23. fl. Jós. 10, 11. Opinb. b. 11, 9.
V. 1 * Kap. 15, 1. 21, 9. * Jer. 51, 13.
V. 2. * Jer. 51, 7. Opinb. b. 14, 8. 18,

eyðimörku, hvar eg sá konu sitjandi á skarlats-
rauðu * dýri, sem var fullt af gudlestunar orð-
um og hafði sjö höfuð og tíu hörn. * Konan var 4.
klædd í purpura og skarlat og prýdd gulli, gim-
steinum og perlum og héldt á gullstaupi í hendi
sér; sem fullt var af viðurstygð og óhreinleika
hennar saurlifnaðar. * Á enni henni vóru skrif- 5.
uð þessi orð: leyndardómur, sú mikla Babýlon,
móðir pútna og viðurstygda jarðarinnar. Eg 6.
sá, að konan var * druckin af blóði heilagra og
af blóði Jesú votta og undraðist eg stórlega, er
eg leit hana.

Þá sagði Engillinn við mig: hví furðar 7.
þig? eg skal segja þér leyndardóm konunnar
og dýrsins, sem ber hana og hefir þau sjö höf-
uð og tíu horn. Dýrið, sem þú sást, vár, en 8.
er ecki; það mun síðan uppstíga * frá afgrunn-
inu og tortýnast; þá munu innbúar jarðarinn-
ar * undrast, hverra nefn ecki hafa verið skrif-
uð í * lífsins bók frá upphafi heimsins, þá þeir
sjá, að dýrið, sem áður var, er ecki framar til,
en kémur þó aptur. Hér ríður á hugskoti, sem
hefir speki. Þau sjö höfuð, eru sjö fjöll, sem 9.
konan situr á og sjö Konúngar, fimm eru falln- 10.
ir; einn er, hinn annar ókominn, en þá hann
kémur, mun hann vara skamma stund. * Dýrið, 11.



V. 3. * Kap. 13, 1. 17, 7. 8.
V. 4. * Kap. 18, 16. V. 5. * 2 Thess. 2, 7.
V. 6. * Kap. 18, 24. V. 7. * Kap. 13; 1.
V. 8 * Kap. 11, 7. * Kap. 3, 3. * Psálm. 69, 29.
Opinb. b. 13, 8.
V. 11. * Kap. 19, 19. 20.

sem var, en er ecki, er sá áttundi og sprettur
12. upp af þeim sjø og mun tortýnast. Þau * tíu
horn, sem þú sierd, eru tíu Konúngar, sem enn
þá ecki hafa tekid vid ríki, heldur hafa fengid
vald, sem Konúngar stundarkorn med dýrinu.
13. Þessir eru samhuga og ljá dýrinu sinn styrk og
14. vald. Þessir munu * strída vid lambid, en lamb-
id mun sigra þá, því þad er * Drottinn Drottn-
anna og Konúngur Konúnganna og þeir, sem
med því eru, hinir kølludu, útvøldu og trúu.
15. Hann sagdi og vid mig: vøtnin, sem þú sier
þar, sem skækjan situr, eru fólk og flockar,
16. þjódir og túngur. En þau * tíu horn, sem þú
sást og dýrid, munu hata skækjuna, eydileggja
hana, gjøra klædlausa, eta hold hennar og brenna
17. hana sjálfa í eldi. Því Gud hefir lagt þeim í
brjóst, ad gjøra dýrsins vilja, vera samtáda og
ljá því sitt ríki, þar til Guds rádstafan-
18. ir fullkomnast. En * konan, sem þú sást,
er borgin mikla, sem heldur ríki yfir Konúng-
um jardarinnar.

## 18. Kap. Fall borgarinnar Babylon v. 1—24.

1. Eptir þetta sá eg annann Engil stíga ofan af
himni, hann hafdi mikid vald; jørdin ljómadi
2. af hans dýrd. Hann * kalladi hárri røddu,
segjandi: * hún er fallin, hún er fallin, sú mikla

V. 12. * Kap. 13, 1.
V. 14. * Kap 11, 7. * 1 Tím. 6, 15. Opinb. b. 19, 16.
V. 16. * Kap. 18, 8. V. 18. * Kap. 16, 19.
V. 2. * Kap. 10, 3. * Esa. 21, 9. Jer. 51, 8. 37.
Opinb. b. 14, 8. * Esa. 13, 21.

Babýlon og orðin að * djöfla-bæli og fángélsi alls-
konar óhreinna anda og búftaði allskonar óhreinna
og viðbjóðslegra fugla, af því hún * hefir birl- 3.
að öllum þjóðum sitt áfenga hórunar vín og Kon-
úngar jarðarinnar hafa drýgt saurlifnað með
henni og kaupmenn jarðarinnar eru ríkir orðn-
ir af hennar megna óhófi. Þá heyrða eg aðra 4.
rödd af himni, sem sagði: * farið út af borginni,
mitt fólk, svo þér takið enga hlutdeild í hennar
syndum og hreppið ekki hennar plágur; því 5.
hennar * syndir ná allt upp til himins og Guð
hefir * minnst hennar ránglætis. Gjaldið 6.
henni * eins og hún hefir goldið ydur og gjald-
ið henni tvöfaldt eptir hennar verkum; blandið
henni tvöfaldt í þeim bikar, sem hún hefir bland-
að ydur í. Veitið henni eins mikla qvöl og 7.
hörmúngu eins og hennar stærilæti og óhóf hefir
verið; því hún segir í sínu hjarta: eg sit sem
Drottníng og verð aldrei ekkja og sæ aldrei
sorg að sjá. Fyrir þetta munu hennar plágur 8.
* koma allt í einu á einum degi, dauði og sorg
og húngur; hún mun * brend verða í eldi, því
sá Guð, sem hefir dæmt hana, er *. máttugur
Drottinn. Konúngar jarðarinnar, sem hafa 9.
drýgt saurlifnað og munaðarlífi með henni,

V. 3. * Jer. 5, 7. Opinb. b. 14, 8. 17, 2.
V. 4. * 2 Cor. 6, 17.
V. 5. * 1 Mós. b. 8, 20. Jer. 51, 9. * Kap. 16, 19.
V. 6. * Psálm. 137, 8. Esa. 33, 1. Jer. 50, 15. 29. Opinb. b. 14, 10.
V. 8. * Esa. 47. 9. Jer. 50, 31. * Kap. 17, 16. * Jer. 50, 34. 2 Thess. 2, 8.
V. 9. * Ezech. 26, 16. 17. 27, 30. Opinb. b. 17, 2.

munu * harma sér og gráta yfir henni, þegar
10. þeir sjá reykinn af hennar brennu Af ótta
fyrir hennar qvøl munu þeir standa lángt frá og
segja: * vej, vej! þú hin mikla borgin, Babýl-
lon, þú volduga borg! því hefndin hefir komid
11. yfir þig * á einni stundu. Eins munu * kaup-
menn jordarinnar gráta og harma yfir henni,
því enginn kaupir nú fremur þeirra farma,
12. * farma af gulli og silfri, gimsteinum og perlum,
líni og purpura, silki og skarlati; allskonar Ci-
trénu-vid, allskonar kér af fílabeini og hinum
13. dýrasta vidi af eiri, járni og marmara; Kanel-
børk, balsam, ylmanir, smyrsli, reykélsi, vín, vid-
smjør hveiti, korn, eyki, saudfé, hesta, kérrur,
14. þræla og manna sálir. Ávøxturinn, sem þín sála
girntist, hefir brugdist þér, øll sæld og glis er
þér tapad, svo ad þú finnur þad ecki framar.
15. Sølumenn þessara hluta, sem hafa ábatast á
henni, munu standa álengdar, grátandi og harm-
16. andi af ótta fyrir hennar qvøl og segja: * vej,
vej! þú hin mikla borg, sem íklæddist líni og
purpura og skarlati og varst prýdd gulli og gim-
steinum og perlum; því í einu vetfángi eyddist
17. allur þessi audur. Allir stýrimenn, siglíngamenn
og hásetar og þeir, sem í førum eru, stódu álengd-
18. ar og kølludu, þá þeir sáu reykinn af hennar
brennu og søgdu: hvar sást maki til þessarar
19. miklu borgar? Þeir jusu mold yfir høfud sér
og kølludu upp grátandi og harmandi og søgdu:

---

V. 10. * Kap. 14, 8. * Esa. 21, 9. Jer. 21, 8.
V. 11. * v. 15. Ezech. 27, 36.
V. 12. * Ezech. 27, 12. 13 22.
V. 16. * Kap. 17, 4. Jer. 50, 23.

vej, vej! þú hin mikla borg, á hverrar vöfleifd
allir þeir grœddu, sem skip höfdu á sjónum; hún
er á einni stundu eydilögd. Fagna * yfir henni, 20.
þú himin og þér heilögu, Postular og Spá-
menn! því Gud hefir hefnt ydar á henni. * Einn 21.
sterkur Engill tók þá upp stein eins og mikinn
qvarnarstein og kastadi í sjóinn segjandi: svo
hraparlega skal hin mikla borg kollvarpast, svo
ad engar menjar skulu eptir verda. Hörpu- 22.
sláttur, * saunglist, pípu hljómur og lúdra gáng-
ur skal ecki framar heyrast í þér. Engir íþrótta
menn nockurrar íþróttar skulu framar finnast
í þér, enginn qvarnar þytur skal framar heyrast
í þér. * Ljósabirta skal ecki framar sjást í þér, 23.
engin * raust brúdguma og brúdur skal framar
heyrast í þér; því þínir * kaupmenn vóru höfd-
íngjar jardarinnar og allar þjódir leiddust af-
vega af þínum töfra dryck. Í henni fannst * 24.
blód Spámanna og heilagra og allra þeirra, sem
á jördu hafa drepnir verid.

I.) Sigursaungur á himni v. 1—10. II.) **19. Kap.**
Kristur fer í hernad og sigrar v. 11—21.

Eptir þetta * heyrdi eg rödd á himni eins og 1.
mikinn manngný, sem sagdi: lofid Drottinn! *
hjálprædi, dýrdin og mátturinn er Guds vors,

---

V. 20. * Esa. 44, 23. 49, 13. Jer. 51, 48. Opb. b. 19, 2.
V. 21. * Kap. 5, 2.
V. 22. * Jer. 7, 34. 16, 9. 25, 10. Esa. 26, 13.
V. 23. * Jer. 25, 10. * Kap. 7, 34. 16, 9. * Ezech. 25, 8.
V. 24. * Kap. 17, 6. Matth. 23, 37.
V. 1. * Kap. 11, 15. 12, 10. * Kap. 7, 10.

2. Því sannir og * réttvísir eru hans dómar; hann
hefir hegnt skjækunni miklu, sem * spillti jörd-
unni med sínum saurlifnadi og * hefnt á henni
3. fyrir dráp sinna þjóna. Og aptur sögdu þeir:
lofid Drottinn! hennar * reykur mun uppstíga
4. um aldir alda. * Þeir tuttugu og fjórir eld-
úngar og þau fjögur dýrin féllu þá fram og til-
bádu Gud, sem á hásætinu sat, segjandi: Amen!
5. lofid Drottinn! Þá géck * rödd út frá hásætinu,
sem sagdi: * lofid Gud vorn allir hans þjónar
6. og þér, sem hann óttist, smáir og stórir! Þá
* heyrdi eg raddir eins og af miklum manna-
fjölda og sem nid margra vatna og sem sterkann
þrumu-gný, þær sögdu: lofid Drottinn! Því Drott-
7. inn vor Gud, sá alvaldi, * ríkir. Gledjumst
og fögnum og vegsömum hann, því * brúdkaup
lambsins er komid og þess brúdur * hefir búid
8. sig. Henni var fengid skínandi og hreint lín
til ad skrýdast í; línklædid er sakleysi heilagra.
9. Og hann * sagdi vid mig: skrifa þú, * sælir eru
þeir, sem eru bodnir til brúdkaups lambsins.
Sídan sagdi hann vid mig: þetta eru * sann-
10. arleg Guds ord. Eg * féll þá fram fyrir fætur
honum til ad tilbidja hann, en hann sagdi vid

---

V. 2. * Psálm. 119, 137. Opinb. b. 15, 3. 16, 7. 18, 20. * Kap. 17, 18. * Kap. 11, 18. * Kap. 18, 20.
V. 3. * Kap. 14, 11. V. 4. * Kap. 4, 4. 6.
V. 5. * Kap. 21, 3. * Psálm. 113, 1.
V. 6. * v. 1. Kap. 14, 2. * Kap. 11, 15. 17. 12, 10.
V. 7. * Matth. 22, 2. 25, 10. Lúk. 14, 16. * Kap. 21, 9.
V. 9. * Kap. 14, 13. * Matth. 22, 2. * Kap. 21, 5.
V. 10. * Post. G. b. 10, 26. Opinb. b, 22, 8. * Post. G. b. 14, 14. * 1 Jóh. 5, 1. Opinb. b. 2, 17.

mig: varastú þetta; eg er samþjón þinn og bræðra
þinna, sem hafa vitnisburðinn Jesú, * tilbid þú
Gud; því vitnisburdur Jesú er andi spádómsins.
Sídan sá eg himininn opnast og sá * hvít- 11.
ann hest; sá sem á honum sat, kallast sá * trúr
og sannordi, hann dæmir og strídir med réttvísi,
Hans * augu vóru sem eldslogi og á hefdi hans 12.
vóru margir kransar; hann hafdi skrifad nafn,
sem * enginn þeckti nema sjálfur hann. Hann 13.
var skrýddur * í blódi litudu klædi og hans
nafn kallast: * ord Guds. Þeir * himnesku her- 14.
flockar fylgdu honum á hvítum hestum, íklæddir
hvítu hreinu líni. * Af hans munni géck tví- 15.
eggjad sverd biturt, med hverju hann * slær þjód-
irnar og ríkir yfir þeim med járnsprota; hann
tredur * vínpressu heiptar reidi Guds þess alvalda.
Á klædinu og á lendinni hefir hann * nafn sitt 16.
skrifad: * Konúngur Konúnganna og Drottinn
Drottnanna. Þá sá eg einn Engil, sem stód í 17.
sólunni, hann hrópadi hárri reddu til allra fugl-
anna, sem flugu í midhimninum: komid! safnist
saman til þeirrar miklu veitslu Guds, til ad 18.
éta hold Konúnganna, þúsund hefdíngjanna og
kappanna, hestanna og Riddaranna og allra,
bædi frjálsra og ófrjálsra, smárra og stórra.
Þá sá eg dýrid og Konúnga jardarinnar og 19.

V. 11. * Kap. 6, 2. * Kap. 3, 14.
V. 12. * Kap. 1, 14. * Kap. 2, 17.
V. 13. * 1 Mós. b 49, 11. * Jóh. 1, 1.
V. 14. * Kap. 7, 9. 11. Lúk. 2, 13.
V. 15. * 2 Theff. 2, 8. Opinb. b. 1, 16. 2, 16. * Kap. 12, 5. * Kap. 14, 19. 20.
V. 16. * v. 12. * 5 Mós. b. 10, 17. Opinb. b. 17, 14.

þeirra * herflocka samansafnaða til að heja stríð
við þann, sem á hestinum sat og við hans her=
20. lið. * Dýrið varð handtekið og * falsspámað=
urinn með því, sem hafði gjört tákn í augsýn
þess, með hverjum hann afvegaleiddi þá, sem
hesðu tekið við merki dýrsins og tilbeðið þess
líkneskju, þeim var * báðum kastað lifandi í
21. elddíkið, sem logar af brennisteini. Hinir aðrir
vóru drepnir með sverðinu, sem útgéck af munni
þess, er á hestinum sat og allir fuglar seddust
af hræum þeirra.

20. Kap. I.) Djöfullinn er bundinn v. 1—3. II.) Púsund ára ríkið v. 4—6. III.) Djöfullinn látinn laus um stund og kastað í díkið v. 7—10. IV.) Dómurinn v. 11—15.

1. Þá sá eg Engil stíga niður af himni, hann
héldt á * lykli afgrunnsins og stórum fjötri í hend=
2. inni. Hann tók * drekann, þann gamla höggorm,
sem er djöfull og Satan og batt hann um þúsund
3. ár, kastaði honum í afgrunnið, læsti aptur og
setti innsigli yfir, * svo hann ecki afvega=leiddi
þjóðirnar framar, uns þúsund ár væru liðin, en
að þeim liðnum á hann að leysast um stuttann tíma.

V. 19. * Esa. 30, 32. Opinb. b. 6, 15. 17, 14.
V. 20. * Dan. 7, 11. 26. * Kap. 13, 11. 12. 16, 13. * Kap. 14, 10. 20, 10. * Kap. 21, 8.
V. 1. * Kap. 1, 18.
V. 2. * 2 Pét. 2, 4. Opinb. b. 12, 9.
V. 3. * Kap. 16, 14.

Þá sá eg * hásæti, þeim, sem á þeim sátu, 4.
* var gefid dómsvald Líka sá eg sálir þeirra,
sem * hofdu verid hálshoggnir fyrir vitnisburd
Jesú og ord Guds og þeirra, sem * ecki hofdu
tilbedid dýrid eda þess líkneskju og ecki hofdu
þess merki á ennum sér eda hendi. Þeir * lifdu 5.
og ríktu med Kristi þau þúsund ár. En adr-
ir daudir lifnudu ecki fyrr enn þau þúsund ár
vóru lidin. Þetta er * sú fyrri upprisa. Sæll 6.
og heilagur er sá, sem hlutdeild tekur í þeirri fyrri
upprisu; yfir þeim hefir sá annar daudi eckert
vald, heldur munu þeir vera kennimenn Guds
og Krists og ríkja med honum þúsund ár.

En þegar * þau þúsund ár eru lidin, verd- 7.
ur Satan leystur af fángelsinu. Þá mun hann 8.
útgánga til ad * afvega-leida þjódirnar í þeim
fjórum heims endum, Gog og Magog og *
safna þeim til strids; mergd þeirra er, sem
sjáfarsandur. Þeir fóru uppá flatlendid og * um- 9.
kríngdu herbúdir heilagra og * þá elskudu borg.
En þá fór eldur af himni frá Gudi og eyddi
þeim. * En djøflinum, sem afvega-leiddi þá, var 10.
kastad í þad logandi brennisteins díki, þar sem dýr-
id var og falsspámadurinn; þar munu þau *
qveljast dag og nótt um allar aldir.

---

V. 4. * Matth. 19, 28. Lúk. 22, 30. Opinb. b. 5, 10.
* 1 Cor. 6, 23. Opinb. b. 3, 21. * Kap. 6, 9. 10.
13, 15. * Kap. 14, 4. * 1 Cor. 15, 23.
V. 5. * 1 Thess. 4, 16. V. 7. * v. 3. 5.
V. 8. * v. 3. * Kap. 16, 14.
V. 9. * Esa. 31, 4. 5. * Kap. 21, 10. fl.
V. 10. * Dan. 7, 11. Opinb. b. 19, 20. * Kap. 14, 10, 11.

11. Þá sá eg mikid hásæti hvítt og þann, sem
* á því sat; en fyrir * sjón hans hvarf himin og
12. jörd, svo * engar eptirstödvar vóru. Eg sá þá
daudu, * smáa og stóra, standa frammi fyrir há-
sætinu og * bókunum var lokid upp. Þá var ann-
ari bók lokid upp, þad var lífsins bók og vóru
þeir daudu dæmdir * eptir þeirra verkum, sem
13. skrifud vóru í bókunum. Sjórinn skiladi aptur
þeim daudu, sem í honum vóru og daudinn og
grofin skiludu aptur þeim daudu, sem í þeim
vóru og hverr þeirra var dæmdur eptir sínum
14. verkum. * Daudanum og grofinni var kastad í
eld-díkid; þetta eld-díki er sá * annar daudi.
15. En hverr, sem * ecki fannst skrifadur í lífsins bók,
honum var kastad í eld-díkid.

## 21. Kap. Sú himneska Jerúsalem v. 1—27.

1. Eg sá þá * nýjann himin og nýja jörd, því sá
fyrri himin og sú fyrri jörd var horfin og sjórinn
2. var ecki framar til. Eg sá * borgina helgu, þá
nýju Jerúsalem, stíga nidur af himni * frá Gudi,
búna sem brúdi, er skartar fyrir brúdguma sín-
3. um. Eg heyrdi mikla rödd af himni segjandi:
þetta er * tjaldbúd Guds medal mannanna, * hjá
þeim mun hann bústad hafa og þeir skulu vera

V. 11. * Kap. 21, 5. * 2 Pét. 3, 20. * Kap. 12, 8.
V. 12. * Kap. 11, 18. * Kap. 3, 5. * Róm. 2, 6. 1 Cor. 3, 8.
V. 14. * 1 Cor. 15, 26. 54. 55. Opinb. b. 6, 8. * K. 21, 8.
V. 15. * Matth. 25, 41. V. 1. * 2 Pét. 3, 13. fl.
V. 2. * Gal 4, 26. Hebr. 11, 10. 12, 22. * Kap. 3, 12.
Kap. 21, 10.
V. 3. * 2 Cor. 6, 16. * 1 Thess. 4, 17.

hans fólk og Gud sjálfur mun hiá þeim vera
þeirra Gud. Hann * mun þerra hvert tár af 4.
þeirra augum og daudinn mun ecki framar til
vera, hverki * harmur, né vein, né mæda mun
framar til vera, því það * fyrra er farid. Sá, 5.
sem * í hásætinu sat, sagdi: sjá! * eg gjöri allt
nýtt; hann sagdi vid mig: skrifadú, ad * þessi
ord eru trúanleg og sönn. Enn framar sagdi
hann vid mig: * það er skéd; eg em * A og O, 6.
upphaf og endir. * Þeim þyrsta skal eg ókeypis
géfa ad drecka af uppsprettu lífsins vatns. * Sá 7.
sem sigrar, skal ødlast þetta og eg skal * vera
hans Gud og hann vera minn sonur. En þeir 8.
* ístødulausu og * ótrúu, syndarar og glæpamenn,
manndráparar og frillulífis-menn, galdra-menn
og skurdgoda-dýrkarar og allir lygarar, þeirra
hlutfall skal vera * í því díki, sem logar af eldi
og brennisteini; það er sá annar daudi. Þá 9.
kom einn af þeim sjø Englum, sem héldu á þeim
sjø skálum, er fullar vóru af þeim sjø sídustu
plágum og taladi vid mig, segjandi: * kom híng-
ad, eg skal sýna þér brúdi, lambsins * konuna.

---

V. 4. * Esa. 25, 8. Opinb. b. 7, 17. * Esa. 35, 10. 1 Cor. 15, 26. 54. * 2 Cor. 5, 17.
V. 5. * Kap 4, 2. 20, 11. * Esa. 43, 19. 2 Cor. 5, 17. * Kap. 19, 9.
V. 6. * Kap 16, 17. * Kap. 1, 8. * Esa. 12, 3. 55, 1. Jóh 4, 10. 7, 37. Opinb. b. 22, 17.
V. 7. * Kap. 2, 26. 28. * Hebr. 8, 10.
V. 8. * Kap. 22, 15. * 1 Cor. 6, 9. Gal. 5, 19. 21. Eph. 5, 5. * Kap. 20, 14. 15.
V. 9. * Kap. 17, 1. * Kap. 19, 7.

10. Hann flutti mig þá * í anda uppá mikið og hátt
fjall og * sýndi mér Jerúsalem, borgina helgu,
11. sem * komin var af himni frá Gudi; hún hafdi
dýrd Guds, hennar ljómi var líkur dýrmætasta
12. steini, sem kristal-skjær Jaspis. Hún hafdi mik-
inn og háfann * borgarvegg, tólf hlið og við hlið-
in tólf Engla með áskrifudum nefnum þeirra
13 tólf Israels kynqvísla. Móti austri vóru þrjú
hlið, móti nordri þrjú, móti sudri þrjú, móti
14 vestri þrjú. Veggur borgarinnar hafdi tólf undir-
stedu-steina, á þeim vóru tólf nefn þeirra tólf Post-
15. ula lambsins. Sá, sem við mig taladi, héldt
á * gullqvarda, til að mæla með borgina, hlið
16. hennar og veggi. Borgin lá í ferhyrning, jefn
á lengd og breidd. Hann mældi borgina með
qvardanum, tólf þúsund skeidrúm, hennar lengd,
17. breidd og hæð var jefn. Hann mældi vegg
borgarinnar hundrað fjørutíu og fjórar álnir,
18. eptir manns mælingu, sem er Engilsins. Vegg-
ur hennar var bygdur af Jaspis og borgin af
19. tæra gulli, sem skjært gler væri. * Undirstød-
ur borgarveggsins vóru skreyttar allskonar dýr-
mætum steini; fyrsta undirstadan var Jaspis,
ønnur Saphír, þridja Kalcedon, fjórda Smaragd,
20. fimta Sardonix, sjötta Sardínarsteinn, sjöunda
Chrysolith, áttunda Beryll, níunda Tópaz, tí-
unda Chrysóprás, elléfta Hyacinth, tólfta Ame-
21. thyst. Þau tólf hlið vóru tólf perlur og hvert hlið

V. 10. * Kap. 1, 10. * Gal. 4, 26. Hebr. 11, 10. 12, 22.
* Kap. 3, 12.
V. 12. * Ezech. 48, 31.
V. 15. * Kap. 11, 1. * Ezech. 40, 3.
V. 19. * Esa. 54, 11. 12.

fyrir sig var úr einni perlu; * stræti borgarinnar
vóru af tæru gulli eins og gagnsært gler væri.
Eckert musteri sá eg í henni, því Guð Drottinn hinn 22.
* alvaldi og lambid er hennar musteri. Borg- 23.
in þarf ecki heldur sólar vid eda túngls, til ad
lýsa, því dýrd Guds uppljómar hana og lamb-
id er hennar ljós; Þjódirnar munu gánga í 24.
hennar * ljósi og * Konúngar jardarinnar færa
henni sína dýrd og vegsemd. * Hlidum hennar 25.
verdur ecki lokad um daga, því þar mun aldrei
* nótt koma. Dýrd og vegsemd þjódanna munu 26.
þángad flytjast. Eckert * óhreint, vidurstyggi- 27.
legt eda lýgi mun þángad innkoma, heldur þeir
einir, sem eru * skrifadir í lífsins bók lambsins.

I.) Framhald v. 1—5. II.) Nidurlag bók- 22. Kap.
arinnar v. 6—21.

Hann sýndi mér * straum lífs-vatnsins, hann 1.
var skjær sem kristall og rann frá hásæti Guds
og lambsins. Milli borgar strætanna og straums- 2.
ins beggja vegna vóru * lífstrén, sem báru tólf-
faldann ávöxt, sinn ávöxt á hverjum mánudi, en
vidarins blød eru til * lækníngar þjódunum.
Engin * bølvan skal framar vera og hásæti Guds 3.

V. 21. * Kap. 22, 2. V. 22 * Kap. 4, 8.
V. 24. * Esa. 60, 3. 5. 66, 12. * Psálm. 72, 10. 11.
V. 25. * Esa. 60, 11. 20 * Kap. 22, 5.
V. 27. * Esa. 35, 8. Opinb. b. 22, 14. 15. * Kap. 3, 5.
Kap. 13, 8.
V. 1. * Ezech. 47, 1. Zach. 14, 8.
V. 2. * 1 Mós. b. 2, 9. Opinb. b. 2, 7. * Kap. 21, 24. 26.
V. 3. * Zach. 14, 11.

og lambsins skal í henni vera og hans þjónar
4. skulu honum þjóna. Þeir * skulu sjá hans aug=
5. lit og bera * hans nafn á ennum sér. * Nótt skal
ecki framar vera til og engin þorf á ljósi eða
birtu sólar, því * Drottinn Guð mun lýsa yfir
þeim og þeir skulu ríkja um aldir alda.
6. Síðan sagði hann við mig: * þessi orð
eru áreiðanleg og sönn, sömuleiðis: Drottinn,
Guð anda Spámannanna, sendi sinn Engil til
að * sýna sínum þjónum það, sem skjótt á að
7. ské. * Sjá! eg kém skjótt; * sæll er sá, sem
8. varðveitir spádóms orð þessarar bókar. Eg Jó=
hannes, heyrði og sá þetta og þá eg hafði heyrt
það og séð, *; féll eg fram fyrir fætur þess
Engils, sem sýndi mér þetta, til að tilbiðja hann.
9. En hann sagði við mig: * varastú þetta; eg
er samþjón þinn og bræðra þinna Spámann=
anna og þeirra, sem varðveita orð þessarar
10. bókar; tilbið þú Guð. Enn sagði hann við
mig: * innsigla þú ecki spádóms orð þessarar
11. bókar, því * tíminn er nálægur. * Sá rángláti
haldi áfram að gjøra rángt, sá saurlífi haldi á=
fram saurlífnaðinum, sá réttláti haldi áfram í
réttlætinu, sá heilagi haldi áfram í heilagleikan=

---

V. 4. * Matth. 5, 3. 1 Cor. 13, 12. * Kap. 3, 12. 14, 1.
V. 5. * Esa. 60, 19. Opinb. b. 21, 23. * Psálm. 36, 10.
V. 6. * Kap. 19, 9. 21, 5. * Kap. 1, 1. 4, 1.
V. 7. * Kap. 3, 11. * Kap. 1, 3.
V. 8. * Post. G. b. 10, 26. 14, 13. Opinb. b. 19, 10.
V. 9. * Kap. 19, 10.
V. 10. * Dan. 8, 26. 12, 4. * Phil. 4, 5. Opinb b. 1, 3.
V. 11. * 2 Tim. 3, 13.

um. * Sjá! eg kém skjótt og * hefi med mér 12.
endurgjaldid * handa sérhverjum eptir sem hans
verk verda. Eg em * A og O, sá fyrsti og síd- 13.
asti, upphafid og endirinn. Sælir eru þeir, sem 14.
* géra hans bodord, svo ad þeir fái vald yfir
lífsins tréinu og inngángi um borgar-hlidin inní
borgina; hundar og galdramenn, manndráps- 15.
menn og skurdgoda dýrkendur * skulu úti gista,
sömuleidis hverr, sem elskar og ydkar lýgi.
Eg, Jesús, * sendi minn Engil til ad votta yd- 16.
ur þetta í söfnudunum, eg em * rót og kynstafur
Davíds, * morgunstjarnan sú hin skæra. And- 17.
inn og brúdurin segja: kom þú! Sá, sem þetta
heyrir, hann segi: kom þú! og sá, sem * þyrst-
ur er, hann komi! hverr, sem vill, hann taki gef-
ins lífsins vatn. Eg votta þad fyrir sérhverjum, 18.
sem heyrir spádómsord þessarar bókar, ad leggi



---

V. 12. * Kap. 3, 11. 22, 7. * Esa. 40, 10. 62, 11.
* Psálm. 62, 13. Róm. 14, 12.
V. 13. * Esa. 48, 12. Opinb. b. 1, 8. 21, 6.
V. 14. * 1 Jóh. 3, 23. Opinb. b. 12, 17.
V. 15. * 1 Cor. 6, 9. 10. Eph. 5, 5. Cól. 3, 6 Opinb. b. 21, 8.
V. 16. * Kap. 1, 2. * Esa 11, 10. Róm. 15, 12:
Opinb. b. 5, 5. * Kap. 2, 27. 28.
V. 17. * Jóh. 7, 37.

nockurr hér vid, mun Gud á hann leggja þær
19. plágur, sem skrifadar eru í þessari bók. Og taki
nockurr af ordum þessarar spádóms bókar, þá
mun Gud af honum taka hans hlutdeild í lífs-
trénu og * borginni helgu, sem um er skrifad í
20. þessari bók. Sá, sem þetta vottar, segir: já,
* eg kém skjótt, Amen! kom, Drottinn Jesú!
21. * Nád Drottins Jesú Krists veri med øllum
heiløgum, Amen!

---

V. 19. * Kap. 21, 2. Matth. 4, 5.
V. 20. * Kap. 1, 7.
V. 21. * 2 Tim. 4, 22. Hebr. 13, 25.

# Registur

yfir

Pistla og Gudspjoll, sem upplesast á Hátída-Sunnu- og ødrum Helgi-døgum, heila árid.

Páska-

# Leidréttingar
## Skrif- og Prent-feila.

### I fyrra Partinum:

Mark. 3, 18. Philppus les: Philippus. 5, 40. stukurnar l. stulkunnar. 6, 9. eck skyldu l. ecki skyldu.

Post. Gb. 7, 26. illilegu innbyrdis sridi l. illdeilu. 30. fullnin l. lidnum. 15, 24. vist l. vort. 17, 6. brædur, ysirmenn l. brædur fyrir yfirmenn. 20, 5. hvar vér töfdum 7 daga, úrfellist. 20, 35. því hann l. er hann. 23. Kap í fyrirsögninni: fær kinnhest l. átti ad fá kinnhest. 27, 7. hafinu, afmáist.

### I sídara Partinum:

Rómv. 7, 4. annars hans l. annars, hans, 9, 7. (fáeinar) l. (fáeinir). 9, 28. med réttvísi þad ord l. med réttvísi; þad ord. 12, 7. 8. l. hvert heldur spádóm, eptir reglu trúarinnar; eda embætti, — erum vér hverr annars limur — í embættinu; eda kénnandi, í kénningunni; eda áminnandi, í áminningunni; sá útbýtandi, í hreinskilninni; sá fyrirrádandi, í kostgjæfninni; sá miskunandi, í hýrleikanum.

1 Cor. 6, 18. dryrgir l. drýgir. 9, 18. hlýt l. flyt. 12, 26. samgeldjast l. samgledjast.

Gal. 5, 26. hógómlegri l. hégómlegri.

Ephes. 4, 21. uppfæddir l. uppfræddir.

Phil. 4, 13. þess hjálp l. Krists hjálp.

Cól. 4, 12. Epahras l. Epaphras.

2 Thess. 2, 2. vidbætist; eins og ad dagur Krists væri þegar kominn.

1 Tím. 6, 16. hefir sjed, vidbætist: né sjed getur.

2 Tím. 1, 9. vid Jesúm l. fyrir Jesúm.
2, 21. Drottni, úrfellist.

2 Tim. 4, 3. samqvæma l. samqvæmt.
Hebr. 4, 4. vekum l. verkum. 8, 4. sem þar eru l. sem eru. 10, 8. hefir l. hafir. 12, 6. þinn l. þann.
Jak. 1, 4. algiødir l. algjørdir. 5, 14. rikur l. veikur.
1 Jóh. 2, 1. Kristhinn l. Krist hinn.
Júdas. v. 25. einum Gudi l. einum vísum Gudi.
Jóh. Opb. 1, 13. þeirra ljósastikna l. þeirra 7 ljósastikna.
6, 9. vitnisburdur l. vitnisburdar.
— 13. skakid l. skékid
7, 3. þjónar Guds l. þjóna vors Guds.
10, 11. fólkum l. fólki. 14, 14. manni l. mannssyni.
22, 2. voru lifstrén, sem báru l. var lifstréd, sem bar.